# Hid
# Nýa Testamenti
## Drottins vors
## Jesú Krists,



ad nýu útlagt ad tilhlutun
ens
íslendska Biblíu-Félags.

---

Videyar Klaustri 1827.
Prentad af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord,
á kostnad ens íslendska Biblíu-Félags.

## Röd
## Nýa Testamentisins Bóka.

# Hid

# Nýa Testamenti

## Drottins vors

## Jesú Krists,

ad nýu útlagt ad tilhlutun

ens

íslendska Biblíu-Félags.

---

### Fyrri Partur.

---

Videyar Klaustri, 1825.
Prentad af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord,
á kostnad ens íslendska Biblíu-Félags.

# Matthæusar Gudspjall.

I.) Ættartala Krists, 1—17. II.) Hans getnadur af krapti heilags Anda; nafn hans og fæding af Mariu meyu, 18—25.

I. Kap.

Þetta er ættartala Jesú Krists, sem kominn 1.
er af ættum þeirra Davíds og Abrahams: Ab- 2.
raham gat Isaak; Isaak gat Jakob; Jakob
gat Júdas og brædur hans; Júda gat Fares og 3.
Zara vid Thamar; Fares gat Esrom; Esrom
gat Aram; Aram gat Aminadab; Aminadab 4.
gat Naasson; Naasson gat Salmón; Salmón 5.
gat Booz vid Rakab; Booz gat Obed vid Ruth;
Obed gat Jessai; Jessai gat Davíd Konúng; 6.
Davíd gat Salomón vid konu Uriasar; Salo- 7.
món gat Roboam; Roboam gat Abia; Abia
gat Asa; Asa gat Jósafat; Jósafat gat Jóram; 8.
Jóram gat Ozias; Ozias gat Jóatham; Jóa- 9.
tham gat Achas: Achas gat Ezechías; Ezechí- 10.
as gat Manasses; Manasses gat Amon; Amon
gat Jósías; Jósías gat Jechonias og brædur 11.
hans um þann babylonísku herleidíngar tíma.
En eptir herleidínguna gat Jechonias Sala- 12.
thiel; Salathiel gat Zorobabel; Zorobabel gat 13.

Abiúd; Abiúd gat Eliakeim; Eliakeim gat Az-
14. ór; Azór gat Sadók; Sadók gat Acheim;
15. Acheim gat Elíúd; Elíúd gat Eleazar; Ele-
16. azar gat Matthan; Matthan gat Jakob; Ja-
kob gat JósepH, mann María, sem var módir
17. Jesú, hverr ed kallast Kristur. Eru þanninn
alls 14 ættlidir frá Abraham til Davíds, frá
Davíd til þeirrar babylónisku herleidíngar 14,
og 14 frá herleidíngunni til Krists.
18. Fæding Jesú Krists skédi med þessum at-
burdum: módir hans María var festnud Jó-
seph, en ádur enn þau komu saman, fannst hún
19. barnshafandi af krapti heilags Anda; en festar-
madur hennar Jóseph, sem var valmenni, og
ecki vildi gjøra henni opinbera mínkun, ásetti
20. sér ad skiljast heimuglega vid hana. Þegar
hann hafdi þetta í hyggju, þá vitradist honum
engill Guds í draumi og sagdi: Jóseph, ætt-
nidji Davíds! vyla þú ecki fyrir þér ad gánga
ad eiga María festarkonu þína; því sá þúngi,
er hún gengur med, er gétinn af krapti heilags
21. Anda. Hún mun Son fæda, hann skaltú láta
heita Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk frá
22. þess syndum. En allt þetta skédi, svo ad rætt-
ist þad, sem Drottinn mælti fyrir Spámanninn,
23. er svo sagdi: "Sjá! mey mun barnshafandi
verda og Son fæda, hann munu menn heita láta
24. Emmanúel;" þad þýdir: Gud med oss. Þeg-
ar Jóseph vaknadi, gjørdi hann, sem engill
Drottins hafdi bodid, og tók festarkonu sína til
25. sín; en hafdi þó ecki samrædi vid hana, uns
hún ól sinn frumgétinn Son, hvern hann lét
heita Jesús. v. 22. Es. 7, 14.

I.) Vitríngar koma, er veita Kristi lotníngu, 2. Kap.
1—12. II.) Hann flýr til Egyptalands,
13—15. III.) Heródes lætur deyda sveinbörnin í Bethlehem, 16—18. IV.) Jesús kémur til Nazareth, 19—23.

Þegar nú Jesús var fæddur í Bethlehem í Júdæu, á dögum Heródesar Konúngs, komu Vitríngar úr Austurlöndum til Jerúsalem, og sögdu: 1.
Hvar er sá nýfæddi Konúngur Gydínga? vér 2.
höfum sjed hans stjörnu í Austurlöndum, og
erum komnir til ad veita honum lotníngu. En 3.
er Heródes Konúngur heyrdi þetta, vard hann
skélfdur, og öll Jerúsalem med honum, og lét 4.
samankalla alla ædstu Presta og Löglærda lýdsins, og spurdi þá: hvar Kristur ætti ad fædast? Þeir sögdu honum: í Bethlehem í Júdæu; því þannig hefdi Spámadurinn skrifad: 5.
"Þú Bethlehem í Júdæu ert engannveginn hin 6.
minnsta á medal merkisborga Júdæu; því frá
þér mun koma höfdíngi, er ráda skal fyrir mínum lýd Israel." Þá kalladi Heródes Vitríngana til sín á laun, og spurdi þá vandlega: nær 7.
stjarnan hefdi sjest? sendi þá sídan til Bethlehem og sagdi: farid, og haldid vandlega spurnum fyrir um barnid, og þegar þér hafid þad 8.
fundid, kunngjörid mér þad, ad eg einninn géti
komid ad audsýna því lotníngu. En þá þeir 9.
höfdu heyrt Konúnginn, fóru þeir leidar sinnar.
Og sjá! stjarnan sú, sem þeir höfdu sjed í Austurlöndum, géck undan þeim, þar til hana bar

A 2

V. 5. Mich. 5, 1.

10. þar yfir, hvar barnid var; og er þeir sáu stjørn-
11. una, glødduſt þeir hardla mjøg, gengu inn í
húſid, og fundu þar barnid ásamt med Maríu
módur þeſs, féllu fram og veittu því lotníngu.
Þar næst opnudu þeir fjárhirdslur sínar, og
12. færdu því gjafir, gull, reykélsi og myrru. Síd-
an gaf Gud þeim áviſun í draumi, ad þeir skyldu
ecki snúa aptur til Heródesar; fóru þeir því ad-
ra leid til baka til síns lands.
13. Þegar þeir vóru burtu farnir, vitradiſt
engill Drottins Jóſeph í draumi, og sagdi: statt
upp! og tak barnid og módur þeſs, og flý til
Egyptalands, og ver þar þángad til eg segi þér;
því Heródes mun leita barnsins ad fyrifara því.
14. En þá hann vaknadi, tók hann barnid og móð-
15. ur þeſs samnættis, og fór til Egyptalands, og
dvaldi þar til þeſs Heródes var daudur; svo
ad rættiſt þad, sem Drottinn sagdi fyrir Spá-
manninn: "af Egyptalandi kalladi eg Son minn."
16. En er Heródes sá ad hann var gabbadur
af Vitríngunum, vard hann afar reidur; sendi
út og lét myrda øll sveinbørn í Bethlehem, og
í þeim hérødum, er þar vóru í grend, tvævetur
og þau, er ýngri vóru, sem svaradi þeirri tíma-
lengd, er hann hafdi komiſt eptir af Vitríngun-
17. um. Sannadiſt þá þad, sem Spámadurinn
18. Jeremías segir: "Í Rama heyrduſt hljód,
qveinstafir, grátur og vein mikid, Rachel harm-
ar børn sín, og vill ecki huggaſt láta, því þad
er útgjert um þau."
19. Þegar Heródes var daudur, vitradiſt engill
Drottins Jóſeph í draumi í Egyptalandi, og

V 15. Hós. 11, 1. V. 17. Jer. 31, 15.

sagdi: statt upp! og tak barnid og módur þess 20.
og far til Gydíngalands, því þeir eru daudir,
er setid hafa um líf barnsins. Jóseph stód upp, 21.
tók barnid og módur þess, og fór til Gydínga-
lands. En er hann heyrdi ad Archelaus hefdi 22.
tekid vid ríki í Júdæu, í stad Heródesar fødur
síns, bar hann ecki traust til ad fara þángad, og
veik því, eptir ávísun Guds í draumi, í Gali-
læu-land, og settist ad í borg þeirri, er heitir 23.
Nazareth, svo ad þad rættist, sem Spámenn-
irnir hefdu fyrirsagt: ad hann skyldi nadverskur
kallast.

I.) Jóhannes kénnir, skírir, áminnir, 1—12. 3. Kap.
II.) Jesús er skírdur af Jóhannesi, 13—17.

Á þeim tíma kom Jóhannes Skírari, og hóf 1.
þessa kénníngu í óbygdum Júdæulands. Bætid 2.
ráð ydar, því himnaríki er nálægt. Um hann 3.
er þad, sem Spámadurinn Esajas kémst svo ad
ordi: "Í óbygdum er hrópad: til-búid veg
Drottni, beinid brautir hans." En sjálfur bar 4.
Jóhannes klædnad af úlfalda hárum, og hafdi
ledurbelti um sínar lendar; til matar hafdi hann
engisprettur og skógar-hunáng. Þá kom til 5.
hans fólk frá Jerúsalem og úr allri Júdæu, og
úr øllum hérødum vid Jórdan, og hann skírdi 6
þá í ánni, þegar þeir hefdu játad sín afbrot. En 7.
sem hann sá marga Pharísæa og Sadúcæa koma
til sinnar skírnar, sagdi hann svo vid þá: þér,
nødru-úngar! hverr hefir kénnt ydur, ad þér
þannig gætud umflúid tilkomandi hegníngu? til 8.
þess verdid þér ad bera þann ávøxt, er sam-

V. 3. Es. 40, 3.

9. bjódi betrudu hugarfari. Segid ecki af sérþótta
med sjálfum ydur: vér egum Abraham fyrir
fødur, því trúid mér, ad mättugur er Gud ad
10. vekja Abrahami børn af steinum þessum; því
nú þegar rídur øxin ad rótum trjánna, og mun
þá hvert þad tré, sem ecki ber gódann ávørt,
11. upphøggvid verda og í eld kastad. Eg skíri yd-
ur einúngis í vatni til lifnadar bóta, en sá,
sem eptir mig kémur, er mér svo miklu meiri,
ad eg ecki er verdur ad bera skó-klædi hans;
hann mun skíra ydur med heilogum Anda og
12. eldi; sína varpskúflu ber hann í hendi sér, med
hverri hann hreinsar sinn láfa; korninu mun
hann safna í hlødu, en hismid mun hann
brenna í ósteckvanda eldi.

13. Um þessar mundir kom Jesús úr Galí-
læu til Jórdanar, til Jóhannesar, þess erindis
14. ad skírast af honum, en Jóhannes skoradist und-
an því, og sagdi: mér er þorf ad eg skírist af
15. þér, og þú kémur til mín. Jesús svaradi hon-
um og sagdi: veittú mér þetta, því þannig heyr-
ir ockur ad gjøra allt þad, sem rétt er; og þá
16. lét Jóhannes þad eptir honum. Og sem Je-
sús var skírdur, stje hann jafnskjótt upp úr
vatninu, og sjá! þá opnudust himnarnir upp-
yfir honum, og Jóhannes sá Guds Anda of-
17. an-stíga eins og dúfu, og koma yfir hann; og
sjá! þá heyrdist rødd af himnum, er sagdi: þessi
er Sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi
velþóknun.

I.) Jesú er freistad af djøflinum, 1—11. II.) Hað 4. Kap.
víkur burt frá Júdæu og býr í Kapernaum, 12—16. III.) Kénnir, 17. Qvedur
fjóra Lærisveina sér til fylgdar, 18—22.
IV.) Kénnir sídan og læknar, 23—25.

Eptir þad var Jesús leiddur af Anda á eydi- 1.
merku, ad hann freistadist af djøflinum; og er 2.
hann hafdi fastad fjørutíu daga og fjørutíu næt-
ur, tók hann loks ad húngra. Þá kom freistar- 3.
inn til hans og sagdi: ef þú ert Guds Sonur,
þá mæl þú svo um: ad steinar þessir verdi ad
braudum. Jesús svaradi: skrifad stendur, 4.
"madurinn lifir ecki af einusaman braudi, heldur
af sérhverju því, sem Gud vill." Þessu næst 5.
tók djøfullinn hann med sér í borgina helgu, og
fór med hann uppá musteris bustina, og sagdi vid
hann: ef ad þú ert Sonur Guds, þá kasta þér 6.
hér ofan fyrir, því skrifad er: "Gud mun bjóda
englum sínum ad sjá þér borgid, og þeir munu
bera þig á høndum sér, ad ecki steytir þú fót
þinn vid steini." Jesús svaradi honum: aptur 7.
stendur skrifad: "ecki skaltú freista Drottins
Guds þíns." Enn a ný fór djøfullinn med hann 8.
uppá ofurhátt fjall, og sýndi honum þadan øll
ríki veraldarinnar og þeirra dýrd og mælti:
allt þetta mun eg géfa þér, ef þú fellur fram 9.
og tilbidur mig. Þá mælti Jesús: far frá mér, 10.
Satan! því svo er skrifad: "Drottinn Gud
þinn skaltú tilbidja og honum einum þjóna."
Þá yfirgaf djøfullinn hann, og sjá! Englar 11.
komu og færdu honum mat.

V. 4. 5 Mós. 8, 3. V. 6. Ps. 91, 11. 12. V. 7. 2 Mós. 17, 2. 5 Mós. 6, 16. V. 10. 5. Mós. 6, 13. 10, 20.

12. En sem Jesús heyrdi ad Jóhannes var
13. settur í fángelsi, veik hann til Galílæu, og fór
frá Nazareth, og settist ad í Kapernaum, er
liggur vid sjáfarsíduna á Zabúlons og Nephta-
14. leims landamærum, svo ad rættist þad, sem spá-
15. madurinn Esajas segir: "Land Zabúlons og
Nephtaleims vid sjóinn hinumeginn Jórdanar,
16. Galílæa hin heidna, lýdur sá er í myrkri sat,
sá ljós mikid, og þeim, sem bjuggu í enu dymma
daudans landi, er ljós upprunnid."
17. Upp frá þessu hóf Jesús ad kénna, og
segja: bætid rád ydar, himnaríki er nálægt.
18. Einhverju sinni er hann géck med sjónum í Galí-
læu, leit hann tvo brædur, Símón, sem kalladur
var Pétur og Andrés bródur hans, er vóru ad
19. leggja net í sjó, því þeir vóru fiskimenn; og sagdi
til þeirra: fylgid mér, og mun eg gjora ydur ad
20. manna veidurum; þeir yfirgáfu strax netin, og
21. fylgdu honum. Og sem hann géck þadan lengra
áfram, leit hann adra tvo brædur Jakób Zebe-
dæusson og Jóhannes bródur hans á skipi med
Zebedæusi fødur þeirra, og vóru þeir ad bæta net
sín; þá qvaddi hann einninn til fylgdar vid sig;
22. þeir yfirgáfu strax Skipid og fødur sinn, og rédust
til fylgdar vid hann.
23. Sídan fór Jesús um alla Galílæu og
kénndi í Samkundum þeirra, og flutti þeim
gledi-bodskapinn um Guds ríki, og læknadi alls-
24. kyns sjúkdóma og kránkleika medal lýdsins; og
barst ordstýr hans um allt Sýrland. Og færdu
menn til hans alla sjúka, sem af ýmislegum
kránkleikum og þúngum sjúkdómum haldnir vóru,

V. 14. Es. 9, 1.

djøful-óda, túnglsjúka, máttvana, og læknadi
hann þá. Og fylgdi honum mikill fjøldi fólks 25.
úr Galílæu og Dekapólis, Jerúsalem og Júdæu,
og úr landinu fyrir handan Jórdan.

I.) Hér hefur upp kénníngu Jesú á fiallinu, 1— 5. Kap.
12. Hans áminníngu til Postulana, 13
—16. II.) Hans útskíríngu yfir Løgmálid
og Bodordin, 17—48.

En er hann sá mannfjøldann, géck hann uppá 1.
fjall eitt og settist þar; þá komu Lærisveinarn-
ir til hans; hóf hann þá kénníngu sína til þeirra 2.
á þenna hátt: Sælir eru andlega lítillátir, því 3.
þeir munu eignast himnaríki. Sælir eru sorg- 4.
bitnir, því þeir munu huggun hljóta. Sælir 5.
eru hógværir, því þeir munu landid eignast.
Sælir eru þeir, sem húngrar og þyrstir eptir 6.
réttlætinu, því þeir munu saddir verda. Sælir 7.
eru miskunsamir, því þeir munu miskun hljóta.
Sælir eru hreinhjartadir, því þeir munu Gud 8.
sjá. Sælir eru fridsamir, því þeir munu Guds 9.
børn kalladir verda. Sælir eru þeir, sem sakir 10.
sinnar rádvendni, offsóktir verda, því þeir munu
hlutdeild fá í himnaríki. Sælir erud þér, þeg- 11.
ar menn atyrda ydur, offækja og tala gégn ydur
allskonar íllyrdi mín vegna, en þó ljúgandi.
Fagnid þá og gledjist, því ydar verdkaup er mik- 12.
id á himnum; þannig offóktu þeir Spámennina,
sem fyrir ydur vóru.

Þér erud salt jardar; nú, ef saltid dofnar, 13.
med hverju skal þá selta þad? þad er þá til
einkis nýtt, nema ad útkastast og fótum trodast
af mønnum. Þér erud ljós heimsins; sú borg, 14.

15. sem á fjalli er bygd, fær ecki dulist. Menn
qveikja ecki ljós til ad setja þad undir mælikér,
heldur setja menn þad í ljósa-stiku, ad þad lýsi
16. þeim, sem inni eru; svo lýsi og ydart ljós
ødrum mønnum, ad þeir sjái ydar góda fram-
ferdi, og dýrki ydar himneska Fedur.
17. Ætlid ecki ad eg sé kominn til ad af-
taka løgmálid og spámennina; til þess er eg
ecki kominn, helldur til þess ad uppfylla þad.
18. Sannlega segi eg ydur: fyrr mun himin og jerd
forgánga enn víkja megi feá hinum minnsta bók-
staf eda titli í løgmálinu, og þad svo grandvar-
19. lega, ad því sé ad ellu leiti fullnægt. Hverr
hann brýtur eitt af þessum bodum, er minnst
sýnist umvarda og hvetur adra til þess, hann
mun minnstur kallast í himnaríki; en hverr, sem
hlýdir þeim og rædur ødrum til hins sama,
20. hann mun mikill kallast í himnaríki; því eg segi
ydur: ad nema ydar rádvendni taki fram Phari-
sæanna og þeirra løglærdu, munud þér ecki
21. koma í himnaríki. Þér hafid heyrt ad þad var
bannad í fornøld manu ad vega; en ef einhverr
22. vægi mann, skyldi hannn dóms sekur; en eg
segi ydur: ad hverr hann reidist bródur sínum
án orsaka, er dóms sekur; og hverr, sem segir
vid bródur sinn: þú heimskíngi! skal af dóms-
atqvædi þess mikla Ráds sekjast; en hverr, sem
23. segir: þú skélmir! vinnur til ad brennast. Þar
fyrir, þegar þú færir gáfu þína til altarisins, og
þér kémur þar í hug, ad þú hafir eitthvad gjørt á
24. annars hluta, þá skil þar eptir gáfu þína vid
altarid, far burt og sættist ádur vid bródur þinn,

B. 21. 2. Mós. 20., 13. 3. Mós. 24, 21.

kom sídan og offra gáfu þinni. Vertu skjótur 25.
til sætta vid mótstødumann þinn, ádur enn þid
mætid bádir fyrir Dómaranum, svo ad eigi
afhendi hann þig Dómaranum, en hann fánga-
verdinum, og verdi þér sídan í díblissu kastad.
Sannlega segi eg þér: ad þú munt þadan ecki 26.
útkomast, fyrr enn þú hefir borgad hinn sídasta
pening. Þér hafid heyrt: "ad bannad er hór- 27.
dóm ad drýgja;" en eg segi ydur: ad hverr 28.
hann lítur konu girndar auga, hefir þegar drýgt
hór med henni í huga sínum. Ef ad auga þitt 29.
hid hægra hneixlar þig, þá stíng þad út, og
kasta því á burt; því betra er þér ad missa
einn lima þinna, enn ellum þínum líkhama verdi
í eld kastad. Eins ef þín hægri hend lockar 30.
þig til syndar; þá snýd hana af og kasta á burt;
betra er þér ad missa einn lima þinna, enn ad
ellum þínum líkhama verdi í eld kastad. Þad 31.
er bodid: "ad hverr, sem segir skilid vid konu
sína, géfi henni skilnadar-skrá;" en eg segi ydur: 32.
ad hverr hann lætur skilid vid konu sína, án
þess hún sé um hór sek, er skuld í ad hún verdur
hórkona, og hverr, sem gengur ad eiga þá konu,
sem vid mann sinn hefir skilid, drýgir hór.
Þér hafid einnin heyrt: ad Forfedrunum var 33.
géfid þad bodord: "þú skalt ecki sverja rángann
eid, heldur efna svardaga þína vid Gud;" en 34.
eg segi ydur: ad þér egid aldúngis ecki ad sver-
ja, hverki vid himininn, því hann er hásæti
Guds; né vid jerdina, því hún er hans fót- 35.

V. 27. 2. Mós 20, 14. V. 31. 5. Mós. 24, 1.
V. 33. 3 Mós. 19, 12. 4. Mós. 30, 3. 5. Mós.
23, 23.

skør; ecki heldur vid Jerúsalem, því hún er borg
36. þess mikla Konúngs; ecki heldur vid hefud þitt, því
ecki gétur þú gjørt eitt einasta hár svart eda hvítt
37. á því; en játid því, sem satt er, og neitid því,
sem ósatt er; hvad þér segid framar þessu, er
38. órétt. Þér hafid heyrt: ad bodid er: "auga
39. fyrir auga, tønn fyrir tønn;" en eg segi ydur:
rísid ecki endverdir móti meingjørdum annara,
heldur slái nockurr þig á hægri kinn þína, þá
40. bjód honum einnig hina, og vilji nockurr hafa
lagadeilur vid þig um kyrtil þinn, þá lát hon-
41. um og yfirhøfn þina lausa. Neydi nockurr þig
um einnar mílu fylgd, þá far med honum tvær;
42. géf þeim, sem bidur og vertu ecki afundinn
43. vid þann, sem af þér vill lán taka. Þér hafid
heyrt ad bodid er: "þú átt ad elska náúnga
44. þinn, og hata óvin þinn;" en eg býd: ad þér
elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bølva,
gjørid þeim gott, sem hata ydur, og bidjid fyr-
45. ir þeim, sem rógbera ydur og ofsækja; svo þér
séud børn Fødurs ydar á himnum, hverr ed læt-
ur sína sól upprenna yfir vonda og góda, og
46. rigna yfir rádvanda og órádvanda. Því þótt
þér elskid þá, sem ydur elska, hver laun egid
þér skilid fyrir þad? gjøra ecki tollheimtumenn
47. hid sama? og þótt þér látid ad eins kjært vid
landa ydar, hvad gjørid þér í því, sem hróss-
verdt sé? gjøra ecki heidnir menn hid sama?
48. verid þar fyrir fullkomnir, eins og ydar Fadir
á himnum er fullkominn.

V. 38. 2. Mós. 21, 24. 3. Mós. 24, 20. 5. Mós.
19, 21. V 43. 3. Mós. 19, 18.

Jesús talar um ølmusur, 1—4. bænir, 5—15. 6. Kap.
føstu, 16—18. himneskann aud, 19—23.
temprun áhyggjuunar, 24—34.

Varist ad géfa ølmusur ydar í annara manna 1.
vidurvist, til þess ad þeir sjái þad; annars haf-
id þér engra launa ad vænta af ydar himneska
Fødur. Þegar þú þar fyrir ætlar ad géfa øl- 2.
musu, þá lát ecki blása í lúdur fyrir þér, eins
og hræsnarar gjøra á samkomum og strætum, ad
þeim verdi hrósad af mønnum, því trúid mér!
Þeir hafa úttekid laun sín. En nær þú vilt 3.
géfa ølmusu, þá viti ecki hend þín hin vinstri,
hvad sú hægri gjørir; svo þín gódgjørd sé hul- 4.
in og Fadir þinn sem sjer þad, sem í leyni er
gjørt, mun þér þad opinberlega endurgjalda.
Eins, nær þú bidst fyrir, þá hegda þér ecki 5.
sem hræsnarar, sem vanir eru ad standa og
bidjast fyrir á strætum og gatnamótum, til þess
ad þeir verdi sjenir af ødrum; sannlega segi eg
ydur: þeir hafa úttekid sín laun. En nær þú 6.
vilt bidjast fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og
loka dyrunum; bid svo Fødur þinn í einrúmi,
og hann, sem sjer hvad í einrúmi skédur, mun
veita þér þad opinberlega. Varist í bænum ydr- 7.
um ónytju mælgi, eins og heidíngja er sidur, fyrir
hverja þeir hyggja ad verda bænheyrdir; Varist 8.
því ad líkjast þeim; Fadir ydar veit hvers þér
vidþurfid, ádur enn þér bidjid hann. Bidjid 9.
þar fyrir á þessa leid: Fadir vor, þú, sem ert
á himnum! helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; 10.
verdi þinn vilji svo á jørdu, sem á himni; géf 11.
oss í dag vort daglegt braud; og fyrirgéf oss 12.

vorar misgjørdir, eins og vér fyrirgéfum þeim,
13. sem oss á móti brjóta; og leid oss ecki í freisti=
14. ni, heldur frelsa oss frá íllu. Því ef þér for=
látid ødrum þeirra yfirsjónir, þá mun ydar
15. himneski Fadir forláta ydur; en ef þér ecki
fyrirgéfid ødrum, mun Fadir ydar himneskur
ecki heldur fyrirgéfa ydur ydar misgjørdir.
16. Nær þér fastid, þá verid ecki med hriggu yfir=
bragdi, sem hræsnarar, hverjir er afminda á=
sjónur sínar, svo adrir sjái ad þeir fasti; sann=
lega segi eg ydur: þeir hafa sín laun úttekid.
17. En nær þú fastar, þá smyr høfud þitt, og þvo
18. þitt andlit, svo adrir verdi ecki varir vid ad þú
fastir, nema Fadir þinn, sem er ósýnilegur; og
Fadir þinn, sem sjer hvad í einrúmi skédur,
19. mun þér þad endurgjalda. Safnid ydur ecki
audæfum í heimi þessum, hvar mølur og ryd
eta þau, og hvar þjófar grafa til og stela;
20. safnid ydur heldur audæfum á himnum, hvar
þeim hverki grandar mølur eda ryd, né þjófar
21. grafast til þeirra, og stela þeim; því hvar, sem
22. audæfi ydar eru, þar er og ydvart hjarta. Augad
er ljós líkhamans; nú ef auga þitt er heilskygnt,
23. þá nýtur allur líkhami þinn birtu; en sé auga
þitt gallad, þá er allur líkhami þinn í mirkri.
Nú ef þad ljós, sem í þér er, er mirkur, hve
24. svart mun ecki þad mirkur vera? Enginn kann
tveimur Herrum ad þjóna, því annadhvert hlýt=
ur hann ad meta þann eina midur og hinn ann=
ann meira, eda hann hlýdir þeim ødrum, og
afrækir hinn. Þannig gétid þér ecki verid bædi
25. þjónar Guds og Mammóns. Eg segi ydur
því: verid ecki hugsjúkir fyrir ydru lífi, hvad

þér skulud eta og drecka, ecki heldur fyrir ydrum
líkhama, hverju þér skulud klædast. Er ecki
lífid meira verdt enn fædan, og líkhaminn meir
enn klædnadurinn? Lítid til fuglanna í loptinu, 26.
hverki sá þeir né uppskéra, og ecki heldur safna
þeir í kornhlødur, þó fædir ydar himneski Fadir
þá; erud þér ecki miklu ágætari þeim? Hverr 27.
af ydur gétur, med allri sinni áhyggju, aukid
einni alin vid hæd sína? Eda, hví erud þér á- 28.
hyggjufullir fyrir fatnadinum? skodid akursins
liljugrøs, hversu þau vaxa; hverki vinna þau né
spinna; En trúid mér: ad Salómon í øllu sínu 29.
skrauti, var ecki svo fagurlega búinn, sem eitt af
þeim; ef ad Gud nú skrýdir svo grasid á jørd- 30.
unni, þad í dag stendur, en á morgun verdur í
ofn kastad, hversu miklu fremur mun hann ecki
klæda ydur, þér trúarveikir? Spyrjid því ecki 31.
hugsjúkir: hvad fáum vér til matar? hvad fá-
um vér ad drecka? og hvad fáum vér til
fata? Slíka áhyggju hafa heidnir menn; en 32.
ydar himneskur Fadir veit, ad þér þurfid alls
þessa vid. Leitid umfram allt Guds ríkis, og 33.
þeirrar rádvendni, sem honum líkar, þá mun-
ud þér fá allt þetta í vidbót; verid því ecki 34.
hugsjúkir fyrir morgun-deginum; hann mun sjálf-
ur bera umhyggju fyrir sér; hverjum degi fylg-
ir nóg mæda.

1.) Jesús talar um þad, ad dæma og lasta adra **7. Kap.**
menn, 1—6. um þad ad bidja, 7—11. um
kjarna Løgmálsins, 12. um veginn til lífs-
ins, 13. 14. um Falsspámenn og hræsnara,

15—23. lykter svo rødu sína, 24—27.
II.) Ræduuuar verkan á fólkinu, 28—29.

1. Verid ecki ómildir í dómum ydar um adra, ad
2. ei dæmi þeir eins um ydur; því líkur dómur
og þér sellid yfir ødrum, mun yfir ydur felldur
verda, og eins og þér mælid ødrum, munu þeir
3. aptur mæla ydur. Hvernin sjér þú flísina í
þíns bródurs auga, en gjætir ecki þess bjálkans,
4. sem er í þínu egin auga? Eda hverninn fær þú
sagt vid hann: láttú mig taka flísina úr auga
5. þér, medan bjálki er á þínu egin auga? Þú
hræsnari! drag fyrst bjálkann úr þínu egin auga,
og sjádu sídan til ad þú fáir dregid flísna úr
6. þíns bródurs auga. Kastid ecki helgidómum
fyrir hunda, né perlum ydrum fyrir svín, ad
þau ecki trodi þær fótum, snúist sídan ad sjálfum
7. ydur, og rífi ydur í sundur. Bidjid, þá mun
ydur gefast; leitid þá munud þér finna; knýid
8. á, og þá mun fyrir ydur upplokid verda; því
hverr, sem bidur, hann ødlast; hverr, er leit-
ar, hann finnur; og hverr, er áknýr, fyrir hon-
9. um mun upplokid verda. Edur er nockurr sá
af ydur, sem gæfi syni sínum stein, ef hann bædi
10. um braud; eda høggorm, ef hann bædi um
11. fisk? Ef nú þér, sem vondir erud, tímid ad
gefa børnum ydar gódar gjafir, hversu miklu
framar mun þá ecki ydar himneskur Fadir gefa
12. þeim góda hluti, sem bidja hann þess? Allt
hvad þér viljid ad mennirnir géri ydur, þad
skulud þér og þeim gjøra; þetta er kjarni løg-
13. málsins og Spámannanna. Gángid um hid
þraungva hlid; því þad hlid er vídt og sá vegur

er breidur, sem liggur til glötunar, og margir
eru þeir, sem hann gánga. Hversu er það hlið 14.
þraungt og mjór sá vegur, er til lífsins leidir,
og fáir þeir, er hann rata? Gætid ydar fyrir 15.
fals-kénnendum, sem koma til ydar í sauda ham,
en hid innra eru þeir grádugir vargar; af þeirra 16.
ávöxtum skulud þér þeckja þá; hvert géta menn
lesid vínber af þyrnum edur fíkjur af þistlum?
Þannig ber hvert gott tré gódann ávöxt, en 17.
slæmt tré slæmann ávöxt. Gott tré gétur ecki 18.
borid slæmann ávöxt, ecki heldur slæmt tré góð-
ann ávöxt. En hvert það tré, sem ecki ber 19.
gódann ávöxt, skal verda upphöggvid og í eld
kastad; þar fyrir kunnid þér af ávöxtum 20.
þeirra ad þeckja þá. Ecki munu allir 21.
þeir, sem til mín segja: Herra! Herra! koma í
himnaríki, heldur þeir einir, sem géra vilja míns
himneska Födurs. Á þeim degi munu margir 22.
segja til mín: Herra! Herra! höfum vér ecki
í þínu umbodi kénnt, rekid djöfla út og gjört
mörg kraptaverk? en eg mun segja þeim ber- 23.
lega: aldrei þeckta eg ydur fyrir mína; farid
frá mér, þér íllgjörda menn! Hverr hann heyr- 24.
ir þessa mína kénníngu og breytir eptir henni,
honum vil eg líkja vid forsjálann mann, er
byggdi hús sitt á bjargi; nú kom steypi-regn og 25.
vatnsflód, stormar rísu og buldu á því húsi, en
það fjell samt ecki, því það var grundvallad á
bjargi. Þarámót er sá, sem heyrir þessa mína 26.
kénníngu, og breytir ecki eptir henni, líkur
heimskum manni, er byggdi hús sitt á sandi; 27.
nú kom steypi-regn og vatnsflód, stormar rísu

og dundu á því húsi, þá fjell það, og þess
hrun varð mikið.
28. Þegar Jesús hafði lokið þessari rædu, und-
29. radist lýðurinn mjøg yfir kénníngu hans; því
hann kénndi svo sem sá, er hafði Guðs um-
boð á hendi, en ecki sem hinir skriftlærdu.

I.) Jesús læknar líkþráann mann, 1—5. 8. Kap.
II.) Þjón Hundradshøfdíngjans, 6—13. III. Sværu Péturs og fleiri sjúka, 14—17. IV.) Talar um ørd-ugleika við það, að fylgja sér, 18—22. V.) Kyrrir vind og sjó, 23—27. VI.) Utrekur djøfla, og þeir fara í svín, 28—34.

1. En er hann géck niður af fjallinu, fylgdi hon-
2. um mikill fjøldi fólks; þá kom til hans líkþrár
maður, tilbað hann og mælti: Herra! ef þú
3. vilt, gétur þú hreinsað mig; þá rétti Jesús
út høndina, snerti hann og sagdi: eg vil vertú
4. hreinn; og strax varð hann hreinn af líkþrá
5. sinni. Þá sagdi Jesús við hann: varastú að
segja þetta nockrum, heldur far og sýn þig Prest-
inum, og offra þeirri gáfu, sem Móses baud,
ødrum til sanninda merkis.
6. Þegar hann kom inn í Kapernaum, kom
til hans Hundraðs-høfdíngi nockurr, og tók svo
til orda: þjón minn liggur heima visinn, og
7. er þúngt haldinn. Jesús sagdi: eg skal koma
8. og lækna hann; þá svaradi Hundraðshøfdíng-
inn: Herra! ecki er eg verður þess, að þú

V. 5. 3 Mós. 14, 2—32.

gángir inn undir mitt þak. Bjód þú ad eins
med einu ordi, og mun minn þjón heill verda.
Því nær eg, sem er yfirvaldi undirgéfinn og hefi 9.
ad ráda yfir stríðsmennum, býd einum þeirra
ad fara, þá fer hann, og ødrum ad koma, þá
kémur hann, eda þræli mínum ad géra eitt-
hvad, þá gérir hann þad. Þegar Jesús heyrdi 10.
þetta, undradist hann og mælti vid þá, sem
fylgdu honum: sannlega segi eg ydur, ad slíka 11.
trú hefi eg ecki fundid medal Gydínga; en þér
skulud vita, ad margir munu koma ad aust-
an og vestan, og sitja til bords med Abra-
ham Isaak og Jakob í ríki himnanna; en þeir, 12.
sem þetta ríki var ætlad, munu verda reknir í
mirkrid fyrir utan, hvar vera mun grátur og
gnístur tanna. Sídan sagdi Jesús vid Hund- 13.
rads-høfdíngjann: far þú heim, verdi þér eptir
trú þinni, og samstundis vard þjón hans heil-
brigdur.

Sídan kom Jesús í hús Péturs, og sá þar 14.
módur konu hans; hún lá sjúk af køldu; tók 15.
hann þá í hønd henni, og þá yfirgaf kaldan hana,
en hún fór á fætur og bar þeim mat. Um 16.
qvøldid færdu þeir til hans marga djøful-óda,
og rak hann andana út med ordi einu og alla
þá, sem sjúkir vóru, læknadi hann; sannadist 17.
þá þad, sem Spámadurinn Esajas sagdi:
"hann var sá, sem burttók vor kránkdæmi, og
létti af oss vorum sjúkleikum."

En þegar Jesús sá fjølda fólks hjá sér, 18.
baud hann ad fara yfirum sjóinn; þá kom einn 19.



V. 17. Esai. 53, 7.

skriftlærdur til hans og sagdi vid hann: Meist-
20. ari! eg vil fylgja þér hvert sem þú fer. Je-
sús mælti: refar hafa holur og fuglar himins
skýli, en Mannsins Sonur hefir hvergi hefdt
21 sínu ad ad halla. Annar madur, sem var einn
af Lærisveinum hans, sagdi til hans: Herra!
leyf mér fyrst ad fara og grafa fedur minn.
22. Jesús mælti: fylg þú mér, og lát þá daudu*)
grafa sína daudu.
23. Sídan steig hann á skip og Lærisveinar
24. hans med honum; gérdi þá svo mikinn storm,
ad skipid huldi af bylgjunum, en hann svaf;
25. þá gengu Lærisveinarnir til hans og vektu hann
og sögdu: hjálpa þú oss, Herra! vér forgaungum.
26. En hann svaradi: hví erud þér svo hræddir?
þér, trúarveiku! Því næst stód hann upp og
þaggadi nidur bædi vind og sjó; vard þá blída
27. logn. Þetta undrudust menn mjög og sögdu:
hvílíkur er þessi, ad bædi vedur og sjór hlýda
honum?
28. Þegar hann kom yfir um í hérad Gergesu-
manna, hlupu í móti honum tveir menn djöful-
ódir, sem komu úr grefum daudra manna, svo
ólmir, ad engum var fært ad fara þann veg.
29. Þeir hrinu upp og sögdu: hvada erindi áttú
vid ockur? þú, Guds Son! ertú kominn hing-
30. ad, ádur enn tími er til, ad qvelja ockur? En
svo stód á, ad stór-hjörd svína var á beit lángt
31. þadan. Þá bádu djöflarnir hann: ad ef hann
ætladi ad reka þá út, hann þá vildi lofa
32. þeim ad fara í svínahjördina. Þetta lét hann

V. 20. Dan. 7, 13. V 22. *) þad er: þá
holdlega sinnudu.

eptir þeim; þeir viku burt og fóru í svínin; ærð-
ist þá hjørðin og steypti sér ofan fyrir hengi-
flug í sjóinn og týndist þar. En þeir er svín- 33.
anna gættu flýðu til borgarinnar, og sögðu þar
allt, sem farið hafði, eins um þá djøful-óðu.
Þá fóru allir borgarmenn til móts við Jesúm, 34.
og þegar þeir fundu hann, báðu þeir hann að
fara á burt úr þeirra landareign.

## 9. Kap.

I.) Jesús læknar visinn mann, 1—8. II.) Qvedur Matthæus til fylgdar við sig og forsvarar sig, 9—13. III.) og Lærisveinana, 14—17. IV.) Læknar blóðfallssjúka qvinnu, og uppvekur dóttur Jaírusar, 18—26. V.) Læknar tvo blinda, 27—31. VI.) Og einn djøful-óðann, 32—34. VII.) Aumkast yfir lýðinn, 35—38.

Hann steig þá aptur á skip, fór yfir um og 1.
kom í sína borg. Þá var færdur til hans visinn 2.
maður, sem lá í reckju; og er Jesús sá trú
þeirra, sagði hann til hins visna: vertú hug-
hraustur, sonur! þínar syndir eru þér fyrirgéfn- 3.
ar; þetta álitu nockrir skriftlærðir að vera guð- 4.
lestun; og er Jesús varð var við hvað þeir
hugsuðu, sagði hann: því hugsið þér svo íllt?
Hvert er auðveldara að segja: syndir þínar eru 5.
þér fyrirgéfnar, eður að segja: stattu upp og
gácktu? En til þess að þér skulið vita, að 6.
Mannsins Sonur hefir vald til að fyrirgéfa
syndir á jørðunni, þá— segir hann til hins vis-
na — farðú á fætur, tak sæng þína og gáck

7. heim til þín, og hann stóð upp og fór heim til
8. sín. Þegar fólkio sá þetta, undraðist það og
lofaði Guð, að hann hefði gefið menunnum
slíkt vald.
9. Þegar Jesús fór þaðan, sá hann mann
hjá tollbúð nockurri, Matthæus að nafni; þenn-
ann qvaddi hann til fylgdar við sig; hann stóð
10. upp og fylgdi honum. En svo bar til, er Je-
sús var að mat í húsi hans, að margir toll-
heimtarar og bersyndugir komu þángað, og mat-
11. uðust þar með Jesú, og Lærisveinum hans; og
er Pharísear sáu það, sögðu þeir til Lærisveina
hans: því matast Lærimeistari yðar með toll-
12. heimturum og bersyndugum? Þegar Jesús
heyrði það, mælti hann til þeirra: ecki þurfa
heilbrigðir læknis við, heldur þeir, sem vanheil-
13. ir eru; en farið þér og nemið hvað það þýðir:
"þeckari er mér mannelska enn offar;" því ecki
er eg kominn til að kalla réttláta heldur synd-
uga til iðrunar.
14. Þá komu til hans Lærisveinar Jóhannesar,
og spurðu: því föstum vér og Pharísearnir
15. svo opt, en þínir Lærisveinar fasta ecki? Jesús
svaraði: það samir ecki að brúðmennirnir séu
með hrygðu bragði, meðan brúðguminn er með
þeim. En sá tími mun koma, að brúðguminn
verður numinn frá þeim, og þá munu þeir
16. fasta. Enginn leggur nýja bót á gamalt fat,
því bótin rýfur fatið og spjellin verða verri;
17. ecki heldur eru menn vanir að koma nýu víni í
gamla belgi, því annars springa belgirnir, vín-
ið spillist, og belgirnir ónýtast. Heldur er nýtt

V. 3. Hó. 6, 12.

vín látid í nýa belgi, og er þá hvorttveggja
vel geymt.

En er hann var þetta ad tala, kom til 18.
hans Samkundu höfdíngi nockurr, tilbad hann og
sagdi: dóttir mín er nýdaud, kom þú og legg
hend yfir hana, þá mun hún lifna. Jesús fór 19.
med honum og Lærisveinar hans; þá kom kona 20.
nockur, sem haft hafdi blódfall í tólf ár, ad
baki honum og snart fald hans klæda; því hún 21.
sagdi med sjálfri sér: ef eg ad eins fæ snortid
klædi hans, þá mun mér batna; en Jesús snér- 22.
ist vid, og þá hann leit hana sagdi hann: vertu
hughraust, dóttir! þín trú hefir hjálpad þér, og
vard hún strax heilbrigd. Nú er hann kom í 23.
hús Samkunduhöfdíngjans, sá hann þar pípara,
og þys fólksins; þá sagdi hann til þeirra: Far- 24.
id þér í burtu! ecki er stúlkan daud, heldur sef-
ur hún, en þeir hlóu ad honum. En þá búid 25.
var ad ryma fólkinu út, géck hann inn, og tók
í hend henni, og reis þá stúlkan upp; og barst 26.
fregnin um þetta útum allt þad hérad.

Þegar Jesús fór þadan, fylgdu honum 27.
tveir menn blindir; þeir kölludu þannig: Je-
sú! nidji Davíds, miskuna þú ockur! En er 28
hann var kominn til húss, komu þeir blindu til
hans. Jesús sagdi til þeirra: trúid þér ad eg
géti þetta gjert? þeir segdu: já, Herra! þá 29.
snart hann augu þeirra og mælti: verdi yckur
ad trú yckar! En þeir fengu sýn sína; þá 30.
lagdi Jesús ríkt á vid þá, ad segja engum
manni frá þessu. En strax, sem þeir vóru 31.
komnir út, báru þeir hans ordstýr út um allt
þad hérad.

32. Þegar þeir vóru í burt farnir, var færd-
ur til hans madur nockurr mállaus, djeful-ódur;
33. og er djøfullinn var útrekinn, feck sá málid, er
mállaus var. Þetta undradist fólkid og mælti:
aldrei hefir þvílíkt sjest medal Israels manna.
34. En Phariseear segdu: ad hann ræki djøfla út
med hjálp djeffa hofdíngjans.
35. Sídan fór Jesús um allar borgir og þorp,
kénndi í samkundum þeirra, og flutti gledi-bod-
skapinn um Guds ríki; hann læknadi allskyns sjúk-
36. dóma og kránkleika; en er hann sá fólkid, kénndi
hann í brjésti um þad, því þad var þjád og tvíst-
37. rad, sem sú hjerd, er engann hirdir hefir. Þá
sagdi hann vid Lærisveina sína: kornskéran er ad
sönnu mikil, en verkamennirnir fáir; bidjid því
Herrann kornskérunnar, ad hann vilji senda
verkamenn til sinnar kornskéru.

10. Kap. I.) Jesús útsendir þá tólf Postula til ad kéña
og gjøra kraptaverk, 1—15. II.) Hug-
hreystir þá á móti ofsókunum og lífláti, 16
—39. III.) Lofar þeim umbun, er veita
þeim móttøku, 40—42.

1. Sídan kalladi hann til sín sína tólf Lærisveina
og gaf þeim vald ad reka út óhreina anda, og
2. lækna allskyns sjúkdóma og kránkleika. Nöfn
þessara tólf postula vóru þessi: fyrst var Símon,
sem kallast Pétur, og Andrés bródir hans, Ja-
kob Zebedæusarson, og Jóhannes bródir hans,
3. Filippus og Bartholomæus, Tómas og Matthæus
tollheimtari, Jakob Alfæusarson og Lebbæus, er
4. kallast Taddæus. Símón vandlætari og Júdas

frá Kariot, sem síðan sveik hann. Þessa tólf 5.
sendi Jesús frá sér, og gaf þeim áður þessa
skipun: farið þér eigi til heiðinna þjóða, og
gángið eigi inn í neina samverska borg; held- 6.
ur farið til týndra sauða af Ísraels ætt; og 7.
kunngjørið: að Guðs ríki sé nálægt; læknið sjúka, 8.
lífgið dauða, hreinsið líkþráa, rekið djøfla út;
þér hafið fengið þetta kauplaust, gjørið það
og kauplaust. Eigi skuluð þér hafa gull, silfur 9.
eður eir í beltum yðrum; ekki skuluð þér hafa 10.
nestis-mal; eigi tvo kyrtla, ekki skó eður staf,
því verður er verkamaðurinn fæðisins. En í 11.
hverja þá borg eður þorp, er þér komið, þá
spyrjist fyrir: hverr þar sé yðar kénníngar verð-
ur, hjá honum skuluð þér gista, til þess þér far-
ið þaðan. Þegar þér gángið inn í húsið, þá 12.
árnið þeim góðs, sem þar eru, og séu þeir þess 13.
verðir, munu óskir yðar hrína á þeim, en ef
ekki, munu þær hverfa aptur til yðar. Sé sá 14.
nockurr, sem ekki vill veita yður viðurtöku, eða
hlýða yðar kénníngu, þá farið burt af því
heimili eður þeim stað, og hristið dupt af fót-
um yðrum; trúið mér, bærilegra mun verða 15.
straff Sódómu og Gómorrhu á degi dómsins
enn þeirrar borgar. Sjá! eg sendi yður, sem 16.
sauði meðal úlfa; verið því varir um yður, sem
höggormar, en meinlausir, sem dúfur. Gætið 17.
yðar fyrir mönnum, því þeir munu færa yður
á þíng og afhýða yður í samkunduhúsum sínum,
og fyrir Landstjórnara og Konúnga munuð þér 18.
færðir verða fyrir mínar sakir, svo bæði þeim
og heiðíngjum verði minn lærdómur kunnur.
En nær þeir framselja yður, þá verið ekki hug- 19.

sjúkir um, hverninn edur hvad þér skulud tala;
því í sama bragdi mun því verda skotid ydur
20. í brjóst; því þad er ecki þér, sem talid, held-
21. ur Andi Fødurs ydar, sem í ydur talar. Þá
mun bródir framselja bródur til lífláts, og
fadirinn soninn; þá munu og bornin hefjast
22. gégn foreldrunum, og firra þá lífi; og ydur
munu allir fyrir mínar sakir ad hatri hafa. En
sá, sem stødugur stendur til enda, hann mun
23. hólpinn verda. Nær þeir óssækja ydur í einni
borg, þá flýid í hina, og nær þeir óssækja ydur
í henni, þá flýid í þá þridju. Trúid mér! þér
munud ecki hafa lokid umferd ydarri um allar
Israels borgir, ádur Mannsins Son kémur.
24. Lærisveinninn er eigi fyrir sínum Meistara, ecki
25. heldur þjóninn fyrir sínum húsbónda; lynda má
Lærisveininum, ad hann hafi somu kjør, sem
Meistarinn, og þrælnum, sem húsbóndi hans;
en hafi þeir kallad húss-fedurinn Belzebúl,
hversu miklu heldur munu þeir kalla þjóna
26. hans þad? En hrædist þá samt ecki; því eckert
er svo hulid, ad ei muni opinbert verda, og eck-
27. ert svo fólgid, ad ei verdi augljóst; hvad eg segi
ydur heimuglega, þad skulud þér opinberlega ed-
rum kénna, og þad, sem ydur er sagt hljódlega,
28. skulud þér í fjølmenni flytja. Hrædist ecki þá,
sem líkhamann deyda, en géta ecki líflátid sál-
ina; hrædist heldur þann, sem vald hefir ad
29. tortýna bædi sálu og líkhama í helvíti. Selja
menn ecki tvo titlínga fyrir einn pening, þó deyr
30. enginn þeirra án vilja Fødurs ydar; jafnvel yd-
31. ar høfud-hár eru talin; hrædist því ecki, þér er-

V. 21. Mich. 7, 5. 6.

ud meira verdir enn margir titlingar. Hverr 32.
hann kannast vid mig fyrir mönnum, vid hann
mun eg einninn kannast fyrir mínum Födur á
himnum. En hverr sem ecki vill kannast vid 33.
mig fyrir mennum, vid hann mun eg ecki held-
ur kannast fyrir mínum Födur á himnum.
Aetlid ecki, ad af minni komu muni fridur standa; 34.
ecki mun hún fridi valda, heldur sverdum.
Af henni mun koma ósamlyndi milli födurs og 35.
sonar, dóttur og módur, sonarkonu og módur
manns hennar; og húsbóndans heimamenn 36.
munu hans óvinir vera. Hverr hann elskar 37.
födur eda módur meir enn mig, hann er mín
ecki verdur, og hverr hann elskar son eda dótt-
ur meir enn mig, sá er mín ecki verdur; og 38.
hverr, sem ecki tekur sinn kross og fylgir mér
eptir, hann er mín ecki verdur. Hverr hann 39.
hyggst ad forda lífi sínu, mun því týna, en
hverr hann vogar því í hættu, fyrir mína skuld,
mun fá því borgid. Hverr hann veitir ydur vid- 40.
urteku, er sem hann veiti mér vidurteku, og
hverr, sem veitir mér vidurteku, er sem hann
veitti þeim vidurteku, er mig sendi. Hverr 41.
hann veitir einum Spámanni vidurteku, vegna
þess hann er Spámadur, mun spámanns-laun
ödlast; hverr hann tekur vid rádvendum, fyr-
ir þad ad hann er rádvandur, mun hljóta hins
rádvanda umbun; og hverr hann gefur einum 42.
af þessum umkomulausu kaldann vatnsdryck,
vegna þess ad hann er minn Lærisveinn, trúid
mér! hann mun ecki fara á mis vid sín laun.

V. 35. Mich 7, 6. Jer. 9, 4. 5.

XI. Kap. I.) Jóhannes sendir tvo sína Lærisveina til Jesú, þess erindis að spyrja hann: hvert hann sé sá fyrirheitni Messías? og Jesús sannar það, 1—6. II.) Jesús talar um Jóhannes, 7—15. qvartar yfir lýðsins einþykkni, 16—19. III.) Avítar borgir, 20—24. IV.) Vegsamar ráð Guðs, 25—27. og býður voluðum til sín, 28—30.

1. Þegar Jesús hafði lokið þessari skipun sinni
til þeirra tólf Lærisveina sinna, fór hann þaðan
að kénna og prédika í Gyðínganna borgum.
2. Nú er Jóhannes heyrði í fángelsinu verkin
Krists, sendi hann til hans tvo Lærisveina sína,
3. er spyrja skyldu: hvert hann væri sá, er koma
4. skyldi, eða ættu þeir að vænta annars? Jesús
sagði við þá: farið þið og segið Jóhannesi,
5. hvað þér heyrið og sjáið: blindir fá sýn, halltir
gánga, líkþráir hreinsast, heyrnarlausir heyra,
dauðir endurlifna, og umkomulausum verður
6. boðað: að Messíasar ríki sé komið; og sæll er
sá, sem ecki hneixlast á mér!
7. Þegar þeir vóru burtu farnir, hóf Jesús
ræðu sína til fólksins um Jóhannes á þessa leið:
hvað fóruð þér að sjá á eyðimörkum? hvert
8. reir þann, er vindurinn skékur? eður hvað fóruð
þér að sjá? hvert mann skrautbúinn? gætið
að: þeir, sem í skraut eru búnir, eru í Kónganna
9. höllum; hvað fóruð þér þá að sjá?
hvert einn Spámann? já, í sannleika þann, sem
10. meiri er enn nockurr Spámaður; því hann er

V. 3. 5 Mós. 18, 15. V. 5. Es. 35, 5. 61, 1.

sá, um hvern ritað er: "minn sendiboða sendi
eg undan þér, er greiða skuli þér veg." Trúið 11.
mér: enginn er af konu fæddur, er meiri sé enn
Jóhannes Skírari; þó er sá minnsti í mínu ríki
honum meiri. Frá dögum Jóhannesar Skír- 12.
ara og til þessa, leita menn Guðs ríkis kappsam-
lega, og þeir, sem keppast eptir því, hrífa það
til sín; því allt þángað til Jóhannes kom, hafa 13.
allir Spámenn og Lögmálið sagt þetta fyrir; og 14.
ef þér viljið fallast á það, þá er hann sá Elías,
er koma skal. Heyri þetta hverr, sem heyrt 15.
getur! Við hvað skal eg líkja þessara tíða 16.
mönnum? þeim fer eins og börnum, sem á torgi
eru og kalla þannig til leiksbræðra sinna: vér 17.
höfum kveðið yður gleðikvæði, en þér hafið ekki
viljað dansa; vér höfum súngið yður harma-
saungva, og þó vilduð þér engin sorgar-merki
sýna. Jóhannes kom, og lifði við harða kosti, 18.
og segðu þeir: að hann væri vitstola. Manns- 19.
ins Sonur kom og neytti alls frjálslega; hann
kallið þér mat-hák og vínsvelg og vin tollheimt-
ara og bersyndugra. En skynsamir menn einir
dæma rétt um skynsama hegðun.

Síðan tók hann að ávíta þær borgir, í 20.
hverjum hann hafði flest kraptaverk framið, að
þær hefðu enga umbót gjört, og tók svo til orða:
Vei þér, Korazin! vei þér, Bethsaida! ef þau 21.
kraptaverk, sem í yckur hafa framin verið, hefðu
verið gjörð í Týrus eður Sídón, þá mundu þeir
fyrir laungu hafa iðrun gjört, klæddir sorgar-bún-
íngi og ádreifðir ösku. En trúið mér! bæri- 22.
legra mun verða straff Týrus og Sídónar á degi

V. 10. Malach. 3, 1. V. 14. Malach. 4, 5.

23. dómsins, enn yckar. Og þú, Kapernaum! sem
nú mænir svo hátt í lopt, þér mun í grunn nid-
ursèckt verda; því hefdu þau kraptaverk verid
framin í Sódómu, sem í þér hafa gjørd verid,
24. þá stædi hún enn í dag. Og þad er víst, ad
bærilegra mun verda straff Sódómu á degi dóms-
ins enn þitt.
25. Um sama leiti tók Jesús svo til orda: eg
þacka þér Fadir, Drottinn himins og jardar! ad
þú hefir látid þessa hluti vera hulda fyrir fródum
mønnum og spekíngum, en auglýst þá fáfródum.
26. Sannarlega hefir þér, Fadir! þócknast ad svo
27. skyldi vera. Allt er mér af mínum Fødur í
vald gèfid, og enginn þeckir Soninn nema Fad-
irinn, og enginn Fødurinn nema Sonurinn, og
28. sá, sem Sonurinn vill þad auglýsa. Komid
til mín allir þreyttir, og þér, sem mædist undir
29. þúngum byrdum, eg vil gèfa ydur hvíld; gángid
undir mitt ok, og lærid af mér, því eg er vægur
og hjartagódur, og munud þér hugsvølun finna;
30. því mitt ok er inndælt og mín byrdi létt.

12. Kap. I.) Lærisveinar Jesú tína korn-ør á hvíldar-degi, 1—8. II.) Jesús læknar visna hønd, 9—21. III.) Læknar djøful-ódann, sem var blindur og mállaus, og Phariséar segja: ad hann gjøri þad fyrir fulltíngi Belzebuls; hann forsvarar sig og ávítar þá, 22—37. IV.) Phariséar krefja hann teikns, 38—45. V.) Módir hans og ættíngjar vilja tala vid hann, 46—50.

1. Einhvørju sinni fór Jesus á hvíldar-degi
med sínum Lærisveinum, yfir akurlend nockur;

vóru þeir matþurfar, og tóku því til ad tína
kornexin og eta. Þegar Pharisæar sáu þad, 2.
sögdu þeir til hans: sjá! Lærisveinar þínir gjöra
þad, sem ecki leyfist á hvíldardegi. Jesús mælti: 3.
hafid þér ecki lesid, hvad Davíd gjördi, þegar
hann var matþurfi og menn hans? ad hann 4.
geck inní Guds hús og neytti braudanna helgu,
sem hverki hann né fylgdarmenn hans og eng-
ir, nema Prestarnir einir, máttu eta. Edur 5.
hafid þér ecki lesid í lögmáls bókinni: ad Prest-
arnir vanhelga hvíldardaginn í musterinu á hvíld-
ardögunum og eru þó sýknir saka? En eg segi 6.
ydur fyrir sann: ad hér er sá, sem meiri er enn
musterid. Ef þér hefdud skilid, hvad þad þýd- 7.
ir: "mér er mannelska þeckari enn offur," mund-
ud þér ecki hafa sakfellt þessa, sem saklausir
eru, því Mannsins Sonur er Herra hvíldar- 8.
dagsins.

Þadan fór hann til samkundu þeirra; hér 9.
var madur nockurr, er hafdi visna hend; þá 10.
spurdu þeir hann, hvert leyfilegt væri ad lækna
á hvíldardögum? til þess þeir gætu fengid tilefni
til ad ásaka hann. Hann svaradi þeim: ef sá er 11.
nockurr ydar á medal, sem á einn saud, og falli
saudurinn í pitt á hvíldar-degi, tekur ecki eigand-
inn hann strax, og dregur hann upp? hvad miklu 12.
er þó ecki madurinn ædri enn saudurinn? þess
vegna er leyfilegt ad gjöra þad, sem gott er á
hvíldar-dögum. Sídan sagdi hann vid mann- 13.
inn, réttú fram hend þína! hann gjördi svo, og
vard hún þá heil, sem hin. En Pharisæarnir 14.

V. 3. 1 Sam. 21, 6. V. 4. 3 Mós. 24, 9.
V. 7. Hós. 6, 12.

gengu út og báru saman ráð sín í gégn hon-
um um það, hvernin þeir fengju ráðið hann af
15. dögum. Þegar Jesús varð þess vís, veik hann
þaðan, og fylgði honum þá mikill fjöldi fólks,
16. og hann læknaði þá alla, og bannaði þeim strengi-
17. lega að gjöra sig uppvísann. Sannaðist þá
18. það, sem Spámaðurinn Esajas sagði: "Sjá!
þú þjón minn, hvern eg elska, minn ástfólgna,
sem mér er þócknanlegur, eg vil géfa honum
minn anda-krapt, að hann kénni heiðnum þjóð-
19. um hvað rétt er; hann mun eigi þrátta, og eigi
háreysti gjöra, og hans kall mun eigi á strætum
20. heyrast. Hinn brákaða reirinn mun hann eigi
í sundur brjóta, og hið dapra ljós ecki slöckva,
21. þángað til sannleikurinn hefir sigur unnið; á
hann munu þjóðirnar treysta."
22. Þá var færður til hans maður djöful-óður,
blindur og mállaus, þennann læknaði hann, svo
sá hinn blindi og mállausi féck bæði mál sitt
23. og sýn. Þetta undraðist allt fólkið, og sagði:
mun ecki þessi maður vera niðji*) Davíðs?
24. En er Pharísæar heyrðu það, sögðu þeir: ecki
rekur þessi djöfla út, nema með fulltíngi djöfla-
25. höfðíngjans Belzebúls. Nú er Jesús sá þeirra
hugrenníngar, sagði hann til þeirra: hvert það
ríki, hvar innbyrðis sundurþycki er, mun eyði-
leggjast, og hverr sá staður eður heimili, hvar
26. innbyrðis sundurþycki er, fær ecki staðist. Ef
nú sá eini djöfull rekur þann annann út, þá eru
þeir innbyrðis sundurþyckir, og hverninn skyldi
27. djöfulsins ríki þá standast? og ef eg rek djöfla
út með Belzebúls fulltíngi, fyrir hvers aðstoð

V. 17. Es. 42, 1. V. 23. *) Messías.

útreka þá ydar lærisveinar þá? þeir skulu því
vera ydrir dómendur. En ef eg rek djøfla út 28.
med Guds krapti, þá er Guds ríki komid til
ydar. Hverr fær brotist inn í hús ens sterka og 29.
rænt húsbúnadi hans, nema hann bindi hinn
sterka ádur, þá fyrst getur hann rænt hús hans.
Hverr, sem ecki er med mér, hann er móti 30.
mér, og hverr, sem ecki samansafnar med mér,
sá sundurdreifir. Þess vegna segi eg ydur: 31.
ad hverskyns synd og gudlastan kann mønnum
fyrirgéfin ad verda, en smánarleg ord um Guds
krapt mun mønnum ecki fyrirgéfast. Þótt ein- 32.
hverr lasti Mannsins Son, kann þad honum
forlátid ad verda, en ef nockurr lastar Guds
krapt, þá mun honum þad ecki fyrirgéfast hverki
í þessu né komanda lísi. Ef tréd er gott, eru 33.
og ávextirnir gódir, en sé þad slæmt, eru ávext-
irnir slæmir; því af ávextinum þeckist trjed.
Þér, nødru-kyn! hverninn skyldud þér kunna 34.
gott ad mæla, þar þér sjálfir erud vondir? því
þad mælir munnurinn, sem hjartad hefir nægst
af. Gódur madur framber gott úr gódum 35.
sjódi, en vondur madur framber íllt úr vondum
sjódi. Eg segi ydur satt: fyrir hvert þad íll- 36.
yrdi, er menn mæla, skulu þeir á dómsins degi
reikníngsskap lúka; því af þínum ordum muntú 37.
sikn eda sakfelldur verda.

Þá søgdu nockrir skriftlærdir og Phari- 38.
sear til hans: Meistari! vér viljum gjarnan
sjá teikn af þér. Hann mælti: þessi vonda og 39.
hórsama þjód beidist teikns, en henni skal ecki
teikn géfast nema teikn Jónasar Spámanns;

40. Því eins og Jónas var í hvalfiskjarins qvidi í
þrjá daga og þrjár nætur, svo mun og Manns-
ins Son vera í þrjá daga og þrjár nætur í
41. fylsnum jardar. Nínive borgar menn munu
framkoma á degi dómsins med þjód þessari, og
sýna ad hún sé straffs sek, því þeir gjördu um-
bót vid kenníngu Jónasar; og sjáid! hér er sá,
42. sem honum er meiri. Drottníngin úr sudurátt
mun framkoma á dómsins degi gégn þjód þess-
ari og auglýsa hana straffs seka ad vera; því
hún kom af fjærlægu landi ad heyra speki Sa-
lómons; en sjáid! hér er sá, sem honum er
43. meiri. Nær óhreinn andi fer út af nockrum,
þá ráfar hann um eydimerkur, leitar hýbýlis
44. og finnur ecki; þá segir hann med sér: eg vil
aptur snúa til húss míns, hvadan eg fór, og
er hann kémur aptur, finnur hann þad tómt,
45. sópad og prýdt; þá fer hann sídan og tekur med
sér sjø adra anda sér skadlegri, og er þeir eru
þángad innkomnir, byggja þeir þar; verdur svo
þad sídara ásigkomulag mannsins verra enn hid
fyrra. Eins mun fara fyrir þessari vondu þjód.
46. Þá er hann enn nú var ad tala til lýds-
ins, stódu módir hans og brædur fyrir dyrum
47. úti og vildu mæla vid hann. Þá sagdi ein-
hverr honum: módir þín og brædur þínir eru
48. úti og vilja tala vid þig. En hann sagdi vid
þann, er þetta mælti: hver er módir mín og
49. brædur mínir? og vísadi med hendinni til Læri-
sveina sinna og sagdi: þessir eru módir mín og
50. brædur mínir; því hverr hann gjørir vilja
míns himneska Fødurs, hann er minn bródir,
systir og módir.

I.) Dæmisagan um Sádmanninn, 1—23. Illgresid, 24—30. Mustards kornid, 31—32. Súrdeigid, 33—35. II.) Útlegging þeirrar um illgresid, 36—43. Fjársjódurinn, 44. Perlan, 45—46. Netid, 47—52. III.) Kristur er fyrirlitinn í sínu Fødurlandi, 53—58. **13. Kap.**

Þennann dag géck Jesús heiman og settist vid sjóinn. 1.
Þá dreif til hans svo mikill fjøldi 2.
fólks, ad hann hlaut ad stíga á skip og setjast
þar, en allur fólks-fjøldinn stód í fjørunni; þá 3.
kénndi hann þeim margt í dæmisøgum, og hóf
svo rædu sína: Sádmadur nockurr géck út ad sá,
en er hann var ad sá, féll sumt sædid vid veg- 4.
inn og fuglar átu þad. Sumt féll í grýtta 5.
jørd, hvar þad hafdi ecki nógann jardveg, þad
vóx ad sønnu skjótt, því þad hafdi litla jørd;
en er sólin skein, skrælnadi þad og visnadi, sök- 6.
um þess þad hafdi ecki nægar rætur. Sumt 7.
féll medal þyrna, og þyrnarnir uxu upp og
kjæfdu þad. En sumt féll í góda jørd og bar 8.
ávøxt, sumt hundradfaldann, sumt sextugfald-
ann og sumt þrítugfaldann; nemi hverr, sem 9.
nema kann! Þá komu til hans Lærisveinar 10.
hans og spurdu hann: því hann kénndi fólkinu í
dæmisøgum? en hann svaradi þeim: af því 11.
ydur er unnt ad skilja leyndardóma Guds rík-
is, en hinum er þess ecki unnt; því þeim, er 12.
hefir, mun veitast, svo hann yfirfljótanlega hafi,
en frá hinum, er ecki hefir, mun takast jafnvel
þad hann hefir; en þess vegna kénni eg þeim í 13.

dæmisegnum, ad þó þeir sjái, er þad sem sæu
þeir ecki, og þótt þeir heyri, er þad sem heyrdu
14. þeir ecki eda skildu. Sannast því á þeim spá-
dómur Esajasar, er svo segir: "Þér munud
heyra, en þó ecki skilja; þér munud sjá, en þó
15. ecki þeckja, því lýdur þessi er heimskur, hann
heyrir dauslega, og lykur augum sínum ad hann
ecki skuli sjá, heyra edur skilja, og snúa til
16. mín svo eg lækni hann." En sæl eru ydar
17. augu, sem sjá, og eyru ydar, sem heyra; því
eg segi ydur satt: ad margir Spámenn og
Guds vinir sýstust ad sjá þad, sem þér sjáid,
og heyra þad, sem þér heyrid, en heppnadist
18. þad ecki. Heyrid nú útskíríngu dæmisögunnar
19. um Sádmanninn: nær nockurr heyrir lærdóm-
inn um Guds ríki og skilur hann ecki, þá kém-
ur hinn vondi og tekur burt þad, sem sád var,
úr hjarta hans. Þetta merkir sædid, sem hjá
20. veginum var sád. En þad, sem í grýtta jørd
féll, merkir þann, er heyrir mína kénníngu og
21. veitir henni vidtøku med fagnudi, en hún hefir
ecki vidnám hjá honum, nema um stundarsakir.
Því þegar honum mætir mótgángur og ofsókn-
ir fyrir kénníngarinnar skuld, þá fellur hann
22. strax frá. En þad, er sád var medal þyrna,
merkir þann, sem ad sønnu heyrir mína kénn-
íngu, en umhyggja fyrir lífi þessu og táldrægni
audæfanna kæfja hana, svo hann ber engann á-
23. vext. En þad, er féll í góda jørd, merkir þá,
sem heyra mína kénníngu og skilja hana
og færa ávext, sumir hundrad-faldann, sum-
ir sextug-faldann og sumir þrítug-faldann.

V. 14. Esaj. 6, 9. 10.

Aðra Dæmisøgu sagði hann þeim, er svo 24.
hljóðar: líkt er Guðs ríki manni þeim, er sáði
góðu sæði í akur sinn; en er menn vóru í svefni, 25.
kom óvinur hans og sáði íllgresi meðal hveitis-
ins og fór síðan á brott. En er sæðið spratt 26.
upp og tók að bera ávøxt, þá kom og íllgresið í
ljós. Þá gengu þjónar húsbóndans til hans og 27.
søgðu: Herra! sáðir þú ecki góðu sæði í akur
þinn? eður því ber hann íllgresi? hann mælti: 28.
það hefir óvinurinn gjørt. Þá søgðu þjónarn-
ir: viltú ecki að vér førum og upprætum það?
hann sagði: ecki vil eg það, að þér ecki, nær 29.
þér upprætið íllgresið, rýfið hveitið upp með;
látið hverttveggja vaxa saman til kornskérunn- 30.
ar; og þegar kornskéru-tíminn kémur, vil eg
bjóða kornskéru-mennunum: að safna fyrst
saman íllgresinu og binda það í knippi til að
brennast; en safna hveitinu í mína kornhløðu.
Þessa dæmisøgu sagði hann þeim einninn: líkt 31.
er Guðs ríki mustarðs-korni því, er maður
nockurr tók og sáði í akri sínum. Minnst er 32.
það allra fræ-korna, en nær það vex, er það
meira enn nockurt kálgresi, og verður svo stórt,
sem eik, svo að fuglar himins koma og leita sér
skýlis í greinum þess. Enn sagði hann þeim 33.
þessa dæmisøgu: líkt er Guðs ríki súrdeigi því,
er kona ein tók og hnoðaði því saman við þrjá
mælira hveitis, uns það allt sýrðist. Þetta 34.
allt kénndi Jesús í dæmisøgum, og fyrir utan
dæmisøgur kénndi hann þeim ecki; svo að það 35.
sannaðist, er Spámaðurinn segir: "eg mun

V. 35. Psálm. 78, 2.

kénna í dæmisøgum, og þá hluti, er huldir hafa
verid frá því er heimur hófst mun eg mæla."
36. Sídan lét hann fólkid frá sér fara og
fór til húss síns; þá komu til hans Lærisvein-
ar hans og bádu hann: ad hann vildi útskíra
37. þeim dæmisøguna um íllgresid. Hann mælti: sá
er sádi því góda sædi, þýdir Mannsins Son;
38. akurinn þýdir verøldina; hinn gódi ávøxturinn
þýdir Guds børn; íllgresid þýdir børn hins
39. vonda; en óvinurinn, er sádi því, merkir djøf-
ulinn; kornskéru-tíminn merkir enda heimsins;
40. kornskurdar-mennirnir merkja Englana. Því
eins og menn plaga ad safna íllgresi og brenna
þad, eins mun fara vid enda veraldar þessarar;
41. Sonur Mannsins mun þá senda Engla sína, ad
þeir samansafni úr hans ríki øllum þeim, er ad-
42. ra afvega leida og rángt gjøra, og kasta þeim í
ofn glóanda; þar mun vera grátur og gnístur
43. tanna; þá munu þeir gódu skína sem sól í ríki
Fødurs þeirra. Nemi þetta hverr, sem nema
44. kann! Enn er Guds ríki líkt féstjód, er fólg-
inn var á akri, hvern madur nockurr fann og
leyndi honum, en sakir glédi þeirrar fór hann
burt, og seldi allar eigur sínar og keypti akur-
45. inn. Enn er Guds ríki líkt þeim kaupmanni,
46. er leitadi ad gódum perlum; en er hann fann
eina dýrmæta perlu, fór hann og seldi allt hvad
47. hann átti, og keypti hana. Enn er Guds ríki
líkt neti því er lagt var í sjó, í hverju ad veidd-
48. ust allskyns fiskar; og er þad var fullt, drógu
menn þad upp í fjeruna, settust sídan og søfn-
udu þeim gódu í ílát, en kestudu þeim óætu út
49. aptur. Eins mun fara vid enda heimsins; þá

munu Englar Guðs fara og skilja vonda menn
frá góðum; og kasta þeim vondu í ofn brenn- 50.
anda, hvar vera mun grátur og gnístur tanna.
Síðan spurði Jesús þá: hvert þeir skildu allt 51.
þetta? en þeir qváðust það skilja. Þá mælti 52.
hann: hér fyrir er hverr sá kénnari, sem upp-
fræddur er í þeim hlutum, sem viðvíkja Guðs
ríki, líkur þeim húsfeður, sem framreiddi úr
geymslu húsi sínu bæði nýtt og gamalt.
En er Jesús hafði lokið þessum dæmi- 53.
sögum, veik hann þaðan og kom til ættjarðar 54.
sinnar, og kénndi þeim í samkundum þeirra, svo
þeir undruðust og mæltu: hvaðan hefir þessi
maður slíka speki og kraptaverka gáfu? er hann 55.
ekki Sonur Smiðsins? heitir ekki Móðir hans
María? og bræður hans Jakob og Jóses, Sí-
mon og Júdas? og systur hans, eru þær ekki 56.
allar hér hjá oss? hvaðan hefir þá þessi allt 57.
þetta? og þeim þókti lítið til hans koma; en
Jesús sagði til þeirra: Spámaður er hvergi
minna metinn enn á sinni fósturjörðu og meðal
ættingja sinna. Hann framdi þar ekki heldur 58.
mörg kraptaverk sakir vantrúar þeirra.

## 14. Kap.

I.) Heródes meinar að Jóhannes sé endur-lifnaður, hvern hann hafði látið hálshöggva, 1—12. II.) Jesús mettar 5000 manns, 13—21. Gengur á sjónum, 22—34. IV.) Læknar, 35—36.

Um þessar mundir kom fregnin af Jesú til 1.
eyrna Heródesar Fjórðúngs-hefdíngja; þá mælti 2.
hann við menn sína: þessi er Jóhannes Skír-

ari, hann er risinn upp frá dauðum, þar fyrir
hefir hann svo mikinn mátt til að fremja krapta=
3. verk. En Heródes hafði látið handtaka Jó=
hannes, fjötra hann og setja í mirkvastofu,
sakir Heródíadis konu Philippusar bróður síns;
4. því Jóhannes hafði sagt við hann: þú mátt ekki
5. taka saman við hana; og þótt hann vildi láta
drepa hann, forði hann það þó ekki, sakir alþýð=
unnar; því allir héldu Jóhannes að vera Spá=
6. mann. En á fæðingarhátíð Herodesar, dans=
7. aði dóttir Heródíadis fyrir géstunum, og féll
honum það svo vel í geð, að hann hét með eiði
8. að veita henni hvað hún umbeiddi. En hún
bað, eptir undirlagi móður sinnar, að hann
gjæfi sér á diski höfuð Jóhannesar Skírara.
9. Við þetta varð Konúngurinn hriggur, en sakir
eiðs síns og þeirra, er vóru í boði hans, bauð
10. hann að þetta skyldi henni veitast. Sendi hann
því og lét hálshöggva Jóhannes í mirkvastof=
11. unni, en höfuð hans var lagt á fat og gèfið
12. meyunni, en hún færði móður sinni. En Lærì=
sveinar hans tóku lík hans og grèftrudu það,
13. kunngjörðu síðan Jesú hvað skéð hafði; og er
Jesús heyrði það, fór hann á skipi til eyðibygða
einsamann, og er fólkið varð þess víst, fylgdi
það honum á landi úr borgunum.
14. En er hann géck fram, leit hann mikinn
fjölda fólks, kénndi í brjósti um þá, og lækn=
15. aði þá á meðal þeirra, sem krânkir vóru. En
er qvöld var komið, komu Lærisveinar hans til
hans og mæltu: vér erum hér í eydimörku, og
dagur er nú liðinn að mestu, láttu fólkið frá

V. 4. 3 Mós. 18, 16.

þér, ad það fari í þorpin ad kaupa sér vistir.
Jesús mælti: ecki þurfa þeir burtu ad fara; 16.
géfid þér þeim mat. Þeir mæltu: ecki hefum 17.
vér hér nema fimm braud og tvo fiska. Hann 18.
baud þeim ad færa sér þetta. Sídan sagdi 19.
hann fólkinu ad setjast nidur í grasid, tók þau
fimm braud og þá tvo fiska, leit til himins,
gjerdi Gudi þackir; sídan braut hann braudin,
og féck Lærisveinum sínum þau, en þeir færdu
þau fólkinu; og allir neyttu til þess þeir vóru 20.
mettir; þá tóku þeir afgángs-leifarnar, og vóru
það tólf karfir fullar; en þeir, sem neytt hefdu 21.
vóru hér um fimm þúsundir manna, auk qvenna
og barna.

Strax er þetta var skéd, baud hann Læri- 22.
sveinum sínum ad stíga á skip og fara undan
sér yfirum, á medan hann væri ad koma frá sér
fólkinu. Og sem hann hafdi látid fólkid frá sér, 23.
fór hann einnsamann uppá fjall nockurt ad bid-
jast fyrir; og er qvøld var komid, var hann þar
einn; þá var skipid nærstum komid á midt vatn- 24.
id, og lá undir áføllum, en andvidri var. En 25.
er nær fjórdúngur lifdi nætur, kom hann til
þeirra gángandi á sjónum. En er Lærisvein- 26.
arnir sáu hann gánga á sjónum, urdu þeir svo
felmtsfullir, ad þeir tóku ad æpa af hrædslu,
því þeir meintu sig ad sjá vofu nockra; en Jesús 27.
varpadi strax ordum á þá, og mælti: verid ó-
hræddir, eg er það, hræddist ecki! Honum ansadi 28.
Pétur og mælti: ef þú ert það, Herra! þá seig
ad eg komi til þín á vatninu. Jesús mælti: 29.
hann skyldi koma, þá fór Pétur útbyrdis og

V. 22. Marc. 6, 45—52. Jóh. 6, 16—21.

30. tók ad gánga á vatninu til Jesú. En er hann
sá fellibil einn hardann, hræddist hann, og er
hann tók til ad sökva, kalladi hann og mælti:
31. hjálpa þú mér, Herra! þá tók Jesús strax til
hans, og sagdi: þú trúarlitli! því efadist þú?
32. og er þeir stigu á skipid, lægdi vedrid; en þeir,
33. sem á skipinu vóru, veittu honum lotníngu og
mæltu: vissulega ertu Guds Sonur!
34. Sídan fóru þeir yfirum, og komu í Ge-
nesareths land. En er þeir, sem þar bjuggu,
þecktu hann, sendu þeir í alla bygdina umhverfis,
35. og færdu til hans alla þá, sem sjúkir vóru, og
beiddust, ad hann vildi leyfa þeim ad eins ad
snerta fald klæda sinna, en þeir, er hann snertu,
urdu heilbrigdir.

## 15. Kap.

I.) Jesús forsvarar Lærisveinana og kénnir hvad þad sé, er manninn saurgi, 1—20. II.) Reynir og bænheyrir þá kanversku konu, 21—28. III.) Læknar marga og mettar 4000 manns, 29—39.

1. Um þessar mundir komu til Jesúm Skrift-
lærdir og Pharísæar frá Jerusalem; þeir spurdu
2. hann: því yfirtroda þínir Lærisveinar setníngar
Öldúnganna, er þeir ecki taka handlaugar, ádur
3. enn þeir gánga til matar? Jesús svaradi þeim:
því yfirtrodid þér Guds bodord med ydar eginn
4. setníngum? því Gud hefir bodid og sagt: "heid-
ra skaltú foreldra þína," og enn framar: "hverr
hann breytir illa vid fødur sinn edur módur,
5. hann er rétt drapur." En þér segid: segi nock-

V. 4. 2 Mós. 20, 12. 21, 17.

urr vid foreldri sitt: eigur þær, hvar með eg
kynni ad hjálpa þér, eru heit-fé, þá skuli hann
ecki framar skyldur ad annast fodur sinn edur
módur, og hafid þér þanninn med setníngum ydr- 6.
rum ónýtt Guds Lögmál. Hræsnarar! rétt 7.
hefir Spámadurinn Esajas spád um ydur, er
hann segir: "Lýdur þessi heidrar mig med 8.
vörunum, en þeirra hjarta er lángt í burtu frá
mér; en þeirra dýrkan er hégómleg, er þeir 9.
kénna þad, sem eru manna tilskipanir." Þá 10.
kalladi hann saman fólkid og mælti: heyrid þér
og skiljid: ecki kann þad manninn ad saurga, sem 11.
inn fer í gégnum munninn, heldur þad, sem
útfer af munninum, þad saurgar manninn. Þá 12.
komu til hans Lærisveinar hans og mæltu: veitstú
af því, ad Pharísæar hneixludust, er þeir heyrdu
þetta? hann mælti: allt hvad minn himneski 13.
Fadir ecki hefir plantad hlýtur ad upprætast;
skiptid ydur ecki af þeim, þeir eru blindir og 14.
blindra leidtogar; ef blindur leidir blindann
falla þeir bádir í gröfina. Þá bad Pétur 15.
hann, ad hann vildi útskíra þeim þessa dæmi-
sögu. Jesús mælti: erud og þér enn þá svo 16.
skilníngslausir? skiljid þér ecki, ad allt þad, 17.
sem inn kémur um munninn fer í magann, og
fer burtu fyrir edlilega rás; en þad er útfer af 18.
munninum, kémur frá hjartanu, og þetta er þad,
sem saurgar manninn. Því frá hjartanu plaga 19.
ad koma íllar hugrenníngar, manndráp, hór, 20.
fridlulífi, þjófnadur, ljúgvitni, íllmæli; þetta er 20.
þad, sem saurgar manninn; en ad gánga med
óþvegnum höndum til matar, saurgar engann.

V. 7. Es. 29, 13.

21. Þadan fór Jesús í landsbygd Týrusar og
22. Sídonar. Þá kom kona nockur kanversk úr
þeim hérodum, kalladi á hann og sagdi: miskunn
mér, Herra! þú nidji Davíds! dóttir mín qvelst
23. þúnglega af djeflinum; en hann svaradi henni
engu ordi. Þá komu Lærisveinar hans og
bádu, ad hann veitti henni úrlausn, þar hún
24. kalladi eptir þeim. Jesús mælti: eg er ecki
sendur nema til týndra sauda af Israels ætt.
25. En hún kom, veitti honum lotníngu og mælti:
26. hjálpa þú mér, Herra! Jesús mælti: ecki sæm-
ir ad taka braudid frá børnunum og kasta því
27. fyrir hundana. Satt er þad, Herra! mælti
konan, þó jeta hundarnir mola-þá, sem falla af
28. bordum drottna þeirra. Þá mælti Jesús: mik-
il er trú þín, kona! verdi þér, sem þú vilt; en
dóttir hennar vard samstundis heilbrigd.
29. Þadan fór Jesús til sjáfarins í Galílæu,
30. géck þar uppá fjallid og settist þar; þá kom til
hans mikill fjøldi fólks, er hafdi med sér hallta
menn og blinda, mállausa, handarvana og marga
31. adra, og vørpudu þeim til fóta Jesú, en hann
læknadi þá; svo fólkid undradist, er þad sá mál-
lausa tala, handarvana heila, hallta heilfætta,
og blinda alsjáandi, og prísadi Israels Gud.
32. Þá kalladi Jesús á Lærisveina sína og mælti:
eg aumka fólk þetta; í þrjá daga hafa þeir nú
med mér verid, og eckert til matar haft; en fast-
andi vil eg ecki láta þá frá mér, ad ecki verdi
33. þeir magnþrota á vegínum. Þá mæltu Læri-
sveinar hans: hvadan skulum vér taka svo mørg
braud hér í óbygdum, ad vér fáum slíkann fólks-
34. fjølda mettad? Jesús spurdi þá: hvad mørg

braud þeir hefdu? þeir sögdu: sjö og fáeina
smáfiska. Þá baud hann fólkinu ad setjast 35.
nidur á jördina; sídan tók hann þau sjö braud 36.
og fiskana, gjördi Gudi þackir, braut þau og
seldi þau í höndur Lærisveinum sínum, en þeir
fengu þau fólkinu; en þeir neyttu allir og urdu 37.
mettir; sídan söfnudu þeir leifunum, og vóru
þad sjö karfir fullar; en þeir er neytt höfdu, 38.
vóru fjórar þúsundir auk qvenna og barna.
Ad því búnu lét hann fólkid fara á burt, steig 39.
á skip og fór til Magdala hérada.

16. Kap.

I.) Jesús ávítar Pharísæana, er þeir æskja teikns, 1—4. Varar vid súrdeigi þeirra, 5—12. II.) Pétur játar: ad Jesús sé Guds Sonur, 13—20. III.) Jesús segir fyrir sína pínu og ávítar Pétur, 21—23. IV.) Talar um sjálfs afneitun og sína tilkomu, 24—28.

Þá komu til hans Pharísæar og Sadúcæar, 1.
freistudu hans og kröfdust ad hann vildi sýna
þeim teikn af himni. Hann mælti: ad qvöldi, 2.
þegar rodi er á lopti, þá segid þér, þad bodi
gott vedurlag; og snemma dags, þegar loptid 3.
þá er raudt og ískyggilegt, segid þér: ad þann
dag muni verda íllvidri. Þér, hræsnarar!
himinsins yfirbragd vitid þér ad dæma, en
kénniteikn þessara tíma viljid þér ecki athuga.
Þessi vonda og hórsama þjód beidist teikns, og 4.
henni skal ecki teikn géfast, nema teikn Jónasar

V. 1. Marc. 8, 11. 12. Lúc. 11, 16—29.

Spámanns; og er hann hafdi þetta sagt, skildist hann vid þá og fór þadan.
5. En er Lærisveinar hans fóru yfir um, höfdu
6. þeir gleymt ad taka braud med. Þá mælti Jesús: varid ydur vid súrdeigi þeirra Pharísæa og
7. Sadúcæa. Þá töludu þeir sín á milli: ad hann mundi segja þetta sökum þess, ad þeir ecki
8. hefdu tekid braud med sér; og er Jesús vard þess var, mælti hann: því ætlid þér, trúarveikir! ad eg hafi sagt þetta sökum þess, ad þér
9. gleymdud ad taka braudin med; kémur ydur nú ecki í hug, edur minnist þér ecki þeirra fimm braudanna handa þeim fimm þúsundum manna, og hversu margar karfir þér höfdud þá afgángs?
10. Ecki heldur þeirra sjö braudanna handa þeim fjórum þúsundum, og hversu margar karfir þér
11. þá fylltud med leifarnar? Því skynjid þér þá ecki, ad eg sagdi ecki til ydar braudanna vegna, ad þér skyldud varast súrdeig Pharísæa og Sa-
12. dúcæa? Þá skildu þeir, ad hann ecki hafdi varad þá vid súrdegi brauds, heldur vid lærdómi Pharísæa og Saducæa.
13. Þegar Jesús kom í héræd Cæsareu Philippí, spurdi hann Lærisveina sína: hverr halda
14. menn eg sé? hvert Mannsins Son? þeir svörudu: sumir Jóhannes Skírara, adrir Elías, og enn adrir Jeremías edur einn af Spámönnunum.
15. Þá mælti hann: en hvern hyggid þér mig
16. vera? honum svaradi Símon Pétur og mælti:
17. Þú ert Kristur Sonur ens sanna Guds. Jesús mælti: sæll ert þú, Símon Jónasson! því mannleg vitska hefir þér ecki þetta auglýst, held-

V. 13. Marc. 8, 27—38. Lúc. 9, 18—27.

ur Fadir minn á himnum. En eg segi þér: 18.
ad þú ert Pétur (hellusteinn), og á þessari hellu
vil eg byggja mína samkundu, og helvítis makt
skal aldrej á henni sigrast; þér vil eg og fá 19.
lykla himnaríkis, svo ad hvad sem þú bindur á
jørdu, skal á himni bundid vera, og hvad þú
leysir á jørdu; skal á himni leyst vera. Síd- 20.
an bannadi hann Lærisveinum sínum ad segja
nockrum þad hann væri Kristur. Eptir þetta 21.
tók Jesús ad auglýsa Lærisveinum sínum, ad
sér bæri ad fara til Jerúsalem, og líða þar
margt af Øldúngunum, Kénnimanna-høfdíng-
junum og þeim skriftlærdu, lika líflátinn ad
verda og upprísa á þridja degi. Þá tók Pétur 22.
hann afsídis, átaldi hann og mælti: Gud nádi
þig, Herra! komi þetta aldrei fram vid þig!
En Jesús snérist vid honum og mælti: vík frá 23.
mér, fjandi þinn! þú ert mér til ásteitíngar.
Þú skilur ecki Guds fyrirætlun, heldur hvad
menn kynnu ad kjósa. Þá mælti Jesús til Læri- 24.
sveina sinna: hverr, sem vill fylgja mér, hafni
sínu egin gagni; fús sé hann og ad þola hvers-
kyns hermúng, og þá fyrst gétur hann minn
fylgdar-madur verid; hverr hann hyggur ad forda 25.
lífi sínu, 'mun því týna, en hverr, sem vogar
því í hættu fyrir mína skuld, mun fá því borg-
id. Því, ad hverju gagni kjæmi þad, þótt einn 26.
eignadist allann heiminn, ef hann léti líf sitt?
hvad vill madurinn ecki vinna sér til fjør-lausn-
ar? Því Mannsins Són mun koma med dýrd 27.
síns Fødurs og Englum sínum, og þá mun
hann gjalda hverjum sem einum eptir verkum
sínum. Sannlega segi eg ydur: ad hér erú 28.

nú vidstaddir nockrir þeir, sem audnast mun ad
lifa svo lengi, ad þeir sjái Mannsins Son koma
til ríkis síns.

17. Kap. I.) Jesús ummindast á fjalli, 1—9. Talar
um Elías, 10—13. II.) Laknar túngl-
ódann, 14—21. III.) Segir sína pínu
fyrir, 22—23. IV.) Géldur skatt,
24—27.

1. Ad sex dogum lidnum tók Jesús Pétur og þá
brædur Jakob og Jóhannes, og fór med þeim
2. einslega uppá eitt hátt fjall; hér um=mindadist
hann ad þeim ásjáendum, og ásýnd hans skein
sem sól, en klædi hans vóru fogur sem ljós.
3. Þá birtist þeim Móses og Elías og toludu vid
4. hann; þá mælti Pétur: gott er hér ad vera,
Herra! ef þér svo sýnist, viljum vér reisa hér
þrjú tjold, eitt handa þér, annad handa Móse
5. og hid þridja handa Elíasi. Medan hann var
þetta ad tala, bar yfir þá bjart ský, og úr því
heyrdist raust, er mælti: þessi er minn elsku=
legi Sonur, á hverjum eg hefi velþóknun, hon=
6. um skulud þér hlýda. En er Lærisveinarnir
heyrdu raustina, urdu þeir mjog hræddir og
7. féllu á ásjónur sínar. Þá géck Jesús til þeirra,
snart vid þeim og mælti: standid upp og verid
8. óhræddir; en er þeir litudust um, sáu þeir eng=
9. ann nema Jesúm einann. Og er þeir gengu
ofan af fjallinu, bannadi Jesús þeim ad segja
nockrum sýn þessa, fyrr enn Mannsins Son=
10. ur væri risinn upp af daudum. Þá spurdu
Lærisveinar hans hann ad: því segja þá hinir

Skriftlærdu, ad Elías egi ádur ad koma? Je- 11.
sús mælti: Elías á ad vísu ádur ad koma og
lagfæra allt. En trúid mér, ad Elías er nú 12.
þegar kominn, en þeir kønnudust ecki vid hann,
heldur breyttu vid hann, sem þeim líkadi; eins
mun og Mannsins Sonur margt hljóta af þeim
ad lída. Þá skildu Lærisveinarnir ad hann 13.
hafdi þetta meint til Jóhannesar Skírara.

En er þeir komu til fólksins, gékk ad hon- 14.
um madur nockurr, féll á kné fyrir honum og 15.
mælti: Herra! miskuna þú syni mínum, hann
er tunglódur og nærsta þúngt haldinn; opt fell-
ur hann í eld og opt í vatn; eg hefi fært hann 16.
til Lærisveina þinna, en þeir gátu hann ecki lækn-
ad. Jesús mælti: o þú trúarlausa og ráng- 17.
snúna þjód! hversu lengi skal eg hjá ydur vera?
hversu lengi skal eg þolá ydur? færid mér hann
híngad; þá baud Jesús djøflinum burtu ad vík- 18.
ja; hann fór út af honum, og pilturinn vard
samstundis heilbrigdur. En er Jesús var einn- 19.
saman, komu Lærisveinar hans til hans og
spurdu hann: því þeir ecki hefdu gétad rekid
hann út? Jesús mælti: sakir trúarleysis ydars. 20.
Sannlega segi eg ydur: ad þótt ydar trú ecki
væri stærri enn mustarðs korn, þá mundud þér
kunna ad bjóda fjalli þessu ad flytja sig í burtu
hédan og þángad, og þad mundi hlýda ydur, og
eckert mundi ydur þá um megn vera. En þetta 21.
djøfla-kyn verdur ecki útrekid nema med idugleg-
um bænum og føstu.

D

V. 14. Marc. 9, 17. Lúc. 9, 38.
V. 20. Marc. 11, 23. Lúc. 17, 6. 1 Cor. 13, 2.

22. Þá þeir vóru í Galílæu, sagdi Jesús
þeim: ad Mannsins Sonur mundi á manna
23. vald framseldur verda; ad þeir mundu taka hann
af lífi, en ad hann á þridja degi mundi upp-
rísa. Vid þetta urdu þeir mjøg hryggvir.

24. Nú ſer þeir komu í Kapernaum, komu
þeir menn til Péturs, er eyris-ſkattsins áttu
ad vitja og mæltu: géldur Meistari ydar eyris-
25. ſkattinn? hann qvad svo vera; og er Pétur
kom heim, tók Jesús fyrr til orda og mælti:
hvad lítst þér? Símon! af hverjum plaga Kon-
úngar í heimi þessum ſkatt edur þegnſkyldu ad
krefja? hvert af børnum sínum edur ødrum?
26. af ødrum, segir Pétur. Þá mælti Jesús: þá
27. eru børnin frí. En til þess vér ecki séum
þeim til ásteitíngar, þá far þú til sjáfar, og
kasta út aungli þínum, og tak þann fyrsta fisk,
er þú dregur og opna munn hans; þar muntú
finna peníng þann, er stendur tvo aura; þann
ſkaltú gjalda fyrir mig og þig.

18. Kap. I.) Jesús áminnir Lærisveina sína til ad fordast ofmetnad og hneixlanir, 1—10. Kennir ad hann sé kominn til ad frelsa hid tapada, 11—14. Hverninn þeir ættu ad hegda sér vid brædur sinn, er syndgadi, 15—18. Talar um sameinadar bænir, 19. 20. II.) Um ad fyrirgéfa, 21. 22.

V. 22. Marc. 9, 30—32. Lúk. 9, 22.

Hvar uppá hljódar dæmisagan um hinn skúlduga þjón, 23—35.

Um þetta leiti komu Lærisveinar Jesú til hans 1.
og spurdu hann: hverr þeirra mest mundi met-
inn verda í Guds ríki? Jesús kalladi barn eitt 2.
til sín, setti þad á medal þeirra og mælti:
sannlega segi eg ydur: nema þér takid sinna- 3.
skipti og verdid bornum líkir, munud þér ecki
koma í Guds ríki. En hverr, sem er lítillát- 4.
ur eins og barn þetta, hann mun mest metinn
verda í Guds ríki; og hverr, sem tekur vel á 5.
móti þvílíku barni fyrir mína skuld, þad er sem
hann taki vel á móti mér. En ef nockurr 6.
hneixlar einhvern af þessum mínum umkomu-
lausu lærisveinum, betra væri þad þeim, ad
qvarnar-steinn hengdist vid háls honum og
honum væri í haf sockt. O! hversu 7.
vesæll er heimurinn sakir hneixlananna; þó kann
ecki hjá því ad fara, ad hneixlanir komi, en
vesæll er þó sá, sem hneixlinu veldur. En þá 8.
hönd þín edur fótur hneixlar þig, þá högg
hann af og kasta honum burtu, því betra er
þér höltum og handarvana ad ödlast sælu, enn
ad þú hafir tvær hendur og tvo fætur, og verd-
ir í eilífann eld kastadur. Og ef auga þitt 9.
hneixlar þig, þá stíng þad út og kasta því á
burt, betra er þér eineygdum eilífa sælu ad
ödlast, enn ad þú hafir bædi augu þín og þér
verdi í helvítis eld kastad. Gjætid ydar, ad 10.

C 2

V. 1. Marc. 9, 34. Lúc. 9, 46.
V. 6. Marc. 9, 42. Lúc. 17, 1.

Þér ecki forsmáid nockurn þessara umkomuleys-
íngja, því eg segi ydur: ad Englar þeirra á
11. himnum sjá auglit míns himneska Födurs, því
til þess kom Mannsins Sonur, ad hann frels-
12. adi þad, er tapad var. Hvad líst ydur? ef
einhverr ætti hundrad sauda, og skyldi einn af
þeim villast frá; mundi hann ecki skilja þá níu-
tíu og níu eptir vid fjøllin, og fara ad leita
13. þess, er frá var villtur? og ef honum audnast
ad finna hann, þá trúid mér, ad hann gledst
meir yfir honum, enn yfir þeim níutíu og níu,
14. sem ecki villtust; eins vill ydar himneski Fadir
ecki, ad nockurr þessara umkomulausu skuli tap-
15. ast. Bróder þinn brýtur nockud á móti þér,
þá vanda fyrst um vid hann heimuglega, og
ef hann hlýdir þér, hefir þú hann frelstann.
16. En vilji hann þér ecki hlýda, þá tak med þér
einn edur tvo, svo ad málid verdi samid fyrir
17. tilløgur tveggja edur þriggja votta, en vilji
hann þeim ecki hlýda, þá seig þad Samkund-
unni; og vilji hann ecki Samkundunni hlýda,
þá haldtú hann, sem væri hann heidíngi og
18. skattheimtari; eg segi ydur þad fyrir sann: ad
hvad þér bindid á jørdu, skal á himni bundid
vera, og hvad þér leysid á jørdu, skal á himni
19. leyst vera. En framar segi eg ydur: ad ef
tveir hidja nockurs samhuga, mun þad þeim af
20. mínum himneska Födur veitt verda; hvar, sem
tveir eda þrír eru samankomnir í mínu erindi,
þar vil eg vera med þeim.

V. 12. Lúc. 15, 4. V. 15. Lúc. 17, 3. 3 Mós.
19, 17. V. 16. 5. Mós. 17. 6.

Þá gèck Pétur til hans og mælti: hversu opt skal eg fyrirgéfa þeim, sem gjörir á móti mér? er ecki nóg ad gjora þad sjøsinnum? Je- 21. 22.
sús mælti: ecki sjøsinnum, heldur sjøtíusinnum sjøsinnum. Þar fyrir er Guds ríki eins háttad og Konúngi einum, er reikníngsskap vildi 23.
halda vid þjóna sína; en er hann tók reikníng- 24.
inn ad halda, var færdur til hans madur sá, er honum var skyldugur um tíu=þúsund hundrad hundrada*); og sem hann nú ecki hafdi 25.
þau til ad borga med skuld sína, baud Konúngurinn: ad selja skyldi sjálfann hann, konu hans og børn og alla eigu hans ad borga þar med skuldina; þá féll þjóninn til fóta hans og 26.
mælti: umlíd þú mig, Herra! allt skal eg þér lúka; þá aumkadist Herrann yfir þennann 27.
þjón, lét hann á burtu fara og gaf honum upp alla skuldina. En er hann fór út, hitti hann 28.
einn af sínum samþjónum, er honum var skyldugur um fimmtíu aura; þennann tók hann høndum, tók fyrir qverkar honum og mælti: gjald þú þad þú ert mér skyldugur; en sam- 29.
þjón hans féll fram ad fótum honum, og bad: ad hann vildi umlída sig, og lofadi ad lúka honum allt; en hann vildi ecki, og setti hann 30.
í mirkvastofu, uns hann hafdi skuldinni lokid.
En er samþjónar hans sáu hvad skédi, urdu 31.
þeir mjøg hriggvir. Fóru þeir því og søgdu Konúngi allt hvad gjørst hafdi. Þá lét hann 32.
kalla þennann mann fyrir sig og mælti; þú, illi

*) V. 24. Þegar Talent, sem stendur í høfudtextanum, reiknast á 480 danskar Speciur, og 1 Eyrir á fimtúng úr Speciu.

þegn! alla þessa skuld gaf eg þér upp, sak-
33. ir þess þú badst mig; hvert sæmdi þér þá
ecki einninn ad vera miskunsamur vid þinn
sambjón, eins og eg var miskunsamur vid þig?
34. Þá vard Konúngurinn reidur, og baud ad sel-
ja hann í hendur vardmönnum mirkvastofunn-
ar, uns hann hefdi goldid allt þad, er hann
35. var skuldugur. Þannveg mun og minn himn-
eski Fadir breyta vid ydur, ef þér ecki hverr
og einn, forlátid ødrum af heilum huga sín
af-brot.

19. Kap. I.) Jesús læknar, 1. 2. Talar um hjóna-
skilnad og hjúskap, 3—12. II.) Blessar
yfir úngbörn, 13—15. Talar vid hinn
ríka úngling, 16—22. Talar vid Læri-
sveinana um hina ríku, 23—25. Hug-
breystir þá, sem afneita sínu hans vegna,
27—30.

1. Nú er Jesús hafdi lokid þessari rædu, veik
hann burt úr Galílæu, og ferdadist til þeirra
hérada í Júdæu, sem liggja hinumegin Jór-
2. danar; þángad fylgdi honum mikill fjøldi fólks
og læknadi hann þar þá af þeim, sem sjúkir
3. vóru; þá komu til hans Pharísæar, vildu
freista hans og spurdu: hvert giptum manni
leyfdist ad skilja vid konu sína fyrir hverja eina
4. sök? Hann mælti: hafid þér ecki lesid: ad
Skaparinn gjørdi í øndverdu karlmann og konu
5. og mælti: "fyrir þessa sök skal madurinn yfir-
gefa foreldra sína, en sameinast konu sinni,

B. 1. Mark. 10, 1. B. 5. 1 Mós. 2, 24.

svo þau bædi séu einn madur;" og þared þau 6.
eru nú sídan ecki tveir, heldur einn madur,
svo ber mennunum ecki ad skilja þad sundur, er
Gud sameinadi. Þeir mæltu: því baud þá 7.
Móses ad géfa skilnadar-skrá og skilja svo
vid konu sína? hann mælti: sakir mannvondsku 8.
ydar leyfdi Móses ydur ad skiljast vid konur
ydar, en í endverdu var þetta ecki þanninn.
Því, trúid mér! ad hverr, sem skilur sig vid 9.
konu sína nema fyrir hórdóms sakir og gengur
ad eiga adra, sá drýgir hór; og hverr hann
tekur sér konu þá, sem skilid hefir vid mann
sinn, sá drýgir einninn hórdóm: Þá mæltu 10.
Lærisveinar hans: sé þannig ákomid milli manns
og konu, þá er ecki gott ad giptast. Jesús 11.
svaradi: þetta*) géta ecki allir, heldur þeir
einir, sem þad er gésid; því sumir eru fæddir 12.
svo, ad þeir eru óhæfir til hjúskapar; adrir eru
géldtir af manna völdum; þá eru og þeir, er
halda sér frá hjúskap fyrir Guds ríkis sakir;
gjöri þeir þad, er géta.

Þá vóru úngbörn færd til hans, til þess 13.
ad hann legdi hendur yfir þau og árnadi þeim
góds; en Lærisveinar hans vildu várna þeim
þess. Jesús mælti: leyfid börnunum ad koma 14.
til mín og hindrid þau ecki, því mitt ríki heyr-
ir slíkum til. Og er hann hafdi þetta mælt, 15.
lagdi hann hendur yfir þau, og fór þadan. Þá 16.
kom madur nockurr til hans, og tók svo til
ordá: algjördi Meistari! hvad gott skal eg gjöra
til þess ad eg ödlist eilífa sælu? Jesús mælti: 17.

V. 7. 5 Mós. 24, 1. V. 11. *) ad vera ógiptur.
V. 16. Marc. 10, 17. Lúc. 18, 18.

því kallar þú mig algjerdann? enginn er al-
gjerdur nema Gud einn; en ef þú vilt þessa
sælu hljóta, þá breyt þú eptir því, sem lögin
18. bjóda. Hann spurdi: hvad laga þad væri? Je-
sús mælti: þessi, eigi skaltú mann vega; eigi
19. hórast; eigi stela; eigi ljúgvitni bera; heidra
födur og módur, og elska náúnga þinn, sem sjálf-
20. ann þig. Þá mælti hinn úngi madur: þessa
hefir eg alls gjætt frá barns-beini; hvers er
21. mér þá enn þá vant? Jesús mælti: viljir þú
algjörr vera, þá far og sel eigur þínar, og gef
þær fátækum, þess muntu laun á himni hljóta,
22. kom svo og fylg mér. En er hinn úngi mad-
ur heyrdi þetta, vard hann fár vid og fór í
23. burtu; því hann var mjög audugur ad fé. Þá
tók Jesus til orda vid Lærisveina sína: sannlega
segi eg ydur: ad torveldt mun þad verda ríkum
24. manni ad gánga mér til handa; og enn framar
segi eg ydur: ad audveldara er úlfaldanum ad
gánga í gégnum nálar-augad, enn ríkum manni
25. inn í mitt ríki. Nú er Lærisveinar hans heyrdu
þetta, datt ofan yfir þá og mæltu: hversu fáir
26. munu þá ecki hólpnir verda?*) Þá leit Jesús
til þeirra og mælti: fyri manna sjónum er þetta
ad vísu ómögulegt, en Gudi er engimn hlutur
27. ómáttugur. Þá tók Pétur til orda: vér yfir-
gáfum allt og fylgdum þér, hvílík laun munum
28. vér hér fyrir hljóta? Jesús mælti: sannlega
segi eg ydur: ad þér, sem hafid fylgt mér,
munud í endurskepuninni, þá Mannsins Sonur
situr á sínum veldis-stóli, einninn sitja á tólf
hásætum, og dæma þær tólf kyngvíslir Israels;

V. 25. *) Þad er: fá inngaungu í Krists ríki.

og allir þeir, sem yfirgefid hafa hús, brædur, 29.
systur, fedur, módur, konu, børn edur eignir
fyrir mínar sakir, munu fá hundradfaldt og ødl-
ast eilífa sælu. En margir þeir, sem fyrstir eru, 30.
munu verda sídastir og þeir sídustu fyrstir.

20. Kap.

I.) Jesús heldur áfram ad tala um launin, hvar uppá hljódar dæmisagan um verkamennina í víngardinum, 1—16. II.) Fyrisegir sína píni, 17—19. III.) Avítar sonu Zebedæusar og áminnir til andmøkt-ar, 20—28. IV.) Læknar tvo blinda vid Jerikó, 29—34.

Því ad Guds ríki er líkt þeim húsfødur, er 1.
fór snemma morguns ad leigja verkamenn í vín-
gard sinn; og er hann hafdi samid vid þá um 2.
hálfann eyri fyrir dagsverkid, vísadi hann þeim
í víngard sinn. Sídan géck hann út um dag- 3.
mála bil og leit nockra á torgi idjulausa. Hann 4.
sagdi til þeirra: farid þér og einninn í vín-
gard minn, og mun eg géfa ydur laun ad mak-
legleikum. Þeir fóru í víngardinn. Hann géck 5.
og út ad hádegi og nóni og gjørdi, sem fyrr.
Nær midjum aptni kom hann og út og fann 6.
enn nockra idjulausa; hann spyr: því þeir stædu
þar allann daginn og hefdust ecki ad. Þeir 7.
qvádu engann hafa leigt sig. Þá mælti hann:
farid þér einninn í víngard minn, og skulud
þér fá hvad rétt er til launa. Nú er qvøld 8.
var komid, baud eigandi víngardsins verkstjóra
sínum, ad hann skyldi kalla verkamennina og
gjalda daglaunin sérhvørjum þeirra jafn-mikil.

9. Þá komu þeir, er nær midjum aptni vóru leigd-
10. ir, og fengu hverr hálfann eyri; en er þeir komu
er fyrstir vóru leigdir, hugdu þeir, ad þeir
mundu meiri laun fá; en þeir fengu líka hverr
11. hálfann eyri; og er þeir høfdu hann medtekid,
12. tóku þeir ad mögla í móti húsbóndanum og
spurdu: því hann gjørdi þessa sídustu, sem ecki
hefdu erfidad nema eina stund dags, jafna þeim,
er allann daginn hefdu stadid sveittir ad þúngu
13. erfidi? Þá mælti hann til eins þeirra: kjæri!
ecki gjøri eg þér rángt til; hefum vid ecki sam-
14. id um hálfann eyri? taktú hvad þitt er, og far
hédan; en þessum, er síþast kom, vil eg gjalda
15. eins og þér; edur, er eg ecki sjálfur fjár míns
rádandi? edur sjerdú offjónum yfir því, ad eg
16. gjøri vel til annara. Þannig munu hinir síd-
ustu verda hinir fyrstu, og hinir fyrstu sídastir;
því margir eru kalladir, en fáir útvaldir.
17. Sídan fór Jesús upp til Jerúsalem; þá
tók hann þá tólf Lærisveina á einmæli á leid-
18. inni og mælti þannig: nú ferum vér til Jerú-
salem, og þar mun Mannsins Sonur framseld-
ur verda Biskupum og hinum Logkærdu, og
þeir munu hann til dauda dæma; sídan munu
19. þeir framselja hann heidíngjum, ad þeir hædi
hann, flengi og krossfesti; en á þridja degi
mun hann upprísa.
20. Þá kom til hans módir þeirra Zebedæusar-
sona med sonum sínum. Hun laut honum, sem
21. hún vildi beidast nockurs af honum; hann spurdi
þá: hvad viltú? hún svaradi honum: láttu þessa

V. 17. Marc. 10, 32—34.
V. 20. Marc. 10, 35—45.

sonu mína báda sitja sinn á hverja hlid þér í
ríki þíun. Jesús svaradi: þér vitid ecki hvers 22.
þér bidjid; gétid þér druckid þann bikar, sem eg
mun drecka? þeir qvádust mundu þad géta. Þá 23.
sagdi hann til þeirra: þér munúd ad sonnu
drecka minn bikar, en þad, ad sitja mér til
hægri og vinstri handar, kann eg ecki ad veita
nema þeim, er Fadir minn hefir þad fyrirhug-
ad. En er þeir tíu heyrdu þetta þycktust 24.
þeir vid þá brædur. Þá kalladi Jesús þá til 25.
sín og mælti: ydur er kunnugt, ad Konúngar
jardarinnar drottna yfir þegnum sínum, og þeir,
er lendum ráda, kreisjast þjónkunar af sínum
undirsátum; en ydar á medal skal þetta eigi svo 26.
vera, heldur skal hverr sá af ydur, er mestur
vill heita, vera ydar þjónustu-madur; og hverr 27.
hann vill vera ydar fremstur, sé hann þjón yd-
ar; eins og Mannsins Sonur kom ecki til þess 28.
ad adrir skyldu honum þjóna, heldur ad hann
þjónadi ødrum og léti líf sitt mørgum til lausnar.

Nú er þeir fóru úr Jeríkós borg, fylgdi 29.
honum mikill fjøldi fólks. Þá sátu vid veginn 30.
tveir menn blindir, og er þeir heyrdu ad Jesús
fór þar um, hrópudu þeir og mæltu: Herra!
nidji Davíds, miskuna þú ockur! en fólkid baud 31.
þeim ad þeir þegdu, en þess meir hrópudu
þeir og søgdu: Herra! nidji Davíds, miskuna
þú ockur! Þá stód Jesús vid, kalladi á þá 32.
og mælti: hvad viljid þid ad eg gjøri vid yck-
ur? þeir mæltu: þad, Herra! ad verdum sjá- 33.
andi. En Jesús aumkadist yfir þá og hrærdi 34.

V. 30. Marc. 10, 46. Lúc. 18, 35.

við augum þeirra, þá fengu þeir strax sjón og fylgdu honum.

21. Kap. I.) Jesús riður inn í Jerúsalem, 1—11. Hreinsar musterið, 12. 13. Læknar blinda og halta, 14. Forsvarar börnin, sem prísuðu hann, 15. 16. II.) Lætur fíkjutré visna, 17—22. III.) Forsvarar sinn myndugleika fyrir Öldúngunum, 23—27. Segir þeim dæmisöguna um þá tvo sonu, 28—32. Og um víngarðsmennina, er drápu sendimenn og son húsbóndans, 33—44. Prestarnir vilja leggja hendur á hann, 45. 46.

1. Þegar þeir nú nálguðust Jerúsalem og komu
til Bethphage hjá viðsmjörs fjallinu, þá sendi Je-
sús frá sér tvo af Lærisveinum sínum og mælti:
2. farið þið í þorp það, er gagnvart yckur er, og
strax munuð þið finna ösnu bundna og fola hjá
3. henni, leysið þau og færið mér; en verði nock-
uð til ydar sagt, þá segið: að Herra yckar þurfi
þeirra við; og þá mun þeim strax verða sleppt
4. við ydur. Allt þetta skéði, svo að sannaðist
5. það, er Spámaðurinn segir: "Segið Zíons
dóttur:*) Sjá! þinn Konúngur kémur til þín
6. hógvær, ríðandi ösnu og fola hennar." Læri-
sveinarnir fóru leiðar sinnar og gjörðu, sem
7. Jesús hafði fyrir þá lagt, færðu þángað ösn-
una og folann og lögðu á þau klæði sín, en hann

V. 1. Marc. 11, 1. Lúc. 19, 29. V. 2. Jóh. 12, 14—15. V. 4. Es. 62, 11. Zach. 9, 9. V. 5. *) : Jerúsalem.

steig á bak; en flestir af fólkinu breiddu klædi 8.
sín á veginn; adrir hjuggu lim af trjánum, og
strádu því á brautina. En múgurinn er und- 9.
an fór og á eptir fylgdi, hrópadi og sagdi:
styrk þú, Drottinn! þenna nidja Davíds! heill
veri þessi Drottins sendibodi! hjálpa þú, sem á
himninum byggir! Nú er þeir komu inn í 10.
Jerúsalem, vard allur borgar-lýdur uppvægur,
og spurdi: hverr þessi væri? en fólkid, er hon- 11.
um fylgdi, sagdi: þessi er Spámadurinn Jesús
frá Nazareth í Galílæu. Þá fór Jesús inn í 12.
musteri Guds, og rak út þadan þá, sem seldu
þar og keyptu; hann hratt og nidur bordum
þeirra, er med peninga okrudu og stólum þeirra,
er dúfur seldu og mælti vid þá: skrifad er: 13.
"ad mitt hús skuli vera bæna-hús, en þér hafid
gjört þad ad ræníngja-bæli." Þá vóru færdir 14.
til hans blindir og haltir í musterinu og hann
læknadi þá. En er þeir ædstu Kennimenn og 15.
hinir Löglærdu sáu þau undur, er hann gjørdi,
og ad børnin hrópudu í musterinu og søgdu:
styrk þú, Drottinn! þenna nidja Davíds! þá
reiddust þeir og søgdu vid hann: heyrir þú 16.
hvad þessir segja? þad heyri eg víst, sagdi Je-
sús; en hafid þér ecki lesid: "þú hefir tilreidt
þér lof af munni barna og brjóstmylkinga." Ad 17.
svo mæltu veik hann frá þeim og fór úr borg-
inni til Bethaníu og var þar um nóttina.

En ad morgni, er hann fór aptur til borg- 18.
arinnar, tók hann ad húngra; þá leit hann eitt 19.

V. 9. Ps. 118, 24—26. V. 13. Es. 56, 7. Jer. 7, 11. V. 16. Psálm. 8, 3. V. 18. Marc. 11, 12—24.

fíkjutréd er stód vid veginn; þángad géck hann,
en fann eckert á því nema blødin tóm; þá mælti
hann vid tréd: þad mæli eg um, ad aldrei
vaxi á þér ávøxtur framar; En fíkjutréd visn-
20. adi strax. Og er Lærisveinar hans sáu þad,
undrudust þeir og mæltu: hversu skjótt visnadi
21. eckí fíkjutréd? Þá tók Jesús til orda og
mælti: eg segi ydur satt, ef ad þér trýdud og
efudust ecki, þá mundud þér ecki einúngis gjøra
géta þetta vid fíkjutréd, heldur ef þér skipudud
fjalli þessu ad lypta sér upp og kasta sér á haf út,
22. þá mundi þad verda. Því allt þad, hvers þér
trúar-øruggir beidist, mun ydur veitt verda.
23. Nú er hann kom í musterid, søfnudust til
hans hinir ædstu Prestar og Øldúngar lýdsins
og spurdu hann: med hverjum myndugleika hann
gjørdi þetta edur hverr honum hefdi géfid þetta
24. vald? Jesús mælti: eg vil spyrja ydur eins
hlutar, og ef þér segid mér hann, mun eg og
segja ydur, med hverjum myndugleika eg gjøri
25. þetta. Hverr gaf Jóhannesi vald ad skíra?
hvert Gud edur menn? þeir íhugudu þetta og
ætludu, ad ef þeir segdu ad Gud hefdi gefid
honum þetta vald, þá mundi hann spyrja: því
26. þeir ecki hefdu trúad honum? en ad þad hafi
verid af mønnum, þordu þeir ecki fyrir alþýdu
ad segja; því allir høfdu þad fyrir satt, ad
27. Jóhannes hefdi Spámadur verid. Þá svørudu
þeir: ad þeir vissu þad ecki. Jesús sagdi þá
og vid þá: þá mun eg ecki heldur segja ydur
28. med hverjum myndugleika eg gjøri þetta. En
hvad sýnist ydur um þad: ad einn madur átti

V. 23. Marc. 11, 27. Lúc. 20, 1.

tvo sonu; hann gékk til annars og sagði: son-
ur! far þú í dag og vinn verk í víngarði mín-
um; en hann qvaðst ecki nenna því; en eptirá 29.
ydraðist hann þess og fór til verksins. Þá gékk 30.
faðirinn til hins og sagði eins við hann; hann
játti því, en fór þó hvergi. Hverr af þessum 31.
tveimur gjörði nú vilja feðursins? þeir svöruðu:
sá fyrri. Þá mælti Jesús: trúið mér, að
skattheimtendur og pútur munu fyrr koma í
Guðs ríki enn þér; því Jóhannes kom og vís- 32.
aði ydur á veg ráðvendninnar, en þér hlýdduð
honum ecki, en skattheimtendur og pútur hlýddu
honum; og þótt þér sæuð það, létuð þér þó
ecki þeirra dæmi leiða ydur til að festa trú til
hans kénninga. Eg vil segja ydur aðra dæmi- 33.
sögu: Húsbóndi nockurr plantaði víngarð, hlóð
garð um hann, þar gjörði hann vínpressu og
bygði hús mikið; síðan leigði hann víngarðinn
víngarðs-mennum og fór sjálfur úr landi; nú 34.
er leið að því, að vínberin væru fullvaxin,
sendi hann þjóna sína til víngarðs-mannanna,
að veita ávöxtunum móttöku. En víngarðs- 35.
mennirnir tóku þá höndum og börðu suma,
aðra drápu þeir og nockra lömdu þeir grjóti.
Þá sendi húsbóndinn í öðru sinni aðra þjóna 36.
fleiri enn þá fyrri; en þeir breyttu eins við
þá. Seinast sendi hann til þeirra son sinn, því 37.
hann ætlaði að þeir mundu þó bera virðingu
fyrir syni sínum; en er víngarðs-mennirnir sáu 38.
hann, tóku þeir ráð sín saman og mæltu: þetta
er erfinginn, tökum hann af lífi, svo vér náum arfi
hans. Síðan tóku þeir hann höndum, drógu 39.

V. 33. Marc. 12, 1—13. Lúc. 20, 9—19.

40. hann út úr víngardinum og drápu hann. Hvern-
inn ætlid þér nú, ad eigándi víngardsins muni
breyta vid þessa víngards-menn nær hann kém-
41. ur? Þeir mæltu: vid íllmenni þessi mun hann
ílla búa; en víngard sinn mun hann leigja ød-
rum víngards-mønnum þeim, er gjálda honum
42. ávertina í réttann tíma. Jesús mælti: þá
hafid þér aldrei lesid í bókinni helgu: "steinn
sá, er húsa-smidir útskúfudu, hann er nú horn-
steinn ordinn; af Gudi er hann til þess kjør-
43. inn, þótt oss undarlegt þyki." Þess vegna segi
eg ydur þad fyrir satt, ad Guds ríki mun frá
ydur takast, og géfast þjód þeirri, er ávøxtir,
44. sem þess undirsátum ber: hverr hann fellur á
stein þenna, mun sig slasa, en á hvern ad stein-
45. inn fellur, þann mun hann merja. En' er hin-
ir ædstu Prestar og Pharísæarnir heyrdu þess-
ar dæmisøgur, skildu þeir, ad hann meinti þetta
46. til þeirra; þá vildu þeir leggja hendur á hann,
en þordu þad þó ecki fyrir alþýdu, því allir
héldu hann ad vera Spámann.

22. Kap. I.) Jesús segir dæmisøguna um brúdkaup eins Kóngungs sonar, 1—14. II.) Urskurdar ad géfa skuli Keisaranum skatt, 15—22. III.) Hneckir mótmælum Saducæanna mót upprisunni, 23—33. IV.) Kénnir hvert sé ædsta bodordid í løgmálinu, 34—40. V.) Og ad Kristur sé ecki einúngis nidji Davíds, heldur og einninn hans Drottinn, 41—46.

V. 42. Ps. 118, 22. 23. V. 44. Es. 8, 14. 15.

Þá hóf Jesús enn að kénna þeim í dæmisøg- 1.
um og mælti: himnaríki er líkt þeim Konúngi, 2.
er héldt brúdkaup sonar síns; og sendi út þjóna 3.
sína ad bjóda bodsgéstunum til brúdkaupsins,
en þeir vildu ecki koma. Þá sendi hann í odru 4.
sinni adra þjóna, og baud þeim segja: ad hann
hefdi búid veitsluna, ad uxar hans og alid fé
væri slátrad og allt til reidu og ad þeir skyldu
koma til brúdkaupsins. En þeir skeyttu því ecki, 5.
fóru burt, einn á akur sinn og annar til sinnar
kaupverdslunar; en sumir tóku sendimennina og 6.
smánudu þá og drápu. En er Konúngurinn 7.
heyrdi þetta, vard hann reidur, sendi lid sitt
og lét taka mordíngja þessa af lífi, en brenna
borg þeirra. Sídan mælti hann vid þjóna 8.
sína: brúdkaupid er ad sonnu búid, en þeir,
sem bodnir vóru, vóru þess eigi verdir; farid 9.
því út á gatna-mót og bjódid þeim, er þér finn-
id, til brúdkaupsins. Þeir gjørdu, sem hann 10.
mælti fyrir, og sofnudu saman ollum, sem þeir
fundu, vondum og gódum, svo veitslu-skálinn
vard alskipadur bodsgéstum. En er Konúng- 11.
urinn kom ad sjá gésti sína, sá hann þar mann
nockurn, er ecki var klæddur brúdkaupsklædi.
Hann mælti vid hann: því komst þú híngad, 12.
kjæri! og klæddir þig ecki brúdkaupsklædum? en
madurinn ansádi engu. Þá baud Konúngurinn 13.
þjónum sínum: ad þeir skyldu fjotra hann á
hondum og fótum og kasta honum út í myrkrid
utan fyrir, hvar ed væri grátur og gnístur

E

V. 2. Lúc. 14, 16.

14. kanna. Því margir eru kallaðir, en fáir
– útvaldir.
15. Þá báru Pharísæar ráð sín saman um
það, hverninn þeir kynnu að veiða hann í orð=
16. um og sendu til hans nockra af Lærisveinum
sínum og fylgdar=monnum Heródesar, er spyrja
skyldu á þessa leið: Meistari! oss er það kunn=
ugt að þú ert sannorður og kennir Guðs vil=
ja einlæglega, þú mælir ecki, sem hverr vill
17. heyra, og ser ecki að mannvyrðingum; seig oss
nú hvað þér sýnist, hvert það leyfist að gjalda
18. Keisaranum skatt eður ecki. En er Jesús skildi
slættskap þeirra, mælti hann: Því freistið þér
19. mín? hræsnarar! sýnið mér skattpeninginn.
Þeir færðu honum þá pening þann, er stóð hálf=
20. ann eyri. Þá spurði hann: hvers að væri
21. mind sú og nafn, er á honum stóð; þeir sögðu
honum það væri Keisarans. Þá mælti Jesús
við þá: gjaldið þá Keisaranum hvað Keisarans
22. er og Guði hvað Guðs er. En er þeir
heyrðu það, undruðust þeir, yfirgáfu hann og
fóru þaðan.
23. Þenna sama dag komu til hans Sadúcæ=
ar, hverjir að neita uppreisu framliðinna, legðu
24. fyrir hann þessa spurningu og sögðu: Meistari!
Móses baud: "að ef nockurr dæi barnlaus, þá
skyldi bróðir hans fá konu hans til ekta, til
25. þess að viðhalda ættlegg bróður síns." En
hér vóru með oss sjø bræður; hinn fyrsti géck að
eiga konu og deyði barnlaus, eptirlét konu sína

V. 15. Marc. 12, 13. Lúc. 20, 20.
V. 23. Marc. 12, 18. Lúc. 20, 27. Post. Gb. 23, 6. 8. V. 24. 5 Mós. 25, 5—10.

bródur sínum; eins hinn annar og þridji, allt 26.
til þess sjøunda; en seinast þeirra allra dó kon- 27.
an. Hvers þessara sjø eiginkona skal hún 28.
verda í upprisunni, því þeir hefdu átt hana all-
ir? Jesús svaradi þeim: þér villist og skiljid 29.
ecki Ritninguna, ecki heldur vitid þér hvílíkur
ad sé máttur Guds; því í ødru lífi munu 30.
hverki karlar né konur giptast, heldur eru þeir
eins og englar Guds á himnum. En hvad vid- 31.
víkur upprisu framlidinna, hvert hafid þér þá
ecki lesid þad, er Gud hefir sagt ydur: "Eg 32.
er Gud Abrahams, Gud Isaaks og Gud Ja-
kobs." Nú er Gud ecki Gud daudra heldur
lifendra; en er fólkid heyrdi þetta undradist 33.
þad hans kénníngu.

Nú er Pharísæar vissu ad hann hafdi gért 34.
Sadúcæa ordlausa, héldu þeir rád sitt; og 35.
madur nockurr leglesinn spurdi hann til ad freista
hans og sagdi: Meistari! hvert er þad ædsta 36.
bod í legmálinu? Jesús svaradi honum: "elsk- 37.
adu Drottinn Gud þinn af øllu hjarta, allri sálu
þinni og øllu hugskoti þínu." Þetta er hid 38.
ædsta og helzta bod, og þessu líkt er hitt: 39.
"elska náúnga þinn sem sjálfann þig." Í þess- 40.
um tveimur bodum er innifalid allt þad, er
Móses og Spámennirnir hafa kénnt.

En er Pharísæar vóru samankomnir, spurdi 41.
Jesús þá ad og mælti: hverrar ættar ætlid 42.
þér ad Kristur muni vera? þeir svorudu: af



V. 32. 2 Mós. 3, 6. 15. V. 34. Marc. 12, 28.
V. 35. Lúc. 10, 25. V 37. 5 Mós. 6, 5. V. 39.
3 Mós. 19, 18. V. 41. Marc. 12, 35. Lúc. 20, 41.

43. Davíds ætt. Jesús mælti: því kallar Davíð
hann þá Drottinn í andagift sinni, er hann seg=
44. ir: "Drottinn mælti svo við minn Drottinn:
sit þú mér til hægri handar, þángað til eg hefi
45. gjört óvini þína að skör fóta þinna." Þareð
nú Davíð kallar hann Drottinn, hvernig kann
46. hann þá hans niðji að vera? Þessu gat enginn
einu orði svarað, eigi heldur dirfðist nockurr
upp frá þessu að spyrja hann nockurs.

23. Kap. I.) Jesús kennir fólkinn að blóða kenníngu Pharísæanna, en ecki taka þeirra breytni sér til munsturs, 1—12. Avítar Pharísæana, 13—33. II.) Fyrisegir Jerúsalems eydileggíngu, 34—39.

1. Þá hóf Jesús svo ræðu sína við Lærisveina sína
2. og lýðinn: Þeir leglærðu og Pharísæar út=
3. þýða ydur Mósis leg; öllu því, er þeir bjóða
ydur, skuluð þér hlýða, en eptir framferði
þeirra skuluð þér ecki breyta, því þeir bjóða
4. það, er þeir sjálfir ecki halda. Þeir binda
mennum byrdar þúngar og erfiðar að bera
og leggja þeim á herðar, en sjálfir vilja þeir
5. ecki hræra við þeim fingri sínum. Allt hvað
þeir gjöra, fremja þeir til hróss sér, þeir stæcka
minnisblöð sín og breidka fegur klæða sinna.
6. Þeir vilja efstir sitja að boði hverju, og í sam=
7. kundum; þeir girnast að láta qvedja sig á torg=
8. um og meistarar að nefnast. En þér skuluð
ecki láta ydur meistara kalla, því einn er ydar

V. 43. Ps. 110, 1. V. 5. 4 Mós. 15, 38. 5 Mós. 22, 12.

meistari, en þér erud brædur. Engann skulud 9.
þér heldur fedur ydar kalla í heimi þessum;
því einn er Fadir ydar, sá á himnum er.
Ecki heldur skulud þér láta ydur frædara nefna, 10.
því einn er ydar Frædari, sem er Kristur.
Hverr, sem vill vera ydar mestur, hann sé 11.
þjón þinna; því hverr sig sjálfann upphefur, 12.
mun nidurlægjast, en hverr sig sjálfann lítillæck-
ar, hann mun upphafinn verda. O! þér vesælu 13.
leglærdir og Pharísæar! þér hræsnarar! sem fé-
flettid eckjur undir yfirhylmíngu lángra bæna,
þar fyrir mun og ydar hegníng þýngri verda.
O þér vesælu loglærdir og Pharísæar! þér hræsn- 14.
arar! sem hamlid mennum frá því ad edlast
Guds ríki, og sjálfir hirdid þér ecki um ad
njóta þess og hindrid þá, sem þess vilja leita.
O þér vesælu loglærdir og Pharísæar! þér hræsn- 15.
arar! sem farid um lend oll og hef til þess ad
fá nockurn til ad taka vid trú ydvarri, og ad
því búnu gjerid þér hann ad barni helvítis,
hálfu verra enn þér sjálfir erud. O þér vesælu! 16.
þér blindu leidsegumenn! sem kénnid: ad þótt
einn sverji vid musterid, þá sé sá eidur ógyldur,
en ef einhverr sver vid gullid, sem er í muster-
inu, þá sé sá eidur gyldur. Þér dárar og 17.
blindir! hvert er meira verdt? gullid edur must-
erid, sem gullid helgar? og enn framar segid
þér: ad hverr, sem sver vid altarid, þá sé sá 18.
eidur ónýtur, en hverr, sem sver vid fórnina á
altarinu, þá sé hann skyldur ad halda eid sinn.
Þér heimskir og blindir! hvert er þá meira 19.
verdt, fórnin edur altarid, sem fórnina helgar?
Hverr hann nú sver vid altarid, sver bædi vid 20.

21. Það og við allt, sem á því er, og hverr hann
sver við musterið, sver bædi við það og við
22. hann, sem býr í því; og hverr, sem sver við
himininn, hann sver við hásæti Guðs og við
23. hann, er í því situr. Æ þér armir Pharísæ-
ar og loglærdir! þér hræsnarar! sem gjaldið tí-
und af myntu, anís og kúmeni en hirdið ecki
um það í logmálinu, sem mest á ríður, sem er
rettvísi, góðfýsi og trú; þetta sæmdi ydur að
vísu að gjora, en hitt ecki ógjort að láta.
24. Þér blindir leidsogumenn! sem frásíid fluguna
25. en svelgid úlfaldann. Þér vesælir loglærdir og
Pharísæar! þér hræsnarar! sem fægið utan
bikara ydra og bord-diska, sem fullir eru matar
þess og dryckjar, sem með ráni og ócéttindum
26. er abladur. Þú blindur Pharísæi! fæg fyrst
bikar þinn og bord-disk innan, þá mun hann
27. og utan hreinn verda. Þér vesælu Pharísæar
og loglærdir! þér hræsnarar! likir erud þér kolk-
udum grofum framlidinna, sem að utanverdu
eru að sonnu fallegar útlits, en innan eru þær
fullar með daudra manna bein og allskyns ó-
28. hreinindi; þannig sýnist þér nú hið ytra gódir
menn að vera, en innan erud þér fullir hræsni
29. og óréttinda. Æ þér vesælir loglærdir og Pha-
rísæar! þér hræsnarar! sem uppbyggið legstadi
Spámannanna og prýdið leidi helgra manna
30. og segið: að hefdud þér lifað á dogum fedra
ydvarra, skyldud þér ecki hafa verið með þeim
31. að lífláti Spámannanna; þannig vidurkénnið
þér sjálfir að þér séud nidjar þeirra, sem tóku
32. Spámennina af lífi; og þó bætið þér á það,
33. sem brast á vondsku fedra ydvarra. Þér hr.ck-

vísu illmenni! hverninn getið þér umflúið helvítis straff? Því*) sjá! eg mun senda til 34.
ydar Spámenn, spekínga og Lærimeistara, suma
munuð þér lífláta og á krofs festa, suma munuð
þér flengja í samkunduhúsum ydrum, og hrekja
úr einni borg í adra. Þannig munuð 35.
þér sekir verda um líflát allra Guðs manna, sem
saklausir eru af dögum teknir, frá mordi Abels
ens góda allt til Zachariasar Barachiassonar,
hvern þér drápuð á milli altaris og musteris.
Trúið mér, ad þjóð þessi mun fyrir allt það 36.
straffuð verda.

Þú Jerúsalem! sem líflætur Spámenn- 37.
ina, grýtir Guðs sendiboða, hversu opt hefi eg
viljað samansafna innbyggjurum þínum til mín,
eins og þegar hænan safnar úngum sínum und-
ir vængi sér, en þér hafið ekki viljað það. Þar 38.
fyrir skal ydar bústaður eydilagður verda. En 39.
það segi eg ydur fyrir satt: ad þér munuð ekki
sjá mig hédanaf, þángað til þér segið: velkom-
inn veri oss sá, sem kémur í Drottins erindi!

Jesús spáir um musterisins, 1. 2. Jerúsa- 24. Kap.
lems, 3—28 og heimsins eydileggíngu,
29—36. og rædur til árvekni, 37—51.

Nú er Jesús gékk út úr musterinu, þá syndu 1.
Lærisveinar hans honum byggíngu þess; þá 2.
mælti hann: sannlega segi eg ydur: allt þetta,
er þér sjáið, mun svo eldúngis eydilagt verda,
ad ekki mun þar steinn yfir steini vera. Og 3.

V. 34. *. Segir guðleg speki. sjá Lúc. 11, 49. 50.
V. 1. Marc. 13, 1. Lúc. 21, 5.

þegar hann hafdi sett sig nidur á olíu-fjallinu,
gengu Lærisveinar hans til hans einslega og
sögdu: seig oss hvenær þetta mun framkoma,
og hvert vera mun merki þinnar tilkomu og
4. enda veraldarinnar. Jesús mælti: varist þad
5. ad enginn villi ydur, því margir munu koma
undir mínu nafni, og segja sig Krist ad vera,
6. og munu marga afvega leida. En nær þér
fréttid styrjold og ófridar tídindi, þá hrædist þó
ecki; því þetta hlýtur allt ad ské, en þó er
7. enn ecki endirinn kominn, því ein þjód mun rísa
mót annari, og eitt ríki mót ödru, þá mun
og í ýmsum stödum vera hallæri, drepsótt og
8. jardskjálftar og þetta mun vera birjan eymd-
9. anna Þá munu menn selja ydur í ánaud og
af lífi taka og allar þjódir munu ydur hata
10. fyrir mínar sakir. Margir munu þá kasta
trú sinni, hverr annann framselja og ad hat-
11. ri hafa; þá munu og uppkoma margir falskénn-
12. endur, þeir er marga munu afvega leida og sak-
ir vaxandi rángsleitni mun kærleiki margra
13. kólna. En hverr, sem stödugur stendur allt til
14. enda, hann mun hólpinn verda. En þessi mín
kénníng um Guds ríki mun öllum þjódum
bodud verda þeim til uppfrædíngar; og þá mun
15. endirinn koma. En nær þér sjáid hina vidur-
styggilegu eydileggíngu í þeim helga stad, um
hverja Daniel spád hefir (hann, sem les þad
16. géfi gaum ad því) þá flýi hverr sá, sem í
17. Júdæu er til fjalla; hverr sá, sem er á hús-
þaki, varist hann ad fara ofan í hús sitt til
18. ad taka nockud þadan. Hverr hann er á ak-

V. 15. Dan. 9, 26. 27.

ti, snúi hann ecki til baka ad taka klædi sín.
Æ! vesælar eru á þeim tíma konur þúngadar 19.
og þær, er børn hafa á brjósti. En bidjid þér 20.
ad ydar flótti skuli ecki ské um vetur edur á
hvíldar-degi; því þá mun vera svostór hørmúng, 21.
ad enginn hefir þvílík verid frá birjun heims
til þessarar tídar og ecki heldur mun sídar
verda; og nema þessir dagar styttist mundi 22.
enginn lísi halda, en fyrir útvaldra sakir mun
þessi tími styttast. Þó nockurr segi ydur þá, 23.
ad Kristur sé hér edur þar, þá skulud þér ecki
trúa; því ad margir falskristar og falskénnend- 24.
ur munu þá uppkoma og gjøra stór undur og
tákn, svo ad í villur munu leidast, ef þad ské
kynni, jafnvel útvaldir. Gjætid nú þess, ad eg 25.
hefi sagt ydur þetta fyrir. Þegar þeir nú seg- 26.
ja ydur, ad hann sé í eydimerku þá farid
ecki þángad og þegar þeir segja, ad hann sé í
leyni-húsum, þá trúid því ecki. Því eins skjótt 27.
og eldíng flýgur frá einu skauti himins til ann-
ars, eins mun verda tilkyma Mannsins Son-
ar. Þar, sem hræið er, þángad munu ernirn- 28.
ir safnast. En strax eptir þessa hørmúng mun 29.
sól sortna og túngl missa birtu sinnar, en stjørn-
ur munu hrapa af himni og kraptar himnanna
hrærast. Þá mun teikn Mannsins Sonar birt- 30.
ast á himni, og allar þjódir munu óttast, nær
þær sjá hann komanda í skýum himins med
veldi og vegsemd mikilli. Þá mun hann senda 31.
Engla sína med hvellum lúdri til ad samansafna
hans ástfólgnum úr øllum áttum, frá einu

V 28. Habak. 1, 8. Job. 39, 32. 33.
V. 29. Jéci 2, 10. Es. 13, 10. Ezech 32, 7.

32. heims-skauti til annars. Takid ydur dæmi af
fíkjutré þessu, nær greinir þess eru hvalar ordn-
ar og blødin taka út ad springa, þá vitid þér
33. ad sumarid er í nánd; svo fer og nær þér sjáid
allt þetta, þá megid þér vita ad þetta mun
34. vera nærri og fyrir dyrum. Sannlega segi eg
ydur, ad þessi manns-aldur mun ecki umlídi-
inn verda ádur enn allt þetta kémur fram.
35. Fyrr mun himin og jord forgánga enn mín ord
36. rætist ecki. En þann dag og tíma veit enginn
fyrir og ecki Englar á himnum, nema Fadir-
37. inn einn. En eins og dagar Nóa vóru, eins
38. mun tilkoma Mannsins Sonar verda. Því
eins og menn fyrir flódid héldu sig vel ad mat
og dryck, karlar og konur giptust, allt til þess
39. dags á hverjum Nói géck í örkina og vissu ecki
fyrr af enn flódid kom og tók þá alla, eins
mun og verda tilkoma Mannsins Sonar.
40. Tveir munu þá á akri vera, sá annar mun
41. medtekinn verda, hinn eptirskilinn; tvær konur
munu þá mala í qvern-húsi, önnur þeirra mun
42. verda medtekin, hin eptirskilin. Vakid því
vakandi, þar þér vitid ecki nær Herra ydar muni
43. koma; en þad vitid þér, ad ef húsbóndinn
vissi um hverja stund nætur ad þjófurinn
kjæmi, þá mundi hann vaka, og ecki leyfa ad
44. brotin væru upp hús sín. Verid þér því vid-
búnir, því Mannsins Sonur mun koma þegar
45. þér sízt ætlid; sæll er þjón sá, sem sakir trú-
mennsku sinnar og forsjálni er settur af húss-
bónda sínum yfir skulda-lid hans, ad gefa því
46. mat í réttann tíma, ef ad húsbóndinn, nær
hann kémur, finnur ad hann gjörir þetta verk

sitt dyggilega; því trúid mér ad hann mun 47.
setja hann yfir allar eigur sínar. En sé nú 48.
þjón þessi ótrúr og hugsi ad húsbóndi sinn
muni ecki svo brádum koma, taki sídan ad ber- 49.
ja á samþjónum sínum og hafa samneyti vid
ofdryckjumenn, þá mun húsbóndi hans koma 50.
þegar hann varir sem minnst, og á þeirri
stund, er hann ætladi sízt og láta hann mæta 51.
hørdum ressíngum og gjera hlut hans jafnann
augna-þjónum, medal hverra vera mun grátur
og gnístran tanna.

## 25. Kap.

I.) Jesús heldur áfram ad tala um árvekn-
ina í dæmisøgunni um þær forsjálu og
óforsjálu meyar, 1—13. sem og um þjón-
ustu trúskap í dæmisøgunni um húsbónd-
ann, er féck þjónum sínum fé sitt í hend-
ur, 14—30. II.) Utmálar dóma-dag,
31—46.

Eins er því varid med Guds ríki og med tíu 1.
meyar, sem tóku lampa sína og fóru á móti
brúdgumanum: fimm af þeim vóru forsjálar en 2.
fimm óforsjálar. Þær óforsjálu tóku ad sønnu 3.
lampa sína, en ecki tóku þær vidsmjør med sér.
En þær forsjálu tóku vidsmjør med í kérum sín- 4.
um. En er frestadist koma brúdgumans, syfjadi 5.
þær allar og fóru ad sofa; en um midnætti var 6.
kallad og sagt: ad brúdguminn kjæmi og ad
þær skyldu fara út á móti honum. Þá vokn- 7.
udu allar meyarnar og tóku ad búa lampa
sína. Þá søgdu þær óforsjálu til hinna for- 8.
sjálu: géfid oss nockud af ydar vidsmjeri, því

9. annars munu ljós vor slockna. Hinar forsjálu
svarudu: vér erum hræddar um ad þad muni
ecki endast handa oss og ydur; farid heldur til
þeirra er vidsmjer selja, og kaupid þar vidsmjer
10. handa ydur. En er þær voru burtfarnar til
kaupa þessara þá kom brúdguminn og þær,
sem tilbúnar vóru, fylgdu honum í brúdkaups=
11. stofuna; sídan var dyrunum lokad. Um sídir
komu og hinar meyarnar og sögdu: Herra!
12. Herra! ljúk upp fyrir oss. En hann mælti:
13. eg kannast eldúngis ecki vid ydur. Verid þar=
fyrir vakandi, því þér vitid ecki daginn né stund=
14. ina.*) Eins er þessu háttad og manni þeim,
er ferdadist utanlands, og kalladi ádur til sín
þjóna sína og seldi þeim í hendur fé sitt.
15. Einum feck hann fimm hundrud hundrada, edr=
rum tvo hundrud hundrada og einum þridja
eitt hundrad hundrada, eptir sérhvers þeirra
dugnadi og ad svo gjördu fór hann strax leid=
16. ar sinnar. Þá fór sá, er vid fimm hundrud=
um hundrada tekid hafdi, vardi þeim til kaup=
17. eyris og ávaxtadi þau um helfíng. Eins gjördi
sá, er vid tveim hundrudum hundrada hafdi
18. tekid, ad hann græddi á þeim önnur tvo. En
sá, er vid því eina hafdi tekid, fór og fól fé
19. húsbónda síns í jördu. En er lángur tími var
lidinn, kom húsbóndinn heim, og krafdist ad
20. þeir skyldu gjöra skil á fénu. Þá kom sá, er
vid fimm hundrudum hundrada hafdi tekid, og
bar fram önnur fimm hundrud hundrada og
mælti: Herra! þú seldir mér í hendur fimm
hundrud hundrada, á þeim hef eg unnid önnur

V. 13. *) nl. nær Mannsins Sonur muni koma.

sinum. Herrann mælti: vel hefur þú gjert, þú 21.
gódi þjón! þú varst trúr í litlu. eg mun setja
þig yfir melra, vertú í bodi mínu. Nú kom 22.
sá, er hafdi fengid tvø hundrud hundrada og
mælti: Herra! tvø hundrud hundrada fickstu
mér í hendur, á þeim hefi eg grædt önnur tvø.
Þá mælti Herrann: vel líkar mér vid þig, þú 23.
trúi og gódi þjón! þú varst trúr yfir litlu, nú
mun eg setja þig yfir mikid; vertú í bodi mínu.
Sídan kom sá seam, sem tekid hafdi vid einu 24.
hundradi hundrada og mælti: eg vissi, Herra!
ad þú varst hardur madur, sem uppsker hvar
þú ecki sáir og tínir saman, hvar þú strádir
ecki; þetta hræddumst eg og fór því og fól þitt 25.
hundrad hundrada í jørdu, lít nú á, þar hefir
þú þitt. Þá svaradi Herrann: þú ótrúi og lati 26.
þræll! þar ed þú vissir ad eg uppsker hvar eg
ecki sái og tíni saman þar jeg eckí strái, þá 27.
áttir þú ad fá fé mitt í hendur verdslunar-
mønnum, svo ad nær eg kjæmi kynni eg ad
taka vid því med áverti. Takid því af honum 28.
hans hundrad hundrada og seljid þeim í hend-
ur, sem hefir tíu hundrud hundrada; sérhver- 29.
jum, sem hefir, honum mun veitt verda, svo
hann hafi yfirfljótanlegt; en frá þeim, sem ecki
hefir, mun og þad litla takast, er hann á; en 30.
þessum vonda þræli skulud þér varpa í mirkrid
fyrir utan, hvar ed vera mun grátur og gníst-
ur tanna.

Þegar Mannsins Sonur kémur í dýrd 31.
sinni og allir Englar med honum, þá mun hann
sitja í sínu dýrdlega hásæti og allar þjódir 32.

munu safnast til hans; hann mun adskilja þá*)
33. eins og þeggr hirdir skilur saudi frá hefrum, og
skipa saudunum sér til hægri, en hefrunum til
34. vinstri hlidar; þá mun Konúngurinn segja vid
þá, sem eru honum til hægri hlidar: komid, þér
ástvinir míns Fedurs! og eignist þad ríki, sem
35. ydur var búid frá upphafi heimsins. Matþurfi
var eg og þér veittud mér fædu; þyrstur var
eg og þér gáfud mér ad drecka; gestur var
36. eg og þér hýstud mig; klædfár og þér gáfud
mér føt; sjúkur og þér hjúkrudud mér; í dí-
37. blissu og þér vitjudud mín. Þá munu Guds
vinir svara: Herra! nær sáum vér þig matþurfa
og veittum þér fædu? þyrstann og gáfum þér
38. ad drecka? gest og hýstum þig? klædfáann og
39. gáfum þér føt? nær sáum vér þig sjúkann ed-
40. ur í mirkvastofu og vitjudum þín? Þá mun
Konúngurinn svara: eg segi ydur þad satt: ad
hvad þér gjørdud vid einn af þessum minnstu
41. brædrum mínum, þad hafid þér mér gjørt. Síd-
an mun hann segja vid þá, sem ad eru hon-
um til vinstri hlidar: farid frá mér bølvadir í
þann eilífa eld, sem búinn er djøflinum og ár-
42. um hans, því ecki gáfud þér mér fædu, þá eg
43. var matþurfi; ecki þyrstum ad drecka; ecki hýst-
ud þér mig hælislausann; ecki gáfud þér mér
klædfáum føt og ecki vitjudud þér mín í fángelsi.
44. Þá munu þeir svara: Herra! nær sáum vér
þig matþurfa, edur þyrstann, hælislausann, ed-
ur klædfáann, sjúkann edur í fángelsi, ad vér ecki
45. hjálpudum þér. En hann mun svara: sannlega
segi eg ydur, þad, sem þér ecki gérdud einum

V. 32. *) nl. þá gódu frá þeim vondu.

af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörð-
uð þér ecki heldur mér. Þá munu þessir fara 46.
til ævaranlegrar qvala, en þeir góðu til eilífrar sælu.

# 26. Kap.

I.) Jésús talar um sína pínu, 1. 2. II.) Gyð-
ingar halda ráðagiörð um að deyða han,
3—5. III.) Hann forsvarar qvinnu þá,
er smyr hann, 6—13. IV.) Júdas býð-
ur sig til að svíkja Jesum, 14—16. Je-
sús etur Páskalambið og segir hverr muni
svíkja sig, 17—25. Innsetur Qvöldmál-
tíðar Sakramentið, 26—29. V.) Geng-
ur til viðsmjörs-viðar fiallsins og fyrirseg-
ir Péturs hrösun, 30—35. VI.) Jesú
pína í grasgarðinum, 36—44. VII.)
Hann er svikinn og tekinn höndum, 45
—50. Pétur sómir vorn, Lærisveinarnir
flýa, 51—56. Jesús er færður til Kaí-
phasar, játar sig Guðs Son að vera, er
fordæmdur, spóttaður og sleginn, 57—68.
VIII.) Afneitaður af Pétri, 69—75.

Nú er Jesús hafði lokið þessari ræðu, mælti 1.
hann við Lærisveina sína: þér vitið, að eptir 2.
tvo daga eru Páskar; þá mun Mannsins Son-
ur ofurseldur verða, að hann krossfestist.

Um þetta bil komu saman þeir æðstu 3.
Kénnimenn lýðsins og lögklærðir í garði Höfuð-
prestsins, er Kaifas hét, og gjörðu ráð sitt hvern- 4.
ig þeir gjætu fengið Jesúm hendlaðann með
svikum og tekið hann, af lífi og sýndist þeim 5.

V. 1. Marc. 14, 1. Lúc. 22, 1.

ad ecki mundi rád ad gjøra þetta á hátídinni,
ad ecki yrdi uppþlaup medal fólksins.
6. Þegar Jesús var í Bethaníu í húsi Sí-
7. monar líkþráa, kom til hans kona nockur med
flösku af dýrmætum smyrslum, þeim hellti hún
8. yfir hefud hans, er hann var ad mat; en er
Lærisveinar hans sáu þetta, mislíkadi þeim þad
9. og mæltu: hvar til skal þessi kostnadur? þessi
smyrsli hefdu kunnad ad seljast miklu verdi og
10. géfast svo fátækum monnum. En er Jesús vissi
þad mælti hann: því amist þér vid konu þess-
11. ari? vel gjørdi hún til mín; fátæka munud þér
12. ætíd hjá ydur hafa, en mig ecki; med þessum
smyrslum smurdi hún mig til minnar greftrun-
13. ar; trúid mér, ad hvar um heim, sem saga
mín sogd verdur, mun og þess, er hún gjørdi,
henni til sæmdar gétid verda.
14. Um þetta bil fór einn af þeim tólf, er
Júdas hét frá Karioth, til enna ædstu kénni-
15. manna og spurdi þá: hvad þeir vildu géfa
sér til ad koma honum á þeirra vald; en þeir
16. greiddu honum níutíu og sex aura silfurs og
upp frá þessu leitadi hann lags ad svíkja Jesúm.
17. En fyrsta hátídardag enna ósýrdu braudanna
gengu Lærisveinarnir til Jesú og spurdu: hvar
18. viltú ad vér matbúum þér Páskalambid? hann
mælti: farid þér í borgina til manns nockurs
og segid honum: svo segir Meistarinn: minn
tími er nálægur, hjá þér vil eg halda Páska
19. med Lærisveinum mínum. Lærisveinarnir gjørdu,
sem hann baud þeim, og efnudu þar til páska
20. veitslu. Og er qvøld var komid, settist hann

V. 17. Marc. 14, 12. Lúc. 22, 7.

til borðs ásamt þeim tólf Lærisveinum sínum.
Nú er þeir vóru undir borð komnir, tók hann 21.
svo til orða: trúið mér: að einn af yður mun
svíkja mig; og er þeir heyrðu það, urðu þeir 22.
mjeg hryggvir og spurðu hann, hverr fyrir sig,
með svofeldum orðum: hvert mun eg verða það
Herra! hann svaraði: sá sem réttir hendina í 23.
fatið með mér, hann mun svíkja mig. Sonur 24.
Mannsins mun að sönnu láta líf sitt, eins og
því er spáð fyrir honum, en vei þeim manni, er
svíkur hann! betra væri honum að hann aldrei
væri fæddur. Þá spurði Júdas einninn, sá er 25.
sveik hann: hvert er eg það, Herra? en Jesús
játti því. Þegar þeir nú sátu undir borðum, 26.
þá tók Jesús brauðið, gjerði Guði þackir,
braut það síðan og skipti því með Lærisveinum
sínum og mælti: takið og etið, þetta er minn
líkhami. Síðan tók hann bikarinn, gjerði 27.
Guði þackir, gaf þeim hann og mælti: dreckið
hér af allir; þetta er mitt blóð með hverju 28.
þinn nýi sáttmálinn verður staðfestur, og sem
fyrir marga mun úthellast, til þess að þeir
öðlist qvittun synda sinna. En eg segi yður 29.
það satt, að eg mun ecki héðan í frá vín drecka,
til þess er eg dreck með yður annarslags vín í
ríki míns Föðurs.

Þegar þeir höfðu lofsaunginn súngið, fóru 30.
þeir til olíufjallsins. Þá mælti Jesús: á þess- 31.
ari nóttu munuð þér allir yfirgéfa mig, eins og
sagt er í Ritníngunni: "nær eg deyði hirðirinn,
mun hjörðin tvístrast;" en eptir það að eg er 32.

F

V. 31. Zach. 13, 7.

uppriſinn, mun eg verda kominn á undan ydur
33. til Galílæu. Þá svaradi Pétur honum: þótt
allir yfirgéfi þig, skal eg samt aldrei yfirgéfa
34. þig. Jesús svaradi: eg segi þér þad satt, ad
á þessari nóttu, ádur enn haninn gélur, muntú
35. þrisvar afneita mér. Þá mælti Pétur: þótt
eg ætti ad láta líſid med þér, vil eg þó ecki yfir-
géfa þig. Hid sama sögdu og allir Lærisveinarnir.
36. Sídan kom Jesús med þeim til þess stad-
ar, er hét Gethsemane, þá mælti hann til Læri-
sveina sinna: bídid þér hér á medan eg fer og
37. gjöri bæn mína; en Pétur og þá tvo sonu Zebe-
dæusar tók hann med sér; þá tók hann ad hrigg-
38. jast, og mjög hármþrúnginn ad verda; og sagdi:
eg er í daudans ángist, bídid hér og vakid med
39. mér. Þá géck hann litlu lengra fram, féll
fram á sína ásjónu, og bad á þennann hátt:
Fadir minn! ef skéd gétur, þá víki frá mér
þessi kaleikur, þó ecki, sem eg vil, heldur, sem
40. þú vilt! Sídan kom hann aptur til Lærisveina
sinna, og fann þá sofandi; þá taladi hann til
Péturs á þessa leid: gátud þér þá ecki vakad
41. med mér eina stund? vakid og bidjid ad ydur
ecki fallist hugur vid yfirstandandi voda,
andinn er ad sönnu reidubúinn, en holdid er
42. veikt*). Þá fór hann í ödru sinni, og gjördi
bæn sína á þessa leid: Fadir minn! ef þad er
ecki mögulegt ad þessi kaleikur víki frá mér,
án þess eg drecki hann, þá verdi þinn vilji!
43. Sídan kom hann aptur, og fann þá í ödru

V. 36. Marc. 14, 32. Lúc. 22, 39.
V. 41. *) Þ. e.: ydar vilji er ad sönnu gódur, en ydur vantar traptana.

sinni sofandi; því svefnþúngi mikill var fallinn
á augu þeirra; þá fór hann enn frá þeim, og 44.
gjördi bæn sína í þridja sinni með sömu orðum
og fyrr. Þá kom hann enn til Lærisveina sinna 45.
og mælti: ætlið þér nú alltaf að sofa og hvílast?
sjáið! að sá tími er nú fyrir hendi, að
Mannsins Sonur mun verða framseldur á vald
vondra manna; standið upp og förum héðan, sá 46.
er í nánd, er mig svíkur.
Meðan hann var nú þetta að mæla, kom 47.
Júdas, einn af þeim tólf, og með honum
flockur mikill, búinn með sverðum og forkum.
Þetta lið höfðu sendt þeir æðstu Prestar og
Öldúngar lýðsins; en sá, er sveik hann, bað þá 48.
hafa það til merks, að sá, er hann kyssti,
hann væri Jesús, þann skyldu þeir höndla; og 49.
strax gékk hann að Jesú og mælti: heill, Meistari!
og mynntist við hann. Jesús svaraði: 50.
vinur! því ertú hér kominn? Þá gengu þeir
til Jesú, lögðu hendur á hann og gripu hann.
En einn af fylgdar-mönnum Jesú brá sverði 51.
og hjó eyrað af þjónustumanni ens æðsta Prests.
Þá sagði Jesús til hans: slíðra þú sverð þitt; 52.
þeir er með vopnum vega, munu og fyri vopnum
falla. Eða meinar þú ecki, að ef eg bæði 53.
Föður minn, mundi hann senda mér meir enn
tólf fylkíngar Engla; en þetta hlýtur að 54.
ské, svo það komi fram, sem um mig hefir
spáð verið. Um þetta sama bil mælti Jesús 55.
við flockinn: þér eruð farnir út að höndla mig
með sverðum og forkum, eins og ræníngja; en
á hverjum degi hefi eg þó hjá yður verið, set-

id og kénnt í musterinu og þó hafid þér ecki
56. vogad ad grípa mig. En þetta allt er skéd,
svo þad rætist, er Spámennirnir hafa sagt.
Þá yfirgáfu hann allir Lærisveinar hans og flýdu.
57. En þeir, sem hendludu Jesúm, leiddu
hann til Kaiphasar ædsta Prests, hvar skrift-
58. lærdir og Öldúngarnir vóru samankomnir; en
Pétur fylgdi álengdar á eptir, allt ad gardi ens
ædsta Prests. Þar géck hann inn og settist
medal þjónustu-mannanna, til þess hann sæi
59. hverr endir þar á yrdi. En þeir ædstu Prest-
ar, Öldúngarnir og allt hid mikla Rád, leit-
udu ljúgvitna gégn Jesú, ad þeir kynnu ad
60. dæma hann til dauda, en fundu eckert saknæmt
um hann, jafnvel þótt margir ljúgvottar kjæmu
fram. Sídast komu fram tveir ljúgvottar þeir,
61. er sögdust hafa heyrt hann segja: eg gét brot-
id musteri Guds og byggt þad aptur innan
62. þriggja daga. Þá stód upp sá ædsti Kénni-
madur og mælti: svarar þú engu til þeirra
63. stórmæla, sem þessir ásaka þig um? en Jesús
þagdi. Þá mælti hinn ædsti Prestur: eg særi
þig vid enn eilífa Gud, ad þú segir oss þad,
64. ef þú ert Keistur Sonur Guds. Jesús svar-
adi: svo er, sem þú sagdir, en trúid mér: ad
eptir þetta munud þér sjá mig sitjanda til
hægri handar ens alvalda Guds og komanda
65. á skýum himins. Þá reyf hinn ædsti Kénni-
madur sín klædi og mælti: hann gudlastar;
hvad þurfum vér nú framar vitnanna vid? nú
66. heyrdud þér sjálfir hans gudlöstun. Hvad lítst
ydur? en þeir qvádu hann allir dauda sekann.
67. Þá hræktu þeir í andlit hönum og slóu hann,

sumir með knefum og sumir með lófum og 68.
mæltu: spáðu nú, Kristur! hverr var það, sem
sló þig?

Nú er Pétur sat utarlega í garðinum, 69.
kom til hans ambátt nockur og mælti: þú varst
með Jesú enum galverska! en hann neitaði því 70.
svo allir heyrðu og mælti: ecki veit eg hvað það
er, sem þú talar um. En er hann géck út í 71.
fordyrið, þá leit hann ennur ambátt og mælti
við þá, sem hjá vóru: þessi maður var með
Jesú enum naðverska; en hann neitaði aptur 72.
með eiði, og qvaðst ecki þeckja þann mann.
Skömmu síðar tóku þeir til orða, er hjá vóru 73.
og sögðu við Pétur: víst ertú af hans mönn-
um; það auglýsir mál þitt. Þá tók hann að 74.
sverja og formæla sér að hann ecki þeckti þenn-
ann mann og í því sama gól haninn; þá mint- 75.
ist Pétur þess, er Jesús hafði mælt: að áður
enn haninn galaði, mundi hann þrisvar afneita
sér, géck síðan út og grét sárann.

## 27. Kap.

I.) Jesús afhendist Pilatusi, 1. 2. II.) Jú-
das örvæntir, 3—5. Akur er keyptur fyr-
ir blóð-peningana, 6—10. III.) Jesú
játning og þögn, 11—14. Barabbas er
laus látinn, en Jesús afhendtur til húð-
strokú og krossfestingar, 15—26. Síðan
spottaður, þyrni-krýndur og særður út,
27—31. IV.) Símon ber krossinn. Je-
sús dryckjast með beiskju-dryck og kross-
festist meðal tveggja ræningja, 32—38.
Jesús er spottaður, 39—44. Teiknin

vid Jesú dauda, 45—54. Qvinnur eru þar vidstaddar, 55. 56. V.) Jesus greftradi, 57—61. VI.) Vid legstadinn setjast verdir, 62—66.

1. Ad morgni næsta dags rádgudust allir Biskupar og Öldúngar lýdsins um þad, ad ráda
2. Jesúm af dögum, bundu hann sídan, færdu hann þadan og seldu í hendur Landstjórnaranum, þeim pontverska Pílatusi.
3. En er Júdas, sá er sveik hann, sá ad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann og skiladi Biskupunum og Öldúngunum aptur þeim
4. níutíu og sex aurum silfurs og mælti: illa gjördi eg, er eg sveik saklausann mann; en þeir sögdu, þad kjæmi sér ecki vid og bádu hann
5. sjálfann fyrisjá. Þá kastadi hann silfrinu á musteris gólfid, skundadi þadan og hengdi sig.
6. En Biskuparnir tóku silfrid og kom þad ásamt, ad ecki væri hæfilegt ad leggja þad í Guds-kistuna,
7. því þad hafi verid til hofuds lagt. Tóku þeir því þad til ráds ad kaupa med því leirkéra-smids akur til ad jarda þar í útlenda
8. menn, og þess vegna er hann enn þá kalladur
9. blóds-akur. Þannig rættist þad, er Jeremías segir: "Eg tók þá níutíu og sex aura silfurs, verd þess, er svo mikils var metinn af Israels
10. monnum, og þeir keyptu fyrir þá leirkéra-smids akur, eins og Gud hafdi bodid mér."
11. Nú er Jesús kom fyrir Landstjórnarann, frétti þessi hvert hann væri Gydínga Konúng-

V. 1. Mark. 15, 1. Lúk. 22, 66. Jóh. 18, 28. 19, 1—16. V. 9. Zach. 11, 12. 13. samanb. Jer. 32, 9.

urinn? Jesús qvad þad satt vera. En er Biskupar og Öldúngar báru sakir á hann, svaradi 12.
hann engu. Þá sagdi Pílatus til hans: heyrir þú ecki þeirra sakargiftir? en hann svaradi 13.
honum ecki til neins ords, svo ad Landstjórnarann furdadi mjög. 14.
Á hátídinni var Landstjórnarinn vanur ad láta fólkinu lausann bandíngja þann einn, er þeir sjálfir kysu, en þá var 15.
þar bandíngi nockurr nafnkunnur sá, er Barabbas hét; 16.
nú er þeir vóru samankomnir, tók Pílatus svo til orda: hvern viljid þér nú ad eg géfi ydur lausann, Barabbas edur Jesúm, sem Kristur er kalladur; 17.
því hann vissi ad þeir hsfdu Jesúm fyrir haturs sakir framseldann. 18.
En er hann sat á dómstólnum, sendi kona hans til hans og lét segja honum: láttú þenna saklausa mann vera; því margt þúngt hefir mér borist í drauma í dag hans vegna. 19.
En Biskuparnir og Öldúngarnir eggjudu alþýduna ad þeir skyldu bidja um Barabbas, en Jesúm skyldu þeir lífláta. 20.
Sídan tók Landstjórnarinn til orda og mælti: hvern þessara tveggja viljid þér nú ad eg géfi ydur lausann? en þeir sögdu: Barabbas! 21.
Þá spurdi Pílatus þá: hvad skal eg gjöra vid Jesúm, er Kristur kallast? þeir sögdu allir: ad hann skyldi krossfestast. 22.
Þá spurdi Landstjórnarinn: hvad hefir hann þá íllt gjört? en þeir kölludu þess meir: krossfestist hann! 23.
Nú er Pílatus sá ad hann engu mundi fá til vegar komid, heldur mundi þar uppþlaup verda, tók hann vatn og þvodi hendur sínar, svo allir sáu og mælti: sikn er eg í lífláti þessa saklausa manns, sjáid þér fyrir því. 24.
Þá mælti 25.

allur lýdur: hvíli sú sek á oss og börnum vor-
26. um. Sídan gaf hann þeim Barabbas lausann,
en Jesúm lét hann flengja og afhendti hann til
27. ad krossfestast. Ad svo búnu færdu stridsmenn
Landstjórnarans Jesúm í þínghúsid og sefnudu
28. ad honum ellum flocknum, færdu hann af klæd-
um sínum og lögdu yfir hann skarlats-kápu,
29. fléttudu kórónu af þyrnum og settu á höfud hön-
um, gáfu honum reir í hend, hneigdu honum,
hæddu hann og mæltu: heill vertú Gydínga
30. Konúngurinn! hræktu á hann, tóku reirinn og
31. hræktu um höfud honum. Þegar þeir nú þann-
ig vóru búnir ad hæda Jesúm, færdu þeir
hann úr kápunni og í hans eginn föt og leiddu
hann út til ad krossfestast.
32. En er þeir gengu út, fundu þeir mann,
er Símon hét, ættadann frá Cyrene; þessum
33. naudgudu þeir til ad bera hans kross. Þegar
þeir nú komu til þess stadar, er heitir Golgatha,
34. þad þýdir hausaskélja-stadur, budu þeir honum
súrt vín beiskju-borid; en er hann hafdi þad
35. smackad, vildi hann ecki drecka. En þá þeir
höfdu krossfest hann, skiptu þeir med sér klæd-
36. um hans eptir hlutkésti, bidu svo þar og gjættu
37. hans. En yfir höfud hans var fest hans dauda-
sök, skrifud á þessa leid: þessi er Jesús Kon-
38. úngur Gydínga. Med honum vóru líka kross-
festir ræníngjar tveir, annar til hægri hlidar,
39. hinn til vinstri. En þeir er framhjá gengu,
40. íllmæltu honum, skóku höfud sín og mæltu: þú,
sem ætladir ad nidurbrjóta musterid og byggja
þad aptur innan þriggja daga, hjálpa þú nú

V. 34. Mark. 15, 23.

sjálfum þér; ef þú ert Guds Sonur, stíg nid-
ur af krossinum. Líka hæddu hann Biskup- 41.
arnir ásamt Öldúngunum og hinum leglærdu og
segdu: ødrum gat hann hjálpad, en sjálfum sér 42.
getur hann ecki bjargad; sé hann Konúngur
Israels, þá stígi hann nidur af krossinum, þá
viljum vér trúa honum; hann treysti Gudi, 43.
hjálpi hann honum nú, ef honum er vel til
hans, þar hann qvadst vera Guds Sonur. Um 44.
hid sama brixludu honum ræníngjarnir, sem med
honum vóru krossfestir. Þá kom mirkur mik- 45.
id yfir allt landid frá hádegi til nóns; og um 46.
nón-bil kalladi Jesús hátt og mælti: Elí! Elí!
lama sabachtaní! þad þýdir: Gud minn!
Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? En 47.
er nockrir af þeim, er vid vóru staddir heyrdu
þetta, sögdu þeir: ad hann kalladi á Elías, og 48.
strax hljóp einn af þeim ad, tók njardarvett og
fyllti med súrt vín, setti hann ofan á reirlegg
og gaf honum ad drecka, en hinir sögdu: reyn- 49.
um vér hvert Elías kémur ad hjálpa honum.
Þá kalladi Jesús aptur hátt og gaf upp andann. 50.
Þá rifnadi fortjald musterisins í tvennt, ofan 51.
frá og nidur í gégnum, jördin skalf og björgin
klofnudu og legstadir hinna daudu opnudust og 52.
margir helgir menn rísu upp þeir, er ádur vóru
daudir; og sem þeir vóru útfarnir af grøfum sín- 53.
um, komu þeir, eptir hans upprisu, í borg ena
helgu og urdu þar sjenir af mørgum. Nú er 54.
Hundrads-høfdínginn og þeir, sem med honum
vóru, sem Jesú áttu ad gæta, sáu jardskjálftann
og þad, sem skédi, urdu þeir nærsta hræddir

V. 43. Ps. 22, 9. V. 48. Ps. 69, 22.

og sögdu: sannlega var þessi madur Guds Sonur.
55. Þar vóru og konur margar, sem stódu lángt
frá og sáu til; þessar höfdu fylgst med Jesú úr
56. Galílæu-landi og þjónad honum. Medal þeirra
vóru þær: María frá Magdolum, María mód-
ir þeirra Jakobs og Jósis og módir þeirra
Zebedæusar sona.
57. Þegar qvöld var komid, kom madur sá, er
Jóseph hét, frá Arimathíu, audugur ad fé;
58. þessi var og einn af Lærisveinum Jesú; hann
fór til Pílatusar og bad um lík Jesú, og lét
59. Pílatus afhenda honum þad. Sídan tók Jóseph
60. vid líkinu og sveipadi þad í hreinu líni og lagdi
þad í nýann legstad, sem hann hafdi látid út-
höggva í klett handa sjálfum sér, velti sídan
61. stórum steini fyrir dyrnar og fór burt. Þar
var líka María frá Magdolum og nafna henn-
ar; þær sátu gégnt grofinni.
62. Daginn eptir, sem nærstur var eptir ad-
fánga-daginn, söfnudust Biskuparnir og Pharísæ-
63. arnir saman og komu til Pílatusar og sögdu:
oss er þad í minni, Herra! ad medan villu-
madur þessi lifdi, qvadst hann mundi upprísa
64. innan þriggja daga. Lát þú því giæta legstad-
arins allt til þridja dags, svo ad ecki komi
Lærisveinar hans og steli honum, segi sídan
lýdnum ad hann sé upprisinn og verdi svo seinni
65. villan verri enni fyrri. Pílatus mælti: hér
hafid þér vardhalds-mennina; farid og gjætid
66. legstadarins, sem þér best vitid. Þeir fóru og
innsigludu steininn og létu vardmennina gjæta
grafarinnar.

# 28. Kap.

I.) Qvinnurnar vilja smyrja Jesúm, fregna af englum ad hann sé upprisinn og sjá hann, 1—10. II.) Vardhalds mennirnir segja hverninn fór, og Öldúngarnir kaupa af þeim ad þegja, 11—15. III.) Jesús birtist Lærisveinunum í Galílæu, býdur þeim ad skíra og kéña, 16—20.

Þegar lidinn var hvíldar-dagurinn, snemma 1.
ad morgni þess fyrsta dags í vikunni, komu
þær María frá Magdalum og nafna hennar ad
sjá legstadinn. Þá skédi jardskjálfti mikill, því 2.
engill Drottins hafdi komid frá himni, og velt
steininum frá dyrum legstadarins og sat á hon-
um; ásýnd hans var, sem leyptur, og klædi hans 3.
bjort, sem snjór; vid þessa sýn urdu þeir svo 4.
hræddir, er legstadarins skyldu gjæta, ad þeir
vóru, sem orendir. Þá mælti engillinn til qvenn- 5.
anna: verid óhræddar, eg veit ad þér leitid ad
Jesú þeim, er krossfestur var; hann er ekki hér, 6.
því hann er upprisinn eins og hann sagdi; kom-
id og sjáid stadinn, hvar Herrann lá; farid svo 7.
med skyndi og segid Lærisveinum hans ad hann
sé upprisinn og hann fé undan ydur kominn til
Galílæu-lands; þar munud þér sjá hann eins
og hann hét ydur, trúid mér til þessa. En þær 8.
gengu skyndilega út úr legstadnum bædi hrædd-
ar og gladar mjøg, og hlupu til ad flytja Læri-
sveinum hans þennann bodskap; og er þær vóru 9.
á leid komnar, til ad segja Lærisveinum hans
frá þessu, kom Jesús móti þeim og sagdi: sæl-
ar verid þid! en þær gengu til hans og fødm-

V. 1. Mark. 16, 1. Lúk. 24, 1. Jóh. 20, 1.

10. udu fætur hans og veittu honum lotníngu. Þá
sagdi Jesús vid þær: hrædist ecki, farid og seg-
id brædrum mínum, ad þeir skuli fara til Galí-
læu-lands, og þar skuli þeir sjá mig.
11. Þegar þær vóru burtu farnar, komu nockr-
ir af vardmønnunum til Stadarins og søgdu
12. Biskupunum allt, sem farid hafdi; en þeir gengu
á rádstefnu ásamt med Øldúngunum og tóku þad
til ráds, ad gêfa strídsmønnunum fé mikid og
13. søgdu vid þá; segid: ad Lærisveinar hans hafi
komid um nótt og stolid líkinu á medan þér svâf-
14. ud. En ef þetta berst til eyrna Landstjórnar-
ans, þá skulum vér sefa hann og géra ydur
15. óhulta. Strídsmennirnir tóku vid fénu og
gjørdu, sem þeim var kénnt. Þessi atburdur
er enn í dag í alræmi hjá Gydíngum.
16. Þeir ellefu Lærisveinar ferdudust sídan til
Galílæu-lands, á fjall þad, er Jesús hafdi bod-
17. id þeim; þar sáu þeir hann og veittu honum
18. lotníngu, en sumir vóru efablandnir. Þá géck
Jesús til þeirra og sagdi: mér er géfid allt vald
19. á himni og jørdu; farid og kénnid øllum þjód-
um, og skírid þær í nafni Fødur, Sonar og hei-
20. lags Anda; og bjódid þeim ad gjæta alls þess,
er eg hefi bodid ydur; en sjálfur vil eg vera
med ydur alla daga, allt til veraldarinnar enda.



# Markúsar Guðspjall.

I.) Verk Jóhannesar, 1—13. II.) og Jesú, 14—45. **I. Kap.**

Þetta er upphaf gledi-bodskaparins Jesú 1.
Krists Guds Sonar, eins og skrifad er hjá 2.
Spámanninum Esajas: "sjá! eg sendi minn
Sendiboda á undan þér, sá er greida skal veg
þinn. Hróp er heyrt í óbygdum: tilbúid veg 3.
Drottins, jafnid brautir hans." Jóhannes 4.
skirdi í eydimörku og kénndi: ad þeir, er skir-
ast vildu, skyldu bæta framferdi sitt, til ad fá
fyrirgéfníngu synda sinna. Til hans komu allir 5.
Júdæu og Jerúsalems innbyggendur og vóru
þeir, sem játudu sín afbrot, skirdir af honum í
ánni Jórdan. Jóhannes var klæddur úlfalds- 6.
hárum og girdtur ledur-belti um lendar sér;
fæda hans vóru engisprettur og skógar-húnáng.
Hann hóf svo kénningu sína: sá, er eptir mig 7.
kémur, er mér meiri og eg er ecki þess verdur
ad eg beygi mig til ad leysa hans skó-þvengi.
Eg skíri ydur einúngis í vatni, en hann mun 8.
skíra ydur med heilögum Anda. Svo bar til 9.
um þessar mundir, ad Jesús kom frá Naza-

V. 2. Es. 40, 3. Malach. 3, 1. Matth. 3, 1—12.
Lúk. 3.

reth í Galilæu-landi og lét skírast af Jóhann-
10. esi í Jórdan; en jafnskjótt, er hann steig upp
úr vatninu, sá Jóhannes himininn opnast og
andann fara nidur eins og dúfu yfir hann;
11. þá heyrdist rödd af himni: þú ert Sonur
minn elskulegur á hverjum eg hefi velþóknun.
12. Og strax þar eptir knúdi andinn hann til ad
13. víkja á eydimerku, og á þessari eydimerku var
hann í fjørutíu daga freistadur af Satan og
medal villu-dýra; en Englar færdu hon-
um mat.
14. En eptir ad Jóhannes var fánginn, veik
Jesús í Galilæu-land og flutti þar gledi-bod-
15. skapinn um Guds ríki og sagdi: tíminn er kom-
inn og Guds ríki er nálægt; bætid rád ydar
16. og trúid þessum gledi-bodskap. Þegar hann
gékk med sjónum í Galílæu, sá hann Símon
og Andrés bródur hans, sem vóru ad leggja
17. net í sjó; því þeir vóru fiskimenn. Jesús
sagdi til þeirra: fylgid mér eptir og mun eg
18. gjøra ydur ad manna-veidurum. Þeir yfirgáfu
19. strax netin og fylgdu honum. Þegar hann
var kominn skammt þadan, sá hann þá Jakob
Zebedæúsarson og Jóhannes bródur hans, sem
20. og svo vóru á skipi ad bæta net; þá qvaddi
hann einninn strax til fylgdar vid sig. Þeir
yfirgáfu fødur sinn þar á skipinu, samt leign-
21. lidana og fylgdu honum. Þeir komu til Kap-
ernaum og strax gékk Jesús í samkundu-hús
22. þeirra og kénndi þar á hvíldar-døgum; en fólk-
id undradist mjøg kénníngu hans, því hann
kénndi þeim med nockurskonar myndugleika, en
23. ecki eins og hinir skriftlærdu. Í samkundu-

húsi þeirra var madur nockurr, sem hafdi ó-
hreinann anda; hann kalladi og sagdi: bittinú! 24.
hvad þurfum vid ad eigast vid? Jesú nad-
verski! ertú kominn til ad drepa oss? Eg veit
hverr þú ert, hinn heilagi Guds a). Jesús 25.
hastadi þá á hann og mælti: þegi þú, og far
út af honum! þá hreif hinn óhreini andi mann- 26.
inn og fór útaf honum øskrandi. Þetta und- 27.
rudust allir, svo þeir spurdu hverr annann og
søgdu: hvad er þetta? hver er þessi hin nýa
kenníng? því hann skipar jafnvel óhreinum ønd-
um med valdi og þeir hlýda honum. En ord- 28.
rómurinn af honum barst strax út um øll þau
lønd, er lágu í grend vid Galílæu-land. Strax, 29.
sem þeir komu úr samkundu-húsinu, fóru þeir
til húss Símonar og Andréssar, ásamt med Ja-
kobi og Jóhannesi; þar lá módir konu Símon- 30.
ar veik af køldu, og strax var honum sagt frá
henni; hann géck þángad, tók í hønd henni, 31.
reisti hana á fætur og þá hvarf strax kaldan frá
henni og hún veitti þeim beina. Nú er qvøld 32.
kom og sól var runnin færdu þeir til hans
alla veika og djøful-óda og borgarmenn søfnud- 33.
ust allir saman ad dyrum hússins; en hann lækn- 34.
adi marga þá, er veikir vóru af ýmsum sóttum
og rak út marga djøfla og leyfdi þeim ecki ad
segja ad þeir þeckti hann. Ad morgni fyrir 35.
døgun fór hann á fætur og géck út úr borg-
inni í einn eydistad og gjørdi þar bæn sína;
en Símon og þeir, sem med honum vóru, eltu 36.
hann og er þeir fundu hann søgdu þeir til 37.

V. 24. a) Messías. V. 29. samanb. Matth. 8, 14. Lúk. 4, 38.

38. hans: allir leita þín. Þá sagdi Jesús vid þá:
vér skulum fara í nálæg þorp, svo eg fái einn-
39. inn þar kénnt; því til þess er eg sendur. Og
hann kénndi í samkundu-húsum þeirra um allt
40. Galílæu-land og rak djöfla út. Og madur
nockurr líkþrár kom til hans, féll til fóta hans
og bad hann med svoseldum ordum: ef þú vilt,
41. gétur þú læknad mig. Jesús kénndi í brjósti
um hann, rétti út hendina, snart hann og sagdi:
42. eg vil, vertú heill! og jafnskjótt, er Jesús mælti
þetta, hvarf af honum líkþráin og hann vard
43. heilbrigdur. Jesús lét hann strax frá sér fara,
44. lagdi ríkt á vid hann og mælti: varastú ad seg-
ja þetta nockrum, heldur far og sýn þig Prest-
inum, offra því, sem Móses baud, til sanninda-
45. merkis um, ad þú sért heilbrigdur ordinn. En
madurinn fór og taladi margt um þetta og bar
þad út, svo Jesús mátti ecki framar koma opin-
berlega í borgina; var hann því utanborgar
í eydistødum og kom fólk þángad til hans úr
øllum áttum.

2. Kap. I.) Jesús læknar, 1—12. II.) Kallar Matthæus, 13—22. III.) Tekur Lærisveinana í forsvar, 23—28.

1. Nockrum døgum sídar kom hann aptur inn í
borgina Kapernaum og strax er sú fregn kom
2. ad hann væri í húsi sínu, safnadist þángad svo
mikill fjøldi fólks, ad þad komst hvergi fyrir
og jafnvel ecki í anddyrinu, en hann flutti þeim

V. 40. Matth. 8, 2. Lúk. 5, 12. V. 44. 3 Mós. 14. V. 1. Matth. 9. Lúk. 5, 18.

sína kénníngu; þá komu til hans menn nockrir 3.
með visinn mann, sem var borinn af fjórum; nú 4.
er þeir gátu ecki komist á hans fund fyrir
mann-þraunginni, rifu þeir gat á þakið uppi
yfir honum og létu sængina síga þar niður, hvar
í sá visni lá. Nú er Jesús sá þeirra trúnað- 5.
ar-traust, sagði hann til þess visna: sonur!
syndir þínar eru þér fyrirgéfnar. En þar sátu 6.
nockrir af þeim skriftlærðu og hugsuðu með sér:
því talar maður þessi slíkar guðlastanir? hverr 7.
kann að fyrirgéfa syndirnar nema Guð einn?
Strax fann Jesús í sínum anda að þeir hugs- 8.
uðu þetta og sagði við þá: því hugsið þér slíkt
í yðrum hjörtum? hvert er auðveldara að segja 9.
þeim visna: syndir þínar eru þér fyrirgéfnar,
eða segja: stattú upp, tak sæng þína og gack;
en til þess að þér vitið að Mannsins Sonur 10.
hefir vald til að fyrirgéfa syndirnar á jörðunni,
sagði hann þeim visna: þá segi eg þér! stattú 11.
upp og tak sæng þína og far til húss þíns; en 12.
hann stóð strax upp, tók sængina og géck út svo
allir sáu. Þá undruðust allir og vegsömuðu
Guð og játuðu: að þeir aldrei hefðu slíkt séð.

Í öðru sinni géck hann með sjónum og 13.
allt fólkið kom til hans og hann kénndi þeim.
Nú er hann géck með sjónum, sá hann mann, 14.
er Leví hét Alphæusson, sitjanda í tollbúð sinni,
og sagði við hann: fylgdu mér! hann stóð upp
og fylgdi honum. En svo bar til, er Jesús 15.
var að mat í húsi hans, að margir tollheimtu-



V. 7. Es. 43, 25.
V. 14. Matth. 9, 9. Lúk. 5, 27.

menn og bersyndugir setuðust þar ásamt Jesú
og Lærisveinum hans; því margir af þeim vóru
16. í fylgd með honum; en er þeir skriftlærðu og
Pharísæarnir sáu hann matast ásamt tollheimtu-
mönnum og bersyndugum, sögðu þeir við Læri-
sveina hans: hvað kémur til að hann etur og
dreckur með tollheimtu-mönnum og bersyndug-
17. um? Þegar Jesús heyrði þetta mælti hann:
ecki þurfa heilbrigðir lækuis við, heldur þeir,
sem sjúkir eru. Eg er ecki kominn til að kalla
réttláta, heldur synduga til lifnaðar-bóta.—
18. Lærisveinar Jóhannesar og Pharísæanna vóru
vanir að fasta optlega; þeir komu til Jesú
og tóku svo til orða: því fasta Lærisveinar Jó-
hannesar og Pharísæanna, en þínir Lærisvein-
19. ar fasta ecki? Jesús svaraði þeim: hvert
kunna brúðmennirnir að fasta á meðan brúð-
guminn er með þeim? svo lengi sem þeir hafa
brúðgumann með sér ber þeim ecki að fasta;
20. en sá tími mun koma, að brúðguminn verður
21. frá þeim tekinn og þá munu þeir fasta. Eng-
inn plagar að leggja nýa bót á gamalt fat;
því annars tekur sú nýa bót stycki úr gamla
22. fatinu og verða þá spjöllin verri; ecki heldur
eru menn vanir að koma nýu víni á forna
belgi, að öðrum kosti sprengir hið nýa vínið
belgina og spillist en belgirnir ónýtast; heldur
á að láta nýtt vín á nýa belgi.
23. Svo bar við, að Jesús géck yfir sáðlönd
nockur á hvíldar-degi; þá tóku Lærisveinar
24. hans að tína ax nockur á leiðinni. Pharísæ-
arnir sögðu þá við hann: því gjöra Lærisvein-

V. 23. Matth. 12, 1. Lúk. 6, 1.

ar þínir það, sem ecki sæmir á hvíldar-degi?
Hann svaradi: hafid þér aldrei lesid hvad Da- 25.
víd gjerdi, þegar hann var matþurfi og feru-
nautar hans, ad hann géck inn í Guds hús, 26.
ad ásjáanda hinum ypparsta Presti Abiathar
og neytti braudanna helgu, sem enginn mátti
eta nema Prestarnir og gaf þau einnig sínum
fylgdar-mennum; og enn nú mælti hann vid 27.
þá: hvíldar-dagurinn er ordinn til mannsins
vegna, en madurinn ecki vegna hvíldar-dagsins;
þess vegna er Mannsins Sonur og svo Herra 28.
hvíldar-dagsins.

## 3. Kap.

I.) Jesús læknar marga siúka, 1—12. II.) Kallar til sín þá 12 Postula, 13—19. III.) Talar um synd á móti heilögum Anda, 20—30. IV.) Kénnir, hver ad sé hans módir og hverjir hans brædur, 31—35.

Jedru sinni kom hann í samkundu-hús og 1.
þar var sá madur, er visna hönd hafdi; þá 2.
höfdu þeir auga á honum, hvert hann mundi
lækna þann mann á hvíldar-degi, svo þeir gætu
áklagad hann. Þá sagdi Jesús vid manninn, 3.
er visnu höndina hafdi: stattú á fætur og láttú
sjá þig! þá sagdi hann til þeirra: hvert er 4.
sæmra á hvíldar-dögum ad gjera gott edur íllt,
géfa líf edur svipta því? en þeir svörudu engu.
Þá litadist hann um med reidi-svip og vard 5.
hryggur yfir hardúd þeirra; sídan segir hann



V. 26. 1 Sam. 21, 6.
V. 1. Matth. 12, 9. Lúk. 6, 6.

við manninn: réttú fram hend þína! hann
6. gjerði það og varð hún þá heil. Þá gengu
Pharísear út og báru ſtrax ſaman ráð ſín á
móti honum, við menn Heródesar Konúngs,
hverninn þeir fengi hann af degum ráðinn.
7. Jesús fór og áſamt Lærisveinum ſínum til ſjó-
ar og fylgdi honum þá margt fólk úr Galílæu-
8. landi og Júda-landi, úr Jerúſalem, úr Idú-
mæa og úr héroðum hinumeginn Jórdanar;
líka kom margt fólk til hans, er bjó í grend
við Týrus og Sídon, ſem heyrt hafði um hans
9. kraptaverk. Þá bauð hann Lærisveinum ſínum
að hafa ſér ſkip búið, ſvo fólksfjöldinn ſkyldi
10. ecki þraungva honum; því ſökum þeſs, að hann
læknaði marga, þá flyktuſt að honum allir
þeir, er ſjúkir vóru, ſvo þeir nædu að ſnerta
11. hann; líka féllu þeir, er haldnir vóru af ó-
hreinum öndum, fram fyrir honum undir eins
og þeir ſáu hann, æptu og ſögðu: þú ert Son-
12. ur Guðs; en hann bannaði þeim harðlega að
ſegja frá hverr hann væri.
13. Síðan fór hann uppá eitt fjall og kallaði
til ſín þá, er hann ſjálfur vildi og komu þeir
14. til hans. Þá tilſetti hann tólf, er vera ſkyldu
með honum og til að ſenda þá frá ſér til að
15. ſlytja hans kénníngu; þeir áttu og að hafa
krapt til að lækna ſjúkdóma og reka djeſla út.
16. Þeſsir vóru: Símon, hvern hann kallaði Pét-
17. ur; þeir bræður Jakob og Jóhannes, ſynir
Zebedæuſar, þá kalladi hann Boanerges, það
18. er: þrumendur; Andrés og Philippus og Bar-
thólómæus og Matthæus og Thómas og Jakob
Alphæuſarſon og Thaddæus og Símon vand-

lætari og Júdas frá Karíoth, hverr ed sveik 19.
hann.
Þegar þeir vóru heim komnir, þá safn- 20.
adist þángad ad nýu svo mikill fjøldi fólks, ad
þeir gátu ecki fengid sér matar. Og sem ná- 21.
úngar hans heyrdu þad, fóru þeir og vildu ná
honum út, því þeir sögdu hann væri frá sér.
En þeir skriftlærdu, er komnir vóru ofan frá 22.
Jerúsalem, sögdu Belzebub vera í honum og
ad hann ræki djøfla út med fulltíngi djøfla høfd-
íngjans, Jesús kalladi þá til sín og taladi til 23.
þeirra í eptirlíkíngum: hverninn gétur Satan
rekid Satan út? og hvert þad ríki, sem inn- 24.
byrdis sundur-lyndi er í, fær ecki stadist, og 25.
hvert þad hús hvar innbyrdis ósamlyndi er,
þad hús mun ecki géta stadist; ef nú Satan er 26.
upp í móti sjálfum sér og er vid sjálfann sig
ósamþyckur, fær hann ecki stadist, heldur er út-
gjørt um hann. Enginn gétur brotist inn í 27.
hús ens sterka og rænt faungum hans, nema
hann taki ádur þann sterka til banda; þá fyrst
gétur hann rænt hús hans. Sannlega segi eg 28.
ydur: ad allskyns syndir og jafnvel gudlastan-
ir kunna mønnunum fyrirgéfnar ad verda; en 29.
þeir, sem lastmæla Guds krapti, munu aldrei
aflát fá, heldur munu þeir vinna til æfinlegs
straffs. (Því þeir høfdu sagt: ad óhreinn andi 30.
væri í honum).
Nú kom módir hans og brædur, stódu fyr- 31.
ir dyrum úti og sendu honum ord ad koma.

V. 22. Matth. 9, 34. 12, 24. Lúk. 11, 17. Jóh. 8, 48, 10, 20.
V. 31. Matth. 12, 46. Lúk. 8, 19.

32. En fólkid sat allt í kríngum hann; þá var hon-
um sagt að móðir hans og bræður stæðu úti
33. og vildu finna hann; þá svaraði hann þeim:
34. hver er móðir mín eður bræður mínir? Og
sem hann hafði rennt augunum yfir þá, er í
kríngum hann sátu, sagði hann: sjá! þar er
35. mín móðir og mínir bræður; því hverr hann
gjörir vilja Guðs, hann er minn bróðir, mín
systir og móðir.

4. Kap. I.) Jesús kénnir í eptirlíkíngum, 1—34.
II.) Lætur sjóinn verða kyrrañ, 35—41.

1. Í öðru sinni tók hann til að kénna við sjó-
inn, dreif þá til hans svo mikill fjøldi fólks,
að hann hlaut að stíga á skip og setjast þar,
en múgurinn allur var á landi fram við sjó-
2. inn; þá kénndi hann þeim margt í dæmisøg-
3. um og mælti til þeirra í sinni kénníngu: gefið
gaum að máli mínu! sjá! maður nockurr fér
4. að sá; en það vildi svo til þá hann var að
sá, að sumt sæðið féll við veginn og fuglar
5. komu og átu það; sumt féll í grýtta jørð
hvar, það hafði lítinn jarðveg; það óx að sönnu
6. skjótt, því það hafði lítinn jarðveg; en er sól-
in tók að skína, skrælnaði það og visnaði sök-
7. um þess það hafði ecki nógar rætur; sumt féll
meðal þyrna, en þyrnarnir uxu upp og kæfðu
8. það, svo það bar engann ávøxt. En sumt
féll í góða jørð, það spratt, óx og bar ávøxt,
sumt þrítugfaldann, sumt sextugfaldann og sumt
9. hundraðfaldann. Nemi þetta — segir hann —
V. 1. Matth. 13, Lúk. 8, V. 8. 1 Mós. 26, 12.

sá, er nema kann! Sídar, er hann var einn- 10.
saman, spurdu þeir, sem med honum vóru á-
samt þeim tólf um þad, hvad þessi dæmisaga
ætti ad þýda? Jesús mælti: ydur er unnt ad 11.
skilja leyndardóma Guds ríkis, hinum útífrá
hlýtur ad kénnast med dæmisøgum; því þótt 12.
þeir sjái berlega skilja þeir ecki og þótt þeir
heyri þá skynja þeir ecki; þess vegna bæta þeir
ecki rád sitt til ad odlast aflát fyrir misgjørd-
ir sínar. Sídan sagdi hann vid þá: ef þér 13.
skiljid ecki þessa dæmisøgu, hverninn gétid þér
þá allar dæmisøgur skilid? Sádmadurinn þýd- 14.
ir þann, er kénnínguna flytur; sædid, sem vid 15.
veginn var sád, merkir þá, hverjum kénníngin
er flutt, og nær þeir hafa heyrt hana, kémur
Satan strax og tekur kénnínguna, er þeim var
birt, burt úr hjørtum þeirra. Eins merkir 16.
sædid, sem féll í grýtta jørd þá, sem heyra
mína kénníngu og veita henni strax vidtøku
med føgnudi; en vegna þess ad þeir láta ecki 17.
lærdóminn rótfestast, heldur eru óstødugir, þá
kasta þeir strax trú sinni, þegar þeir, minnar
kénníngar vegna, hljóta mótlæti og ofsóknum
ad mæta. Sædid, hverju sád var medal þyrna, 18.
merkir þá, er ad sønnu heyra mína kénníngu,
en umhyggja fyrir lífi þessu, táldrægni audæf- 19.
anna og girndir til annara hluta koma til og
kéfja kénnínguna, svo hún verdur ávaxtarlaus.
En sædid, er féll í góda jørd, þýdir þá, er 20.
heyra mína kénníngu og færa ávøxt, sumir þrí-
tugfaldann, sumir sextugfaldann og sumir hundr-
adfaldann. Sídan sagdi hann vid þá: hvørt 21.
plaga menn ad bera inn ljós og hylja þad síd-

an undir íláti edur beck? er ecki sidur ad setja
22. þad í ljósastiku; því ecert er svo hulid ad þad
ecki verdi opinbert, og eckert svo fólgid ad þad
23. ecki verdi augljóst. Nemi þetta hverr sá, er
24. nema kann! Enn framar sagdi hann vid þá:
géfid gaum ad því, sem þér heyrid; eins og
þér mælid ødrum, munu þeir aptur mæla ydur;
25. þeim, sem hefir mun veitast, en frá hinum,
sem ecki hefir mun tekid verda jafnvel þad hann
26. hefir. Sídan sagdi hann: eins er því varid
med Guds ríki, eins og þegar einhverr kastar
27. sædi í jørd; hann sefur um nætur en vakir um
daga, en sædid vex og dafnar án þess hann
28. viti þad; því jørdin ber sjálfkrafa ávøxt; fyrst
kornstaungina, sídan axid og seinast fullvaxid
29. korn í axinu; en nær ávøxturinn er fullvaxinn,
lætur hann slá kornid, því þá er kornskurdar-
30. tíminn fyrir hendi. Enn nú sagdi hann: hvar
vid skal eg jafna Guds ríki? edur hverja ept-
irlíkíngu skal eg brúka til ad leida ydur þad
31. fyrir sjónir? líkt er þad mustards-korni; nær
því er sád, er þad hid minnsta allra frækorna;
32. sídan vex þad og verdur hverju kálgresi meira
og fær stórar greinir, svo fuglar himins géta
33. leitad sér skjóls í skugga þess. Í mørgum
þesskonar eptirlíkíngum framsetti hann kénníngu
34. sína, eins og best átti vid þeirra skilníng; en
án eptirlíkínga kénndi hann þeim ecki. Síd-
an þegar hann var einnsaman, lagdi hann
allt út fyrir Lærisveinum sínum.
35. Þegar dagur var ad qvøldi kominn, baud
hann Lærisveinum sínum ad fara yfirum sjóinn.

V. 35. Matth. 8, 23. Lúk. 8, 23.

Þeir skildu vid fólkid og fóru med hann med 36.
sér á skipinu eins og hann stód, en önnur skip
fylgdust med honum. Þá gjördi vedur mikid, 37.
svo bylgjurnar féllu yfir skipid, svo ad lá vid
ad fyllti; en hann svaf á kodda í skutnum. 38.
Þeir fóru þá og vöktu hann og sögdu: Meist-
ari! hirdir þú ecki um þad ad vér tortýnumst?
hann reis þá upp, hastadi á vindinn og sagdi 39.
vid sjóinn: þegi þú og vertú kyrr! þá lægdi
vedrid og vard blída logn; sídan sagdi hann 40.
vid þá: því erud þér svo huglausir, hverju gégn-
ir ydar vantraust? en þeir urdu nærsta hrædd- 41.
ir og sögdu hver vid annann: hvílíkur er þessi,
er bædi vedur og sjór hlýda?

I.) Jesús rekur djöful út, 1—20. II.) Lækn-
ar sjúka, 21—43.

## 5. Kap.

Þeir komu yfirum sjóinn í hérad þeirra Ga- 1.
dara-manna og strax, sem hann var stíginn af 2.
skipi, hljóp móti honum madur nockurr qvalinn
af óhreinum anda; hann kom úr gröfum daud- 3.
ra manna, hvar hann hafdi adsetur sitt og var
svo ódur, ad ecki tjádi ad setja hann í fjötur;
því opt hafdi hann verid bundinn med fjötrum 4.
og hleckjum, en hann sleit af sér hleckina og
braut fjöturin og enginn gat rádid vid hann;
um allar nætur og daga var hann á fjöllum, 5.
edur í gröfum daudra manna, hrein og lamdi
sjálfann sig med grjóti. Nú er hann sá Je- 6.
súm álengdar, hljóp hann þángad, heilsadi hon-
um, kalladi hátt og mælti: hvad hefi ég med 7.

V. 1. Matth. 8, 28. Lúk. 8, 26.

þig ad gjöra? Jesús Sonur Guðs ens hæsta!
eg særi þig við Guð að þú qveljir mig ecki
8. (Því Jesús hafði skipað þeim óhreina anda að
9. fara út af honum). Þá spurði Jesús hann
ad nafni, en hann segir: Legió a) heiti eg;
10. því vér erum margir. Þá bad hann Jesúm
innilega ad hann ecki ræki þá burt úr því hér-
11. adi. En þar var vid fjallið stór svínahjörð á
12. beit, þá báðu djöflarnir hann, ad hann vildi
13. leyfa þeim ad fara í svínahjörðina. Jesús
leyfði þeim þetta strax og fóru hinir óhreinu
andar í svínin og öll hjörðin hljóp fyri björg
ofan í sjóinn og kafnaði þar; var það hér um
14. tvö þúsund svína; en þeir, er gættu þeirra,
flýðu og sögðu frá þessu bæði í borginni og á
15. lands-bygdinni. Þá fóru menn ad sjá hvað skéð
hafði, komu til Jesú og sáu þar þann djöful-
óða sitjanda, klæddann og heilvita, þann, er
16. djöfla ságurinn hafði í verið. Við þetta urdu
þeir hræddir, en þeir, sem við höfdu verið,
sögdu þeim hvernig farið hefði bæði fyrir þeim
17. óda og svínunum. Þá báðu þeir hann ad
18. hann færi úr þeirra héruðum. Nú er hann
steig á skip, beiddi sá, sem óður hafði verið
19. hann leyfis ad fara með honum; þessa synjaði
Jesús honum og sagði: far þú heim til þín og
þinna og skír þeim frá hvað mikið gott Guð
hefir gjört þér og hversu hann hefir miskunað
20. þér. Hann fór og skírði frá því í Dekapólí,
sem Jesús hafði gjört við hann og undruðust
það allir.

a) Legió var rómverskur herflockur, hvar í opt-
ast vóru yfir 6000 manns.

Þegar Jesús var kominn yfirum á skip- 21.
inu aptur, safnadist ad honum mikill mann-
fjøldi, var hann þá staddur vid sjóinn. Þáng- 22.
ad kom til hans einn af Formønnum samkundu-
húsins, er hét Jaírus og þegar hann sá Je-
súm, féll hann til fóta honum og bad hann 23.
mjøg innilega ad hann kjæmi og legdi hendur
yfir dóttur sína daudvona, svo henni batnadi og
hún yrdi aptur heil heilsu sinnar. Jesús fór 24.
med honum; honum fylgdi múgur manns, er
þreyngdi sér ad honum. Þar var kona nockur, 25.
sem um tólf ár hafdi verid sjúk af blódláti;
hún hafdi mikid þolad af mørgum læknum 26.
og kostad þar til aleigu sinni og þó ecki batn-
ad, heldur vard henni æ þýngra. Hún hafdi 27.
heyrt frá Jesú, kom í mannþraunginni ad baki
honum og snart klædi hans, því hún hugsadi 28.
ad gæti hún snert þau, mundi hún heil verda.
Og strax stødvadist blódlát hennar og hún fann 29.
á sér ad hún var heil ordin meina sinna.
Strax fann Jesús á sér ad kraptur var út af 30.
honum genginn, snériſt vid í mannþraunginni
og spurdi hverr hefdi hrært vid klædum hans?
Þá tóku Lærisveinar hans til orda: þú sjer ad 31.
mannfjøldinn þreyngir ad þér og þó spyr þú:
hverr hafi hrært vid þér? Þá skygndist Je- 32.
sús um eptir þeirri, sem þetta hafdi gjørt, en 33.
hún var hrædd og skjálfandi, því hún vissi
hvad vid sig hafdi framfarid; kom og féll fram
fyrir hann og sagdi allt hid sanna. Þá mælti 34.
hann: dóttir! þín trú hefir hjálpad þér; far í

V. 22. Matth. 9, 18. Lúk. 8, 41.
V. 25. Matth. 9, 20. Lúk. 8, 43.

35. fridi og vert heil sjúkleika þíns! En er hann
var þetta ad mæla, komu menn frá heimili
Samkundu-höfdíngjans, er segdu: dóttir þín er
látin, því viltú ómaka framar Meistarann?
36. Strax er Jesús heyrdi þessa fregn, mælti hann
vid samkundu-húsfins Fyrimann: vertú óhrædd-
37. ur! trú þú einúngis. Og nú leyfdi hann eng-
um ad fylgja sér nema Pétri, Jakobi og Jó-
38. hannesi bródur Jakobs. Þegar hann kom í
hús Formanns samkundunnar og sá þar ys mik-
inn og þá, er grétu og æptu mjög, sagdi hann
39. vid þá: því hrínid þér og grátid? mærin er
ecki daud, heldur sefur hún, en þeir hlóu ad
40. honum. Sídan baud hann öllum ad fara út
og tók med sér fedur og módur stúkunnar og
þá, sem med honum vóru og géck inn þángad,
41. sem barnid var, tók í hend þess og mælti:
Talita-kúmí! það þýdir: stúlka! eg segi
42. þér, rís þú upp! Og jafnskjótt reis stúlkan
upp og tók ad gánga; en hún var tólf ára ad
43. aldri. Þá undrudust þeir nærsta; en hann
bannadi þeim alvarlega ad láta nockurn fá þetta
ad vita og baud ad gésa henni mat.

6. Kap. I.) Jesús smádur, 1—6. II.) Utsendir Postula, 7—13. III.) Nockrir ætla hann sé Jóhannes, 14—29. IV.) Sedur 5000 manns, 30—44. V.) Gengur á sjónum, 45—53. VI.) Læknar, 54—56.

1. Padan fór hann til ættjardar sinnar og Læri-
2. sveinar hans vóru í fylgd med honum og næsta
hvíldardag tók hann til ad kénna í samkundu-

húsinu og undruðust margir, sem það heyrðu
og mæltu: hvaðan hefir þessi maður numið
þetta? og hvílíka vitsku hefir hann ødlast og
hvílík eru þau kraptaverk, er hann fremur? er 3.
hann ekki smiðurinn, sonur Maríu og bróðir
þeirra Jakobs og Jósefar, Júdasar og Símonar?
og eru ekki systur hans hér með oss? og þeir
hneixluðust á honum. En Jesús mælti við 4.
þá: hvergi er nockur Spámaður miður vyrðt-
ur enn á føstur-jørðu sinni og meðal ætt-
manna sinna og heima; og hann gat eckert 5.
kraptaverk gjort þar, að undanteknu því, að
hann lagði hendur yfir fáeina sjúka og læknaði
þá og fuerðaði hann sig á trúarleysi þeirra, og 6.
fór um þorpin þar í kríng og kénndi.

Nockru síðar kallaði hann þá tólf til sín 7.
og sendi þá frá sér tvo og tvo saman og gaf
þeim vald yfir óhreinum øndum; til ferðarinn- 8.
ar bannaði hann þeim að taka nockuð með sér
nema einúngis staf, en hverki ferða-tøsku, brauð
eður fé í beltum sínum, heldur bauð að hafa skó á 9.
fótum; eckí skyldu þeir heldur klæðast tvennum
kyrtlum; og hann sagði við þá: haldið kyrru 10.
fyrir í hverju því húsi, er þér takið yður gist-
íngu, þar til þér farið úr því þorpi, en hvar 11.
menn eckí vilja veita yður móttøku eður heyra
yður, þá farið þaðan og hristið dupt af fótum
yðar til vitnis gégn þeim. Þeir fóru og kénndu 12.
fólkinu að bæta ráð sitt, ráku marga djøfla út 13.
og smurðu marga sjúka með viðsmjøri og lækn-
uðu þá.

V. 3. Matth. 13, 55. Jóh. 6, 42.
V. 7. Matth. 10. Lúk. 9 og 10.

14. Þetta heyrdi Heródes Konúngur (því
miklar sögur geugu nú frá Jesú), þá mælti
Heródes: Jóhannes Skírari er endurlífnadur
15. og því gjörast slík kraptaverk af honum. Sum-
ir sögdu hann væri Elías, adrir, ad hann væri
16. Spámadur líkur þeim fyrri Spámönnum. En
er Heródes heyrdi þetta mælti hann: Jóhann-
es, sem eg hefi látid hálshöggva, er nú endur-
17. lífnadur. Ádur hafdi Heródes látid höndla
Jóhannes og setja í myrkva-stofu vegna Heródí-
adis konu Philippusar bródur hans, hverja He-
18. ródes nú hafdi gengid ad eiga; því Jóhannes
hafdi sagt vid Heródes: þú mátt ecki eiga bród-
19. urkonu þína. Vegna þessa var Heródíadi ílla
til Jóhannesar og vildi ráda honum bana, en
20. gat þad ecki, því Heródes vyrdti Jóhannes,
þar hann vissi hann vera gódann og helgann
mann og verudadi hann og gjördi margt ad
21. hans rádum og heyrdi hann gjarnan. En
sem hentugur dagur kom, þá Heródes gjördi
veitslu á sínum fædíngar-degi fyrir gædíngum
sínum, Hershöfdíngjum og enum helztu mönnum
22. í Galílæu, kom inn dóttir Heródíadis og dans-
adi, svo Heródesi og þeim, sem bodnir vóru,
líkadi þad vel. Þá sagdi Konúngurinn vid
stúlkuna: bid mig hvers þú vilt og mun eg
23. veita þér. Og lofadi henni med eidi, hvers
þú beidist af mér þá mun eg veita þér allt ad
24. helfíngi ríkis míns; en hún géck út og spurdi
25. módur sína: um hvad skal eg bidja? Hún
mælti: um höfud Jóhannesar Skírara. Hún
kom inn aptur med skyndi til Konúngsins og

V. 14. Matth. 14, 1. Lúk. 9, 7.

mælti: eg vil ad þú géfir mér strax höfud Jó-
hannesar Skírara á diski. Vid þetta vard 26.
Konúngurinn næsta hriggur, en sökum eids þess,
er hann hafdi unnid og bodsmanna sinna, vildi
hann ecki synja henni þess; sendi þá Konúngur- 27.
inn strax bodulinn og skipadi ad færa sér höfud
Jóhannesar; en hann fór og afhöfdadi hann í 28.
myrkvastofunni, kom med höfudid á fati og
færdi meyunni, en hún bar þad til módur sinn-
ar. En er Lærisveinar hans heyrdu þetta, 29.
komu þeir, tóku lík hans og lögdu þad í gröf
Postularnir komu aptur til Jesú og sögdu 30.
honum frá öllu því, sem þeir höfdu gjört og
kénnt; þá sagdi Jesús til þeirra: farid med 31.
mér einir saman á afvikinn stad og hvílist þar
um stund, því svo margir vóru komandi og far-
andi ad þeir höfdu ecki mat-feid. Sídan fóru 32.
þeir einir sér á skipi til óbygda, en margir sáu 33.
er þeir fóru burt og þecktu þá; hlupu þeir því
á fæti úr öllum borgum og komu þar. Nú er 34.
hann steig af skipi, sá hann þar mikinn mann-
fjölda og kénndi í brjósti um þá, því þeir vóru
sem saudir án hirdirs og prédikadi fyrir þeim
um marga hluti; en er mjög var álidid dags, 35.
komu Lærisveinar hans til hans og sögdu: vér
erum hér í eydi-stad og framordid er
dags, lát þá frá þér, svo þeir géti farid í 36.
bygdina og þorpin hér um kríng og keypt sér
vistir, því þeir hafa alls eckert til matar. Je- 37.
sús mælti: géfid þér þeim mat. Skulum vér
þá fara og kaupa þeim mat fyrir 100 aura
og géfa þeim ad eta? Jesús mælti þá: hve 38.

V. 37. Matth. 14. Lúk. 9, 10. Jóh. 6.

mørg brauð hafið þér? farið og gætið að því!
þeir gjørdu svo og søgdust hafa fimm brauð
39. og tvo fiska. Þá bauð hann þeim að láta
40. fólkið setjast niður hópum saman í grasið, og
það settist niður í flockum og vóru hundrað í
41. sumum en fimmtýgir í sumum. Þá tók Jesús
þau fimm brauðin og þá tvo fiska, leit til him-
ins, gjørði Guði þackir, braut brauðin og féck
þau Lærisveinum sínum að þeir legðu þau fyri
fólkið; slíkt hið sama skipti hann þeim tveim-
42. ur fiskum meðal allra; en þeir neyttu allir og
43. urðu saddir. Síðan tóku þeir upp molana
og urðu það tólf karfir fullar og einnig fisk-
44. leifarnar; en þeir, sem neytt høfðu matarins
vóru að tølu fimm þúsundir manna.
45. Strax er þessu var lokið, bauð hann
Lærisveinum sínum að stíga á skip og fara und-
an sér yfirum til Bethsaída, meðan hann
46. skildi fólkið við sig; en er hann hafði látið
fólkið frá sér, fór hann uppá fjallið að biðjast
47. fyrir; og er qvøld var komið var skipið á mið-
48. ju vatninu, en hann einn á landi; sá þá Je-
sús að róðurinn géck þeim mjøg erfiðt, því
andviðri var á. En nær fjórðúngur lifði næt-
ur, kom hann til þeirra og géck á sjónum og
49. létst vilja gánga framhjá þeim. En er þeir
sáu hann gánga á sjónum, meintu þeir að það
50. mundi vera vofa og æptu upp yfir sig; því all-
ir sáu þeir hann og urðu felmtursfullir. Hann
varpaði þá strax orðum á þá og mælti: verið
51. hughraustir, eg er það, óttist ecki! Síðan fór
hann upp í skipið til þeirra; lægði þá veðrið.

V. 47. Matth. 14. V. 49. Lúk. 24, 37.

Þeim þókti þetta stærstu undrum gégna, því 52.
þeir hefdu ecki ordid hyggnari vid brauda-tákn-
id, þared hjarta þeirra var svo blindad. Síd-
an fóru þeir yfirum og lendtu vid Genezareth. 53.
Og er þeir stigu af skipi, þeckti fólkid 54.
hann strax og hljóp um allt þad bygdarlag og 55.
tóku ad færa sjúka í burdar-reckjum þángad,
sem þeir heyrdu hann væri; og hvar, sem hann 56.
fór inn í þorp, borgir edur bæi, þá lögdu þeir
vanheila menn á torgin og bádu hann ad þeim
mætti leyfast ad snerta einúngis klædafald hans;
því þeir, sem snertu þar vid, urdu heilbrigdir.

I.) Jesús forsvarar sína Lærisveina, 1—23. II.) Utrekur djöful, 24—30. III.) Géfur heyrn og mál, 31—37.

## 7. Kap.

Þá komu til hans Pharísæar og nockrir Skrift- 1.
lærdir menn, er komnir vóru frá Jerúsalem, og 2.
er þeir sáu ad nockrir af Lærisveinum hans
tóku til sín fædu med vanheilögum hendum,
þad er: óþvegnum (því Pharísæar og Gyding- 3.
ar yfir höfud fá sér ecki mat, nema þeir ádur
taki handlaugar og fylgja þeir í þessu tilskip-
unum Oldúnganna; ecki heldur eta þeir mat- 4.
væli, sem á torgi eru keypt, nema þau séu ádur
þvegin og margt annad er þad, er þeir hafa
undirgengist ad gæta, svo sem er þvottur á dryck-
jar-kérum, könnum, eir-kérum og bord-beckjum).
Þá tóku Pharísæar og hinir lærdu svo til orda: 5.
því fylgja Lærisveinar þinir ecki tilskipunum

H

V. 1. Matth. 15, 1. V. 2. Lúk. 11, 38.

hinna gemlu, heldur matast med óhreinum
6. höndum? Jesús mælti: snoturt hefir Esajas
fyrisagt um ydur, þér skinhelgir! þad skrifad
7. er: "lýdur þessi heidrar mig med vörunum,
en hjörtu þeirra eru lángt frá mér; þeirra
8. dýrkan á mér er hégómleg, er þeir kénna þad,
sem eru manna tilskipanir." Þér skeytid ecki
bodum Guds, en haldid fast vid manna tilskip-
anir, svo sem er þvottur á könnum og dryckju-
kérum og margt fleira þessháttar gjörid þér.
9. Enn framar sagdi hann: dáfallega vitid þér
ad ónýta Guds bod, svo þér gétid fylgt ydar
10. eginn setníngum! því Móses hefir sagt: "heid-
ra födur þinn og módur og hverr hann for-
11. mælir födur edur módur skal rétt dræpur"; þar
á mót segid þér: ef einhverr segir vid födur
edur módur: eigur þær, hvar med eg kynni ad
12. hjálpa þér, eru heit-fé, þá leyfid þér honum
ecki ad gjöra foreldrum sínum nockud gott fram-
13. ar af þeim og ónýtid þannig Guds lög med
ydar egin tilskipunum þeim, er þér sjálfir hafid
tilsett; og margt annad gjörid þér þessu líkt.
14. Sídan kalladi hann saman allann lýdinn og
tók svo til máls: hlýdid mér allir og géfid
15. gaum ad því eg segi! eckert er þad fyrir utan
manninn, sem inn í hann fer, er hann kunni
saurga, heldur þad, sem útfer af manninum,
16. þad er þad, sem saurgar hann; géfid gaum ad
17. máli mínu! En er hann var kominn heim frá
fólkinu, spurdu Lærisveinarnir hann um þýd-
18. íngu þessarar dæmisögu. Jesús mælti: erud
þér einninn svo skilníngslausir? skynjid þér ecki,

V. 6. Es. 29, 13. V. 10. 2 Mós. 20, 12. 21, 17.

ad allt þad, sem utanfrá kémur inní manninn
getur ecki saurgad hann; því ecki fer þad inn í 19.
hjarta hans, heldur í magann, hvadan þad
fer, eptir edlilegri rás, hver ed fædúna hreins-
ar. Þar á mót, sagdi hann, þad, sem útfer 20.
af manninum saurgar hann; þvíad innan frá
hugskoti mannsins koma íllar hugrenníngar, hór, 21.
frillulífi, þjófnadur, manndráp, fégirni, íll- 22.
menska, hreckvísi, óráðvendni, ósund, lastmæli,
drambsemi, hirdulevsi; allt þetta kémur ad innan 23.
og saurgar manninn.

Hédan fór hann þar til, er skilur land 24.
Týrusar og Sídónar og géck þar inn í hús
nockurt og vildi ad enginn skyldi verda var vid,
en gat þó ecki dulist, því kona nockur, hverr- 25.
ar dóttir qvalin var af óhreinum anda, frétti
til hans, kom og féll honum til fóta; hún var 26.
heidin, sýrlendsk ad ætt úr Feniśía. Þessi
kona beiddi hann ad reka Djöfulinn
út frá dóttur sinni. Jesús mælti: lofadu börn- 27.
unum ad matast fyrst, því ecki sæmir ad taka
braudid frá þeim og snara því fyrir hunda.
Satt er þad, Herra! sagdi hún; þó eta hund- 28.
arnir molana undir bordunum barnanna. Hann 29.
mælti: sökum þessa svars, þá far þú heim, djöf-
ullinn er útfarinn af dóttur þinni. Og er hún 30.
kom heim, fann hún ad djöfullinn var útfarinn,
en dóttir hennar lá í reckju.

Frá landamerkjum Týrusar og Sídónar 31.
fór hann aptur til sjáfarins í Galíleu, yfir
Dekapólis land; hér færdu þeir honum mann 32.



V. 32. Matth. 9, 32. Lúk. 11, 14.

daufann og málhaltann; þeir bádu hann ad
33. leggja hendur yfir hann. Jesús veik honum
til sídu frá fjelmenninu, stack fíngrum sínum í
eyru honum, hrækti frá sér og hrærdi vid túngu
34. hans, leit upp til himins, andvarpadi og sagdi
vid hann: Effata! þad þýdir: opna þú þig!
35. Og strax opnudust hans hlustir og hapt hans
36. túngu losnadi og hann taladi skírt. Frá þessu
bannadi hann ad segja nockrum; en þess meir
sem hann bannadi þetta, því framar vídfrægdu
37. þeir þad og sögdu nærsta undrunarfullir: allt
gjörir hann dásamlega, því heyrnarlausum gef-
ur hann heyrn og málláusum mál.

8. Kap. I.) Jesús mettar 4000 manna, 1—9. II.) Talar um súrdeig Heródesar og Pharísæanna, 10—21. III.) Gefur sýn, 22—26. IV.) Heyrir medkénningu Lærisveinanna um sig, 27—39.

1. Um þessar mundir var enn svo vid ad mikill
fólks-fjøldi var hjá honum og hafdi eckert til
matar. Þá kalladi Jesús á Lærisveina sína
2. og sagdi: eg aumkast yfir fólk þetta, þad hefir
nú hjá mér verid í þrjá daga og eckert til
3. matar haft; en ef eg læt þá fara frá mér
fastandi til heimila sinna, verda þeir magn-
þrota á veginum; því sumir af þeim vóru
4. lángt ad komnir. Þá svörudu Lærisveinar
hans: hverninn fær nockurr fædt þá hér í ó-
5. bygdum? hann spurdi þá: hversu mörg braud
6. þeir hefdu? þeir sögdu: sjö. Sídan baud

V. 1. Matth. 15, 32.

hann fólkinu að setjast niður, tók þau sjø
braud, gjørdi Gudi þackir, braut þau og fékk
þau sídan Lærisveinum sínum, ad þeir legdu
þau fyrir fólkid. Þeir gjørdu, sem þeim var
bodid. Líka høfdu þeir fáeina smáfiska; hann 7.
þackadi einninn Gudi fyrir þá og baud ad þá
skyldi einninn frambera; en þeir neyttu og urdu
mettir. Sídan sefnudu þeir matar leifunum 8.
og vóru þad sjø karfir; en þeir, sem neytt 9.
høfdu, vóru hér um fjøgur þúsund; og ad því
búnu lét hann þá fara leidar sinnar.

Strax eptir þetta fór hann á skipi med 10.
Lærisveinum sínum og kom í héradid vid Dal-
manúta. Hér komu Pharísæar og tóku ad 11.
hefja vid hann spurníngar, samt krefjast teikns
af himni, til ad reyna hann; andvarpadi hann 12.
þá þúngann og mælti: þjód þessi beidist teikns,
en eg segi ydur satt, henni skal ecki teikn géf-
ast. Sídan skildist hann vid þá, steig aptur 13.
á skip og fór yfirum. Þeim hafdi gleymst ad 14.
taka med sér braud, svo þeir høfdu ecki nema
eitt í skipinu; þá baud Jesús þeim og sagdi: 15.
varist súrdeig þeirra Pharísæa og Heródesar.
Þá søgdu þeir sín á milli, ad Jesús mundi 16.
segja þetta í því skyni, ad þeim hefdi gleymst
ad taka braud med; en er hann vard þess vís 17.
mælti hann: því fáist þér um þad ad þér ecki
tókud braud med? edur skiljid þér enn ecki?
eru vitsmunir ydar enn þá svo sljófir? sjáid 18.
þér ecki med berum augum? heyrid þér ecki
med opnum eyrum? edur munid þér ecki þeg- 19.
ar eg skipti þeim fimm braudum medal fimm

V. 10. Matth. 15, 39. 16, 1. V. 15. Lúk. 12.

þúsunda, hverſu margar karfir með matar-leif-
20. ar hirdtud þér þá? þeir svörudu: tólf! edur
þegar eg ſkipti þeim sjö braudum medal fjögra
þúsunda, hverſu margar karfir fullar höfdud
21. þér þá afgángs? þeir sögdu: sjö! þá mælti
hann: hvers vegna gétid þér þá ecki þetta ſkilid?
22. Sídan komu þeir til Bethſaída borgar;
hér færdu þeir til hans blindann mann og bádu
23. ad hann tæki á hönum. Jesús tók í hend
hönum og leiddi hann út fyrir borgina, hrækti
í augu hans, lagdi hendur yfir hann og spurdi
24. hann: hvert hann sæi nockud? hann litadiſt um
og mælti: eg sje menn'na gánga eins og eg sæi
25. tré. Í annad ſinn fór Jesús höndum um
augu hans og bad hann líta upp, var hann
26. þá ordinn heilſkygn og sá alla glöggt; hönum
baud Jesús ad fara til heimilis síns, en ecki
inn í borgina, ecki heldur segja nockrum bæar-
manni frá þeſſu.
27. Hédan fór Jesús í þau þorp, er liggja
nærri borginni Cæsarea, ſem kénnd er vid Phi-
lippus. Á veginum spurdi hann Lærisveina
28. ſína: hvern menn héldu hann vera? Þeir
sögdu: sumir halda þú sért Jóhannes Skírari,
adrir, ad þú sért Elías, og enn adrir, ad þú
29. sért einn af Spámönnunum. Þá mælti hann:
en hverr haldid þér eg sé? Hönum svaradi
30. Pétur og mælti: þú ert Kriſtur; en hann
31. bannadi þeim ad segja nockrum frá því. Ept-
ir þad tók Jesús ad segja þeim frá: ad sér
bæri margt ad líða, útſkúfaſt af Öldúngunum,
enum ædſtu Kénnimönnum og þeim ſkriftlærdu;

V. 27. Matth. 16, 13. Lúk 9, 18. Jóh. 6, 69.

lika líflátinn ad verda, en endurlifna á þridja
degi eptir. Þetta sagdi hann þeim med ber- 32.
um ordum. Þá tók Pétur hann afsídis og fór
ad átelja hann; en hann snérist ad Lærisvein- 33.
um sínum og ávítadi Pétur med svofeldum
ordum: far þú frá mér, óvinur! því þú skil-
ur ecki Guds rádstofun, heldur sér eptir því,
sem menn kynnu ad kjósa. Ad svo mæltu kall- 34.
adi hann á fólkid og Lærisveina sína og sagdi:
hverr, sem vera vill í minni fylgd, afneiti sjálf-
um sér, taki sinn kross og fylgi mér eptir; því 35.
hverr, sem hyggst ad forda lífi sínu, mun því
týna; en hverr, sem vogar því í hættu fyrir
mínar edur minnar kénníngar sakir, mun fá
því borgid; því ad hverju gagni kæmi þad, 36.
þótt einn eignadist allann heiminn, ef hann léti
líf sitt; hvad mundi hann ecki vilja géfa sér 37.
til fjör-lausnar? Því hverr, sem ecki vill kann- 38.
ast vid mig og mína kénníngu fyrir þessari
vondu og þrá-lyndu þjód, vid hann mun
Mannsins Sonur ecki heldur kannast, þegar hann
kémur med veldi Födur síns og med helgum engl-
um. Enn framar sagdi hann: trúid mér, ad 39.
hér eru nú vidstaddir nockrir þeir, sem audn-
ast mun ad lifa svo lengi, ad þeir sjái ríki
Guds koma med krapti.

I.) Jesús um-myndast á fjallinu, 1—12. II.) Utrekur málleysis og heyrnarleysis anda, 13—28. III.) Talar um dauda sinn, 29—31. IV. Straffar metorda girnd og géfur fleiri reglur, 32—49.

## 9. Kap.

1. Þegar liðnir vóru sex dagar, tók Jesús Pét-
ur, Jakob og Jóhannes með sér eina saman
2. og fór með þeim uppá hátt fjall. Hér breytt-
ist ysirlitur hans, svo þeir sáu; urdu klædi
hans skínandi og hvít, sem snjór; hvítari enn
nockurr Þvotta-madur í heimi kann ad gjora.
3. Þá birtist þeim Elías og Móses og vóru þeir
4. á tali vid hann. Þá tók Pétur svo til orda
vid Jesúm: Meistari! hér er oss gott ad vera,
vér viljum reisa hér þrjú tjöld, eitt handa þér,
annad handa Móse og hid þridja handa Elí-
5. asi, en hann vissi ecki hvad hann sagdi, því
6. felmtur var yfir þá kominn. Þá dró yfir þá
ský og úr því heyrdist rødd, er mælti: þessi
er Sonur minn elskulegur, hlýdid þér honum!
7. Strax litudust þeir um og sáu engann framar
8. hjá sér nema Jesúm einann. Nú er þeir
gengu nidur eptir fjallinu, þá bannadi hann
þeim ad segja nockrum frá því, er þeir hefdu
sjed, fyrr enn Mannsins Sonur væri upprisinn
9. frá daudum. Þeir hugfestu þetta ord og
spurdu hverr annann hvad þad ætti ad þýda
10. ad upprísa frá daudum? og spurdu hann: því
segja hinir skriftlærdu: ad Elías egi ádur ad koma?
11. Jesús mælti: Elías kémur ad sonnu fyrst
og lagfærir allt og þad mun fara eins og
skrifad er um Mannsins Son, ad hann lídi
12. margt og verdi fyrirlitinn; en trúid mér, Elí-
as er kominn og þeir breyttu vid hann sem þeim
líkadi, eins og spád er um hann.

V. 2. Matth. 17, 1. Lúk. 9, 28.
V. 12. Ps. 22. Es. 53. Dan. 9, 26.

Þegar hann kom til Lærisveina sinna, 13.
sá hann að mikill fjöldi fólks var hjá þeim og
hinir skriftlærðu, sem spurðust á við þá; en 14.
strax, sem fólkið sá hann, hnykti því við, hljóp
til og heilsaði honum. Jesús spurði þá: um 15.
hvað þeir væru að þrátta? honum svaraði einn 16.
af fólkinu á þessa leið: Meistari! eg hefi flutt
son minn til þín, hann er þjáður af mállausis
anda; nær andinn þrífur hann, kastar hann 17.
honum niður og þá freyðfellir hann og gnístir
tönnum og verður máttvana. Eg bað Læri-
sveina þína að reka hann út, en þeir orkuðu
þess ekki. Þá sagði Jesús: þú trúarlausa 18.
þjóð! hversu lengi skal eg hjá yður vera?
hversu lengi skal eg umbera yður? færið mér
hann! þeir gjörðu svo; en strax, sem hann sá 19.
Jesúm, teygði andinn hann sundur og saman,
féll hann þá til jarðar, veltist um og froðu-
felldi. Jesús spurði þá föður hans: hversu 20.
lángt væri síðan þetta hefði viljað honum til?
hann qvað hann hafa haft þenna sjúkdóm frá
barnæsku. Opt hefir — sagði hann — andinn 21.
kastað honum bæði á eld og í vatn til að fyr-
irfara honum; en ef þú ert nockurs orkandi,
þá hjálpa þú ockur og kenn þú í brjósti um
ockur! Jesús mælti: það skal ské, ef þú get- 22.
ur trúað; trúuðum er allt mögulegt. Strax 23.
grét faðir sveinsins hástöfum og sagði: já! eg
trúi, en hjálpa þú trúarleysu minni! Nú er 24.
Jesús sá að fólkið þyrptist að, talaði hann svo
til hins illa anda: eg býð þér, þú andi! sem
veldur mál- og heyrnar-leysi manns þessa, að

V. 16. Matth. 17, 14. Lúk. 9, 37—42.

Þú farir út af honum og komir aldrei aptur.
25. Hann hrein þá og teygði hann mjeg sundur
og saman, síðan fór hann út; en sveinninn lá
eptir, sem væri hann dauður, svo margir sögðu
26. að hann væri látinn, Jesús tók þá í hönd
hans og reisti hann á fætur og þá stóð hann
27. upp. Þegar Jesús var kominn heim spurðu
Lærisveinar hans einslega: því þeir ekki hefðu
28. gétað rekið hann út? Jesús mælti: þetta kyn
verður ekki útrekið nema með bæn og föstu.
29. Þaðan fóru þeir yfir Galílæu og vildi
30. Jesús ekki að nockurr skyldi vita það; því
hann kénndi þá sínum Lærisveinum og sagði
þeim, að Mannsins Sonur ætti að ofurseljast
í manna hendur, sem mundu taka hann af lífi,
en eptir það hann væri líflátinn, mundi hann
31. uppreisa á þriðja degi. En þeir skildu það
ecki, þorðu heldur ecki að spyrja hann um það.
32. Þegar hann var kominn í Kapernaum
til herbergis síns, spurði hann Lærisveina sína,
hvað það hefði verið, sem þeir hefðu verið að
33. tala um á veginum sín á milli; en þeir þögdu,
því þeir hefðu verið að tala um á veginum,
34. hverr þeirra mestur væri. Hann settist þá
niður og kallaði til sín þá tólf og mælti svo
til þeirra: hverr yðar, sem vill vera mest metinn,
veri hann lægstur allra og allra hinna
35. þjón. Síðan tók hann barn eitt og setti það
36. meðal þeirra, faðmaði það og mælti: hverr,
sem meðtekur þvílíkt barn mín vegna, það er
sem meðtæki hann sjálfann mig; en hverr hann
meðtekur mig, hann meðtekur ecki mig einúngis,

V. 34. Matth. 18. Lúk. 9, 46.

heldur Þann, sem mig sendi. Þá tók Jóhann- 37.
es til orða og mælti: Meistari! vér sáum
mann einn, sem í Þínu nafni rak djöfla út og
vér bönnuðum honum Það, af Því hann var
ecki af vorum flocki. Jesús sagði: bannið hon- 38.
um Það ecki; Því enginn sá, sem gjörir krapta-
verk í mínu nafni, talar strax á eptir ílla um
mig. Hverr, sem ecki er á móti ydur, hann 39.
er með ydur; hverr, sem géfur ydur vatn að 40.
drecka Þess vegna, að Þér heyrið Kristi til,
honum mun Það ecki ólaunað vera. Tæli ein- 41.
hverr nockurn til ílls af Þessum umkomuleys-
íngjum, sem trúa á mig; betra væri hon-
um að milnu steinn hjengi um háls honum og
honum væri í sjó seckt. Ef Þín hægri hend 42.
lockar Þig til ílls, Þá hegg Þú hana af; betra
er Þér að vera handarvana og eðlast eilífa
sælu, enn að hafa báðar hendur heilar og fara
til helvítis í ósleckvanda eld, hvar ormur Þeirra 43.
ecki deyr og eldur aldrei slocknar. Ef að fót- 44.
ur Þinn lockar Þig til ílls, Þá hegg Þú hann
af; betra er Þér helltum að eðlast eilífa sælu,
enn að Þú hafir báða fætur Þína heila og Þér
verði kastað til helvítis í Þann ósleckvanda eld,
hvar ormur Þeirra aldrei deyr og eldur aldrei 45.
slocknar. Ef auga Þitt tælir Þig til ílls, Þá 46.
slít Þú Það út; betra er Þér að koma eineygð-
um í Guðs ríki, enn að Þú hafir bæði augu
Þín og Þér verði kastað í helvítis eld, hvar 47.
ormur Þeirra ecki deyr og eldur ecki slocknar.
Því sérhverr hreinsast með eldi*), eins og fórn- 48.
ar-dýrið hreinsast með salti. Saltið er góður 49.

V. 38. Lúk. 9, 49. *) Þ. e. í mótlætíngum.

hlutur, en láti þad krapt sinn, med hverju vil-
jid þér þá selta þad? Haldid seltunni í ydur
og verid samlyndir innbyrdis.

10. Kap. I.) Jesús talar um hiónaband, 1—12. II.) Tekur úngbörn sér í fadm, 13—16. III.) Talar um hina ríku, 17—27. IV.) Talar um tímanleg verdlaun sinna áhángenda, 28—31. V.) Talar um dauda sinn, 32—34. VI.) Rádleggur lítilæti, 35—45. VII.) Læknar blindann mann, 46—52.

1. Sídan fór hann þadan og kom í landsbygdir
Júdæu fyrir handan Jórdan, kom þá enn til
hans fjöldi fólks og kénndi hann þeim enn,
2. eins og hans var sidur til. Hér komu til
hans Pharísæar og spurdu hann, til ad freista
hans: hvert madur mætti segja skilid vid konu
3. sína? hann svaradi: hvad hefir Móses bodid
4. ydur í þessu efni? þeir segdu: ad Móses hefdi
leyft ad rita skilnadar-skrá og segja skilid vid
5. hana. Jesús mælti: þetta hefir Móses leyft
6. ydur sökum hardúdar ydar; en frá fyrstu
7. sköpun gjördi Gud þau mann og konu; þar
fyrir á madurinn ad yfirgéfa födur og módur
8. og lifa svo sameinadur med konu sinni, sem
9. væru þau einn madur; þau eru því ecki fram-
ar tveir heldur einn madur; en hvad Gud
10. hefir sameinad, mega menn ecki adskilja. Þeg-
ar þeir vóru heimkomnir, spurdu Lærisveinarn-
11. ir hann á ný um þetta sama efni; þeim sagdi

V. 2. Matth. 5, 31. 19, 7. 5 Mós. 24.

hann: hverr sèm segir skilid vid konu sína og
gengur ad ega adra, hann drygir hór mót
henni, og ef kona skilur vid mann sinn og gipt- 12.
ist ödrum, þá drygir hún líka hór.

Nú færdu menn börn til hans, til þess 13.
ad hann skyldi hræra vid þeim, en Lærisvein-
arnir ávítudu þá, sem þetta gjördu. Þegar 14.
Jesús vard þess vis, líkadi honum þad illa og
mælti: látid börnin koma til mín og bannid
þeim þad ekki, því slíkum heyrir Guds ríki
til; trúid mér! hverr, sem ekki medtekur Guds 15.
ríki eins og barn, mun aldrei þángad koma.
Sídan fadmadi hann börnin ad sér, lagdi hend- 16.
ur yfir þau og blessadi þau.

Einhverju sinni, er hann var genginn út 17.
á strætid, kom madur hlaupandi, laut honum og
mælti: algjördi Meistari! hvad skal eg gjöra
til þess eg ödlist eilífa sælu? Jesús mælti: 18.
því kallar þú mig algjördann? Gud einn er
algjördur, bodordin veitstú: þú skalt ekki drýg- 19.
ja hór; ekki mann vega; ekki stela; ekki bera
ljúgvitni; ekki svíkja; heidra födur þinn og
módur. Hinn svaradi: Meistari! þetta allt 20.
hefi eg haldid frá barnæsku minni. Jesús leit 21.
þá til hans vinsamlega og mælti: eins er þér
enn nú vant: sel þú allar eigur þínar og gef
fátækum, þá hefir þú ablad þér fjár á himni;
kom sídan, tak minn kross og fylg mér. En 22.
er hann heyrdi þetta, vard hann sorgbitinn og
fór hriggur í burtu, því hann var madur aud-
ugur. Þá litadist Jesús um og mælti vid 23.
Lærisveina sína: hversu torveldt er þeim ríku

V. 17. Matth. 19, 16. Lúk. 18, 18.

24. ad ödlast Guds ríki! Þetta þókti Lærísvein-
um hans undur; þá mælti Jesús: börn mín!
hve torveldt er þeim, sem setja traust sitt á
25. audinn, ad ödlast Guds ríki; audveldara er
úlfaldanum ad gánga í gégnum nálar-augad,
enn ríkum manni ad komast í Guds ríki.
26. Þetta undrudust þeir enn þá meir og sögdu
sín á milli: hverr mun þá verda hólpinn?
27. Jesús leit til þeirra og mælti: fyrir manna
sjónum er þad ómegulegt, en ecki fyrir Gudi;
honum er eckert um megn.
28. Þá tók Pétur svo til ords: vér yfirgáf-
29. um allt og gáfumst þér til fylgdar. Jesús
mælti: trúid mér! enginn hefir svo yfirgéfid
heimili sitt, brædur edur systur, födur edur
módur, konu edur börn edur fasteign, mín edur
30. minnar kénníngar vegna, ad honum ecki verdi
þad hér, nú í þessu lífi og þad jafnvel midt
í ofsóknunum, hundradfaldt endurgoldid, med
heimilum, brædrum, systrum, mædrum, börnum
og fasteign; hér á ofan skal hann í ödrum
31. heimi njóta eilífrar sælu; þá munu margir
þeir, er fyrstir eru verda sídastir og enir síd-
ustu fyrstir.
32. Nú héldu þeir til Jerúsalem, fór þá Je-
sús fyrir, því Lærísveinar hans vóru felmturs-
fullir og fylgdu honum med ótta; þá tók hann
þá tólf aptur til sín og sagdi þeim hvad fyrir
33. sér lægi. Vér förum nú — sagdi hann — til
Jerúsalem; þar mun Mannsins Sonur verda
framseldur þeim ædstu Kénnimönnum og lög-
lærdum; þeir munu dæma hann til dauda og
34. framselja hann heidnum mönnum; þeir munu

hæda hann, afhýda, hrækja á hann og taka
hann af lífi, en á þridja degi mun hann upprísa.
Þá komu til hans þeir synir Zebedæusar, 35.
Jakob og Jóhannes og mæltu: Meistari! veittú
ockur eina bæn; hann spurdi hvers þeir beidd- 36.
ust? veittú ockur — segdu þeir — ad vid meg- 37.
um sitja hverr til sinnar hlidar þér, þegar þú
setst ad ríki þínu Jesús mælti: þid vitid ecki 38.
hvers þér beidist; hvert treystid þid ydkur ad
drecka þann bikar, sem mér er ætladur, edur
skírast skírn þeirri, sem eg á fyrir höndum?
þeir qvádust þad géta. Jesús mælti; þann 39.
bikar, sem mér er ætladur munud þid ad sönnu
drecka og skírast skírn þeirri, sem mér er fyrir
höndum; en ad sitja mér til hægri edur vinstri 40.
handar, stendur ecki í mínu valdi ad veita; þeir
einir munu þad hljóta, sem þad er ætlad.
Þegar hinir tíu heyrdu þetta, mislíkadi þeim 41.
mjög vid þá Jakob og Jóhannes. Þá kalladi 42.
Jesús þá til sín og mælti: þér vitid, ad þeir,
sem löndum ráda, drottna yfir undirsátum sín-
um og þeir, sem ríki hafa ega vald á þeim, en 43.
þetta skal ecki svo vera med ydur; því hverr
ydar, sem mestur vill vera, hann sé hinna þjón-
ustu-madur; og hverr, sem vill vera ædstur yd- 44.
ar á medal, hann skal allra ydar þjón vera;
því ecki kom Manusins Sonur til þess ad láta 45.
þjóna sér, heldur til þess odrum ad þjóna og
til ad láta líf sitt mörgum til lausnar.
Nú komu þeir til Jeríkó borgar. Þegar 46.
hann fór þadan, fylgdu honum Lærisveinar hans

V. 35. Matth. 20, 20. Lúk. 22, 25.
V. 46. Matth. 20, 29. Lúk. 18, 35.

og mikill fjøldi fólks. Þá sat Barthímeus
Tímausson hinn blindi vid veginn og beiddist
47. ølmusu; þegar hann heyrdi ad Jesús nadverski
færi þar hjá, kalladi hann hátt og mælti:
48. Jesú, nidji Davíds, miskuna þú mér! Marg-
ir skipudu honum þá ad þegja, en hann kalladi þess
49. hærra og sagdi: nidji Davíds, miskuna þú
mér! Þá nam Jesús stadar og lét kalla á hann;
þeir gjørdu svo og mæltu: vertú von gódur,
50. stattú upp, hann kallar á þig. Hann kastadi
þá yfirhøfn sinni, stód á fætur og kom til Jesú.
51. Jesús mælti: hvad viltú ad eg gjøri vid þig?
hinn blindi mælti: Meistari! þad, ad eg fái
52. sjón mína. Jesús mælti: far þú leidar þinn-
ar, þín trú hefir hjálpad þér. Strax fékk
hann aptur sjón sína og fylgdi honum á ferdinni.

11. Kap. I.) Jesús rídur inn í Jerúsalem, 1—11.
II.) Formælir fíkju-trénu, hreinsar
musterid og talar um bænina, 12—26.
III.) en vill ecki segja hverja makt hann
hasi hasi til ad hreinsa musterid, 27—33.

1. Þegar þeir vóru komnir í nánd vid Jerúsa-
lem til Betphage og Bethaníu vid Vidsmjørs
fjallid; þá sendi Jesús frá sér tvo af Læri-
2. sveinum sínum og mælti: fari þid í þorpid,
sem gagnvart yckur er og strax, sem þid komid
þángad, munud þid finna fola bundinn, hver-
jum enginn madur hefir ádur ridid, leysid hann
3. og færid mér; en skyldi nockurr spyrja því
þér gjørid svo? þá segid: ad Herra yckar þurfi

V. 1. Matth. 21. Lúk. 19, 29. Jóh. 12, 12.

hans vid og muni brádum senda hann híngad
aptur. Þeir fóru leidar sinnar og fundu fol- 4.
ann bundinn fyrir dyrum úti á strætinu og leystu
hann; þá spurdu nockrir, sem vid vóru staddir: 5.
Því þeir gérdu þetta? þeir svörudu eins og 6,
Jesús hafdi bodid þeim og þá létu hinir þá
fara. Sídan særdu Lærisveinarnir Jesú fol- 7.
ann, lögdu klædi sín á hann, en hann steig á
bak; en margir breiddu klædi sín á veginn, adr- 8.
ir hjuggu lim af trjánum og strádu því á braut-
ina; en múgurinn, sem á undan fór og eptir-
fylgdi, hrópadi og sagdi: heill og blessan Guds 9.
sé med þeim, sem kémur í Drottins umbodi!
blessad veri hid apturkomna ríki födurs vors 10.
Davíds! heill af himni! Þegar hann kom 11.
inn í Jerúsalem, géck hann strax uppí muster-
id, og þegar hann hafdi skodad þar allt, fór
hann til Bethaníu med þeim tólf undir qvöld.

Morguninn eptir, þá þeir fóru frá Be- 12.
thaníu, húngradi hann; þá sá hann álengdar 13.
eitt fíkju-tré, sem lauf-blödin vóru vaxin á,
þángad fór hann ad leita hvert hann ecki finndi
ávöxt á því; en þegar hann kom fann hann
eckert nema lauf-blödin tóm, því fíkna-tíminn
var ecki kominn; hann sagdi þá vid tréd: 14.
njóti þá enginn ávaxtar af þér hédan í frá!
Þetta heyrdu Lærisveinar hans; sídan fóru þeir 15.
til Jerúsalem, géck þá Jesús í musterid og rak
út þá, sem seldu þar og keyptu og hratt um
bordum þeirra, er skipti höfdu á peníngum,
og stólum þeirra, er dúfur seldu og engum leid 16.



V. 13. Matth. 21, 19—22.

17. hann ad bera ílát um musterid. Sídan kénndi
hann og sagdi: er ecki skrifad í Ritníngunni:
mitt hús skal vera bæna-hús fyrir allar þjóð-
ir? en þér hafid gjört úr því rænîngja bæli.
18. Þegar þeir skriftlærdu og ædstu Prestar heyrdu
þetta, leitudust þeir vid, hverninn þeir gjætu
rádid hann af dögum, því þeim stód ótti af
honum, vegna þess allt fólkid dádist mjøg ad
19. hans kénníngu. Þegar qvøld var komid, fór
20. hann útan borgar. Um morguninn eptir fóru
þeir hjá fíkju-trénu og sáu ad þad var visnad
21. allt frá rótum. Þá minntist Pétur þess, sem
Jesús hafdi sagt og mælti: skodadú, Meistari!
fíkju-tréd, hverju þú formæltir, er visnad.
22. Þá sagdi Jesús: treystid þér Gudi! trúid
23. mér, ef einhverr segdi vid fjall þetta: lyptú þér
upp og kastadú þér í hafid og efadi ecki,
heldur trydi ad þad mundi verda eins og hann
24. segdi, þá mundi þad ské. Þar fyrir segi eg
ydur: um hvad helzt þér bidjid Gud og trú-
25. id þér munud ødlast, þad munud þér fá. Nær
þér bidjid, þá fyrirgéfid, ef ydur þykir nockud
vid einhvern, svo ad Fadir ydar á himnum
26. fyrirgéfi ydur einninn ydar afbrot; en ef þér
ecki fyrirgéfid ødrum, mun Fadir ydar himn-
eskur ecki heldur forláta ydur ydar afbrot.
27. *Nú komu þeir aptur til Jerúsalem, og
þegar hann var staddur í musterinu, komu til
hans þeir ædstu Prestar, Skriftlærdir og Øld-
28. úngarnir og spurdu: med hvada rétti hann
gjørdi þetta, eda hverr honum hefdi géfid vald
29. til þess? Jesús mælti: eg vil og spyrja ydur

V. 27. Matth. 21, 23. Lúk. 20.

eins, ef þér svarið mér til þess, mun eg og
segja ydur í hvers umbodi eg gjøri þetta.
Hvert hafdi Jóhannes vald ad skíra, frá Gudi 30.
edur mennum? svarid mér til þess! þeir hug- 31.
leiddu þetta med sér og hugsudu svo: ef vér
segjum hann hafi haft þetta vald frá Gudi,
mun hann spyrja: því vér ecki hefum trúad
honum; en ef vér segjum hann hafa haft þad 32.
frá mennum, þá hefum vér orsek til ad hræd-
ast fólkid, því allir héldu hann fyrir sannann
Spámann. Þeir svorudu honum því og qvád- 33.
ust ecki vita þad. Jesús mælti: þá segi eg
ydur heldur ecki í hvers umbodi eg gjøri þetta.

I.) Jesús talar um víngard, 1—12. II.) **12. Kap.**
Um skatt, um upprisuna, um løgmálid,
um sína persónu, 13—40. III.) Um
gjøf eckjunnar, 41—44.

Þá sagdi hann þeim dæmisøgu þessa: madur 1.
nockurr plantadi-víngard og hlód gard um hann;
þar gjørdi hann vínpressu og bygdi þar hús
mikid, sídan leigdi hann víngardinn víngards-
mennum og fór úr landi. Þegar tími var til, 2.
sendi hann þjón sinn til víngards-mannanna,
til ad veita þeim hluta ávaxtarins móttøku, er
hann hafdi áskilid sér; hann tóku þeir hønd- 3.
um, berdu hann og sendu aptur tómhendtann.
Þá sendi húsbóndinn annann þjón til þeirra; 4.
þennann berdu þeir grjóti, særdu hann á høfdi,
løgdu honum hádúngar til og létu hann svo



V. 1. Matth. 21. Lúk. 20.

5. fara. Enn þá sendi hann þann þridja þjón
til þeirra; hann myrdtu þeir. Marga fleiri
sendi hann, en suma af þeim berdu þeir, en
6. suma drápu þeir. En þá átti hann eptir
einn einka son, hverjum hann unni mikid;
þennann sendi hann seinast til þeirra og sagdi
þeir mundu þó bera virdíngu fyrir syni sín-
7. um; en víngards-mennirnir tóku rád sín sam-
an og mæltu sín á milli: þessi er sá, sem erfa
skal víngardinn, tekum hann af lífi, svo verd-
8. ur arfurinn vor. Sídan tóku þeir hann hönd-
um, myrdtu hann og kestudu honum út fyrir
9. víngardinn. Hvad ætli þér ad egandi vín-
gardsins muni gjöra? hann mun koma og fyri-
fara víngards mönnunum og leigja víngard sinn
10. ödrum. Hafid þér ecki lesid þad: sá steinn,
er húsasmidir útskúfudu, hann er nú hornsteinn
11. ordinn, af Gudi er hann þar til kjörinn, þótt
12. oss undarlegt þyki. Þá vildu þeir leggja
hendur á hann, en þordu þad ecki fyrir alþýd-
unni, því þeir skildu ad hann sagdi dæmisögu
þessa uppá þá; þeir yfirgáfu hann því og
gengu á burt.
13. Eptir þetta sendu þeir til hans nockra
af Pharísæum og mennum Heródesar, er leit-
14. ast skyldu vid ad fá á ordum hans. Þeir
spurdu hann á þessa leid: Meistari! oss er
kunnugt ad þú ert sannordur; þú mælir ecki,
sem hverr vill heyra og fer ecki ad mannvird-
íngum, heldur kénnir þú Guds lærdóm rétt-
ann: hvert egum vér ad lúka Keisaranum skatt
edur ecki? hvert skulum vér gjalda hann edur

V. 13. Matth. 22, 15. Lúk. 20, 20.

ecki? Nú er Jesús skildi slættskap þeirra, 15.
mælti hann: því freistid þér mín? færid mér
hálfs-eyris peníng; þeir gjördu svo. Jesús 16.
spurdi þá: hvers ad væri mind sú og yfirskrift,
er á honum stædi? þeir sögdu: ad það væri
Keisarans; þá sagdi Jesús: gjaldid þá Keisar- 17.
anum hvad Keisarans er og Gudi hvad Guds 18.
er. og þá furdadi á honum. Nú komu Sa-
dúsæar til hans, sem neita því ad daudir menn
upprísi. Þeir legdu fyrir hann þessa spurn-
íngu: Meistari! — sögdu þeir — Móses hefir
bodid oss: ad ef nockurr dæi barnlaus frá konu 19.
sinni, þá skyldi bródir hans fá konu hans, til
þess ad halda vid. ættlegg bródur síns; en med 20.
oss vóru sjö brædur, hinn fyrsti þeirra qvong-
adist og dó barnlaus; þá géck annar bródir 21.
hans til ad eiga konu hans; hann dó og barn-
laus; sídan hinn þridji og allir sjö eignudust 22.
hana og deydu barnlausir, en seinast allra deydi
konan. Hvers þeirra sjö egin-kona skal hún 23.
nú verda í upprisu framlidinna, því allir höfdu
þeir átt hana? Jesús mælti: hvert villist þér 24.
ecki þess vegna, ad þér hverki skiljid Ritníng-
una, né vitid hvílíkur ad sé máttur Guds?
Því þegar menn upprísa, munu hverki þeir 25.
qvænast né þær giptast, heldur munu þeir verda
eins og englar Guds á himnum. En hvad upprísu 26.
framlidinna vidvíkur, hafid þér ecki lesid í Mó-
sis-bók í sögu-þættinum um runninn, hvad Gud
sagdi vid hann og svo hljódar: "Eg er Abrahams
Gud og Isaks Gud og Jakobs Gud." Nú er Gud 27.

V. 18. Matth. 22 23. Lúk. 20, 27. Post. Gb, 23, 8
V. 26. 2 Mós. 3.

ecki Gud daudra, heldur lifendra, er því villa
28. ydar stór. Þá kom til hans einn af þeim
skriftlærdu, er heyrt hafdi á samtal þeirra og
hversu vel ad Jesús hafdi svarad þeim; hann
29. spurdi á þessa leid: hvert er þad allra ædsta
bod? Jesús mælti: þad allra ædsta bod er
þetta: heyr þú, Israel! Drottinn vor Gud er
30. sá einasti Gud, þar fyrir átt þú ad elska
Drottinn Gud þinn af ollu þínu hjarta, af
allri þinni sálu, af ollum huga og ollum krept-
31. um. Þetta er þad ædsta bod og þessu líkt er
hitt: elskadú adra menn eins og sjálfann þig;
32. eckert bod er ædra enn þessi. Þá sagdi hinn
skriftlærdi: ágjætlega svaradir þú þessu og satt
er þad, ad ecki er Gud nema einn og enginn
33. utan hann og ad elska Gud af ollu hjarta,
ollum huga, allri sálu og ollum kreptum og
adra menn eins og sjálfann sig, er meir áríd-
andi enn oll bod um brenni-fórnir og offur.
34. Þegar Jesús heyrdi þetta skynsamlega andsvar
hans, mælti hann: þú ert ecki lángt frá Guds
ríki; og enginn þordi ad þreyta spurníngar
35. vid hann framar. Og er Jesús var ad kénna
í musterinu sagdi hann: því segja hinir Skrift-
36. lærdu ad Kristur sé Davíds sonur? en Da-
víd qvedur þó sjálfur í gudlegri andagift svo
ad ordi: "Drottinn sagdi vid minn Drottinn:
sit þú mér til hægri handar, þar til eg gjöri
37. óvini þína ad skör fóta þinna." Hér kallar
Davíd hann sjálfur Herra; hverninn kann

V. 28. Matth. 22, 35. Lúk. 10, 25.
V. 29. 5 Mós. 6, 4. 3 Mós. 19, 18.
V 36. Psálm. 110.

hann þá ad vera sonur hans? En öllu fólk-
inu gédjadist vel ræda hans, og í kénníngu 38.
sinni sagdi hann til þeirra: varid ydur vid
þeim skriftlærdu, sem gjarnan brúka sid hátída-
klædi; þeir vilja þeim sé fyrst heilsad á
manna-mórum, sitja í fyrirsæti í samkundum og 39.
efstir til bords í veitslum; þeir útsjúga hús 40.
eckna, en látast vera bænrækuir og bidja láng-
ar bænir, þeir munu og þess þýngra straffi
sæta.

Einhverju sinni sat Jesús gégnt fé- 41.
hirdslu musterisins, og sá ad fjöldi fólks lagdi
þar fé í og margir þeir, er ríkir vóru, lögdu
mikid til; þá kom þar ad eckja nockur fátæk 42.
og lagdi þar í tvo smá-penínga, sem eru hálfs
skildíngs virdi. Þá leit Jesús til Lærisveina 43.
sinna og sagdi þeim: trúid mér! þessi fátæka
eckja hefir meira fé lagt í fjárhirdsluna enn
allir hinir; því þeir gáfu allir af því, sem 44.
þeir hefdu afgángs, en hún or-fátæk gaf aleigu
sína, allt hvad hún hafdi sér til lífs-uppheldis.

Jesús talar um eydileggíngu Jerúsalems 13. Kap.
borgar og heims endirinn. 1—37.

Þegar hann géck út úr musterinu, sagdi ein- 1.
hverr af Lærisveinum hans vid hann: skodadu,
Meistari! hvad stórir þessir steinar eru og hví-
lík þessi byggíng! Jesús mælti: þú undrast 2.
þessar miklu byggíngar; þar mun ecki eptirskil-
inn verda steinn yfir steini ónidurrifinn. Nú 3.

V. 40. Matth. 25, 13 Lúk. 20, 47.
V. 41. Luk. 21. V. 1. Matth. 24. Lúk. 21.

sem hann sat á viðsmjörs-viðar fjallinu gégnt
musterinu, spurðu þeir Pétur, Jakob, Jóhan-
4. nes og Andrés hann einslega hér um og báðu
hann að segja sér nær þetta mundi ské og
hvert að væri merkið nær allt þetta skyldi
5. rætast. Jesús mælti: varist að enginn leiði
6. yður í villu, því margir munu koma undir
mínu nafni og segja sig vera Krist og þeir
7. munu marga afvega leiða. En er þér heyrið
stríð og hersögur, þá látið ekki hugfallast; því
þetta hlýtur að ské; þó er þar fyrir ekki end-
8. irinn kominn. Sú eina þjóð mun reisa ófrið
mót þeirri annari og það eina ríki mót því
öðru; þá munu í ýmsum stöðum vera land-
skjálftar, hallæri og flóckaðrættir; þetta er bir-
9. jan hermúnganna, en verið þér þá varir um
yður, því þeir munu hafa yður á ráðstefnur
og í samkundur, þér munuð flengdir verða og
mín vegna færðir verða fyrir Landshöfðíngja
og Konúnga, svo þér einninn fyrir þeim gét-
10. ið borið vitni um mig; en áður hlýtur minn
11. lærdómur að vera fluttur öllum þjóðum. En
nær þeir draga yður fyrir rétt og framselja
yður yfirvaldinu, þá verið ekki hugsjúkir um
hvað þér egið að tala yður til forsvars, held-
ur talið það, sem Andi Guðs leggur yður þá
12. í munn; því þér eruð ekki það, sem talið,
heldur kraptur Guðs. Um þessar mundir
mun sá eini bróðir framselja hinn til dauða
og faðirinn barn sitt; börnin munu hefja fjand-
skap mót foreldrum sínum og taka þá af lífi
13. og mín vegna munu allir yður að hatri hafa:
en sá, sem stöðugur stendur til enda, hann

mun hólpinn verda. En nær þér sjáid hina 14.
vidurstyggilegu eydileggíngu koma þángad, er ecki
skyldi (hann, sem les þar um, gefi gaum ad
því); þá flýi hverr sá, sem er í Gydínga-
landi, til fjalla, og hverr, sem er á húsþaki, 15.
varist hann ad fara ofan í húsid, edur gánga
inní þad til ad taka nockud þadan. Sá, sem 16.
er á akri, snúi hann ecki aptur til ad taka
klædi sín; vesælar eru á þeim tímum konur 17.
þúngadar og þær, er born hafa á brjósti; en 18.
bidjid: ad ydar flótti verdi ecki um vetur; því 19.
á þeim tímum mun verda svo stór hermúng,
ad engin hefir slík verid frá heims upphafi til
þessa og ecki heldur mun verda; og nema Gud 20.
stytti þessa tíma, mundi enginn lífi halda; en
hann mun stytta þá vegna þeirra, sem hon-
um eru þeckir. Ef einhverr þá segir ydur: 21.
sjá! hér er Kristur eda þar, þá trúid ecki; því 22.
upp munu rísa fals-kristar og fals-spámenn, er
gjøra munu tákn og stórmerki, til ad afvega-
leida, ef ské mætti, jafnvel Guds vini. En 23.
verid þér varir um ydur og minnist þess, ad
eg sagda ydur allt þetta fyrir. Á þessum 24.
tíma, nær þessi hørmúng er á enda, mun sól-
in sortna og túnglid missa birtu sinnar; þá 25.
munu stjørnur hverfa og himininn skjálfa. Þá 26.
munu menn sjá Mannsins Son komanda í ský-
unum med miklu valdi og vegsemd; hann mun 27.
senda Engla sína til ad samansafna hans ást-

V. 14. Dan. 9, 26. 27.
V. 22. 5 Mós. 13. 2 Thessal. 2, 9—12.
V. 24. Es. 13, 10. Ezech. 32, 7. Jóel. 2, 10. 3,
15. Opb. B. 6, 12—14. V. 26. Dan. 7, 13.

fólgnum úr ollum áttum, frá einu heims-skauti
28. til hins. Takid dæmi af þessu fíkju-tré: nær
greinir þess eru þvalar ordnar og blødin taka
út ad springa; þá vitid þér ad sumarid er í
29. nánd. Eins skulud þér og vita, ad nær þér
sjáid þetta ské, þá er eydileggíngin fyrir hend-
30. um. Sannlega segi eg ydur! þessi manns-
aldur mun ecki verda umlidinn ádur enn allt
31. þetta kémur fram. Himin og jørd munu for-
32. gánga, en mín ord munu rætast. En þann
dag edur stund veit enginn madur, ecki Englar
á himni og ecki Sonurinn og enginn, nema
33. Fadirinn einn. Verid því varir um ydur!
vakid og bidjid. Því þér vitid ecki nær þessi
34. tími kémur. Madur nockurr ferdadist ad heim-
an og fól hús sitt og eigur þjónustu-mennum
sínum á vald og skipadi hverjum sitt verk; en
35. dyra-verdinum baud hann ad vaka. Eins
verdid þér ad vaka, því þér vitid ecki nær
húsbóndinn muni koma; hvert heldur ad apt-
ni, um midnætti, um apturelding, edur ad
36. morgni, ad ecki komi hann nær þér minnst
37. væntid og finni ydur sofandi; hvad eg segi
ydur, þad sé ollum sagt: vakid þér!

**14. Kap.** I.) Hofudprestarnir leitast vid ad fyrirkoma Jesú, 1. 2. II.) Kona nockur smyr hann, 3—9. III.) Jesús innsetur Altaris Sakramentid, 10—25. IV.) Fyrisegir Péturs hrøsun, 26—31. V.) Jesú þjáning í grasgardinum; Júdasar svik; Jesús handtekinn; Lærisveinarnir flýa,

32—52. VI.) Jesús er leiddur til
Høfudprestsins; hans medkénning fyrir
honum; hañ fordæmist, mei handlast illa,
53—65. VII.) Péturs hrøsun, 66—72,

Tveimur døgum hér eptir var Páska-hátíd, 1.
nær hid ósýrda braudid skyldi etast; þá leitud-
ust þeir ædstu Prestar og Skriftlærdir vid hvern-
inn þeir gætu fángad hann med svikum og rád-
id hann af døgum; segdu samt: ecki á hátíd- 2.
inni, svo ecki rísi ódi milli alþýdunnar.

Nú er hann var undir bordum í Betha- 3.
nía í húsi Símonar líkþráa, kom þar kona
nockur, sem hafdi smyrsla-bauk úr alabastri,
fullann med dýrmæta, hreina Nardus-olíu;
hún braut baukinn og hellti olíunni yfir høfud
honum. Þetta féll sumum ílla í skap og 4.
segdu: því er þessum smyrslum spillt? Þarf- 5.
ara hefdi verid ad selja þau fyrir 150 aura og
géfa fátækum; og nú tóku þeir ad ásaka hana
hér fyrir. Jesús mælti: látid hana í fridi! 6.
því amist þér vid henni? vel gjørdi hún til
mín. Fátæka hafid þér ætíd hjá ydur og 7.
kunnid ad gjøra þeim gott nær þér viljid, en
mig hafid þér ecki ætíd hjá ydur. Hún gérdi 8.
hvad í hennar valdi stód; hún hefir fyrifram
smurt líkhama minn til greftrunar; trúid mér! 9.
í øllum heimi, hvar sem lífssaga mín verdur
søgd, mun þess og gétid, sem hún gjørdi,
henni til hróss.

Sídan fór Júdas frá Karíoth, einn af 10.
þeim tólf, til enna ædstu Presta, til þess hann

V. 3. Lúk. 7, 37. Jóh. 12, 3.

11. kjæmi honum med svikum á þeirra vald; vid
þetta urdu þeir gladir og hétu honum fé, en
hann leitadi hverninn hann á hentugastann hátt
12. gæti svikid Jesúm. A fyrsta degi hátídarinn-
ar, þeirra ósýrdu brauda, á hverjum Páska-
lambinu átti ad slátra, spurdu Lærisveinar Je-
sú hann um: hvar hann vildi þeir matreiddu
13. honum Páskalambid? Þá sendi hann tvo af
þeim og sagdi: farid þér í borgina, þar mun-
ud þér mæta manni, sem ber vatns-krús, fylg-
14. id honum og segid rádanda þess húss, sem
hann gengur inn í, ad Lærimeistarinn spyrji:
hvar ad sé þad herbergi, hvar hann géti neytt
15. Páskalambsins med Lærisveinum sínum? og mun
hann þá sýna ydur stórann loptsal med upp-
búnum beckjum; búid þér þar oss til matar.
16. Þeir fóru, sem þeim var bodid, komu í borg-
ina, fundu allt eins og hann hafdi sagt þeim
17. og matbjuggu þar Páskalambid. Um qvøldid
18. kom hann sjálfur med þeim tólf. Þegar þeir
vóru komnir undir bord og teknir til matar,
mælti Jesús: sannlega segi eg ydur: einn af
ydur, sem nú er ad mat med mér, mun svíkja
19. mig. Vid þetta urdu þeir hriggvir og spurdu
hann einn eptir annann, hvert hann meinti
20. þetta til sín? hann svaradi: þad er einn af
þeim tólf, sem dýfir med mér í sama fat;
21. Mannsins Sonur mun ad vísu láta líf sitt,
eins og spád er um hann, en vesæll er sá, sem
svíkur hann; betra væri honum ad hann aldrei
22. væri fæddur. Medan þeir enn þá vóru undir

V. 18. Ps. 41, 10. V. 22. Matth. 26. Lúk 22.
1 Cor. 11.

bordum, tók Jesús braudid, gjørdi Gudi þack-
ir, braut þad og skipti med sínum Lærisvein-
um og mælti: takid þér vid, þetta er minn lík-
hami. Sídan tók hann bikarinn, gjørdi Gudi 23.
þackir og féck þeim hann, en þeir druckn allir
af honum; þá sagdi hann vid þá: þetta er 24.
mitt blód, med hverju minn lærdómur verdur
stadfestur og sem fyrir marga verdur úthellt;
eg segi ydur þad satt, ad hédan í frá mun eg 25.
ecki vín drecka, til þess dags, er eg dreck ann-
arskonar vín í Guds ríki.

Þegar þeir hefdu súngid lofsaunginn 26.
fóru þeir til vidsmjers fjallsins; á vegin- 27.
um mælti Jesús: í nótt munud þér allir yfir-
géfa mig, eins og sagt er í Ritníngunum:
"nær eg deydi hirdirinn þá munu saudirnir
tvístrast"; en eptir mína upprisu mun eg verda 28.
kominn á undan ydur til Galílæu. Þá sagdi 29.
Pétur: þótt allir yfirgéfi þig, þá skal eg samt
aldrei yfirgéfa þig! Jesús mælti: trú þú mér! 30.
nú í nótt, ádur enn haninn hefir galad í ødru
sinni, muntú þrísvar hafa afneitad mér. En 31.
hann qvad enn frekar ad og mælti: þótt eg
ætti ad láta líf mitt med þér, skyldi eg þó
aldrei afneita þér; eins segdu allir Lærisveinarnir.

En er þeir komu í þann stad, er heitir 32.
Gethsemane, bad hann Lærisveina sína bída
þar, á medan hann væri á bænum sínum. Hann 33.
tók þá med sér Pétur, Jakob og Jóhannes og
tók ákaflega ad hriggjast og harmþrúnginn ad
verda. Þá sagdi hann til þeirra: eg em í 34.
daudans ángist; bídid hér og vakid. Þá géck 35.

V. 27. Zach. 13, 7.

hann lítid lengra áfram, féll til jardar og bad,
ad þessi harma-stund mætti hjá sér lída, ef
36. þess væri kostur. Fadir minn! sagdi hann,
alls ertú máttugur, lát þenna bikar víkja frá
mér; þó ecki sem eg vil, heldur sem þú vilt.
37. Þá hann kom aptur til þeirra, fann hann þá
sofandi; þá sagdi hann til Péturs: Símon! gatstú
38. ecki haldid þér uppi um eina stund? Vakid
og bidjid ad þér ecki freistist til ad yfirgefa mig;
andinn er ad sönnu reidubúinn, en holdid er
39. veikt. Í ödru sinni fór hann burtu og gjördi
40. bæn sína og taladi enum sömu ordum. Og þá,
er hann kom aptur, fann hann þá sofandi, og
vóru þeir svo yfirkomnir af svefnþúnga, ad þeir
41. ecki vissu hverju þeir svörudu honum. Þridja
sinn kom hann til þeirra og sagdi: sofid nú
þad eptir er og hvílist! mér er hughægra —
nú er tíminn kominn; sjá! Mannsins Sonur
mun framseldur verda á vald vondum mönnum.
42. Standid upp, förum hédan; sá er í nánd, er
43. mig svíkur. Jafnskjótt, er hann var þetta ad
tala, kom Júdas, er var einn af þeim tólf Læri-
sveinum og med honum fjöldi manna, búnir
sverdum og bareflum, sendir frá Höfudprestun-
44. um og þeim skriftlærdu og Öldúngunum. Svik-
arinn hafdi sagt þeim þetta til marks: sá, sem
eg kyssi, hann er Jesús; handtakid hann og
45. leidid á burt svo ecki sleppi. Og er hann kom,
géck hann þegar ad Jesú, kalladi hann Meist-
46. ara sinn og mynntist vid hann. En hinir
47. lögdu hendur á hann og tóku hann. En einn
af þeim, sem hjá stódu, brá sverdi og hjó á eyra
þjónustu-manni hins ædsta Prests, svo aftók.

Þá tók Jesús til orda og mælti til þeirra: þér 48.
ecud útfarnir med sverdum og bareblum til ad
handtaka mig, sem væri eg ránsmadur. En þó 49.
eg dags daglega kénndi í musterinu hjá ydur
handtókud þér mig samt ecki; en þetta er skéd
svo spádómarnir rættust. Þá yfirgáfu hann allir 50.
Lærisveinarnir og flýdu. Madur nockurr ung- 51.
ur fylgdist med honum, hann hafdi lín eitt klæda
á berum sér; og er flocks menninnir vildu hand- 52.
taka hann, kastadi hann línklædinu og flýdi nak-
inn í burtu frá þeim.

Sídan leiddu þeir Jesúm til Hofud-prests- 53.
ins og þángad safnudust allir hinir ædstu
Prestar og Ödúngarnir og hinir skriftlærdu.
Pétur fylgdi honum álengdar, allt inn í gard 54.
Hofudprestsins, settist þar hjá þjónustu-mennun-
um og ornadi sér vid eldinn. En Hofudprest- 55.
arnir og allt þad mikla Rád, leitadi vitna gégn
Jesú, ad þeir kynnu ad dæma hann til dauda,
en fundu eckert saknæmt um hann; því þó 56.
margir bæru ljúgvitni gégn honum, urdu þó
vitnisburdir þeirra ecki samhljóda. Nockrir 57.
stódu upp og báru þad ljúgvitni: vér heyrdum
hann segja, ad eg skal brjóta nidur þetta must- 58.
eri, er med hondum er gjert og innan þriggja
daga byggja upp annad musteri, þad ecki er
med hondum gjort. En ecki heldur vard vitn- 59.
isburdur þeirra samhljóda í þessu. Þá géck 60.
Hofud-presturinn fram og spurdi Jesúm: svar-
ar þú engu? hvílík sérmæli bera þessir á hend-
ur þér? en hann þagdi og svaradi engu ordi.
Hofud-presturinn spurdi hann þá enn aptur: 61.

62. ertú Kristur Sonur hins Blessada? Jesús
svaradi: eg em hann; og þér munud sjá Manns-
ins Son sitjanda til hægri handar þeim Al-
63. valda og komanda í skýum himins. Þá reyf
Hösudprestu.inn klædi sín og mælti: hvad þurf-
64. um vér nú framar vitna vid? þér heyrdud
hans gudlöstun, hvad lítst ydur? en þeir qvádu
65. hann allir dauda sekann. Þá hræktu sumir á
hann, huldu hans ásjónu, slógu hann med knef-
um og sögdu: spádú nú! líka slóu þjónarnir
hann knefa-höggum.

66. Medan Pétur var nidri í húsa-gardinum,
67. kom ein af þernum Höfud-prestsins og þá hún
sá hvar Pétur var ad orna sér, leit hún vid
honum og mælti: þú munt vera einn af Læri-
68. sveinum Jesú nadverska? En hann bar á
móti því og sagdi: eg veit ecki og skil ecki
hvad þú segir. Géck hann þá útí forgardinn
69. og þá gól haninn. Þernan sá hann þá aptur og
sagdi vid þá, sem hjá stódu: þessi er einn af
70. þeim; en hann neitadi aptur. Skömmu sídar
sögdu þeir, er þar vóru, vid Pétur: víst ertú
einn af þeim; því málfæri þitt er því líkast,
71. sem þú værir Galíléari. Þá tók hann ad
sverja og sárt vid leggja ad ecki bæri hann
kénnsl á þennann mann, er þeir töludu um.
72. Þá gól haninn annad sinn. Þá minntist Pét-
ur þess, er Jesús hafdi sagt vid hann, ad
ádur enn haninn galadi tvisvar mundi hann
afneita sér þrisvar. Tók hann þá til ad gráta.

V. 62. Dan. 7, 13. V. 63. 3 Mós. 10, 6.

I.) Jesús er áklagadur og dæmdur til dauda 15. Kap.
1—20. II.) er krossfestur og deyr 21
—41. III.) greftrast 42—47.

Strax í dögun gjørdu þeir ráð sín Høfud- 1.
prestarnir, Øldúngarnir og hinir skriftlærdu og
allt hid mikla Ráð, bundu Jesúm, færdu hann
burt og seldu Pílatusi í hendur. Pílatus spurdi 2.
hann: ertú Konúngur Gydínga? hann svaradi:
svo er, sem þú segir. Høfud-prestarnir báru 3.
margar sakir á hendur honum. Pílatus spurdi 4.
hann þá aptur og sagdi: svarar þú engu? sjá
þú hve margar sakir þeir bera uppá þig? en 5.
Jesús svaradi engu ordi framar, svo ad Píla-
tus undradist. En á hátídinni var Pílatus 6.
vanur ad láta þeim lausann bandíngja þann
einn, er þeir sjálfir æsktu sér; en sá er nefnd- 7.
ur Barabbas, er í böndum var hafdur ásamt
med ødrum óaldar mønnum, sem í upphlaupi
nockru høfdu víg vegid. En er lýdurinn tók 8.
til ad kalla upp og heimta, ad hann gérdi, sem
hann var vanur, þá tók Pílatus til orda og 9.
sagdi: viljid þér ad eg géfi ydur lausann Gyd-
ínga Konúnginn? því hann vissi ad Høfud- 10.
prestarnir høfdu fyrir øfundar sakir framselt
Jesúm. En Høfud-prestarnir æstu upp múginn 11.
til ad bidja: ad hann heldur gæfi þeim Bar-
abbam lausann. Þá sagdi Pílatus aptur til 12.
þeirra: hvad viljid þér þá ad eg gjøri vid
Gydínga Konúnginn, er þér svo nefnid? Þeir 13.
hrópudu aptur: krossfesta skaltú hann. Píla- 14.



V. 1. Matth. 27. Lúk. 23. Jóh. 18, 28.

tus spurdi: hvad hefir hann þá til saka gjørt?
en þeir hrópudu þess ákafar: krossfestú hann!
15. Nú, med því ad Pílatus vildi gjora eptir
vild lýdsins, þá lét hann húdstrýkja Jesúm
og fékk hann svó stríðsmonnunum í hendur til
16. krossfestíngar. Þá leiddu strídsmennirnir hann
inn í hollina, sem kallast Konúngs Dómhús,
17. og stefndu þángad ollum flockinum; þeir færdu
hann í purpura fat og settu á høfud honum
18. kórónu fléttada af þyrnum, qvøddu hann og
19. søgdu: sæll vertú Gydínga Konúngur! slóu
reir-sprota um høfud honum, hræktu á hann,
20. knéfellu og veittu honum lotníngu. En er þeir
høfdu spottad hann, færdu þeir hann úr pur-
pura kyrtlinum og í hans egin klædi.
21. En er þeir leiddu hann út, til ad kross-
festa hann, géck þar framhjá madur nockurr, er
Símon hét, fadir þeirra Alexanders og Rúff-
usar, hann kom utan af landsbygdinni; þenna
mann neyddu þeir til ad bera kross hans.
22. Sídan færdu þeir Jesúm til þess stadar, er
heitir Golgatha, þad þýdir Hausaskélja stadur;
23. þar budu þeir honum vín ad drecka myrrubland-
24. ad, en hann þádi þad ecki. En er þeir høfdu
krossfest hann, skiptu þeir klædum hans milli
sín, og køstudu hlutum um hvad hverr skyldi
25. eignast. Þad var um dagmál ad þeir kross-
26. festu hann. Uppi yfir honum var ritud dauda-
søk hans, þanninn ordud: Konúngur Gyd-
27. ínga. Tvo ræníngja krossfestu þeir med hon-
um, annann til hægri, hinn til vinstri handar
28. honum; rættist svo þad, er Ritníngin segir:

V. 24. Ps. 22, 19. V. 28. Es. 53, 12.

með íllvirkjum er hann talinn." Þeir, sem 29.
framhjá gengu íllmæltu honum, skóku höfuð sín
og sögðu: á, svej! það ertú, sem ætlaðir að
niðurbrjóta musterið og byggja það upp aptur
á þremur dögum! bjarga nú sjálfum þér og 30.
stíg niður af krossinum! sömuleiðis hæddu Höf- 31.
uð-prestarnir hann sín á milli, ásamt þeim skrift-
lærðu og sögðu: öðrum hjálpaði hann, sjálfum
sér getur hann ecki bjargað. Stígi nú Gyð- 32.
ínga Konúngurinn Kristur ofan af krossinum
svo vér sjáum og þá skulum vér trúa honum.
Líka íllmæltu honum þeir, er með honum vóru
krossfestir. En að líðanda hádegi gjörði mirk- 33.
ur yfir allt land, allt til nóns. En um nón 34.
kallaði Jesús hárri röddu og sagði: Elói,
Elói, lamma sabachthani! það þýðir:
Guð minn! Guð minn! því hefir þú yfirgéfið
mig? En er nockrir af þeim, sem hjá stóðu, 35.
heyrðu það, sögðu þeir: sjá! hann kallar á
Elías. Hljóp þá einn til, fyllti njarðar-vött 36.
með súrt vín, stack honum á reirstaf og gaf
honum að drecka og mælti: lofið mér að! vit-
um til hvert Elías kémur að taka hann ofan.
En Jesús kallaði upp hástöfum og gaf upp 37.
andann; og þá rifnaði musteris tjaldið sund- 38.
ur í tvennt frá ofanverðu og allt niður í gégn.
En er Hundraðs-höfðínginn, sem stóð gégnt hon- 39.
um, sá að hann æpti svo hátt, er hann létst,
þá sagði hann; sannarlega hefir þessi maður
verið Sonur einhvers Guðs. Konur nockrar, 40.
er stóðu álengdar, horfðu og á þetta; meðal



V. 34. Psálm. 22, 2.

þeirra var María frá Magdelum og María
módir Jakobs ýngra og Jósesar og Salóme.
41. Þessar hofdu verid í fylgd med honum þegar
hann var í Galíleu og þjónad honum (veitt
honum framfæri); þar vóru og margar adrar
konur, er farid hofdu med honum upp til Je-
rúsalem.
42. En er qveld var komid (þad var adfánga-
43. dags-qveldid fyrir hvíldar-daginn); þá kom
Jóseph af Arímathæa, hann var máls-metandi
Rádherra og vænti líka eptir Messíasar ríki;
hann rédist til ad fara á fund Pílatusar og
44. bidja hann um líkhama Jesú. En Pílatus
furdadi sig á ad hann skyldi vera þegar lát-
45. inn og lét því kalla Hundrads-hofdíngjann
fyri sig og spurdi hann, hvert hann væri fyrir
laungu andadur? Og er hann var þess viss
af Hundrads-hofdíngjanum, gaf hann Jóseph
46. líkhamann. Keypti hann þá lín, tók líkid of-
an og sveipadi þad í líninu og lagdi þad í
grafhelli, er heggvinn var út í klett, velti sídan
47. steini fyrir hellis-munnann. En þær María
frá Magdelum og María módir Jósesar horfdu
á hvar líkid var lagt.

## 16. Kap. I.) Jesú upprisa 1—14. II.) hans himna-för 15—20.

1. Þá er hvíldardagurinn var lidinn keyptu þær
María frá Magdelum og María Jakobs mód-
2. ir smyrsl til ad smyrja med líkid. Og mjog
árla hinn fyrsta dag vikunnar fóru þær til

graf hellirsins; þad var í sólar upprás. Þær 3.
sögdu þá hver vid adra: hverr mun velta fyr=
ir oss steininum af hellis = munnanum? En 4.
er þær litu til, sáu þær ad steininn var frá=
veltur og var þad mikid bjarg. Gengu þær 5.
þá inn í hellirinn og sáu hvar úngur madur sat
hægramegin, skrýddur hvítum drag=kyrtli og
hnickti þeim heldur vid. En hann sagdi til 6.
þeirra: hrædist eigi! þér leitid ad Jesú nad=
verska, hinum krossfesta; hann er upprisinn og
er ecki hér. Þarna er stadurinn hvar hann
var lagdur. Farid heldur og segid Lærisvein= 7.
um hans og Pétri, ad hann sé kominn á und=
an þeim til Galíleu, þar muni þeir sjá hann,
eins og hann sagdi þeim. Konurnar stuku 8.
þá út úr hellirnum, því ótti og ofbod vóru yfir
þær komin, og engum sögdu þær frá neinu (á
leidinni), svo vóru þær hræddar.

En er Jesús var upprisinn, lét hann 9.
Maríu frá Magdalum, frá hverri hann hafdi
útrekid sjö djöfla, sjá sig í fyrsta sinni, snemma
morguns hinn fyrsta dag vikunnar. Hún fór 10.
og kunngjördi þetta vinum hans, sem vóru
harmandi og grátandi; en þó þeir heyrdu ad 11.
hann væri lífs og ad María hefdi sjed hann,
trúdu þeir þó ecki. En eptir þetta birtist 12.
hann tveimur þeirra, þá þeir vóru á gángi
og ætludu út á lands=bygdina; þessir fóru og 13.
sögdu þad hinum ödrum, en þeir vildu heldur
ecki trúa þeim. Þar eptir lét hann þá sjá 14.
sig, þá þeir sátu undir bordum og bar hann
þeim þá á brýn trúarleysi þeirra og þverúd,
ad þeir ecki hefdu viljad trúa þeim, er sjed

15. hefdu hann uppristinn. Hann sagdi þá til
þeirra: farid út um allann heim og kunngjørid
16. gledi-bodskapinn øllum þjódum. Sá, sem trú-
ir og verdur skírdur mun hólpinn verda. en sá,
17. sem ecki vill trúa, mun sæta áfelli. En þess-
ar dásemdir skulu fylgja þeim, er trúa: þeir
skulu í mínu nafni djøfla útreka, tala nýum
18. túngum, taka upp heggorma ad ósekju; ef þeir
drecka nockud banvænt, þá skal þad þeim ecki
granda; yfir sjúka skulu þeir hendur leggja
19. og mun þeim þá batna. Nú er Drottinn
hafdi endad tal sitt vid þá, vard hann upp-
numinn til himins og settist til Guds hægri
20. handar. En þeir fóru út og kunngjørdu lær-
dóminn allstadar og var kraptur Drottins med
þeim og stadfesti lærdóminn med táknum, er
honum fylgdu.



# Lúkasar Gudspjall.

1. Kap. I.) Formálinn fyrir Gudspjallinu, 1—4. II.) Gabríel bodar fædíngu Jóhannesar, 5—25. III.) og Guds Sonar, 26—38. IV.) María heimsækir Elízabeth og veg- samar Gud, 39—56. V.) Jóhannes fædist, Zacharías spáir og Jóhannes vex upp, 57—80.

1. Eptir því ad margir hafa tekid sér fyrir
hendur ad færa þá hluti í frásøgur, er oss

orn fullkunnir, með því þeir menn hafa sagt 2.
oss þá, er frá ondverðu sjálfir voru sjónarvott-
ar og flytjendur þessa lærdóms; þá hefir mér 3.
einninn sýnst, eptir að eg hafði ransakað oll
þessi efni kostgæfilega frá rótum, að skrásetja
þau fyrir þig, minn kjæri Theóphílus! svo þú 4.
hefðir óbrigðula vissu um að það sé sannleik-
ur, er þér hefir kénnt verið.
Þegar Heródes Konúngur réði fyrir 5.
Gyðíngalandi, var þar Prestur nockurr, er Za-
charías hét, af Presta flocki Abíasar*); kona
hans var komin af ætt Aarons; hún hét Elí-
zabeth; þaug voru bæði ráðvönd og breyttu í 6.
ollu óaðfinnanlega eptir boðum og skipunum
Guðs. Þau áttu ecki barna, því Elízabeth 7.
var óbirja og bæði voru þau hnígin á efra
aldur. Einhverju sinni bar svo til, þá reðin 8.
kom til þess Presta flocks, sem hann var í, að
hann skyldi fremja prestlegt embætti í musteri-
inu, og hlotnaðist honum það venjulega prests- 9.
verk að veita reykélsinu; gécк hann þá inn í must-
erið, en allt fólkið var fyrir utan á bæn á 10.
meðan. Þá birtist honum engill Guðs, sem 11.
stóð hægra-megin við reykélsis altarið; og er 12.
Zacharías sá hann, varð hann felmtursfullur
og ótti féll yfir hann. Þá mælti engillinn: 13.
vertú óhræddur, Zacharías! því bæn þín er
heyrð. Kona þín Elízabeth mun fæða þér son,
þann skaltú Jóhannes nefna; hann mun verða 14.
þér til fagnaðar og gleði og margir munu gleð-
jast yfir hans fæðíngu, því hann mun verða 15.
mikill Guðs maður. Hann mun hvorki drecka

 *) Presta flockur Abíasar, 1 Kron. 24, 10.

vín né annann áfengann dryck og allt í frá fæd-
íngu hans mun Guds kraptur í honum búa
16. og margum Israels manna mun hann snúa til
17. Guds Drottins þeirra. Hann mun fara und-
an Messíasi og jafnast vid Elías ad gáfum og
dugnadi; rádvendu hugarfari hinna fyrri manna
mun hann koma inn hjá nidjum þeirra og ráð-
vendni inn hjá órádvendum, til ad undirbúa
18. lýdinn ad veita Messíasi vidurtekn. Þá spurdi
Zacharías engilinn: hvad hann skyldi hafa til
marks um þetta; því eg er — sagdi hann —
madur gamall og kona mín er hnígin á efra
19. aldur? Engillinn mælti: eg er Gabríel, Guds
handgénginn, sendur ad flytja þér þessi gledi-
20. legu tídindi; en þú munt mállaus verda og
ecki fá talad uns þetta kémur fram, vegna þess
ad þú efadir ord mín, sem þó munu rætast á
21. sínum tíma. A medan beid fólkid eptir Za-
charíasi og undradist ad hann dvaldist svo lengi
22. í musterinu. En er hann kom út mátti hann
ecki mæla; þóktist þá fólkid vita, ad nockud
mundi hafa borid fyrir hann, hvad hann og
lét þá skilja í bendíngum, því hann var mál-
23. laus. En er hans tída-þjónusta var á enda,
24. fór hann heim til sín. Eptir þetta vard Elí-
zabeth kona hans med barni og héldt hún sig
25. heima í fimm mánudi og vidurkéndi velgjerd
Guds, er hann burttók þad, er menn legdu
henni til smánar.
26. En á sjötta mánudi sendi Gud Gabríel
engil í þá borg í Galílæu, sem heitir Naza-
27. reth, til þeirrar meyar, er María nefndist;
hún var heitkona þess manns, sem Jósepþ hét,

af ætt Davíðs. Engillinn kom inn til hennar 28.
og qvaddi hana þessum orðum: heil vert þú!
sem nýtur náðar Guðs og hylli; þú hin sæl-
asta allra qvenna! En hún varð hrædd, er 29.
hún sá hann og heyrði orð hans og tók að
hugleiða hvílík þessi qveðja væri. Þá mælti 30.
engillinn: hræðstú ecki María! Guð er þér 31.
náðugur; þú munt barns-hafandi verða og fæða
sveinbarn; hann skaltú láta heita Jesús;
hann mun mikill verða og kallast Sonur Guðs; 32.
honum mun Drottinn géfa ríki Davíðs for-
feður síns og hann mun ráða æfinlega yfir ætt 33.
Jakobs og á hans ríki mun einginn endir verða.
Þá sagði María við engilinn: hverninn má þetta 34.
ské, þar eg ecki hefi haft samræði við nockurn
karlmann? Engillinn mælti: heilagur Andi 35.
mun koma yfir þig og kraptur hins æðsta mun
yfirskyggja þig og þar fyrir mun það heilaga,
sem af þér fæðist, kallast Sonur Guðs. Það 36.
skaltú og vita, að Elízabeth frændkona þín er
orðin hafandi að sveinbarni í elli sinni og hún,
sem álitin var óbirja, er komin nú allt á sjötta
mánuð; því Guði er enginn hlutur um megn. 37.
Þá mælti María: Guð á frjálst að gjöra við 38.
mig hvað hann vill; rætist á mér orð þín!
Að svo búnu fór engillinn í burtu.

Litlu síðar fór María skyndilega til 39.
fjallbygða, til borgar nockurrar í Júdæu, kom 40.
í hús Zacharíasar og heilsaði Elízabethu. En 41.
svo brá Elízabethu við qveðju þessa, að barn-
ið hrærðist í lífi hennar og að henni kom guð-
leg andagift; kallaði hún þá hátt og mælti: 42.

V. 35. Matth. 1, 18. 20.

blessud ertú medal qvenna og blessad er þad
43. fóstur er þú gengur med! hvadan kémur mér
þad, ad Módir Drottins míns kémur til mín?
44. Því strax, sem qvedja þín kom mér til eyrna,
45. hrærdist barnid af gledi í lífi mér; sæl ertú,
ad þú ecki barst beigd á fyrirheiti Guds, sem
46. rætast mun á sínum tíma. Þá sagdi María;
47. önd mín lofar Drottinn og minn andi gledur
48. sig í Gudi Frelsara mínum. J nád sinni leit
hann til audvyrdilegrar ambáttar sinnar, þess
49. vegna munu mig allar aldir sæla prísa, því
hinn voldugi hefir breytt dásamlega vid mig;
50. hans nafn er heilagt og hans miskunsemi var-
ir um aldur og æfi vid þá, sem hann óttast.
51. Hans armleggur hefir þrek unnid, þeim dramb-
52. látu hefir hann steckt á dreif; Konúngunum
hefir hann hrundid úr hásæti, en hafid þá
53. audvyrdilegu, fátækum hefir hann veitt alls
nægtir, en ríka hefir hann látid snauda frá sér
54. fara. Hann hefir ad sér tekid sitt óska-barn
55. Israels lýd, med því ad efna þau heit, er
hann gaf lángfedgum vorum Abraham og nid-
jum hans, ad vera þeim æfinlega nádugur.
56. Þar dvaldist María hér um þrjá mánudi,
sídan fór hún heim til sín
57. Nú er tími var kominn ad Elízabeth
58. skyldi verda léttari, ól hún sveinbarn En er
nágrannar hennar og ættmenn heyrdu hversu
mikla velgjord Gud hafdi henni audsýnt, sam-
59. fegnudu þeir henni. Sídan komu þeir á átt-
unda degi ad umskéra sveininn og vildu kalla

V. 47 1 Sam. 2, 1.
V. 55. 1 Mós. 17, 7. 19. 18, 18.

hann Zacharías eptir fødur sínum; en módir 60.
hans vildi þad ecki og qvad hann skyldi Jó-
hannes heita. Þá sögdu þeir: ad enginn væri 61.
í ætt hennar med því nafni; bendtu þeir síd- 62.
an fødur hans, ad hann léti þá vita hvad
hann vildi ad sveinninn héti. Hann beiddi um 63.
spjald og reit þar á: Jóhannes á hann ad
heita og furdadi alla á því. Í þessu bili 64.
fékk hann aptur mál sitt og tók hann þá ad
tala og lofa Gud. Þenna atburd undrudust 65.
allir næstaddir nábúar hans og saga þessi
barst út um allar fjallbygdir Júdæu; og øllum 66.
sem þetta heyrdu, vard þad minnisstædt og
sögdu: hvad mun þessi sveinn verda? því Gud
héldt hendi sinni yfir honum. Þá kom anda- 67.
gift Guds ad Zacharíasi og qvad hann þá
þetta lofqvædi: "Lofadur veri Drottinn, Ísra- 68.
els manna Gud! sem vitjadi síns fólks og
frelsadi þad og sendi oss øflugann hjálpara af 69.
ætt síns þjóns Davíds, eins og hann í önd- 70.
verdu hét fyrir sína helgu Spámenn, ad frelsa 71.
oss frá óvinum vorum og undan valdi allra
vorra haturs manna; ad audsýna lángfedgum 72.
vorum miskun og efna sinn heilaga sáttmála,
eptir þeim eidi, er hann vann forfødur vorum 73.
Abrahami, ad hann vildi unna oss, frelsudum 74.
af valdi óvina vorra, ad þjóna sér óttalaust 75.
med frómlyndi og rádvendni um alla æfi vora.
Og þú, sveinn! munt kallast Spámadur Guds, 76.
því þú munt verda Messíasar fyrirrennari til
ad búa honum veg og kénna hans fólki heil- 77.
næmann lærdóm, svo þad ødlist fyrirgéfníngu

V. 73. 1 Mós. 22, 16—18.

78. synda sinna, fyrir hjartgróna miskun Guds
vors, hverri vér egum þad ad þacka, ad oss
79. upprennur ljós af himni, ad lýsa þeim, sem í
mirkrunum og daudans skugga eru, ad hann
80. greidi fótum vorum feril til velferdar." En
sveinninn vóx og styrktist ad andans gáfum.
Dvaldi hann í fjallbygdum til þess tíma,
er hann átti ad takast sitt kall á hendur medal
Jsraels manna.

2. Kap. I.) Jesús fædist og er heimsókur af hirdurunum 1—20. II.) umskorinn 21. III.) færdur í musterid, hvar Símeon og Anna tala um hann; er uppalinn í Nazareth og tekur framforum miklum 22—40. IV.) verdur eittsinn eptir í musterinu og er hlódid barn 41—52.

1. Um þessar mundir kom þad bod frá Augústusi
Kejsara, ad taka skyldi manntal í ellu
2. landinu. Þetta manntal skédi fyrst þá Kyre-
3. níus var Landshøfdíngi á Sýrlandi. Fóru þá
4. allir til manntals, hverr til sinnar borgar. Þá
fór og Jóseph frá Galílæu úr borginni Nazareth
upp til Júdæu til borgar Davíds, sem
heitir Bethlehem, því hann var Davíds ætt-
5. ar, til manntals, ásamt med Maríu heitkonu
6. sinni, sem þá var med barni. En svo bar
vid á medan þau dveldu þar, ad kom ad þeim
7. tíma, er hún skyldi ala barnid, fædri hún þá
Son sinn frumgétinn, vafdi hann reifum og
lagdi hann nidur í jøtuna, því þau fengu ecki

V. 79. Es. 42, 7.

húsrúm í gésta-herberginu. En í því bygdar- 8.
lagi vóru fjárhirdarar, er vektu um nóttina yfir
hjörd sinni; þeim birtist engill Guds og mikil 9.
birta ljómadi í kríngum þá, urdu þeir vid
þad nærsta hræddir; þá tók engillinn svo til 10.
orda: óttist ecki — sagdi hann — því eg flyt
ydur stór-fagnadar tídindi, sem vidkoma öllu
fólki; því í dag er ydur Frelsari fæddur, hverr 11.
ad er Drottinn Kristur í borg Davíds, og 12.
hafid þad til marks, ad þér munud finna reif-
ad barn í jötunni. Strax var þar hjá engl- 13.
inum mikill fjöldi himneskra hersveita, sem lof-
udu Gud og sögdu: lofadur veri Gud á himn- 14.
um, blessan er yfir jördunni og Guds velþóckn-
an yfir mönnunum. Eptir ad englarnir vóru 15.
farnir til himna, sögdu hirdararnir hverr vid
annann: vér skulum fara til Bethlehems og
sjá þennann atburd, sem Gud hefir oss kunn-
gjört. Sídan fóru þeir med skyndi, fundu 16.
Maríu og Jóseph og barnid liggjandi í jöt-
unni; skírdu sídan frá því, er þeim hafdi sagt 17.
verid um sveininn og undrudust allir, er heyrdu 18.
sögu þeirra. En María hugfesti allt þetta 19.
gaumgæfilega. Sídan snéru hirdararnir apt- 20.
ur, lofudu Gud og vegsömudu fyrir allt þad,
er þeir höfdu séd og heyrt, sem allt bar sam-
an vid þad, er þeim hafdi sagt verid.

Þegar lidnir vóru átta dagar, þá hann 21.
skyldi umskérast, var hann nefndur Jesús,
eins og hann var kalladur af englinum, ádur
enn hann var gétinn í módurlífi.

En er þeirra hreinsunar tími var lidinn, 22.
eins og Mósis lög bjóda, færdu þau hann upp

til Jerúsalem til ad helga hann Drottni,
23. (eins og bodid er í lögmáli Guds, ad "allt
þad karlkyns, er fyrst fædist af módurlífi, skal
24. vera Drottni helgad") og fæca þá fórn, sem
bodin er í lögmáli Guds, sem var tvær turt-
25. il-dúfur eda tvein dúfu-úngar. Þá var í Je-
rúsalem sá madur, er Símeon hét, hann var
rádvandur og gudrækinn og vænti eptir Frels-
ara Ísraels manna og heilagur Andi var yfir
26. honum. Honum hafdi Gud birt, ad hann
ecki skyldi deya, fyrr enn hann sæi Drottins
27. Smurda *). Símeon kom, eptir ádvorun Guds,
í musterid í því sama og foreldrarnir færdu
þángad sveininn Jesúm, til ad fara med hann
28. eptir lögmálinu, eins og sidur var til; hann
tók hann í fáng sér og lofadi Gud med þess-
29. um ordum: "Lát þú nú, Herra! þjón þinn
deya sælum dauda, eins og þú hefir mér heit-
30. id, þared eg hefi fengid ad sjá þann, sem þú
31. hefir ætlad til frelsis öllum þjódum, til upp-
32. lýsíngar heidíngjum og vegsemdar Ísraels fólki.
33. Þetta þékti födur hans og módur undur, er
34. slíkt var spád fyrir honum. Sídan bad Sí-
meon þeim góds, og mælti svo til Maríu
módur hans: þessi er ætladur mörgum Ísra-
els manna til falls og mörgum til vidreisnar
og mótþæsis, svo ad margur mun lýsa hverr
35. madur ad sé og mun þá sorgar sverd nísta
36. þitt hjarta. Þar var og Anna Spákona,
dóttir Phanúels af ætt Assers, hún var þá
hnígin á efra aldur, hafdi verid sjö ár í hjóna-

V. 23. 2 Mós. 13, 2. 3 Mós. 12, 6. 8.
*) Messías. V. 35. Jóh. 19, 25.

bandi með manni sínum, er fékk hennar mey-
ar; nú var hún eckja og hafði hér um bil 37.
fjóra vetur um áttrætt. Hún var jafnan í
musterinu og dýrkaði Guð nætur og daga með
föstum og bænum. Hana bar þar að í því 38.
sama, prísaði hún Guðs gjæðsku og lagði út af
honum fyrir öllum þeim í Jerúsalem, sem Frels-
arans væntu. Nú er þau hefðu lokið öllu, 39.
er lögmál Drottins bauð, snéru þau aptur til
Galíleu til borgar sinnar Nazareth En 40.
sveinninn vóx og styrktist að andans gáfum og
tók framförum í vitsku; því Guð hafði vel-
þócknun á honum.

Það var vani foreldra hans að fara 41.
hvert ár upp til Jerúsalem á Páskum. Nú 42.
bar svo við, þegar hann var tólf vetra, að
þau ferðuðust þángað, eins og siður var til á
hátíðinni. Þegar hún var liðin, snéru þau 43.
aptur heimleiðis; en sveinninn Jesús varð ept-
ir í Jerúsalem, svo Jóseph og móðir hans
urðu ecki var við það; því þau ætluðu að 44.
hann mundi vera í flocki samferða-manna
þeirra; fóru þau svo eina dagleið, og leituðu
eptir honum meðal frænda og kunníngja. Og 45.
þegar þau fundu hann ecki snéru þau aptur
til Jerúsalem og leituðu hans þar; og eptir 46.
þrjá daga fundu þau hann í musterinu, hvar
hann sat meðal Lærifeðranna, hlýddi á tal
þeirra og spurði þá; en alla sem heyrðu, furð- 47.
aði á skilníngi hans og andsvörum. Og þau 48.
undruðust næsta, er þau sáu hann þar. Þá
sagði móðir hans: því breyttir þú svo við ock-
ur? Sonur minn! faðir þinn og eg leituðum

49. þín sorgmædd. Hann mælti: því hafid þid
leitad eptir mér? vissud þid ecki ad mér ber
50. ad vera í húsi fødur míns? en þau skildu
51. ecki hvad hann meinti. Sídan fór hann med
þeim til Nazareth og var þeim hlýdinn. Allt
52. þetta hugfesti módir hans; en Jesú óx vitska
med aldri og ávann hann sér hylli Guds og
manna.

3. Kap. I.) Jóhannes skírir og kénnir 1—18. Er settur í mirkvastofu 19. 20. II.) skírir þó Jesúm ádur 21. 22. III.) Ættartala Jesú, 23 — 38.

1. Á fimmtánda ríkis-ári Tíberíusar Keisara,
þegar Pílatus hinn pontverski var Landshøfd-
íngi í Júdæu, Heródes Fjórdúngs-høfdíngi í
Galíleu, en Philippus bródir hans í Itúríu
2. og Trakonítis og Lysanías í Abílenu; þegar
þeir Annas og Kaíphas vóru ædstu Prestar*);
þá féck Jóhannes Zacharíasarson, er var í ó-
3. bygdum, gudlega skipun, ad fara í øll þau
héred, er liggja vid Jórdan og kénna, ad
menn skyldu skírast og bæta rád sitt, svo þeir
4. fengju qvittun synda sinna, eins og segir í
Spádóms-bók Esajasar, er hann qvedur svo ad
ordi: "hróp er heyrt í óbygdinni, tilbúid veg
5. Drottni, jafnid brautir hans; hvert dalverpi
skal uppfyllast og øll fjøll og hálsar lægjast;
þeir enir krókóttu vegirnir skulu gjerast beinir,
6. og þeir hrjóstugu sléttir og þá munu allir

V. 2. *) Matth. 3, 1—12. Mark. 1, 1—8. Jóh. 1, 6. 19. 23. 26. 27. V. 4. Es. 40, 3. 4.

menn sjá Lausnarann, er Gud mun senda."
Nú er mikill fjeldi fólks kom til ad skírast af 7.
honum, tók hann svo til orda: þér, nødru-
úngar! hverr hefir sagt ydur, ad þér þanninn
gétid umflúid tilkomandi hegníngu? til þess 8.
verdid þér ad bera þann ávøxt, er sambjódi
betrudu hugarfari. Metnist ecki af því, ad þér
séud Abrahams ættar, því, trúid mér! mátt-
ugur er Gud ad vekja Abrahami børn af stein-
um þessum*). Øxin er þegar reidd ad rót- 9.
um tejánna, hvert þad tré, sem ecki ber góð-
ann ávøxt, skal upphøggvid verda og í eldinn
kastad. Þá spurdi fólkid hann ad, hverninn 10.
þad ætti ad haga rádi sínu? Jóhannes mælti: 11.
Hverr, sem hefir tvo kyrtla, sá géfi þann ann-
ann þeim, sem engann hefir; eins á sá ad
gjøra, sem matfaung hefir. Þá komu og toll- 12.
heimtu-menn ad skírast, þessir spurdu hann
einninn og søgdu: Meistari! hverninn egum
vér ad breyta? hann mælti: krefjist ecki meir 13.
enn ydur er bodid. Líka spurdu strídsmenn 14.
hann, hverninn þeir ættu ad haga sér? hann
mælti: takid ecki fé af neinum med valdi eda
prettum, heldur látid ydur nægja med ydar
málagjald. Þegar nú fólkid var komid í þá 15.
ætlun og allir vóru teknir ad halda ad Jó-
hannes kannské væri Kristur, sagdi hann þann- 16.
ig øllum áheyrandi: eg skíri ydur einúngis í



*) Gud lætur þá, er þér haldid þar til ólíklegasta — nefnil. heidíngjana — heldur njóta fyrirheitis þess, er Abrahami var géfid, enn ydur, eins vondir og þér erud, Jóh. 8, 39.

vatni; en sá, sem eptir mig kémur, er mér
svo miklu meiri, að eg er ecki verður að leysa
skóþvengi hans. Hann mun yður skíra með
17. heilögum Anda og eldi. Sína varp-skúflu
ber hann í hendi sér, með hverri hann hreins-
ar sinn láfa; korninu mun hann safna í hlöðu,
en hísmið brenna í eldi þeim, er ecki slockn-
18. ar. Margt annað fleira kénndi hann fólkinu.
19. En vegna þess að Jóhannes hafði ávítað Heró-
des Jarl, bæði fyrir það að hann hafði tekið
saman við Herodías, konu bróður hans og
fyrir allar þær ódáðir, sem Heródes hafði
20. gjört, bætti Heródes því við allt hitt, að hann
lokaði Jóhannes í mirkvaststofu.
21. En svo bar við, þegar allt fólk lét sig
skíra og Jesús var skírður og gjörði bæn sína,
22. að himininn opnaðist honum og Andi Guðs
steig niður í sýnilegri mind, eins og dúfa, yfir
hann; þá heyrðist og rödd af himnum, er
sagði: þú ert minn einka Sonur, á hverjum
eg hefi velþóknun.
23. En sjálfur var Jesús hér um þrítugur
að aldri þegar hann hóf að kénna, og var
24. haldinn sonur Jósephs, sonar Elí; sonar Matthats
sonar Leví, sonar Melchi, sonar Janna, sonar
25. Jósephs; sonar Matatías, sonar Amos, sonar
26. Naúms, sonar Eslí, sonar Naggæuss; sonar
Maaths, sonar Matatías, sonar Simei, son-
27. ar Jósephs, sonar Júda; sonar Jóhanna,
sonar Hresa, sonar Zóróbabels, sonar Sa-

V. 19. Matth. 14, 3—10. Mark. 6, 17. ff.
V. 20. Matth. 11, 2.
V. 21. Matth. 3, 13—17. Mark. 1, 9—11.

Lathiels, sonar Nerí; sonar Melchi, sonar 28.
Addi, sonar Kósams, sonar Elmódams, sonar
Ers; sonar Jóse, sonar Eliezers, sonar Jó- 29.
rims, sonar Matthats, sonar Leví; sonar Sí- 30.
meons, sonar Júda, sonar Jósephs, sonar Jó-
nasar, sonar Eliakims; sonar Meleæ, sonar 31
Mainans, sonar Matthata, sonar Nathans,
sonar Davíds; sonar Jessai, sonar Obeds, son- 32.
ar Bóoz, sonar Salmóns, sonar Naassóns;
sonar Amínadabs, sonar Arams, sonar Es- 33.
roms, sonar Fares, sonar Júdæ; sonar Jakobs, 34.
sonar Isaaks, sonar Abrahams, sonar Thara,
sonar Nachórs; sonar Sarúks, sonar Ragahús's 35.
sonar Faleks, sonar Ebers, sonar Salæ, sonar 36.
Kainans, sonar Arphaxads, sonar Sems, son-
ar Nóa, sonar Lameks; sonar Mathúsala, son- 37.
ar Enoks, sonar Jareds, sonar Malaleels, son-
ar Kaínans; sonar Enoss, sonar Seths, son- 38.
ar Adams, sonar Guds.

I.) Jesú er freistad 1—13. II.) hann kén- **4. Kap.**
ir í Galíleu og Nazareth, hvar menn
leitast vid ad syrikoma honum 14—30.
III.) hann kénnir í Kapernaum og lækn-
ar djøfulódann 31—37. IV.) einninn
tengdamódur Péturs og fleiri sjúka 38—44.

Sídan fór Jesús útbúinn med Guds krapti 1.
frá Jórdan og veik ad tilhlutun Andans útá
eydimørku; hér var hann í fjørutíu daga freist- 2.
adur af djøflinum og hafdi í þá daga ecki til



V. 1. Matth. 4, 1—11. Mark. 1, 12. 13.

matar og er þeir vóru lidnir, tók hann ad
3. húngra. Þá sagdi djøfullinn: ef að þú ert
Guds Sonur, þá mæl þú svo um ad steinn
4. þessi verdi ad braudi. Jesús svaradi: skrifad
er ad madurinn lifi ecki af braudi einusamalt,
5. heldur af hverju því, er Gud vill. Þar ept-
ir fór djøfullinn med hann uppá hátt fjall,
og sýndi honum þadan öll ríki jardarinnar í
6. einu augabliki. og sagdi: allt þetta veldi mun eg
géfa þér med öllum sínum blóma, því allt er
mér þad í vald géfid, svo eg gét géfid þad
7. hverjum, sem eg vil; skal allt þetta vera þín
8. eign ef þú fellur fram og tilbidur mig. Jesús
svaradi, þad er og skrifad: "Gud þinn skaltú
9. tilbidja og hann einnsaman dýrka." Sídan
færdi djøfullinn hann til Jerúsalem, og setti
hann uppá musteris bustina og mælti: ef ad þú
ert Guds Sonur, þá lát fallast hér ofanfyrir,
10. því þad er ritad: Gud mun bjóda englum sín-
11. um ad gjæta þín og bera þig á höndum sér
12. ad ecki steytir þú fót þinn vid steini. Jesús
svaradi; þad er og sagt ad eigi skaltú freista
13. Drottins Guds þíns. Og er djøfullinn hafdi
lokid þessum freistíngum, veik hann frá honum
um hríd.
14. Sídan snéri Jesús, styrktur Guds Anda
krapti, aptur til Galíleu, og ordstýr hans
15. barst út um öll nærliggjandi héröd; hann kénndi
í samkundu-húsum þeirra, svo allir dádust ad;
16. hann kom og til Nazareth, þar sem hann var

V. 4. 5 Mós. 8, 3. V. 8. 5 Mós. 6, 13.
V. 10. Ps. 91, 11. 12. V. 12. 5 Mós. 6, 16.
V. 14 Matth. 4, 12. Mark. 1, 14.

uppalinn og géck á hvíldar=deginum, eins og
hann var vanur, í samkundu=húsid og stód upp
til ad lesa og var honum fengin Spádóms= 17.
bók Esajasar; en er hann fletti upp bókinni,
vard fyrir honum sá stadur, hvar þetta er skrif=
ad: "Andi Drottins er yfir mér, þar hann 18.
hefir vígt mig til ad flytja fátækum gledilegann
bodskap, sendt mig ad boda herteknum lausn,
blindum ad þeir fái sýn sína aptur, ánaudug=
um frelsi og ad kunngjöra ad hid þócknanlega 19.
árid Drottins sé fyrir hendi;" sídan lét hann 20.
aptur bókina, féck þjóninum og géck til sætis,
en allir, sem í samkundu=húsinu vóru, stördu
á hann; hóf hann þá mál sitt á þessa leid: í 21.
Dag er þessi spádómur framkominn, eins og
þér erud sjálfir vitni til. Dádust þá allir ad 22.
kénningu hans og blídu málsnilli, en sögdu þó:
er ecki þessi madur sonur Jósephs? þá sagdi 23.
hann vid þá: vissulega munud þér heimfæra
uppá mig máltækid: læknir! lækna sjálfann þig;
vér höfum heyrt hvad þú hefir adhafst í Ka=
pernaum; gjör þú nú hid sama hér á ætt=jörd
þinni En — sagdi hann framvegis — trúid 24.
mér til þess: ad enginn Spámadur er vel
metinn á ættjörd sinni. Eg segi ydur þad 25.
satt: ad margar eckjur vóru medal Israels
fólks á dögum Elíasar Spámanns, þegar ecki
rigndi í þrjú ár og sex mánudi, svo mikid óár
var í öllu landinu; en til engrar þeirra var 26.
Elías sendur, nema til eckjunnar í Sarepta
hjá Sídón. Margir vóru og líkþráir medal 27.

V. 18. Es. 61, 1. 2. V. 26. 1 Kóng. 17, 9.
V. 27. 2 Kóng. 5, 14.

Ísraels manna á døgum Elísæusar Spámanns,
en enginn þeirra vard læknadur nema Na-
28. aman sýrlendski. En er þeir, sem í samkundu-
húsinu vóru, heyrdu þetta, urdu þeir allir af-
29. ar-reidir, rísu upp, hrektu hann út af borg-
inni og leiddu hann uppá nýpu fjalls þess, á
30. hverju borg þeirra er bygd og ætludu ad steypa
honum þar ofanfyrir, en hann komst úr hønd-
um þeim og fór þadan.
31. Hédan fór hann til Kapernaum borgar í
Galílæu-landi og kenndi þeim á hvíldar-døg-
32. unum, svo þeir undrudust kenníngu hans; því
33. hann taladi af myndugleika. Í samkundu-
húsinu var madur nockurr qvalinn óhreinum
34. anda; hann kalladi há-støfum og sagdi: bitti-
nú! hvad hurfum vid ad egast vid? Jesú frá
Nazareth! ertú kominn til ad fyrirfara oss?
35. eg veit hverr þú ert, Guds hinn helgi. En
Jesús hastadi á hann og sagdi: þegi þú og far
þú útaf honum; þá hreif djøfullinn hann og
kastadi honum fram á medal þeirra, yfirgaf
36. hann og gjørdi honum ecki mein. Þetta und-
rudust allir nærsta mjøg og søgdu hverr vid
annann: hvílík ræda er þetta, ad hann skipar ó-
hreinum øndum med myndugleika og valdi og
37. þeir fara? Barst þá ordstýr hans út um øll
þau hérød, er í grend vóru.
38. Ur samkundu-húsinu fór hann í hús Sí-
mónar; þar lá módir konu Símónar mjøg sjúk
39. af køldu og bádu þeir hann fyrir hana. Fór
hann þá til hennar, skipadi køldunni ad hverfa

V. 31. Mark. 1, 23. V. 38. Matth. 8, 14.
Mark. 1, 29 ff.

burt og hvarf hún þá frá henni; fór þá kon-
an strax á fætur og veitti þeim beina. Þegar 40.
sól var setst, færdu menn til hans alla þá sjúk-
línga, er haldnir vóru af ímislegum veikindum;
lagdi hann hendur yfir sérhvern þeirra, og lækn-
adi þá. Djöflar fóru og útaf mörgum, æptu 41.
og sögdu: þú ert Sonur Guds; en hann bann-
adi þeim ad segja frá því, ad þeir vissu hann
væri Kristur. Strax er dagadi, fór hann út 42.
úr borginni í einn eydistad, en fólkid leitadi
hans og fann hann, bádu þeir hann þá inni-
lega, ad hann ecki færi frá þeim; en hann 43.
sagdi: mér ber og ad boda Guds ríki í ödr-
um borgum; því til þess er eg sendur. Fór 44.
hann sídan og kénndi í samkundu-húsunum í
Galíleu.

I.) Jesús kénnir af skipinu og blessar Péturs fiskidrátt 1—11. II.) læknar einn lík-þráann og adra fleiri 12—16. III.) læknar visinn mann og sannar þar med ad hann hafi vald til ad fyrirgéfa syndir 17—26. IV.) qvedur Leví til ad fylgja sér og forsvarar þad, ad hann eti med tollheimtu-mönnum 27—32. V.) talar um föstuna 33—39. 5. Kap.

Einhverju sinni bar svo vid, er fólkid flyckist 1.
ad honum til ad heyra Guds ord, en hann
stód vid vatnid Genezareth, ad hann leit tvö 2.
skip vid vatnid, en fiskimennirnir vóru farnir

V. 42. Mark. 1, 35—38.
V. 1. Matth. 4, 18—22. Mark. 1, 16—20.

3. í land og vóru ad þvo net sín, fór hann þá
í annad skipid, sem Símon átti og bad hann
leggja lítid frá landi; settist hann þá nidur og
4. kénndi fólkinu af skipinu; en er hann hafdi lokid
rædu sinni, sagdi hann vid Símon: legg þú út
5. á djúpid og leggid net ydar til fiski. Símon
mælti: Meistari! vér høfum setid í alla nótt
og eckert fiskad; en ad þínu bodi vil eg legg-
6. ja netid. Þeir gjørdu svo; kom þá svo mikill
7. fiskur í netid, ad þad tók ad rysna; þá bendtu
þeir félogum sínum á hinu skipinu, ad þeir
kjæmu þeim til lids; þeir komu og seckhlódu
8. bædi skipin. Þegar nú Símon Pétur sá þetta,
féll hann til fóta Jesú og sagdi: far þú frá
9. mér, Herra! því eg er madur syndugur; því
felmtur var kominn yfir hann og alla þá, sem
med honum vóru af þeim mikla abla, sem þeir
10. høfdu fengid; eins yfir Jakob og Jóhannes,
sonu Zebedæusar, sem vóru félagar hans. Þá
sagdi Jesús vid Símon: óttast þú ecki! hédan
11. í frá skaltú menn veida. Drógu þeir sídan
skip sín á land, yfirgáfu allt og fylgdu honum.
12. Einhverju sinni bar svo vid, þá hann var
í borg nockurri, ad líkþrár madur sá hann,
féll fram á ásjónu sína og bad hann svofeld-
um ordum: ef þú vilt, Herra! getúr þú lækn-
13. ad mig. Jesús rétti út høndina, hrærdi vid
honum og mælti: eg vil, vertú heilbrigdur;
14. og strax hvarf líkþráin frá honum. Frá þessu
bannadi Jesús honum ad segja nockrum manni,
heldur far og sýn þig Prestinum og fær fórn

V. 12. Matth. 8, 2—4 Mark. 1, 40—45.
V. 14. 3 Mós. 14, 10. ff.

fyrir fengna heilbrigdi, eins og Móses hefir
bodid, ödrum til sanninda merkis. En ords- 15.
týr hans útbreiddist meir og meir og fjöldi
fólks kom ad heyra kénníngu hans og til ad
læknast af honum af sjúkleikum sínum: en sjálf- 16.
ur veik hann til eydi-stada og gjerdi þar bæn-
ir sínar.

Svo bar vid á einum degi, er hann 17.
kénndi og þar sátu Pharísæar og Loglærdir,
er komnir vóru úr ellum þorpum í Galíleu,
Júdæu og frá Jerúsalem og kraptur Guds
audsýndi sig í ad lækna marga; ad þar komu 18.
nockrir menn, er báru visinn mann á sæng.
Þeir leitudust vid ad bera hann inn og legg-
ja hann fram fyrir Jesúm; en áttu ecki kost 19.
á því fyrir mann-þraunginni. Fóru þeir þá
uppá þakid og léru hann síga nidur gégnum
þad milli sín í sænginni fram fyrir Jesúm; og 20.
er hann sá trú þeirra sagdi hann: þú, madur!
syndir þínar eru þér fyrirgéfnar. Þá tóku 21.
Pharísæar og þeir Loglærdu ad hugsa med sér
hverr sá væri, er færi med slíka gudlöstun, þar
enginn kynni ad fyrirgéfa syndirnar nema Gud
ein. Þá sagdi Jesús, sem vissi hvad þeir 22.
hugsudu, vid þá: hvad er þad, sem þér hug
um leidid? hvert er audveldara ad segja: þér 23.
eru þínar syndir fyrirgéfnar, eda: far þú á
fætur og gack? En til þess ad þér vitid ad 24.
Mannsins Sonur hefir vald á jerdu ad fyrir-
géfa syndirnar, þá far þú á fætur, segir hann
til þess visna, tak þú sæng þína og far þú
heim til þín. Fór hann þá strax á fætur svo 25.

V. 17. Matth. 9, 2—8. Mark. 2, 1—12.

allir sáu, tók það, sem hann hafdi legid á og
26. fór til húss síns lofandi Gud. Þetta þékti
øllum en mestu undur, og vegsømudu Gud ótta
fullir og søgdu: furdulegir hlutir erú það, sem
vér høfum sied í dag.
27. Sídan fór hann burt; þá sá hann toll-
heimtu-mann, er sat hjá búd sinni, Leví ad
28. nafni; Þennann qvaddi hann til fylgdar vid
29. sig; hann yfirgaf allt og fylgdi honum. Nock-
ru sídar bjó Leví honum veitslu mikla í húsi
sínu, var þar ad bodinu margt tollheimtu-
30. manna og annara. Ut af þessu knurrudu Pha-
rísæar og þeir Løglærdu vid Lærisveina hans
og spurdu: hví þeir hefdu samneyti vid toll-
31. heimtara og bersynduga. Jesús svaradi: ecki
þurfa heilbrigdir læknis vid, heldur þeir, sem
32. vanheilir eru; ecki er eg kominn ad kalla rétt-
láta, heldur synduga til lifnadar bóta.
33. Þá søgdu þeir til hans: því fasta Læri-
sveinar Jóhannesar optlega og eru á bænum,
eins Lærisveinar Pharísæanna, en þínir neyta
34. matar og dryckjar? Jesús mælti: traudt
munu brúd-mennirnir fasta medan brúdguminn
35. er med þeim; en sá tími mun koma, ad brúd-
guminn verdur tekinn frá þeim og þá munu
36. þeir fasta; sídan sagdi hann þeim þetta til
dæmis: enginn leggur nýa bót á gamalt fat,
því annars rýfur bædi nýa bótin gamla fatid
37. og sambýdur því ecki heldur. Ecki heldur
plaga menn ad láta nýtt vín í gamla belgi,
annars sprengir hid nýa vínid gomlu belgina;
38. spillist það en belgirnir ónýtast; heldur ber ad

V. 27. Matth 9. 9—17. Mark. 2, 13—22.

láta nýtt vín á nýa belgi og er þá hvert-
tveggja vel geymt. Ecki heldur plagar sá, sem 39.
dreckur gamalt vín að biðja strax um nýtt vín,
því honum þykir það gamla betra.

I.) Lærisveinar Jesú reittu korn-ex á hvíldar- **6. Kap.**
degi 1—5. II.) Jesús læknar mann
handar-visinn 6—11. III.) gengur til
bænagjörðar, útvelur þá tólf Postula og
læknar 12—19. IV) kénnir hverjir sæl-
ir séu 20—26. um kjærleika og misk-
un í því að dæma og géfa 27—42.
um að þeckja sinnislag af þess ávöxtum,
og um mismuninn milli þeirra, sem
breyta eptir hans kénningu og þeirra, sem
einúngis heyra hana 43—49.

Það bar við á hvíldar-degi þeim, sem fyrst- 1.
ur er eptir Páska, að hann fór yfir akurlönd
nockur; reittu þá Lærisveinar hans korn-ex
nockur; néru þau með höndum sínum og átu;
þá sögðu nockrir af Pharísæunum við þá: hví 2.
hafist þér það að, sem ecki er leyfilegt á hvíld-
ar-dögum? Jesús svaraði þeim: hafið þér 3.
ecki lesið hvað Davíð gjörði, þegar hann og
menn hans vóru matþurfar? að hann fór inn 4.
í Guðs hús*), tók brauðin helgu, át þau sjálf-
ur og gaf fylgdar-mönnum sínum; en þessi
brauð mátti enginn eta nema Prestarnir; og 5.

V. 1. Matth. 12, 1—8. Mark. 2, 23—28.
V. 2. 2 Mós. 20, 10. 31, 15.
V. 3. 1 Sam. 21, 6.
V. 4. *) Tjáldbúðina. 3 Mós. 24, 9.

enn framar sagdi hann: Mannsins Sonur er
líka herra hvíldar-dagsins.
6. Á ødrum hvíldar-degi kom hann og í
samkundu-hús þeirra og kénndi, var þar þá
madur nockurr, sem hafdi ena hægri hend visna;
7. en Pharísæar og enir Skriftlærdu gáfu gætur
ad, hvert hann læknadi á hvíldar-degi, svo þeir
8. fengju tilefni til ad ásaka hann. Þá sagdi
Jesús, sem vissi hvad þeir hugsudu, vid mann-
inn, sem visna hafdi hendina: stattú á fætur
og kom þú fram híngad. Madurinn stód upp
9. og kom. Þá sagdi Jesús vid þá: eg vil spyr-
ja ydur: hvert er heldur leyfilegt ad gjera á
hvíldar-degum gott edur íllt; ad frelsa líf manns
10. edur ad fyrirfara því? Þá hann hafdi litid í
kríng til allra, er vid vóru, sagdi hann vid
manninn: réttu fram hend þína! hann gjerdi
11. svo, og vard hún þá jafn-heil sem hin. Vid
þetta urdu þeir afar-reidir og báru saman ráد
sín um, hvad þeir skyldu gjora vid Jesúm.
12. Um þessar mundir fór hann uppá eitt
fjall, ad bidjast fyrir og var þar alla nóttina
13. á bæn til Guds. En er dagur kom, kalladi
hann til sín Lærisveina sína, og valdi tólf af
14. þeim, sem hann kalladi Postula; þessir vóru:
Símon, sem hann kalladi Pétur og Andrés
bródir hans, Jakob og Jóhannes, Philippus og Bar-
15. thólómæus; Matthæus og Thómás, Jakob Alfe-
usarson og Símon, sem kalladist vandlætari:
16. Júdas Jakobsson og Júdas frá Karíoth, sem

V. 6. Matth. 12, 9—14. Mark. 3, 1—6.
V. 12. Matth. 10, 1—4. Mark 3, 7—12.

síðan sveik hann. Með þeim fór hann niður 17.
af fjallinu, og nam stadar á vellum nockrum;
var þar þá með honum fjøldi af Lærisveinum
hans og miklar sveitir fólks úr allri Júdæu og
Jerúsalem og frá sjáfarbygdinni hjá Týrus og
Sídón; sem komnar vóru að heyra hann og 18.
til að læknast af sjúkdómum sínum og þeir er
þjáðir vóru af óhreinum óndum. Urðu þeir 19.
allir heilbrigdir og leituðust þeir allir við að
snerta hann, því kraptur géck út frá honum,
sem læknaði þá alla.

Jesús leit þá til Lærisveina sinna og hóf 20.
svo ræðu sína: Sælir eruð þér, fátækir! því
yðar er Guðs ríki; sælir eruð þér, sem nú líð- 21.
ið húngur! þér skuluð saddir verða; sælir eruð
þér, sem nú eruð sorgbitnir! þér munuð þér
huggun hljóta. Sælir eruð þér, nær menn 22.
hatast við yður vegna Manusins Sonar, út-
skúfa, lastmæla og bera út um yður óhróður,
sem værud þér illir menn! fagnið þá og 23.
verið kátir, því mikil laun munuð þér á himni
hljóta; því þannig breyttu forfeður þeirra við
Spámennina. Vesælir eruð þér, hinir ríku! 24.
því þér hafið úttekið yðar gledi. Vesælir er- 25.
uð þér, hinir sadda! því þér munuð húngur líða;
vesælir eruð þér, sem nú hlæið! því þér mun-
uð sýta og gráta; vesælir eruð þér, nær menn 26.
brúka við yður fagurgala! því eins gérðu for-
feður yðar við fals-spámennina. En yður býð 27.
eg, er orð mín heyrið: elskið óvini yðar,
gjørið þeim gott, sem hata yður; árnið þeim 28.

V. 17. Mark 3, 7—12. V. 20. Matth. 5, 1—13
V. 28. Matth. 5, 43. 44.

góds, sem formæla ydur og bidjid fyrir þeim,
29. er ydur gjøra óréit. Slái nockurr þig á adra
kinn þína, þá bjód þú honum hina; og ef ein-
hverr tekur frá þér yfirhofn þína, þá mein-
30. adu honum ecki ad taka kyrtil þinn. Géf
þú hverjum, sem bidur þig og ef einhverr
tekur frá þér þad, sem þitt er, þá kref þú
31. þess ecki aptur. Og eins og þér viljid ad
adrir breyti vid ydur, eins egid þér ad breyta
32. vid þá. Því þó þér elskid þá, sem ydur
elska, hvad gjørid þér í því þad launa verdt
sé? því bersyndugir elska einninn þá, sem þá
33. elska; og þó þér gjørid þeim gott, sem ydur
gjøra gott, hvad gjørid þér í því þad launa
sé verdt? því bersyndugir gjøra hid sama.
34. Og þó þér lánid þeim, hjá hverjum þér vænt-
id ad fá þad lánada aptur, hvad gjørid þér
í því þad launa verdt sé? því bersyndugir
lána líka sínum líkum, svo þeir fái fullt aptur.
35. Þér þar í mót egid ad elska óvini ydar, gjøra
gott og lána, án þess ad vænta nockurs apt-
ur; þá mun umbun ydar verda mikil og þér
munud vera verdir ad heita born hins Hæsta,
sem gjørir gott bædi vondum og vanþacklátum.
36. Verid því miskunsamir eins og Fadir ydar er
37. miskunsamur. Verid eigi ómildir í Dómum
ydrum um adra, ad ecki dæmi þeir ómildt um
ydur. Sakfellid eigi, ad þér eigi verdid sak-
felldir; fyrirgéfid, þá mun ydur fyrirgéfid verda.
38. Géfid, svo mun ydur géfast, gódur mælir, trodinn
skékinn og fleytifullur mun ydur géfinn verda; því

V. 29. Matth. 5, 39—42. V. 31. Matth. 7, 12.
V. 32. Matth. 5, 46. 48. V. 37. Matth. 7, 1. 2.

med sama mælir og þér mælid ødrum, mun ydur
aptur mælt verda. Sídan sagdi hann þeim 39.
þetta til dæmis: hvert fær sá, sem sjálfur er
blindur, vísad ødrum blindum veg? munu þeir
ecki bádir falla í gryfju? Lærisveininn er ecki fyr- 40.
ir sínum Lærimeistara, en sá, sem er fullnuma,
er jafn sínum Lærimeistara. Hverninn fær þú 41.
sjed flísina í auga bródur þíns, en gætir ecki
þess bjálkans, sem er í þínu egin auga? edur 42.
hverninn fær þú sagt vid hann: bródir! lát
þú mig taka flísina úr auga þér, medan þú
géfur ecki gaum ad bjálkanum í þínu egin
auga? Þú, hræsnari! drag þú fyrst bjálkann
úr þínu egin auga og sjádú sídan til, ad þú
fáir dregid flísina úr auga bródur þíns. Þad 43.
er ecki gott tré, sem ber slæma ávexti; ecki
heldur er þad slæmt tré, sem ber góda ávexti.
Sérhvert eitt tré þeckist af sínum ávexti; því 44.
ecki lesa menn fíkjur af þyrnum edur vínber
af þistlum. Gódur madur framber gott úr 45.
gódum sjódi hjarta síns, en íllur madur framber
íllt úr vondum sjódi síns hjarta; því þad
mælir munnurinn, sem hjartad hefir nægst af.
Því kallid þér mig Herra, og gjørid þó ecki 46.
hvad eg býd ydur? eg vil segja ydur hver- 47.
jum sá er líkur, sem kémur til mín og hlýdir
minni kénningu og breytir eptir henni, hann 48.
er líkur manni þeim, er bygdi sér hús, gróf
djúpt fyrir og grundvalladi þad á kletti; nú
er vatnsflód kom, skall straumurinn á þessu

V. 41 Matth. 7, 3—6. V. 43. Matth. 7, 16—19.
V. 45. Matth. 12, 34. V. 46. Matth. 7, 21—23.
V. 48. Matth. 7, 24—27.

húsi, en fékk hvergi hrært það, því það var
49. grundvallað á kletti. Hinn, er heyrir mína
kénníngu og breytir ekki eptir henni, hann er
líku manni þeim, er bygði sér hús á jarð-
vegi en hafði enga undirstøðu; þegar straum-
arnir skullu á því, féll það strax og þess hrun
varð mikið.

7. Kap. I.) Jesús læknar þjón Hundraðs-höfðíngja
nockurs 1—10. II.) endurlífgar son
einnar eckju 11—17. III.) talar við
Jóhannesar Lærisveina um sjálfann sig
18—23. við fólkið um Jóhannes og
síðan um þjóðarinnar vantrú 24—35.
IV.) forsvarar sjálfann sig og afteysir
bersynduga qvinnu 36—50.

1. Þegar Jesús hafði lokið þessari ræðu í áheyrn
2. lýðsins, fór hann inn í Kapernaum. En þjón
Hundraðs höfðíngja nockurs lá sjúkur aðkominn
3. dauða, sem honum var nærsta kjær. Þessi
maður hafði heyrt af Jesú og sendi því til
hans Öldúnga Gýðínga og bað hann koma til sín
4. og lækna þjón sinn. Þeir komu til Jesú og
beiddu hann alúðlega, því hann er — sögðu
5. þeir — verður að þú veitir honum þetta, því
hann elskar þjóð vora og hefir byggt oss sam-
6. kundu-hús á eginn kostnað. Jesús fór með
þeim; en er hann átti skammt eitt til hans,
sendi Hundraðs-höfðínginn vini sína og lét seg-
ja honum; ómaka þig ecki, Herra! því eg er
7. ecki verðugur að þú komir í hús mitt; þar fyr-

V. 2. Matth. 8, 6—13.

ir hefi eg ecki heldur álitið sjálfann mig verð-
ann að koma til þín; heldur mæl þú eitt orð
og mun þjón minn heill verða. Því eg, sem 8.
er sjálfur yfirvaldi undirgéfinn, hefi að ráða
fyrir stríðsmönnum, og nær eg býð einum að
fara, þá fer hann og einum að koma, þá kém-
ur hann og þræli mínum að vinna þetta eður
hitt, þá vinnur hann það. Þegar nú Jesús 9.
heyrði þetta, furðaði hann á þessum manni og
snérist að þeim, sem með hönum vóru og mæl-
ti: sannlega segi eg yður, slíka trú hefi eg ecki
fundið jafnvel meðal Israels manna. En 10.
þeir snéru aptur heim, er sendir vóru og fundu
þjóninn, er sjúkur hafði verið, heilann heilsu.

Daginn eptir fór hann til borgar þeirr- 11.
ar, sem heitir Nain; vóru þá í ferð með hon-
um margir af Lærisveinum hans og fjöldi fólks.
Nú er þeir komu að borgar-hliðinu, stóð svo á, 12.
að þar var borinn út dauður maður, hann var
einbirni og móðir hans eckja; fylgdi henni fjöldi
bæarmanna. Þegar Drottinn sá hana, kénndi 13.
hann í brjósti um hana og sagði: grát þú ecki!
síðan géck hann nær og hrærði við líkbörunum, 14.
en þeir, sem báru, stóðu við. Þá sagði hann:
eg býð þér, þú úngi maður! að þú rísir upp.
Þá settist sá upp, er dauður var og tók að 15.
mæla; og hann gaf hann aptur móður sinni.
Við þetta kom ótti yfir alla, vegsömuðu þeir 16.
Guð og sögðu: Spámaður mikill er kominn til
vor, Guð hefir litið í náð sinni til síns lýðs.
En þessi fregn um hann barst út um alla Jú- 17.
dæu og öll þau héruð, er í grend vóru.

18. Frá öllu þessu sögdu Lærisveinar Jóhann-
esar honum; kalladi hann þá á einhverja tvo
19. af þeim, sendi þá til Jesú og lét spyrja hann:
hvert hann væri sá, sem koma ætti, edur ættu
20. þeir annars ad vænta? Þeir komu til hans
og mæltu: Jóhannes Skírari sendi ockur til
þín og lét spyrja: hvert þú værir sá, sem koma
21. ætti, eda vér ættum annars ad vænta. En
svo stód á, er þeir komu, ad Jesús var ad
lækna marga, er þjádir vóru af þúngum sjúk-
dómum og af íllum ondum og mörgum blind-
22. um gaf hann aptur sýn þeirra. Þá mælti
Jesús: farid þid og segid Jóhannesi þad, sem
þid sjáid og heyrid: blindir fá sýn, halltir gánga,
líkþráir hreinsast, daufir heyra, daudir upp-
rísa og fátækum verdur bodad ad Messías sé
23. kominn; en vel er þeim, sem ecki hneixlast á
24. mér. Þegar sendimenn Jóhannesar vóru burtu
farnir, hóf Jesús ad tala til fólksins um Jó-
hannes á þessa leid: hvad var þad, sem þér
fórud í óbygdir ad sjá? var þad reirinn, er
25. vindurinn skékur? hvad fórud þér ad sjá? var
þad madur skrautbúinn? trúid mér: þeir, sem
í skraut eru búnir og í sælgæti lifa, eru í Kon-
26. únganna herbergjum. Eda hvad fórud þér þá
ad sjá? var þad Spámadur? já! eg segi ydur
satt, þann, er hverjum Spámanni var meiri;
27. því hann er sá, um hvern ritad er: "minn
sendiboda sendi eg undan þér, er greida skuli
28. veg þinn." Trúid mér: enginn er sá af konu
fæddur, er meiri sé enn Jóhannes Skírari.
Þó er minn sáfródasti Lærisveinn honum upp-

V. 18. Matth. 11, 1—19.

lýstari; samt hlýddi ell alþýda og tollheimtu- 29.
menn hans kénníngu, lofudu Guds rádstefun
og tóku skírn hans; en Pharísæar og hinir 30.
Skriftlærdu einkisvyrdtu Guds rád og létu ecki
skírast af honum. Vid hvad skal eg þá sam- 31.
líkja þessarar aldar mennum, edur hverju eru
þeir líkir? líkir eru þeir bornum, sem á torgi 32.
sitja og kallast á: vér qvádum ydur gledi-qvædi,
en þér vildud ecki dansa; vér þuldum ydur
sorgar tolur, en þér sýndud engin sorgar merki.
Því Jóhannes Skírari kom, át ecki braud og 33.
drack ecki vín og þér segid ad hann sé vitstola.
Mannsins Sonur kom og neytti alls frjálslega 34.
og hann kallid þér mathák og vínsvelg, vin toll-
heimtara og bersyndugra; en skynsamir menn 35.
einir dæma rétt um skynsama hegdun.

Einhverju sinni var þad, ad einn af 36.
Pharísæum baud honum til matar; kom hann
og settist undir bord; en svo stód á ad þar í 37.
bænum var kona nockur bersyndug; þegar hún
vard þess vís ad hann var ad mat í húsi Pha-
rísæans, kom hún med smyrsla-krús; stód á 38.
baka til vid fætur hans og grét; sídan þvodi
hún fætur hans med tárum sínum, þerradi þá
med hári sínu, kyssti þá og smurdi med smyrsl-
unum. En er Pharísæinn, sem honum hafdi 39.
bodid, sá þetta, hugsadi hann þannig: ef ad
þessi madur væri Spámadur, þá vissi hann
hvada kona þad er, sem hrærir vid honum, ad
hún er bersyndug. Þá mælti Jesús: Símon! 40.
eg hefi nockud ad segja þér; hann mælti: seig
þú þad fram, Meistari! Jesús mælti: lánar- 41.

drottinn nockurr átti tvo skuldunauta, ødrum
þeirra hafdi hann lánad tvøhundrud og fimm-
42. tíu aura, en hinum tuttugu og fimm; nú er
þeir eckert áttu til ad lúka med þessar skuldir
sínar, gaf hann þær bádum upp. Hverr þeirra
43. heldur þú nú ad elski hann meira? Símon mæl-
ti: eg hygg ad sá muni elska hann meira, sem
hann gaf upp stærri skuldina. Jesús quad
44. þad rétt ályktad; snériſt sídan ad konunni og
sagdi vid Símon: ſer þú konu þessa? eg kom
í hús þitt og þú gaſt mér ecki vatn ad þvo
í fætur mínar, en hún hefir vætt þá med tár-
45. um sínum og þerrad þá med hári sínu. Ecki
myntist þú vid mig, en frá því eg kom hér,
46. hefir hún ecki hætt ad kyssa fætur mínar.
Ecki smurdir þú høfud mitt med vidsmjøri, en
hún hefir smurt fætur mínar med smyrslum;
47. vegna þessa segi eg þér þad, ad hennar mørgu
syndir eru henni fyrirgéfnar, þar hún audsýndi
svo mikil elsku merki; því þeim, sem lítid er fyr-
48. irgéfid hann elskar lítid. Sídan sagdi hann
vid konuna: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar.
49. Tóku þá bodsmennirnir ad hugsa svo: hverr
er þessi, sem fyrirgéfur jafnvel syndirnar.
50. Sídan sagdi hann vid konuna: far þú í fridi!
þín trú hefir hjálpad þér.

8. Kap. I.) Jesús ferdaſt um kríng og prédikar; þeir tólf Lærisveinar og nockrar qvinnur fylgja honum 1—3. II.) hann framsetur dæmisøguna um Sádmanninn 4—15. um ljósid á ljósahaldinu 16—18. III.)

nefnir sína tilheyrendur sína náskyldu ætt-
íngja 19—21. IV.) kyrrir vind og sjó
22—25. V.) útrekur djøfla 26—39.
VI.) læknar blódfallssjúka qvinnu og upp-
vekur dóttur Jaírusar 40—56.

Sídan fór hann borg úr borg og þorp úr 1.
þorpi og kénndi þeim og flutti lærdóminn um
Guds ríki; vóru þá med honum þeir tólf og 2.
konur nockrar, er hann hafdi læknad af íllum
øndum og ødrum sjúkleikum; medal þeirra var
María frá Magdølum, frá hverri farnir vóru
sjø íllir andar, og Jóhanna kona Kúza, ár- 3.
manns Heródesar, Súsanna og margar adrar,
sem veittu honum framfæri af eignum sínum.
Nú er margt fólk var samankomid og 4.
fjeldi bæarmanna var farinn út til hans, sagdi
hann þeim þessa dæmisegu: Sádmadur nock- 5.
urr fór ad sá akur sinn, en er hann var ad
sá, féll sumt sædid vid veginn og vard fóttrod-
id og átu fuglar þad. Sumt féll í grýtta 6.
jørd og er þad óx, skrælnadi þad, því þad
vantadi vøkva; sumt féll medal þyrna, uxu 7.
þeir upp med og kjæfdu þad; en sumt féll í 8.
góda jørd, óx upp og bar hundradfaldann ávøxt.
Þegar hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hátt
og sagdi: hverr hann hefir eyru ad heyra med,
hann heyri. Sídan spurdu Lærisveinar hans, 9.
hvad þessi dæmi-saga ætti ad þýda. Hann 10.
mælti: ydur er unnt ad skilja leyndardóma
Guds ríkis; hinum ødrum kénni eg í dæmiseg-
um. Því þó þeir sjái, er þad, sem sæu þeir

V. 4. Matth. 13, 3—14. Mark. 4, 1—20.

ecki; og þó þeir heyri, sem heyrdu þeir ecki.
11. En þessi er útskíríng dæmi-sögunnar: Sædid
12. merkir Guds ord; það, sem féll vid veginn,
þýdir þá, sem nema það; sídan kémur djøfull-
inn og tekur það burt úr hugskotum þeirra,
13. ad þeir ecki skuli trúa og verda hólpnir. En
það, sem féll í grýtta jørd merkir þá, sem
heyra mína kénníngu og taka vid henni med
fegnudi, en vegna þess þeir hafa ecki rætur,
trúa þeir ad eins um stundarsakir, en falla frá
14. á tímum freistínganna. En það sædid, er
medal þyrna féll, merkir þá, sem heyra
mína kénníngu, en sekum búksorgar og þessa
lífs vellystínga késjast þeir jafnódt og ná ecki
15. þroska. En það, er féll í góda jørd, merkir
þá, er heyra mína kénníngu, geyma hennar í
gódu og sidsømu hjarta og bera ávøxt med
16. støduglyndi. Enginn qveikir ljós og skýlir
því med kéri edur setur það undir beck,
heldur plaga menn ad setja það í ljósa-hald,
17. svo þeir sjái til, er inn koma. Varla er nock-
urr hlutur svo hulinn, ad ecki muni augljós
verda, edur svo heimuglegur ad ecki verdi hann
18. opinberr; géfid því gaum ad hverfu þér hlýdid
minni kénníngu, því sá, sem geymir hana,
mun fá enn meiri upplýsíngu; en sá, sem ecki
geymir hennar, mun missa einninn það hann
ætlar sig numid hafa.

V. 16. Matth. 5, 14. 15. Mark. 4, 21—25.
Lúk. 11, 33. 35.
V. 17. Matth. 10, 26.
V. 18. Matth. 25, 29. 13, 12. Lúk. 19, 26.

Þá var þar komin móðir hans og bræð- 19.
ur, en gátu ecki náð fundi hans vegna fólks-
fjöldans; þá var honum sagt að móðir hans 20.
og bræður stæðu fyrir dyrum úti og vildu finna
hann. Hann mælti: móðir mín og bræður 21.
mínir eru þeir, sem heyra Guðs orð og
breyta eptir því.

Svo bar við einhvern dag, að hann steig 22.
á skip, og Lærisveinar hans; bauð hann þá að
þeir skyldu fara yfirum vatnið. Létu þeir þá 23.
frá landi; en á leiðinni sofnaði hann. Þá
kom hvirfil-vindur á vatnið, svo skipið fyllti
undir þeim og voru þeir þá nauðuglega stadd-
ir; fóru þeir þá og vöktu hann og sögðu: 24.
Meistari! vér forumst. En hann reis upp,
hastaði á storminn og sjáfar-ölguna svo hún
sefaðist og gjörði logn. Síðan sagði hann við 25.
þá: hvar er nú trú yðar? en þeir urðu hrædd-
ir og undruðust þetta og sögðu sín á milli:
hverr er þessi, er hann býður bæði vindi og
sjó og þeir hlýða honum?

Síðan lendtu þeir við hérað Gadara- 26.
manna, sem liggur hinumegin gagnvart Gali-
læu. En er hann steig á land, kom á móti 27.
honum maður nockurr úr borginni, sem láng-
ann tíma hafði verið djöfulóður. Hann klædd-
ist ecki fötum og var ecki í húsum, heldur í
í gröfum dauðra manna. Þegar hann sá Je- 28.
súm, hrein hann, laut honum og sagði með
hárri raustu: lát þú mig í friði, Jesú Sonur

V. 19. Matth. 12, 46—50. Mark. 3. 31—35.
V. 22. Matth. 8, 23—27. Mark 4. 35—41.
V. 26. Mark. 5, 1—20 Matth. 8, 28—34.

þíns æðsta Guðs! eg bið þig: qvel þú mig
29. ecki! því Jesús hafði boðið þeim óhreina anda
að fara út af honum. Í lánga tíma hafði
þessi andi qvalið hann; hann hafði verið bund-
inn viðjum og fjötrum og hafður í gætslu, en
hann hafði slitið af sér fjöturin og hlaupið í
30. djöful-æði í óbygðir. Þá frétti Jesús hann
að heiti? hann qvaðst heita Legió, því margir
31. djeflar vóru í hann farnir. Síðan bað hann
32. Jesúm að skipa þeim ecki í undirdjúpið; en af
því þar var stór svína-hjörð á beit í fjallinu,
þá beiddu þeir Jesúm leyfis að fara í þau
33. og lét hann það eptir þeim. Síðan fóru
djeflarnir út af manninum og í svínin, ærðist
þá hjörðin og steypti sér ofan fyrir hver-hnýpt
34. í sjóinn og drucknaði. Þegar hjarð-sveinarnir
sáu þetta, flýðu þeir og sögðu frá því bæði í
35. borginni og þar í bygðarlaginu; fóru þá borg-
armenn út að sjá þennann atburð og komu til
Jesúm. Sat þá maðurinn, af hverjum djefl-
arnir höfðu útfarið, klæddur og heilvita við
36. fætur hans, urðu þeir þá felmtursfullir. En
þeir, sem við höfðu verið, sögðu þeim frá,
hvörninn hann hefði orðið heill heilsu sinnar.
37. Bað þá mannfjöldinn úr héröðunum hjá Ga-
dara að hann færi burt frá þeim, því þeir
vóru orðnir nærsta hræddir. Steig hann nú
38. á skip og fór aptur yfirum. Beiddist þá mað-
urinn, frá hverjum hann hafði útrekið djefl-
ana, að hann mætti vera með honum; en Je-
39. sús lét hann frá sér og mælti: far þú til
heimilis þíns og seig þú frá hvað Guð hafi
gjört

gjört vid þig. Hann fór og kunngjördi í allri
borginni hvad Jesús hafdi honum gjört.
Þegar Jesús kom aptur, tók fólksfjöld- 40.
inn vel vid honum, því allir hefdu vænt hans.
Þá kom madur nockurr, Jaírus ad nafni, hann 41.
var forstödu-madur samkundu-hússins; hann féll
til fóta Jesú og bad hann koma heim til sín;
því dóttir hans, einbirni, hér um bil 12 vetra, 42.
var adkomin dauda. Á veginum þreyngdist
fólkid ad honum og var þar kona sú, er haft 43.
hafdi blódfall í tólf ár og varid allri eigu sinni
til læknara og gat þó enginn læknad hana.
Hún kom ad baki honum og hrærdi vid faldi 44.
klæda hans; stilltist þá strax blódfall hennar.
Þá spurdi Jesús: hverr hrært hefdi vid sér? 45.
Þegar allir synjudu þess, sagdi Pétur og þeir,
sem med honum vóru: Meistari! fólkid þreyng-
ist og tredst ad þér og þú spyr: hverr hafi
hrært vid þér? Jesús mælti: einhverr hrærdi 46.
vid mér, því eg fann krapt út af mér gánga.
Nú er konan sá ad hún fékk ecki dulist, kom 47.
hún skjálfandi, féll til fóta honum og sagdi frá,
svo allur lýdurinn heyrdi, hvers vegna hún
hefdi hrært vid honum, samt ad hún hefdi
strax heilbrigd ordid. Þá sagdi hann vid 48.
hana: vertú hughraust, dóttir! sakir trúar þinn-
ar ert þú heil ordin, far þú í fridi! Nú er 49.
hann var enn þetta ad mæla, kom madur frá
heimili Samkundu-hofdíngjans, er sagdi honum
ad dóttir hans væri látin og ad hann skyldi
ecki ómaka Meistarann. Þegar Jesús heyrdi 50.

V. 40. Matth. 9, 18—26. Mark. 5, 21—43.
V. 46. Luk. 6, 19.

þetta, sagdi hann: óttast þú ecki! trú þú og
51. mun hún heil verda. Þegar hann kom í húsid, lét hann enga fara inn nema Pétur, Ja-
52. kob og Jóhannes og foreldra barnsins; en allir grétu og syrgdu hana. Hann mælti: grátid
ecki! ecki er hún daud, heldur sefur hún;
53. gjerdu þeir þá gis ad honum, því þeir vissu
54. ad hún var daud. Sídan rýmdi hann ellum
út, tók í hønd hennar og sagdi: meya! stattú
55. upp! kom þá aptur lífid til hennar og reis
hún strax upp; baud hann þá ad géfa henni
56. mat. Þetta undrudust foreldrar hennar, en
hann bannadi þeim ad segja nockrum frá þessum atburdi.

9. Kap. I.) Þeir tólf Lærisveinar eru útsendir 1—6. II.) Heródes vill fá ad sjá Jesúm 7—9. III.) Postularnir koma aptur; Kristur kénnir, læknar, mettar fimm þúsundir manna 10—17. IV.) Pétur játar Jesum vera Guds Son 18—21. Jesus talar um sína pínu, um sjálfs afneitun og sitt ríki 22—27. V.) forklárast á fjalli 28—36 VI. læknar tunglsjúkann 37—43. VII.) segir sína pínu fyrir 44. 45. VIII.) talar um audmýkt 46 —48. IX.) og óeilhlýdilegt vandlæti 49—56. X.) og um þad, sem fylgdi med því ad vera hans fylgjari 57—62.

1. Sídan kalladi hann þá tólf saman og gaf
þeim vald og rád yfir ellum djefflum og til ad

V. 52. Jóh. 11, 11. V. 1 Matth. 10, 5 ff Mark. 6, 7. 13.

lækna sóttir og sendi þá til að flytja lærdóm- 2.
inn um Guds ríki og til að græða sjúkleika
og mælti: hverki skulud þér taka med ydur 3.
staf edur teslu til ferdarinnar og ecki braud
edur silfur og ecki tvennann klædnad. Þegar 4.
þér hafid tekid ydur adsetur á einu heimili, þá
verid þar til þess þér farid þadan. En vilji 5.
einhverr ecki veita ydur vidurtaku, þá farid
burt úr þeirri borg og hristid dupt af fótum
ydrum, til vitnis gégn þeim. En þeir fóru 6.
á stad og ferdudust um landsbygdina, kénndu
um Messíasar ríki og læknudu allstadar.

Nú kom þad til eyrna hefdíngjans He- 7.
ródesar hvad Jesús hafdi gjört, vissi hann nú
ecki hvad hann átti ad gjöra sér í hugarlund,
því sumir sögdu ad Jóhannes væri endurlifn-
adur, adrir ad Elías væri kominn og sumir 8.
ad einn af þeim gömlu Spámennum væri ris-
inn upp. Sagdi hann þá: Jóhannes hefi eg 9.
látid hálshöggva, en hverr er þessi, af hver-
jum eg heyri þessa hluti? og hann lángadi til
ad sjá hann.

Þá komu Lærisveinar Jesú, sem hann 10.
hafdi sendt frá sér, til baka og sögdu honum
frá hvad þeir hefdu adhafst; fór hann þá med
þeim einslega í eydipláz nockurt hjá borginni
Bethzaídu; en er fólkid vard þess vart, fylgdi 11.
þad eptir honum og veitti hann því vidurtöku
og kénndi því um Guds ríki og læknadi þá, er
þess þurftu vid. En er degi tók ad halla, 12.

V. 7. Matth. 14, 1. 2. Mark. 6, 14—16.
V. 10. Matth. 14, 13—21. Mark. 6, 32—44.
Jóh. 6, 1—15.

komu þeir tólf til hans og báðu, að hann léti
fólkið fara frá sér, svo það færi í þorpin og
landsbygðina þar í kring og leitaði sér uátt-
staða og matar, þar þeir væru í óbygðum.
13. Þá sagði hann við þá: géfið þér þeim mat.
Þeir mæltu: ekki höfum vér nema fimm brauð
og fiska tvo, nema ef vér egum að fara og
14. kaupa öllum þessum mannfjölda mat; því þar
vóru hér um fimm þúsundir manna. Þá bauð
hann Lærisveinum sínum að láta þá setjast nið-
ur í hópa, svo fimmtíu væru í hverjum hópi;
15. þeir gjörðu svo og létu þá alla setjast niður.
16. Þá tók hann þau fimm brauð og tvo fiska,
leit upp til himins, gjörði Guði þakkir, braut
þau og féck þau Lærisveinunum að þeir legðu
17. þau fyrir fólkið, metuðust þeir allir og urðu
saddir; vóru þá upptekuar leifarnar og vóru
það tólf karfir fullar.
18. Einhverju sinni, er hann var einnsaman á
bæn og Lærisveinar hans hjá honum, spurði
19. hann þá, hvern fólkið áliti hann að vera? þeir
sögðu: sumir ætla að þú sért Jóhannes Skír-
ari, aðrir Elías og sumir að einn af þeim
20. gömlu Spámönnum sé upprisinn. Þá sagði
hann: en hverr ætlið þér eg sé? Pétur mælti:
21. vér ætlum að þú sért Kristur Guðs. Þá
lagði hann ríkt á við þá, að þeir ecki segðu
22. nockrum frá því, því Mannsins Sonur — sagði
hann — á margt að líða. Hann á að verða
útskúfaður af Öldúngunum og þeim æðstu Prest-
um og enum Skriftlærðu, líflátast og upprísa
23. á þriðja degi. Síðan sagði hann til þeirra

V. 18. Matth. 16, 13—28. Mark. 8, 27—39.

allra: hverr, sem vill vera minn Lærisveinn,
líti ecki á egin hagsæld, heldur sé hann hver-
vetna fús til að bera sinn kross og veri minn
Lærisveinn; Því hverr, sem vill fá borgið lífi 24.
sínu, mun týna því; og hverr, sem er fús að
láta líf sitt mín vegna, hann mun frelsa það;
því að hverju gagni kjæmi það, þótt maður 25.
eignaðist allann heiminn, en týndi sjálfum sér
og skaðaði sig? Því hverr, sem lætur sér mínk- 26.
un þykja að mér og minni kenníngu, að þeim
man og Mannsins Syni mínkun þykja, þegar
hann kémur með vegsemd sinni og Föður síns
og helgum englum. En eg segi yður: að nock- 27.
rir af þeim, sem hér eru nú viðstaddir, munu
ecki deya fyrr enn þeir sjá Guðs ríki.

Hér um átta dögum eptir að hann tal- 28.
aði þetta, tók hann með sér Pétur, Jóhannes
og Jakob og fór uppá fjall nockurt til að gjöra
bæn sína. Þá bar svo við, er hann var á 29.
bæninni, að yfirlitur hans umbreyttist og klæði
hans urðu ljómandi. Þar birtust tveir menn 30.
í skínandi búníngi, vóru það þeir Móses og 31.
Elías, er töluðu við hann um hans tilkomanda
líflát í Jerúsalem. En Pétur og þeir, sem 32.
með honum vóru, vóru yfirkomnir af svefni og
er þeir vöknuðu, sáu þeir ljómann af honum
og þá tvo menn er hjá honum vóru, En þeg- 33.
ar þeir skildust við hann, mælti Pétur við Je-
súm: gott er oss hér að vera, Meistari! lát-
um oss slá hér þremur tjöldum, einu handa
þér, öðru handa Mósi og enu þriðja handa Elíasi,
því ecki vissi hann hvað hann sagði. En er hann 34.

V. 28. Matth. 17, 1—9. Mark. 9, 1—8.

var þetta ad mæla, kom ský og skyggdi yfir
þá, urdu þeir hræddir, er þeir komu inn í
35. skýid; kom þá rödd úr skýinu, er sagdi: þessi
er Sonur minn elskulegur, hlýdid þér honum.
36. En í því röddin kom, fundu þeir Jesúm ein-
ann. Um þetta þegdu þeir og sögdu á þeim
dögum engum frá hvad þeir hefdu séd.
37. Deginum eptir, er þeir fóru nidur af
fjallinu, kom mikill fjöldi fólks á móti honum,
38. kalladi þá madur nockurr úr flockinum og sagdi:
Meistari! eg bid þig, kom þú og vitja sonar
39. míns, því hann er einka barn mitt. Andinn
hrífur hann og strax hrín hann upp, teygist
hann þá sundur og saman og froduféllir og
varla víkur andinn frá honum þá hann hefir
40. qvalid hann. Bad eg Lærisveina þína, ad
þeir rækju hann út, en þeir gátu þad ecki.
41. Jesús mælti: þú trúarlausa og rángsnúna þjód!
hversu lengi skal eg vera med ydur og umbera
42. ydur; fær þú híngad son þinn! En er hann
kom, hreif hinn illi andi hann og teygdi hann
sundur og saman. Hastadi þá Jesús á hinn
óhreina anda og læknadi sveininn og gaf hann
43. aptur födur sínum; en allir undrudust Guds
mikla mátt.
En er allir vóru nú ad furda sig yfir öllu
því, sem Jesús gjördi, tók hann svo til orda
44. vid Lærisveina sína: takid eptir þessum ordum:
Mannsins Sonur á ad ofurseljast í manna hendur.
45. En þeir skildu þad ecki og þad var svo hulid

V. 37. Matth. 17, 14—21. Mark. 9, 14—29.
V. 43. Matth. 17, 22. 23. Mark. 9, 30—32.
V. 44. Luk. 18, 32 ff.

fyrir þeim, ad þeir skyjudu það ecki, en þordu
þó ecki ad spyrja hann að, hvad hann meinti
með því.

Einhverju sinni kom þræta medal þeirra 46.
um það, hverr þeirra mestur væri. En er Je- 47.
sús vard var vid þeirra hugrenníngar, tók hann
barn eitt og setti það hjá sér og sagdi vid þá: 48.
hverr, sem veitir þessu barni vidurteku mín
vegna, það er sem veitti hann mér vidurteku,
en hverr hann veitir mér vidurteku, hann veit-
ir og þeim vidurteku, sem mig sendi; því sá
af ydur, sem nú lætur minnst yfir sér, hann
mun mestur verda. Þá sagdi Jóhannes: 49.
Meistari! vér sáum mann nockurn, sem í þínu
nafni rak út djefla og vér bönnudum honum
það, þar hann ecki var af vorum flocki. Je- 50.
sús mælti: bannid það ecki, því sá, sem ecki
er mót ydur, hann er með ydur.

Nú er kom ad þeim tíma ad hann skyldi 51.
láta líf sitt, einsetti hann sér ad ferdast til Je-
rúsalem og sendi menn undan sér; þeir fóru 52.
og komu í þorp nockurt samverskt til ad fala
hönum þar gisting; en bæar-menn vildu ecki vid 53.
honum taka, af því hann ætladi til Jerúsalem.
En er Lærisveinar hans Jakob og Jóhannes 54.
urdu þess vísir, sögdu þeir: viltú, Herra! ad
vér bjódum eldi ad falla af himni og tortýna
þeim, eins og Elías gjördi. Þá snérist hann 55.
vid, ávítadi þá og sagdi: vitid þér ecki hverr-
ar trúar þér erud? Ecki er Mannsins Sonur 56.

V. 46. Matth. 18, 1—4. Mark. 9, 33—39.
V. 54. 2 Kóng. 1, 10 ff.

kominn til ad tortýna lífi manna, heldur til
ad frelsa þad. Sídan fóru þeir í annad þorp.
57. Svo bar vid á veginum, ad madur nockurr sagdi til hans: eg vil fylgja þér, Herra!
58. hvert sem þú fer. Jesús mælti: refar hafa
greni og fuglar skýli, en Mannsins Sonur
59. hefir hvergi hofdi sínu ad ad halla. Vid annann sagdi hann: fylg þú mér! hann mælti:
leyf mér fyrst, Herra! ad fara og grafa fødur
60. minn. Jesús sagdi: lát þá daudu grafa sína
daudu, en far þú og flyt lærdóminn um Guds
61. ríki. Enn nú annar sagdi: eg vil fylgja þér,
Herra! en leyf mér fyrst ad fara og quedja
62. heimilis-fólk mitt. Jesús mælti: enginn sá,
sem leggur hønd á plóginn og snýr til baka,
er hæfur til Guds ríkis.

## 10. Kap.

I.) Jesús sendir út enn sjøtíu Lærisveina, á vitar borgir nockrar 1—14. II.) þeir sjøtíu koma aptur gladir af makt yfir øndum og hann segir þeim hvad sé skynsamlegra gledi efni 15—20. vegsamar sinn Fødur 21. 22. og prísar sarsæld Lærisveinanna 23. 24. III.) kénnir Skriftlærdum almennann mannkjærleika og hverr sé hans náúngi 25—37. IV.) hrósar Maríu framyfir Morthu 38—41.

1. Eptir þetta útvaldi Drottinn og adra sjøtíu
og sendi þá undan sér tvo og tvo í allar þær
borgir og stadi, sem hann hafdi ásett sér ad
2. koma og taladi til þeirra svofeldum ordum:

V. 57. Matth. 8, 18—22. V. 2. Matth. 9, 37. 38.

korn-skéran er mikil, en verka-mennirnir fáir;
biðjið því eganda akursins að hann sendi verka-
menn til kornskurðar síns. Farið þér, eg 3.
sendi yður eins og lömb á meðal úlfa. Tak- 4.
ið hverki með yður fégirðil eður tösku og ekki
skó, kefjið yður ekki á að heilsa þeim, sem þér
mætið á vegi yðrum; nær þér komið inn í nock- 5.
urt hús, þá árnið þeim fyrst góðs, sem þar
eru og sé þar nockurr inni góðs verður, munu 6.
yðar góðu óskir hvína á honum; en ef ekki,
munu yðar góðu óskir hverfa til yðar aptur.
Verið kyrrir í enu sama herbergi, etið og 7.
dreckið það, sem yður verður boðið, því verð-
ur er verkamaðurinn launanna; ekki skuluð þér
flytja úr einu húsi í annað. Nær þér komið 8.
í bæ nockurn og bæar-menn veita yður viður-
töku, þá neytið þess, er framreidt verður;
læknið þá, sem þar eru sjúkir og kunngjörið 9.
þeim að Guðs ríki sé í nánd. En ef þér 10.
komið í þann bæ, hvar bæar-menn ekki vilja
veita yður viðurtöku, þá farið út á strætin og
mælið svo: duptið, sem loddi á oss úr yðvarri 11.
borg, hristum vér af oss á yður, vitið samt
það, að Guðs ríki er í nánd. Trúið mér: 12.
að bærilegra mun verða straff Sódómu á degi
dómsins enn þeirrar borgar. O þú hin arma 13.
Kórazín! og hin arma Bethzaída! ef þau
kraptaverk, sem framin hafa verið í yckur,
hefðu gjörð verið í Týrus eður Sídón, mundu
þeir fyrir laungu hafa sjeð að sér og klæðst

N

V. 3. Matth. 10, 16. V. 4. Matth. 10, 10—15.
Mark. 6, 8—12. V. 13. Matth. 11, 20—24.

14. hrigðar búníngi; en bærilegri munu verða kjør
Týrusar og Sídónar á degi dómsins enn yðkar.
15. Og þú, Kapernaum! sem nú mænir við him-
16. in, þér mun til vítis niðursekt verða. Sá,
sem hlýðir yður, það er sem hann hlýddi mér;
og hverr hann fyrirlítur yður, það er sem
hann fyrirlíti mig; en hverr hann fyrirlítur
mig, fyrirlítur þann mig sendi
17. Þá komu þeir sjøtíu til baka og vóru
næsta glaðir, sögðu þeir að einnig illir and-
ar hlýddu þeim, nær þeir skipuðu þeim í hans
18. nafni. Jesús mælti við þá: eg hefi sjeð Sa-
19. tan falla af himni eins og eldíngu. Nú géf
eg yður vald til að fót-troða höggorma og
sporð-dreka og allt óvinarins veldi og ekkert
20. skal yður granda. En gleðjist ekki yfir því,
að illir andar hlýða yður, heldur yfir því, að
21. nefn yðar eru skrifuð á himnum. Við þetta
tækifæri varð Jesús glaður í anda og tók hann
því svo til orða: eg þakka þér, Faðir! Herra
himins og jarðar, að þú auglýstir þá hluti
fáfróðum, sem huldir eru fyrir fróðum mönn-
um og spekíngum. Að vísu hefir þér, Faðir!
22. þannig þóknast að vera skyldi. Allt þetta
er mér auglýst af mínum Föður og enginn veit
hverr Sonurinn sé nema Faðirinn, eður hverr
Faðirinn sé, nema Sonurinn og sá, sem Son-
23. urinn vill það auglýsa. Þá snéri hann sér til
Lærisveina sinna og sagði við þá einslega: sæl
24. eru þau augu, sem sjá hvað þér sjáið; því eg
segi yður, að margir Spámenn og Konúngar
hafa viljað sjá það, sem þér sjáið, en sáu það

V. 21. Matth. 11, 25—27. V. 24. Matth. 13, 16. 17.

ecki, og heyra það, sem þér heyrið og heyrðu
það ecki.
Nú stóð upp skriftlærður maður nockurr; 25.
vildi freista hans og tók svo til orða: Meist-
ari! hverninn á eg að breyta, svo að eg eign-
ist eilíft líf? Hann mælti: hvað er skrifað í 26.
Legmáls-bókinni? hverninn les þú? Hann 27.
mælti: elska skaltú Drottinn Guð þinn af ollu
hjarta, af allri sálu, af ollum kroptum og oll-
um huga og náúnga þinn eins og sjálfann þig.
Hann mælti: þú svaraðir rétt, breyt þú svo 28.
og mun þér vel vegna. Nú vildi hann leita 29.
sér lofs og spurði Jesúm: hverr er þá minn
náúngi? Jesús mælti: maður nockurr ferð- 30.
aðist frá Jerúsalem til Jeríkó og féll í
hendur reifurum, sem flettu hann klæðum,
veittu honum áverka, fóru síðan burtu og létu
hann eptir dauðvona. Svo bar til, að Prest- 31.
ur nockurr fór þenna sama veg og er hann sá
hann, géck hann framhjá; eins Levítinn, þegar 32.
hann kom til þess staðar og sá hann, géck hann
einninn framhjá. En samverskur maður nock- 33.
urr, er fór um farinn veg, kom þar að og er
hann sá hann, kénndi hann í brjósti um hann,
kom og batt sár hans og hellti í þau við- 34.
smjori og víni, setti hann síðan uppá sinn eg-
inn eyk og flutti hann til géstgjafa húss og
lét sér hugarhaldið um hann. Degi síðar, er 35.
hann var ferðbúinn, tók hann upp einn eyri,
féck géstgjafanum og mælti: al þú onn fyrir

N 2

V. 25. Matth. 22, 35—39.
V. 27. 5 Mós. 6, 5. 3 Mós. 19, 18.

honum og það; sem þú kostar meiru til, skal
36. eg borga þér, þegar eg kém aptur. Hverr
af þessum þremur sýnist þér vera náúngi þess,
37. sem féll í hendur reyfurunum? hann mælti:
sá, sem miskunar verkið gjördi á honum. Je-
sús mælti: far þú og gjör hið sama.
38. Nú bar svo við á ferd þeirra, ad hann
kom í þorp nockurt; þar var kona, ad nafni
39. Martha, sem veitti honum gistíngu; hún átti
systur, er María hét, hún sat til fóta Jesú
40. og hlýddi hans kénníngu. Hafdi Martha mik-
il umsvif med ad standa þeim fyrir beina;
gékk hún þá til hans og tók svo til orda:
hirdir þú ecki um það, Herra! ad systir mín
lætur mig eina gánga um beina? seig þú henni
41. ad hjálpa mér. Jesús svaradi henni: Mar-
tha! Martha! þú hefir mikla áhyggju og um-
42. svif fyrir mörgu, en á einu rídur mest. Ma-
ría hefir valid sér það, sem best var og það
mun ecki frá henni takast.

11. Kap. I.) Jesús kénnir sínum Lærisveinum ad bidja 1—13. II.) rekur djöful út, er lastadur, en forsvarar sig 14—28. vísar til teikns Jónasar Spámanns og ávítar fólkid fyrir þess vantrú 29—32 og áminnir ad skynseminnar ljós ecki sé látid slockna 33—36 III.) etur med Pharisæum og ávítar þá og hina Loglærdu 37—54.

1. Eitt sinn bar svo vid ad hann var á bæn sinni einhverstadar; en er hann hafdi lokid bænagjördinni, sagdi einn af Lærisveinum hans vid

hann: kénn þú oss, Herra! að biðja, eins og
Jóhannes kénndi sínum Lærisveinum. Þá sagði 2.
hann við þá: nær þér gjerið bæn yðar, þá
biðjið á þessa leið: Faðir vor! helgist þitt
nafn, tilkomi þitt ríki; géf oss hvern dag vort 3.
daglegt brauð; fyrirgéf oss vorar misgjörðir, 4.
því vér fyrirgéfum og þeim, sem við oss hafa
misgjört; leið oss ecki í freistni. Framvegis 5.
sagði hann: ef þar er einhverr af yður, sem á
vin og fer til hans um miðnætti og segir við
hann: vinur! lánaðu mér þrjú brauð; því 6.
vinur minn er kominn til mín úr ferð sinni
og eg hefi eckert að bjóða honum; og sá, sem 7.
inni er svarar: gjörðú mér ecki ónæði, dyr eru
lokaðar og börn mín eru hjá mér í svefn-her-
bergi mínu; eg gét þess vegna ecki farið á
fætur til, að lána þér þau. Trúið mér, ef 8.
hann ecki fer á fætur að lána honum þau fyr-
ir þeirra vinskapar skuld, þá mun hann samt
fara á fætur vegna þrábeiðni hans og fá hon-
um svo mikið, sem hann viðþarf. Þar fyrir 9.
segi eg yður: biðjið og mun yður géfast; leit-
ið og munuð þér finna; knýið á og mun fyrir
yður upplokið verða; því sá fær, sem biður, 10.
sá finnur, sem leitar og fyrir þeim, sem áknýr
mun upplokið verða. Ef sonur einhvers yðar 11.
á meðal beiddi föður sinn um brauð, hvert
mundi hann géfa honum stein? og ef hann
bæði um fisk, mundi hann þá géfa honum snák
í staðinn fyrir fisk? eður bæði hann um egg,
mundi hann þá géfa honum höggorm? Ef nú 12.

V. 2. Matth. 6, 9—15.
V. 9. Matth. 7, 7. samanb. Lúk. 18, 1—7.

þér, sem vondir erud tímid ad géfa bornum ydar
gódar gjafir, hvad miklu framar mun þá ecki
Fadir ydar á himnum géfa þeim heilagann
Anda, sem þess beidast.
14. Þar eptir rak hann út djeful af manni
þeim, er mállaus var, og er djofullinn var út-
15. farinn, tók sá, er mállaus var, ad mæla. Þetta
undradist fólkid, en sumir sogdu ad hann ræki
djofla út med fulltíngi djofla-hofdíngjans Bel-
16. zebúls; adrir vildu freista hans og krofdust af
17. honum teikns af himni; en hann, er vissi hvad
þeir hugsudu, tók svo til orda: í hverju því
ríki, sem innbyrdis ósþektir eru, munu þær
valda þess eydileggíngu og hvert hús mun þar
18. yfir annad hrapa. Ef nú Satan er sjálfum
sér sundurþyckur, hverninn fær hans ríki þá
stadist? þar þér segid eg útreki djofla fyrir full-
19. tíngi Belzebúls. En ef eg útrek djofla med
fulltíngi Belzebúls, fyrir hvers fulltíngi útreka
þá ydrir Lærisveinar þá? þess vegna skulu þeir
20. og vera ydrir dómendur. En ef eg rek djofla
út med Guds krapti, þá er Guds ríki þegar
21. til ydar komid. Nær ein vopnud hetja vard-
veitir sitt virki, er allt í fridi, sem hún á;
22. en komi annar yfirsterkari og sigri hann, flett-
ir hann hann hertygjum sínum, er hann treysti
23. á, og skiptir herfánginu. Hverr, sem ecki er
med mér, hann er á móti mér; og hverr, sem
ecki samansafnar med mér, hann sundurdreifir.
24. Þegar óhreinn andi fer út af manni, ráfar

V. 14 Matth. 12, 22—30. Mark. 3, 22—27.
V. 23. Matth. 12, 30. Mark. 9, 40.
V. 24 Matth. 12, 43—45.

hann um eydimerkur, leitar hýbýlis, og nær
hann ecki finnur þad, þá segir hann vid sjálf-
ann sig: eg vil hverfa aptur í hús mitt hvad-
an eg fór og er hann kémur, finnur hann þad 25.
sópad og prýdt. Þá fer hann og tekur med 26.
sér adra sjø anda sér skadlegri og er þeir eru
innkomnir, byggja þeir þar; verdur svo þad
sídara ásigkomulag mannsins verra enn hid
fyrra. Þegar hann mælti þetta, hóf kona nock- 27.
ur medal fólksins upp raust sína og sagdi: sæll
er sá qvidur, er þig bar og þau brjóst, er þú
mylktir. En hann sagdi: já, ad vísu! sælir 28.
eru þeir, sem heyra Guds ord og gæta þess.
Þegar fólkid þyrptist ad honum, tók hann svo 29.
til orda: þessi þjód er vond, hún krefst teikns;
en henni skal eckert teikn verda géfid nema
teikn Jónasar; því eins og Jónas var Níníve 30.
borgar mennum teikn, eins mun og Mannsins
Sonur verda þjód þessari. Drottníngin úr 31.
sudur-átt mun rísa upp þegar dómurinn fellur
gégn þessari þjód og sýna hana straffs seka, því
hún kom af fjarlægu landi ad heyra speki Sa-
lómons; en gætid þess, ad hér er sá, sem Sa-
lómóni er meiri. Nínívé borgar menn munu 32.
rísa upp þegar dómurinn fellur gégn þessari
þjód og sýna hana straffs seka, því þeir bættu
rád sitt vid kénníngu Jónasar, en sjáid! hér
er sá, sem Jónasi er meiri. Enginn qveikir 33.
ljós og setur þad í skot edur undir mæli-kér,
heldur í ljósa-hald, svo þeir, sem inn koma

V. 29 Matth. 12, 38—42. Jón. 2, 1.
V. 31. 1 Kóng. 10, 1. V. 32. Jón. 3, 5.
V. 33. Luk 8, 16.

34. njóti birtu þess. Augað er ljós líkhamans,
nýtur því, ef auga þitt er heilskygnt, allur
þinn líkhami birtu; en sé það gallað, er lík-
35. hami þinn í mirkri; gæt þú þar fyrir þess,
36. að þitt innra ljós verði ekki að mirkri. Sé
því líkhami þinn allur upplýstur svo hvergi
beri skugga á, þá nýtur hann allur birtunnar,
eins og þegar ljósið lýsir með birtu sinni.
37. Þegar hann var þetta að mæla, bauð
einhverr af Pharísæum honum til matar.
38. Hann fór og settist undir borð. Þegar Pha-
rísæinn sá það, undraðist hann að Jesús tók
ekki handlaugar áður enn hann tók til matar.
39. Þá sagði Drottinn við hann: þér Pharísæar
plagið að láta þvo kér yðar og bikara utan,
en yðvart hið innra er fullt með rán og vonð-
40. sku. Þér, heimskíngjar! sá, sem hefir hreins-
að hið ytra, mun hann þar fyrir hafa hreins-
41. að hið innra? en ef þér gefið elmusur af
því, sem þar er, þá haldið þér að allt sé yður
42. hreint. Illa er yður farið Pharísæum, sem
tíundið myntu og rúðu og allar matjúrtir, en
hirðið hverki um réttvísi né elskuna til Guðs;
þitt birjar að vísu að gjöra, en þetta ekki ó-
43. gjört að láta. Illa er yður farið, þér, Pha-
rísæar! sem keppist eptir efstu sætum í sam-
kundu-húsum og að yður sé heilsað á manna-
44. mótum. Illa er yður farið, því eins eruð
þér og grafir dauðra manna, sem ekki ber á,
yfir hverjar menn gánga án þess að vita það.

V. 34. Matth. 6, 22. 23. V. 39. Matth. 23,
25. 26. V 42. Matth 23, 23 V. 43. Matth.
23, 6 7. V 44. Matth. 23, 27.

Þá tók einn af þeim Skriftlærdu svo til orda: 45.
Meistari! þú stíngur oss einnig sneid med
þessu; hann mælti: líka svo er ydur ílla far- 46.
id, þér, Skriftlærdir! þér bindid mennum lítt
bærar byrdar, en sjálfir snertid þér þær ecki
med einum fíngri. Ílla er ydur farid, sem 47.
byggid upp grafir Spámannanna, sem fedur
ydar líflétu; þannig hrósid þér og samþyckid 48.
athöfnum fedra ydvarra, er þér uppbyggid graf-
ir þeirra, sem þeir drápu. Fyrir því segir 49.
og speki Guds: "eg mun senda þeim Spámenn
og Postula, suma af þeim munu þeir ráda af
dögum og adra offsækja; svo mun á þessari 50.
þjód liggja blódskuld allra Spámanna, er líf-
látnir hafa verid frá heims upphafi, frá því 51.
Abel var drepinn til lífláts Zachariasar, sem
drepinn var millum musteris og altaris. Eg
segi ydur satt, ad þessi þjód mun fá makleg
málagjøld fyrir øll þessi manndráp. Ílla er 52.
ydur varid þér, Skriftlærdir! sem hafid hrips-
ad til ydar lykil vitskunnar, en sjálfir farid þér
þar ecki inn og fyrirmunid ødrum inngaungu.
Þegar hann hafdi svo mælt, tóku hinir Lög- 53.
lærdu og Phariseear ad veitast ad honum og
locka af honum andsvør um ýmislegt, sitja um 54.
hann og veida eitthvad saknæmt af munni
hans.

---

V. 46. Matth. 23, 4. V. 47. Matth. 23, 29—36.
V. 51. 1 Mós. 4, 8. V. 52. Matth. 23, 18.

12. Kap. I.) Jesús varar vid súrdeigi Pharísæanna 1—3. og vid því, ad hrædast menn' ina 4—12. II.) vill ecki skipta arfi 13—15. varar vid ágirni og búksorg 16—34. hvetur til árveckni og trúskapar 35—48. talar um hörmungar fyrir hans lærdóms skuld 49—53. og um adgjætslu tídarinnar 54—59.

1. Einhverju sinni bar svo vid, er svo mikill
mannfjöldi var saman kominn, ad nærstum tródd
hverr annann undir, ad hann hóf svo tal sitt
vid Lærisveina sína: varist fyrst og fremst súr-
2. deig Pharísæanna, nefnilega: hræsnina; því
eckert er svo dulid ad ecki verdi opinbert og
3. eckert svo leynt ad ecki verdi kunnugt; því
mun hvad eina, sem þér talid í leyni koma í
hámæli og hverju þér hvíslid í laumkofum, þad
4. mun kunngjørt verda á þökum uppi. Þad
segi eg ydur, míner ástkjæru! hrædist ecki þá,
sem aflífa líkhamann og fá ecki meira adgjört;
5. en eg skal sýna ydur hvern þér egid ad hræd-
ast, hrædist þann, sem eptir ad hann hefir líf-
látid, hefir vald til ad kasta ydur í helvíti,
6. hann egid þér ad hrædast. Seljast ecki fimm
titlíngar fyrir tvo smá-peninga, og þó gleymir
7. Gud engum af þeim, og enn fremur: öll ydar
höfud hár eru talin; verid því ecki hræddir,
meira erud þér verdir enn margir titlíngar.

V. 1. Matth. 16, 6. Mark. 8, 15.
V. 2. Lúk. 8, 17. Matth. 10, 26. 27.
V. 4. Matth 10, 28. V. 6. Matth 10, 29—31.

Eg segi ydur þad, ad hverr, sem vidurkénnir 8.
fyrir mönnum ad hann sé minn Lærisveinn,
þann mun og Mannsins Sonur vidurkénna
sinn ad vera í vidurvist engla Guds; en hverr, 9.
sem ecki vill kannast vid mig fyrir mönnum,
vid hann mun heldur ecki verda kannast fyrir
englum Guds. Hverr, sem lastar Mannsins 10.
Son, honum kann ad verda þad fyrirgéfid;
en sá, sem lastar Guds krapt, hefir ecki fyrir-
géfníngar ad vænta. Þegar þeir færa ydur í 11.
samkundu-hús sín og fyrir yfirbodara sína og
valdsmenn, verid þá ecki hugsjúkir hverninn þér
egid ad forsvara ydur, edur hvad þér egid ad
tala, því heilagur Andi mun kénna ydur á 12.
sömu stundu hvad þér egid ad segja.

Þá sagdi einn af fólkinu vid hann: Meist- 13.
ari! skipadú bródur mínum ad hann skipti
med mér arfi ockar. Þessum svaradi hann: 14.
Þú madur! hverr hefir sett mig fyrir Dómara
edur arfskipta-mann á milli yckar? framvegis 15.
sagdi hann til þeirra: gjætid ydar og varid
ydur vid ágirni, því enginn verdur sælli fyrir
þad, þó hann hafi aud fjár. Þá sagdi hann 16.
þeim dæmisögu þessa: þad var madur nockurr
audugur, hvers akur hafdi borid honum mik-
inn ávöxt; þá hugsadi hann med sér: hvad 17.
skal eg nú gjöra? eg hefi ecki hvar eg géti sam-
ansafnad ávöxtum mínum — sagdi hann þá vid 18.
sjálfann sig — þetta skal eg gjöra, rýfa nidur
hlödur mínar og byggja adrar stærri, þángad

V. 8. Matth. 10, 32. 33.
V. 10. Matth. 12, 32. Mark. 3, 28—30.
V. 11. Matth. 10, 17—20.

vil eg safna ellum ávextum mínum og aud=
19. æfum. Þá vil eg segja, vid sjálfann mig: þú
hefir fengid mikinn aud og ert byrgur í mørg
ár, hvíl þú þig nú, et þú og dreck og ver
20. þú gladur! en Gud sagdi vid hann: bári!
í nótt munt þú láta líf þitt og hvers verdur
21. þá þad þú hefir safnad? svo fer þeim er sér
safnar fé án þess ad vera í Gudi ríkur.
22. Enn framar sagdi hann vid Lærisveina sína:
þar fyrir segi eg ydur ad vera ecki hugsjúkum
fyri lífi ydru, hvad þér skulud hafa til fædu;
ecki heldur fyrir líkhama ydrum, hverju þér
23. skulud klædast; lífid er meira verdt enn fæd=
24. an og líkhaminn meir enn klædnadurinn. Gæt=
id ad hrefnunum, þeir sá hverki né uppskéra
og ecki hafa þeir kornhlødur né geymslu=hús,
samt fædir Gud þá; hvad miklu erud þér ecki
25. fuglunum ágætari? hverr af ydur gétur med
allri sinni áhyggju aukid hæd sína um eina
26. alin, og ef þér ecki gétid komid því til leidar,
sem minnst er í varid, hví erud þér þá á=
27. hyggjufullir um hitt annad? Skodid lilju=
gres þessi, hvernin þau vaxa, hverki vinna þau
né spinna; en trúid mér: ad Salómon í ollu
sínu skrauti var ecki svo fagurlega búinn, sem
28. eitt af þeim. Ef ad Gud skrýdir svo grasid,
sem í dag vex á akrinum og á morgun verd=
ur í ofn kastad, hversu miklu framar mun
29. hann ecki klæda ydur? þér trúarveikir! Ecki
skulud þér heldur spyrja um, hvad þér skulud
hafa til matar edur dryckjar og verid ecki hug=
sjúkir um þad; slíka áhyggju hafa heidnir

V. 22. Matth. 6, 25—33.

menn; en Faðir yðar veit að þér þurfið þessa 30.
við. Kappkostið heldur að eðlast Guðs ríki, 31.
þá munuð þér fá allt þetta í viðbót. Vertú 32.
ekki hrædd, mín litla hjörð! því Faðir yðar
hefir þóknast að gefa yður sitt ríki; seljið eig- 33.
ur yðar og gefið fátækum, safnið yður fjársjóð-
um, sem ekki fyrnast, þeim himneska auði, sem
aldrei þverrar, hvern þjófar ekki geta nálgast,
eða mölur skemmt; því hvar yðar fjársjóður 34.
er, þar er yðar hjarta. Yðar lendar séu 35.
girtar og ljós yðar logandi, svo að þér líkist 36.
þeim mönnum, er vænta húsbónda síns nær
hann muni koma frá veitslu, svo nær hann
kemur og ber að dyrum, að þeir þá strax ljúki
upp fyrir honum. Sælir eru þeir þjónar, 37.
hverja húsbóndinn finnur vakandi, þá hann
kemur. Trúið mér: hann man binda belti um-
sig, setja þeim borð og veita þeim sjálfur
beina. Finni hann þá svo, hvert sem hann 38.
kemur um aðra eður þriðju eikt nætur, þá er
þeim vel farið; því vitið það, ef húsbóndinn 39.
vissi á hverjum tíma þjófurinn mundi koma,
þá vekti hann og léti ekki rjúfa hús sitt. Ver- 40.
ið þar fyrir reiðubúnir, því Mannsins Sonur
mun koma á þeirri stundu, sem þér ekki ætlið.
Þá spurði Pétur: Meistari! hvert meinar þú 41.
oss með þessari dæmisögu eður alla? Jesús 42.
mælti; hverr er sá þjón, sem dyggur sé og for-
sjáll, hvern húsbóndi hans hefir sett til ráðs-
manns yfir hjú sín til að gefa þeim mat í rétt-
ann tíma, að hann egi ekki von á umbun ef 43.

V. 33. Matth. 6, 19—21. . V. 35. samanb. Matth. 25, 1 ff. V. 39. Matth 24, 43—51.

húsbóndi hans finnur hann svo breyta nær
44. hann kémur. Eg segi ydur satt: ad hann
45. mun setja hann yfir allar eigur sínar; en ef
þjóninn hugsár svo med sér: húsbóndi minn
mun ecki koma svo brádum og tekur ad berja
þjónustu-menn og ambáttir og lifa í óhófi til
46. matar og dryckjar; þá mun húsbóndi þess
þjóns koma á þeim degi, sem hann ecki ætl-
adi og á þeirri stundu, sem hann ecki vardi;
straffa hann þúnglega og gjøra hlut hans jafn-
47. ann ótrúrra þjóna. Því sá þjón, sem veit
vilja húsbónda síns og hirdir ecki um ad hlýda
48. honum, mun sæta þúngu straffi; en sá, sem ó-
vitandi gjørir þad, sem straffs er verdt, mun
sæta vægri hegníngu, en hverjum, sem mikid
er géfid, af honum mun og mikils krafist verda
og þeim, sem mikid er í hendur selt, af hon-
49. um verdur og meira heimtad. Eg er kominn
ad senda eld *) á jerdu og hvad segi eg? hann
50. er þegar qveiktur, en eg hefi skírn**) ad skír-
ast og hversu þúngt er mér í skapi til þess
51. henni er lokid. Hvert ætlid þér ad eg sé kom-
inn til ad senda frid á jerdu? ecki þad, held-
52. ur ósamlyndi. Upp frá þessu munu fimm
vera í einu húsi, allir sundurþyckir; þrír á móti
53. tveimur og tveir á móti þremur. Fadirinn
mun hefja fjandskap móti syni sínum og son-
urinn gégn fødurnum, módirin gégn dótturinni
og dóttirin gégn módirinni, módir konu manns
móti sonarkonu sinni og sonarkonan gégn mód-

V. 49. *) ófrid Matth. 10, 34. V. 50. **) fyrir
mér liggja þúngar þrautir. V. 51. Matth, 10,
21. 35. 36.

ur mannsins. Sídan tók hann svo til máls 54.
vid fólkid: nær þér sjáid ský draga upp í vestri, segid þér jafnskjótt ad regn muni koma og
þad gengst eptir, og þegar sunnan vindur blæs, 55.
þá segid þér ad hiti muni verda og þad skédur. Þér hræsnarar! af útliti lopts og jardar 56.
vitid þér ad segja fyrir tilkomandi vedurlag,
hví vitid þér þá ecki á sama hátt ad géfa
gaum ad þessara tíma ásigkomulagi? eda hví 57.
vitid þér ecki sjálfir ad dæma hvad rétt sé?
Þegar þú fer med mótstødu-manni þínum til 58.
dómarans, þá kostadu á veginum kapps um ad
sættast vid hann, svo ecki dragi hann þig fyrir dómarann og dómarinn afhendi þig fánga-
verdinum og fángavørdurinn kasti þér í dýblissu. Trú þú mér! ecki muntú þadan útkom- 59.
ast fyrr enn þú hefir borgad þann sídasta pening.

13. Kap.

I.) Af lífláti nockurra Galíleiskra tekur Jesús sér tilefni til ad áminna til betrunar 1—5. dæmisøgun um fíkjutréd 6—9. II.) Jesús læknar kreppta konu 10—17. III.) framsetur dæmisøguna um mustards kornid og súrdeigid 18—21. IV.) talar um útskúfun margra frá Messíasar ríki en inntøku heidíngja 22—30. V.) hrædist ecki Heródes, en ávítar Jerúsalem 31—35.

Um þessar mundir komu nockrir til hans, er 1.
søgdu honum frá þeim galíleisku, hverra blódi
Pílatus hafdi blandad vid fórnir þeirra. Je- 2.
sús mælti til þeirra: haldid þér ad þessir Ga-

líkar hafi verið verri menn enn allir aðrir í
3. Galíleu fyrir það að þeir líðu þetta? alls
ecki! en trúið mér, nema þér bætið ráð yðar,
4. munuð þér allir eins fyrirfarast; eður hvert
ætlið þér að þeir átján, sem turninn féll yfir í
Sílóam og varð að bana, hafi verið meira
5. sekir enn allir þeir í Jerúsalem búa? alls ecki!
eg segi yður satt: nema þér bætið ráð yðar,
6. munuð þer allir fá sömu afdrif. Síðan sagði
hann þessa dæmisögu: maður nockurr, sem hafði
plantað fíkjutré í víngarði sínum, kom og leit-
7. aði ávaxta á því og fann ecki; þá sagði hann
við víngarðs-manninn: í þrjú ár hefi eg kom-
ið og leitað ávaxta á þessu fíkju-tré og ecki
fundið; högg þú það upp, svo það spilli ecki
8. jörðunni. Hinn mælti: leyf þú því, Herra!
enn nú að standa þetta árið, þar til eg hefi
9. grafið um það og borið að myki, ef vera kynni
það bæri ávöxt; en ef ecki, þá lát þú höggva
það upp síðar.
10. Eitt sinn, er hann kénndi í einhverju
11. samkundu-húsi á Sabbaths-degi, bar svo við,
að þar var kona, sem haldin hafði verið af
sjúkleiks anda í átján ár, hún var kreppt og
12. gat með engu móti rétt sig upp. Þegar Je-
sús sá hana, kallaði hann til hennar og mælti:
13. kona! vertú laus við sjúkleika þinn! síðan lagði
hann hendur yfir hana; strax réttist hún upp
14. og lofaði Guð; en Forstöðu-maður samkundu-
húsins, sem líkaði ílla að Jesús læknaði á
Sabbaths-degi, sagði við fólkið: sex eru dagar
þeir á hverjum leyft er að vinna, komið þér
á þeim og látið yður lækna, en ecki á hvíldar-

degi. Honum svaradi Jesús á þessa leid: hræsn- 15
ari! hverr er sá ydar, sem ecki leysi naut sitt
edur asna af stalli og leidi til vatns á hvíldar-
degi? hvert skyldi þá ecki leyfilegt ad leysa 16.
þessa dóttur Abrahams á Sabbaths-degi úr
fjøtrum þeim, í hverjum Satan hefir haldid
henni í átján ár? og er hann hafdi þetta 17.
mælt, blygdudust allir mótstødu menn hans, en
fólkid gladdist yfir øllum þeim dásemdar verk-
um, er hann gjørdi.

Einhverju sinni sagdi hann: hverju er 18.
Guds ríki líkt? edur vid hvad skal eg því
samjafna? líkt er þad mustards korni, sem 19.
madur tók og sádi í jurtagard sinn; þad óx og
vard ad svo stóru tré, ad fuglar himins hreidr-
udu sig í greinum þess. Ødru sinni sagdi 20.
hann: vid hvad skal eg líkja Guds ríki? líkt 21.
er þad súrdeigi því, er kona tók og meingadi
vid þrjá mælira mjøls og sýrdist þá alltsaman.

Þegar hann var á ferd til Jerúsalem, fór 22.
hann um borgir og þorp og kénndi; þá spurdi 23.
einhverr hann: Meistari! munu þeir ecki verda
fáir, sem hólpnir verda? en hann sagdi til
fólksins: képpist ad komast gégnum hid þraung- 24.
va hlidid; því eg segi ydur satt: ad margir
eru þeir, sem leitast vid ad koma þar inn, en
géta þad ecki. Frá þeim tíma ad húsbónd- 25.
inn er uppstadinn og hefir lokad dyrunum,

O

V. 18. Matth. 13, 31—33. Mark. 4, 30—32.
V. 24. Matth 7, 13. 14.

26. munud þér, sem fyrir utan standid, taka ad berja
uppá og segja: lúk þú upp fyrir oss, Herra! en
27. hann mun svara: eg þecki ydur ecki og veit
ecki hvadan þér erud. Þá munud þér segja:
vér hefum etid og druckid med þér og á strætum
vorum kénndir þú. En hann mun segja:
eg þecki ydur ecki, né veit hvadan þér erud;
28. farid frá mér allir íllgjørda menn! mun þar
þá verda vein og tanna-gnístran, nær þér sjáid
Abraham, Isaak og Jakob og alla Spámennina
29. í Guds ríki, en ydur útrekna. Þá munu
þeir koma frá austri og vestri, nordri og sudri
30. og sitja til bords í Guds ríki; því gétid gjætt
at ad því, ad enir sídustu munu verda hinir
fyrstu og þeir sídastir, er fyrstir vóru.
31. Þenna sama dag komu til hans nockrir
Pharíseear og segdu: far þú hédan, því Heródes
32. situr um líf þitt. Hann mælti: farid þér
og segid þessum ref: eg rek djøfla út og held
áfram ad lækna í dag og á morgun, en á
33. þridja degi mun eg enda mitt æfi-skeid; þó verd
eg ad halda áfram í dag og á morgun og
þann komanda dag; því þad er móti venju, ad
Spámenn séu líflátnir fyrir utan Jerúsalem.
34. Jerúsalem! Jerúsalem! þú, sem aflífar Spámennina
og grýtir þá, sem til þín eru sendir,
hversu opt hefi eg ecki viljad samansafna børnum
þínum, eins og hænan safnar úngum sínum
undir vængi sér, en þér hafid ecki viljad.
35. Þar fyrir mun ydar bústadur í eydi látinn

V. 26. Matth. 7, 21—27. V. 29. Matth. 8, 11. 12.
V. 30. Matth. 19, 30. 20, 16. Mark. 10, 31.
V. 34. Matth 23, 37—39.

verda. Trúid mér, ad þér munud ecki sjá
mig til þess ad sá tími kémur, er þér segid:
velkominn veri oss sá, er kémur í Drottins
erindi!

I.) Jesús læknar vatnssjúkann 1—6. rædur frá því ad metast um sæti 7—14. framsetur dæmisøguna um þá miklu qvøldmáltíd 15—24. II.) talar um þad, sem kresst af Postula og um yfirvegun krapta sinna þar til fyrirfram 25—35. 14. Kap.

Svo bar vid einhvern tíma, ad hann kom á 1.
hvíldar-degi í hús eins af hefdíngjum Pharísæ-
anna til máltídar; høfdu þeir þá vord á hon-
um. En frammi fyrir honum stód madur nock- 2.
urr vatnssjúkur. Þá spurdi Jesús þá Skrift- 3.
lærdu og Pharísæana: hvert leyfilegt væri ad
lækna á hvíldar-degi? en þeir þøgdu vid.
Hrærdi þá Jesús vid honum, læknadi hann og 4.
lét hann burt fara. Sídan sagdi hann vid 5.
þá: ef einhverr ydar á asna eda naut, sem fell-
ur í pitt, dregur hann þad ecki jafuskjótt upp
þótt hvíldardagur sé? hvar til þeir gátu engu 6.
svarad. Sídan sagdi hann vid þá, er til 7.
bordsins sátu, þegar hann sá ad þeir vøldu sér
ædstu sæti: þegar einhverr býdur þér til veitslu, 8.
þá set þig ecki í hin ædstu sæti; vera kann
ad annar ædri þér sé bodinn og sá koml, sem 9.
baud þér og honum og segi vid þig: géf þú
þessum rúm og hljótir þú þá med blygdun ad
hafa hinn ystsa sess; heldur, nær þér er bod- 10.

id, þá set þig í hid ytsta rúm, svo þegar sá
kémur, sem þér baud, segi hann vid þig: vin-
ur! þoka þér upp betur, nýtur þú þá vyrd-
11. ingar af þínum sessu-nautum; þvíad hverr sig
sjálfann upphefur, hann mun nidurlægjast og
hverr sig sjálfann nidurlægir, hann mun upphafinn
12. verda. Framvegis sagdi hann vid þann, er hon-
um hafdi bodid: þegar þú býdur til middags-
edur qveld-verdar, bjód þú þá hvorki vinum þín-
um, brædrum edur náúngum, eckí heldur ríkum
nágrennum þínum, svo ecki bjódi þeir þér aptur,
13. og njótir þú svo endurgjalds. Heldur nær þú
gjörir heimbod, svo bjód þú fátækum, vanud-
14. um, helltum og blindum og sæll ert þú þá, því
þeir hafa ecki þad, med hverju þeir skuli end-
urgjalda þér; en þad mun verda þér endur-
15 goldid í upprisu réttlátra. En er þetta heyrdi
einn af þeim, er til bordsins sátu mælti hann:
sæll er sá, sem situr til bords í Guds ríki.
16. Honum svaradi Jesús: madur nockurr bjó til
mikla qveld-máltíd og baud þángad mørgum;
17. og þegar mat-máls tími var kominn, sendi hann
þjón sinn ad segja þeim til, er bodnir vóru,
ad þeir skyldu koma, því allt væri til reidu;
18. en þeir afsekudu sig allir í einu hljódi. Sá
fyrsti sagdi: eg hefi keypt mér akur og er mér
því naudsyn á ad fara og skoda hann; eg bid
19. þig, afsaka mig. Annar sagdi: fimm par ak-
neyta keypta eg, fer eg nú út ad reyna þau,
20. eg bid þig, afsaka mig. Sá þridji sagdi:
konu hefi eg mér keypta og gét eg þess vegna
21. ecki komid. Þjóninn fór og kunngjørdi hús-

V. 12. Samanb. Lúk. 6, 32 ff.

bónda sínum allt þetta; þá reiddist húsbónd-
inn og sagdi vid þjón sinn: far þú snarlega út
á strætí og götur borgarinnar og fær þú híng-
ad volada, vanada, hallta og blinda. Þjóninn 22.
sagdi: eg hefi gjört það þú baudst, Herra! en
þar er enn nú meira rúm. Þá sagdi húss- 23.
bóndinn vid hann: far þú út á stígu og þjód-
vegi og þrístu þeim svo fast ad koma ad mitt
hús verdi fullt; því eg segi ydur: ad enginn 24.
þeirra manna, er bodnir vóru, munu njóta
minnar máltídar.

Honum fylgdi þá mikill fjøldi fólks; snér- 25.
ist hann þá vid þeim og tók svo til orda: ef 26.
sá er nockurr, sem til mín kémur, og metur
ecki minna fødur sinn og módur, konu, børn,
brædur og systur og jafnvel sitt egid líf, hann
kann ecki minn Lærisveinn ad vera; og so, sem 27.
ecki er fús ad taka sinn kross á herdar og fylg-
ja mér eptir, gétur heldur ecki minn Lærisveinn
verid. Því hverr er sá af ydur, sem vill bygg- 28.
ja sér stórt hús, er ecki setjist fyrst nidur og
reikni kostnadinn, hvert hann hafi það hann
vidþarf, svo ad þegar hann er búinn ad legg- 29.
ja grundvøllinn, en gétur ecki fullkomnad bygg-
ínguna, þá skuli ecki allir, sem þad sjá, géra
gis ad honum og segja: madur þessi tók ad 30.
byggja, en gat ecki fullkomnad bygginguna.
Eda hverr er sá Konúngur, sem birjar ad hef- 31.
ja stríd móti ødrum Konúngi, er ecki rádslagi
fyrst um, hvert hann med tíu þúsundum géti
mætt þeim, sem hefir tuttugu þúsundir gégn
honum? Ad ødrum kosti mun hann senda bod- 32.

V. 26 Matth. 10, 37. 38.

skap til hins, medan hann er enn nú í fjarska
33. og leita fridar. Þannig er því og varid med
hvern af ydur, sem ecki yfirgéfur allar eigur
sínar, ad hann ecki fær minn Lærisveinn verid.
34. Saltid er gott, en missi þad krapt sinn, med
35. hverju skal þad þá selta? hverki er þá ad því
tún-bót né tads, heldur kasta menn því út.
Njóti sá, er nam!

15. Kap. Jesús forsvarar sína umgengni vid tollheimtara og bersynduga med dæmisøgunni um þann týnda saud, 1—7. tapada pening 8—10. og missta son 11—32.

1. Þá komu til hans margir tollheimtu-menn og
2. bersyndugir ad heyra kénníngu hans; en Pharísæar og Skriftlærdir emudust vid því og
spurdu: því hann tæki ad sér bersynduga og
3. hefdi samneyti vid þá? Þá sagdi Jesús þeim
4. þessa dæmisøgu: hverr er sá af ydur, er á
hundrad saudi og týnir einum af þeim, ad
hann ecki skilji þá níu og níutíu eptir í audn
og fari ad leita þess, er týndur var, þángad
5. til hann finnur hann? og þegar hann hefir
fundid hann, leggur hann hayn med gledi á
6. herdar sér og nær hann er heim kominn, kallar hann saman vini sína og nágranna og segir: gledjist med mér, eg hefi minn saud aptur
7. fundid, sem eg týndi. Trúid mér, meiri gledi
mun á himni verda yfir einum syndugum, sem
bætir rád sitt, enn yfir níutíu og níu réttlát-

V. 34 Matth. 5, 13. Mark. 9, 50.
V. 4. Matth. 18, 12. 14.

um, er ecki þurfa endurbótar vid. Edur hvert 8.
er sú kona, sem á fimm aura og týnir hálfs
eyris peníngi, ad hún ecki qveiki ljós, sópi húsid
og leiti vandlega til þess hún finnur hann? og 9.
þegar hún hefir fundid hann, kallar hún á vin-
konur sínar og grannkonur og segir: samgled-
jist med mér! eg hefi minn pening aptur fund-
id, sem eg týndi. Þannig munu englar Guds 10.
gledjast yfir einum syndugum, sem bætir rád
sitt. Framvegis sagdi hann: madur nockurr 11.
átti tvo sonu, sá ýngri þeirra krafdi fedur sinn 12.
fjárskiptis og fóru þau fram. Skömmu sídar 13.
tók sá ýngri allt fé sitt og ferdadist í fjarlægt
land; þar sóadi hann fé sínu í óhófsomum lifn-
adi. Nú er hann hafdi eydt öllum eigum sín- 14.
um, kom þar mikid hallæri í landid, tók hann
þá ad lída naud, fór hann þá og héldt til hjá 15.
einum borgar-manni þar í bygdarlaginu, sem
sendi hann útá bú sitt ad gæta þar svína sinna;
girntist hann þá ad sedja sig af drafi því, er 16.
svínin átu, enginn var sá, er gæfi honum nock-
ud. Nú sá hann ad sér og sagdi: hversu 17.
marga daglauna-menn heldur fadir minn, sem
hafa gnægd matar, en eg ferst í húngri; eg 18.
vil taka mig upp og fara til fødur míns og
segja vid hann svofelldum ordum: Fadir! eg
hefi misbrotid vid Gud og þig og er ecki leng- 19.
ur verdur ad heita sonur þinn. Lát þú mig
hafa áráugur med einum af verkamönnum þín-
um. Bjóst hann þá til ferdar til fødur 20.
síns; en er hann var enn nú lángt í burtu,
þeckti fadir hans hann og kénndi í brjósti um
hann, hljóp og féll um háls honum og kyssti

21. hann. Þá sagdi sonurinn vid hann: Fadir
minn! eg hefi misbrotid vid Gud og þig og
er nú ecki framar verdur ad heita sonur þinn.
22. Þá sagdi fadirinn vid þjóna sína: færid híng-
ad þá bestu yfirhøfn og færid hann í, komid
med hríng á hønd hans og skó á fætur hon-
23. um; færid svo híngad ali-kálf og slátrid hon-
um, svo vér getum matast og verid gladir;
24. því sonur minn, sem haldinn var daudur, er
úr helju heimtur og hann, sem týndur var er
25. fundinn; tóku þeir nú ad gledjast. En svo
bar vid ad eldri bródir hans var á akri og er
hann kom og nálgadist húsid, heyrdi hann saung
26. og dans: kalladi hann þá á einn af þjónustu-
27. mønnunum og frétti hann hvad um væri; hann
sagdi: bródir þinn er kominn og fadir þinn
hefir slátrad ali-kálfi, af því hann heimti son
28. sinn heilann heim. Reiddist hann þá og vildi
ecki fara inn. Fadir hans fór þá út og baud
29. honum inn ad koma. Hann sagdi vid fødur
sinn: í svo mørg ár hefi eg nú þjónad þér og
aldrei breytt útaf bodum þínum, þó hefir þú
aldrei géfid mér kidlíng, ad eg mætti gledjast
30. med vinum mínum; en þessi sonur þinn, sem
sóad hefir aleigu sinni med skjækjum, er nú
kominn og hans vegna slátrar þú ali-kálfi.
31. Hinn mælti: sonur minn! þú ert alltaf med
32. mér og allar mínar eigur heyra þér til; nú
ættir þú ad vera gladur og í gódu skapi, þar
bródir þinn, sem daudur var haldinn, er úr
helju heimtur og hann, sem týndur var, er
fundinn.

I.) Jesús framsetur dæmisöguna um hinn ó- 16. Kap.
trúa rádsmann og varar vid ágirnd 1—13. II) ávítar Pharisæana 14—18. III.) og segir dæmisöguna um hinn ríka og sátæka mann 19—31.

Einhverju sinni kom hann þannig ad máli
1. vid lærisveina sína: madur nockurr ríkur hafdi
sér rádsmann þann, er rægdur var fyrir hon-
um um þad, ad hann hefdi sóad hans góz,
kalladi hann þá þennann fyrir sig og sagdi;
2. hví heyri eg þetta um þig? gjer þú reikníng-
skap rádsmennsku þinnar, því þú gétur ecki
leingur verid rádsmadur minn. Þá hugsadi
3. rádsmadurinn; hvad skal eg nú til bragds taka?
húsbóndi minn svíptir mig rádsmennskunni,
unnid gét eg ecki, en skammast mín ad fara á
vonar-vel. Sje eg hvad eg skal gjera, svo
4. ad þeir, nær eg verd settur frá rádsmennsk-
unni, skjóti skjóls-húsi yfir mig. Kalladi hann
5. þá á hvern og einn af skuldunautum húsbónda
síns; hinn fyrsta spurdi hann: hvad mikid ert
þú skuldugur húsbónda mínum? hann sagdi:
6. sextíu tunnur vidsmjörs. Hinn mælti: tak
handskrift þína, set þig nidur og skrifa þú
snarlega þrjátíu. Þar eptir sagdi hann vid
7. annann: en hvad mikid ert þú skuldugur? hann
sagdi: þrjú hundrud og fimmtíu tunnur hveit-
is; þá sagdi hann: tak þú handskrift þína og
skrifa þú tvø hundrud og áttatíu. Þá hrós-
8. adi húsbóndinn þeim rángláta rádsmanni ad
hann hefdi breytt svo kjænlega, því þessarar
aldar menn eru kjænari vid samtída menn sína,

9. enn vinir rádvendninnar; segi eg ydur því:
gjörid ydur vini af fallveltum audæfum, svo
nær þér farid hédan, medtakist þér í þær ei-
10. lífu tjaldbúdir. Sá, sem er trúr yfir litlu,
mun einnig vera trúr yfir miklu og sá, sem er
ótrúr yfir litlu, mun og ótrúr vera yfir hinu
11. meira. Ef ad þér því ecki erud trúir yfir
þeim fallveltu audæfum, hverr mundi þá trúa
12. ydur fyrir sannarlegum gædum? og ef þér ecki
fýnid trúmennsku í medferd þess, sem adrir
ega, hverr mun þá trúa ydur fyrir því and-
13. lega, sem ydur ber ad sjá fyrir? Enginn
kann tveimur Herrum ad þjóna, því annad-
hvert hlýtur hann ad meta þann eina midur,
og hinn annann meira, edur ádhyllast þann
eina og afrækja hinn. Þannig gétid þér ecki
verid bædi þjónar Guds og audsins.
14. Þá Faríséarnir, sem vóru menn ágjarn-
ir, heyrdu allt þetta, gjördu þeir gis ad hon-
15. um; hér til svaradi hann þeim: þér keppist
eptir ad sýnast rádvandir fyrir ödrum, en Gud
þeckir hugrenníngar; því opt er þad, sem menn
16. álíta ágætt, Gudi andstyggilegt. Lögmálid og
Spámennirnir gyldtu allt til Jóhannesar tíma;
sídan hefir kénndur verid lærdómurinn um Guds
ríki og allir keppast eptir ad ödlast hlutdeild í
17. því; en audveldara er þad, ad himin og jörd
forgángi, enn ad hid minnsta atridi af lögmál-
18. inu týnist. Hverr, sem segir skilid vid konu
sína og gengur ad ega adra, drýgir hór og

V. 13. Matth. 6, 24. V. 16. Matth. 11, 12.
V. 17. Matth. 5, 18. V. 18. Matth. 5, 32.

hverr, sem tekur þá konu, sem skilid hefir sig
frá manni sínum, drýgir hór.
Þad var einusinni ríkismadur, sem klæddi= 19.
ist purpura og dýrindis líni og lifdi hvern dag
í dýrdlegum fagnadi. Fyrir dyrum hans lá 20.
fátækur madur, er Lazarus hét, hladinn kaun=
um; hann girntist ad sedja sig af molum þeim, 21.
er féllu af bordum ens ríka og jafnvel hundar
komu og sleiktu sár hans. En svo bar vid ad 22.
hinn fátæki dó og var borinn af englum í fadm
Abrahams; semuleidis dó hinn ríki og var graf=
inn. En er hann var í helvítis qvölum, þá 23.
hóf hann upp augu sín og sá Abraham álengd=
ar og Lazarus í fadmi hans. Þá kalladi hann 24.
og sagdi: Fadir Abraham! miskunna þú mér
og send Lazarus, ad hann dýfi fingur=gómi
sínum í vatn og kæli túngu mína, því eg qvelst
í þessum loga. Þá sagdi Abraham: minnstu 25.
þess, sonur! ad þú naust hins góda í lífinu,
en Lazarus ens vonda, því verdur hann nú
huggadur en þú qvalinn. Auk alls þessa er 26.
því svo varid, ad á medal vor og ydar er stór
geimur, svo hverki þeir, sem vilja hédan til
ydar, edur frá ydur til vor, géta komist yfir.
Þá sagdi hann: þá bid eg þig, Fadir! ad þú 27.
sendir hann í hús födur míns, því eg hefi fimm 28.
brædur, ad hann vari þá vid ad ecki komi þeir
líka í þennann qvalastad. Þá sagdi Abra= 29.
ham: þeir hafa Móses og Spámennina, hlýdi
þeir þeim. Hinn mælti: nei, Fadir Abra= 30.
ham! heldur ef nockurr daudra kæmi til
þeirra, þá mundu þeir bæta rád sitt. Þá 31.
svaradi Abraham: ef þeir ecki vilja hlýdnast

Mósi og Spámønnunum, munu þeir ecki heldur trúa, þótt einhverr daudur uppríſi.

17. Kap. I.) Jesús talar um hneixlanir 1. 2. sáttargirni 3. 4. trú 5. 6. ad menn egi ecki ad ætla til launa, þó þeir gjøri ſkyldu ſína 7—10. II.) læknar tíu líkþráa 11—19. III.) talar um hvernninn Messíasar ríki koma muni 20—34.

1. Sídan sagdi hann vid Lærisveina ſína: ecki
gétur hjá því farid ad ecki komi hneixli; en
2. veſæll er ſá, er því veldur. Betra væri hon-
um ad milnu-ſteinn væri hengdur um háls
honum og honum væri ſeckt í ſjó, enn ad hann
3. hneixli einn af þeſſum umkomuleyſíngjum. Gjæt-
id ydar því. Hafi einhverr gjørt á hluta þiñ,
þá átel hann og ydri hann þeſs, þá fyrirgéf
4. honum þad og þótt hann ſjøſinnum á degi hafi
misgjørt vid þig og komi ſjøſinnum og ſegi ſig
5. ydra þeſs, þá áttu ad fyrirgéfa honum. Ein-
hverju ſinni ſøgdu Poſtularnir til Drottins:
6. auk þú oſs trúna. Þá ſagdi hann: þó ydar
trú væri ecki ſtærri enn ſvaradi muſtards korni,
mundud þér géta ſagt til þeſſa mórberja trés:
rýf þú þig upp med rótum og feſtú aptur rætur
í hafinu; þá mundi þad hlýda ydur.
7. Hverr er ſá af ydur, ſem hefir þjón, er plægir
jørd og gætir fjár, ad hann ſegi vid hann,
nær hann kémur af akri, ad hann ſkuli ſetjaſt
8. til matar; mun hann ecki fyrſt ſegja: bú þú

V. 1. Matth. 18, 6—8. 15. 21. 22. Mark. 9, 42.
V. 6. Matth. 17, 20. 21, 21. Mark. 11, 23.

mér qvøldverd, gyrd þú þig og þjóna þú mér
medan eg ét og dreck, eptir þetta máttú fá
þér inat og dryck; hvert mun hann gjalda 9.
þjóni þeim þackir þótt hann gjøri það, sem
honum var bodit? eg held ecki. Somuleidis 10.
egid þér ad segja, nær þér hafid gjørt allt
hvad ydur var bodid: ónýtir þjónar erum vér,
þared vér høfum einúngis gjørt hvad oss
skylda var.

Þegar hann var á ferd sinni til Jerúsal- 11.
em og leid hans lá millum Samaríu og Galí-
læu og hann fór inn í þorp nockurt, þá mættu 12.
honum tíu menn líkþráir; þeir stódu lángt frá,
kølludu og søgdu: Jesú Meistari! miskuna þú 13.
oss! og er hann leit þá, sagdi hann: farid 14.
og sýnid ydur Prestunum. En svo bar vid,
er þeir fóru, ad þeir urdu heilbrigdir. En 15.
einn af þeim, þegar hann sá ad hann var heill
ordinn, snéri aptur og lofadi Gud med hárri
raustu og féll til fóta Jesú og þackadi honum; 16.
en þessi madur var samverskur. Þá sagdi 17.
Jesús: vóru þeir ecki tíu, sem heilbrigdir urdu?
hvar eru hinir níu? fundust engir, sem vildu 18.
aptur snúa og lofa Gud, nema þessi útlending-
ur. Sídan sagdi Jesús vid hann: stattú á 19.
fætur og far þú leidar þinnar; þín trú hefir
frelsad þig.

Einhverju sinni spurdu Pharísæar hann 20.
ad, nær Guds ríki mundi koma? Þá svaradi
hann þeim: Guds ríki kémur ecki þannig ad
á því beri og ecki verdur sagt: sjá! það er 21.
þar, eda það er hér, því Guds ríki er þegar
komid á medal ydar. Sídan sagdi hann til 22.

Lærisveinna sinna: sá tími mun koma að ydur
mun lánga eptir að sjá tilkomu Mannsins
23. Sonar og þér munuð ecki sjá hana. Þá munu
sumir segja við ydur: sjáið! hann er þar!
hann er hér! en farið ecki þángað og fylgið
24. þeim ecki; því eins og leyptrandi elding líð-
ur frá einu skauti himins til annars, eins mun
25. og verða tilkoma Mannsins Sonar; en ádur
hlýtur hann margt að líða og fyrirlitinn að
26. verða af þessarar aldar mönnum. Því eins
og géck til á dögum Nóa, eins mun tilgánga
27. við tilkomu Mannsins Sonar. Þeir héldu
veitslur, tóku sér konur og giptust, allt til þess
dags, er Nói fór inn í örkina og flódið kom,
28. sem eydilagði þá alla. Eins géck til á dögum
Loths, þeir sátu að veitslum, keyptu, seldu,
29. plöntudu og bygðu hús; en á þeim degi,
þegar Loth fór út af Sódému, rigndi eldi og
brennisteini af himni, sem eydilagði þá alla.
30. Eins mun tilgánga á þeim degi þegar Manns-
31. ins Sonur birtist. Á þeim degi þá varist sá,
sem er á þaki uppi, að fara niður í húsið að
taka búsgögn sín; eins sá, sem er á akri,
32. að snúa aptur. Munið til konu L o t h s;
33. sá, sem þá vill forða lífi sínu mun týna því,
en sá, sem stofnar því í hættu, mun fá því
34. borgið. Trúið mér! á þeirri nóttu munu tveir
vera í einu hvílu-rúmi, sá eini mun verða her-

V. 23. Matth 24, 23. 26. 27.
V. 26. Matth. 24, 37—39. 1 Mós. 6, 2. 4.
7, 1. 21. V. 28. 1 Mós. 19, 24.
V. 31. Matth. 24, 17. 18. Mark. 13, 15. 16.
V. 34 Matth. 24, 40. 41.

tekinn og hinn skeppa; tvær munu mala sam- 35.
an, önnur þeirra mun verða hertekin, hin laus
látin. Þá spurðu þeir hann að: hvað meinar 36.
þú með þessu? Herra! hann sagði: þar, sem
hræið er, þángað munu ernirnir safnast.

## 18. Kap.

I.) Jesús ræður til óþreytanlegra bæna 1—8. II.) framsetur frásögnuna um Pharisæann og tollheimtarann móti sérþóttanum 9—14. III.) talar um úngbörnin 15—17. IV. um sjálfs afneitun 18—27. V.) að þúu muni eilífu endurgoldin verða 28—30. VI.) talar um sína pínu 31—34. VII.) læknar blindann 35—43.

Þá sagði hann þeim dæmisögu uppá það, að 1.
menn ættu stöðugt að biðja og ekki þreytast.
Í borg nockurri — sagði hann — var Dóm- 2.
ari, sem hverki óttaðist Guð né blygðaðist fyr-
ir mennum. Í sömu borg var eckja, sem kom 3.
til hans og mælti: lát þú mig ná rétti yfir
mínum mótstöðu manni; en hann skeytti því 4.
ecki um hríð. Eptir þetta hugsaði hann: þótt
eg ecki óttist Guð né skeyti um nockurn mann,
þá samt vegna þess, að eckja þessi gjörir mér 5.
ónæði, vil eg láta hana ná rétti sínum, að hún
ecki ávalt komi til mín og nauði á mér. Þá 6.
sagði Drottinn: gef þú gaum að hvað þessi
rángláti Dómari sagði; mundi þá ecki Guð 7.
hjálpa sínum útvöldu, sem ákalla hann nótt og
dag, þó hann fresti hjálpinni. Trúið mér: 8.
hann mun snarlega hjálpa þeim. En þegar

V. 36. Matth. 24, 28.

Mannsins Sonur kémur, hvert mun hann þá
finna trú á jörðu?
9. Einhverju sinni sagði hann þeim, er þókt-
ust öðrum betri og fyrirlitu aðra, þessa dæmi-
10. sögu: tveir menn fóru upp í musterið að bið-
jast fyrir, sá eini var Phariseæi, hinn toll-
11. heimtumaður. Phariseinn stóð sér og baðst
svo fyrir: Guð! eg þakka þér, að eg ecki er,
sem aðrir menn: ræníngjar, óráðvandir, hór-
karlar eður eins og þessi tollheimtu-maður.
12. Eg fasta tvisvar í viku og géld tíundir af ellu
13. því eg á. Enn tollheimtu-maðurinn stóð lángt
frá og vildi ecki hefja augu sín til himins,
heldur barði sér á brjóst og sagði: Guð! vert
14. þú mér syndugum líknsamur! trúið mér, að
þessi fór Guði þeckari enn hinn heim í sitt
hús; því hverr, sem upphefur sjálfann sig,
hann mun niðurlægjast, en hverr hann lítil-
lækar sjálfann sig, hann mun upphafinn verða.
15. Einhverju sinni færðu menn börn til hans,
að hann legði hendur yfir þau. En er Læri-
16. sveinarnir sáu það, ávítuðu þeir þá. En Je-
sús kallaði þau til sín og mælti: leyfið börn-
unum til mín að koma og bannið þeim það
17. eigi, því slíkra er Guðs ríki. Trúið mér!
hverr hann meðtekur ecki Guðs ríki eins og
barn, mun ecki innkoma í það.
18. Þá spurði höfðíngi nockurr hann að og
sagði: algjörði Meistari! hversu skal eg breyta
19. svo eg eðlist eilíft líf? honum svaraði Jesús:
því kallar þú mig algjörðann? enginn er al-
20. gjörður nema Guð einn. Þú kanut boðorðin:

V. 15. Matth. 19, 13—30. Mark. 10, 13—31.

þú skalt ecki hórdóm drýgja, ecki mann vega,
ecki stela, ecki bera ljúgvitni, heidra fødur þinn
og módur þína. Hann mælti: alls þessa hefi 21.
eg gjætt frá únga aldri. Nær Jesús heyrdi 22.
þad, sagdi hann: enn er þér nockurs ávant:
sel þú allt hvad þú átt og skipt þú því med
fátækum, munt þú þá fjársjód hafa á himni;
kom þú sídan og ver þú minn Lærisveinn. En 23.
er hann heyrdi þetta, vard hann mjøg hrigg-
ur, því hann var audmadur mikill. En er 24.
Jesús sá hann hrigglast, sagdi hann: hvérsu
torveldt er þad fyrir þá, sem ríkir eru, ad kom-
ast í Guds ríki? hægra er úlfaldanum ad fara 25.
í gégnum nálar-augad enn ríkum manni í Guds
ríki. Þá søgdu þeir, er þetta heyrdu: hvérr 26.
mun þá hólpinn verda? hann mælti: þad, sem 27.
mønnum sýnist ómøgulegt er Gudi møgulegt.

Þá sagdi Pétur: sjá! vér yfirgáfum allt 28.
og gáfumst til fylgdar vid þig. Jesús mælti: 29.
trú þú mér: ad enginn er sá, sem yfirgéfid
hefir hús, edur foreldri, brædur, konu edur
børn, Guds ríkis vegna, ad hann ecki fái þad 30.
margfaldlega endurgoldid í þessu lífi og á síd-
an hid eilífa líf.

Þar eptir tók hann þá tólf til sín og 31.
sagdi vid þá: nú førum vér til Jerúsalem,
mun þá framkoma allt þad, sem skrifad er af
Spámønnunum um Mannsins Son. Hann 32.
mun ofurseldur verda heidíngjum, hæddur, spott-
adur og spýtt á hann; þeir munu og húdstrýk- 33.



V. 31. Matth. 20, 17—19. Mark. 10, 32—35.
samanb. Matth. 16, 21 ff. 17, 22 ff. Lúk. 9, 22.

ja hann og lífláta, en á þridja degi mun hann
34. uppríſa. En þeir ſkildu eckert af þeſſu, þad
var þeim hulid og þeir ſkynjudu eckí þad,
ſem hann ſagdi þeim.
35. Þá þeir nálgaduſt Jeríkó, ſat blindur
36. madur vid veginn og beiddiſt ölmuſu. Nú er
hann heyrdi ad mikill fjöldi fólks fór framhjá,
37. ſpurdi hann hvad um væri? honum var ſagt:
38. ad Jeſús af Nazareth færi þar hjá. Þá kall-
adi hann og ſagdi: Jeſús nidji Davíds! miſk-
39. unna þú mér! en þeir, ſem á undan fóru, hött-
udu á hann ad hann þegdi; en hann kalladí
þeſs ákafar og ſagdi: nidji Davíds! miſkunna
40. þú mér! Þá nam Jeſús ſtadar og baud ad
leida hann til ſín. Þegar hann nálgadiſt,
41. ſpurdi Jeſús hann: hvad hann vildi ad hann
gjerdi vid hann? hann mælti: þad, Herra! ad
42. eg fái aptur ſjón mína. Jeſús mælti:
43. vertú ſkygn! þín trú hefir hjálpad þér, og ſtrax
ſéck hann ſjón ſína og fylgdi honum lofandi
Gud; og fólkid allt, er ſá þetta, vegſamadi Gud.

## 19. Kap.

I.) Zachæus medtekur Jeſúm 1—10. II.) Jeſús framſetur dæmiſögu uppá dygga og ódygga medferd ſkngins fjár 11—27. III.) ridur inn í Jerúſalem 28—44. IV.) hreinſar muſterid 45. 46. kénnir þar, og menn leitaſt vid ad ſyrirkoma honum 47. 48.

1. Þegar hann ferdadiſt ìgegnum Jeríkó, var
2. þar madur nockurr, er Zachæus hét, hann var

V. 35. Matth, 20, 30—34. Mark. 10, 46—55.

foríngi tollheimtu-manna og audugur ad fé;
hann leitadi tækifæris ad sjá Jesúm, en gat 3.
ecki fyrir mannfjøldanum, því madurinn var lít-
ill vexti; hljóp hann þá fyrir og klyfradi uppí 4.
eitt mórberja tré ad hann fengi sjed Jesúm,
því leid hans lá þar framhjá. Þegar nú Jesús 5.
kom þángad, vard honum litid upp, sá hann
og sagdi: Zachæus! skunda þú ofan, þvíad í
dag ætla eg ad heimsækja þig. Hann fór þá 6.
ofan med flýtir og tók vid honum nærsta glad-
ur, en allir, sem þetta sáu, létu ílla vid og 7.
søgdu: hann tekur sér gistíngu hjá bersyndug-
um. Zachæus stód fyrir honum og sagdi vid 8.
Jesúm: helmíng fjár míns géf eg fátækum og
hafi eg nockud ránglega af ødrum, géf eg hon-
um ferfaldt aptur. Jesús sagdi þá vid hann: 9.
í dag er heill skén húsi þessu, þvíad þessi mad-
ur er og af Abrahams ætt, en Mannsins Sonur 10.
er kominn ad leita ad því, sem tapad var og
frelsa þad.

Sídan bætti hann vid þessari dæmisøgu, 11.
því nú var hann kominn í nánd vid Jerúsal-
em, en þeir ætludu ad Guds ríki mundi nú
strax birja med vegsemd; hóf hann svo rædu 12.
sína: madur nockurr edalborinn ferdadist í fjar-
lægt land, ad hann abladi sér ríkis og kjæmi
sídan heim aptur. En ádur kalladi hann fyri 13.
sig tíu af þjónum sínum og seldi þeim í hend-
ur tíu merkur silfurs og mælti svo fyrir, ad
þeir skyldu kaupslaga med þær þángad til hann
kjæmi aptur. En borgar-mønnum var ílla til 14.

P 2

V. 11. Matth. 25, 14—30.

hans og sendu menn á eptir honum, er skyldu
segja: ad þeir vildu ecki hafa hann fyrir Kon-
15. úng yfir sig. Nú er hann kom til baka og
hafdi ablad sér ríkisins, baud hann ad kalla til
sín þjóna þá, er hann hafdi selt silfrid í hend-
ur, svo ad hann yrdi vís hvad hverr þeirra
16. hefdi ábatast. Kom þá sá fyrsti og sagdi:
merk þín, Herra! hefir ávaxtast um tíu merk-
17. ur. Konúngurinn mælti: vel er þad, þú
gódi þjón! þú varst trúr yfir litlu, skaltú því
18. fá yfiráð yfir tíu borgum. Nú kom annar
og sagdi: merk þín, Herra! hefir ávaxtast um
19. fimm merkur. Hinn mælti: þú skalt og ráda
20. yfir fimm borgum. En nú kom einn og sagdi:
tak þú hér, Herra! vid merk þinni, hverja eg
21. hefi geymt í sveita-dúki, því eg óttudumst þig,
því þú ert madur hard-drægur; vilt taka þar
leigu, hvar þú ecki settir leigu-fé og uppskéra
22. hvar þú ecki hefir sád. Vid hann sagdi Kon-
úngurinn: þú fellir þig sjálfur, þú illi þræll!
þar þú vissir ad eg er madur hardlyndur, sem
tek þar fé hvar eg enga innstædu hefi sett og
23. skér þar upp hvar eg ecki hefi sád, hví gafstú
þá ecki fé mitt þeim í hendur, sem hondla med
peninga, svo eg gæti fengid þad aptur med
24. ábata þá eg kæmi? þá sagdi hann vid þá, er
nær vóru staddir: takid merkina frá honum og
25. géfid þeim, sem tíu merkur hefir. Þeir mæltu:
Herra! hann hefir ádur tíu merkur. Hann
26. mælti: hvad um þad! trúid mér: ad þeim,
sem hefir mun meira géfid verda, en frá hin-
um, sem eckert hefir mun jafnvel tekid verda
27. þad hann hefir; en þessa óvildar-menn mína,

sem ecki vildu hafa mig til Konúngs yfir sér,
færid þá híngad og takid þá af lífi fyrir aug-
um mér. Og er Jesús hafdi þetta sagt, heldt 28.
hann ferdinni áfram upp til Jerúsalem.
Nú er hann kom í grend vid Betphage 29.
og Bethaníu hjá vidsmjörs-vidar fjallinu, þá
sendi hann tvo af sínum Lærisveinum og mælti: 30.
farid þid í þorp þad, sem gagnvart yckur er,
og nær þid komid þar, munud þid finna fola
bundinn, hverjum enginn hefir ádur ridid, leys-
id hann og leidid híngad. En spyrji einhverr 31.
yckur, hví þid leysid hann, þá svarid honum
ad Herrann þurfi hans. Þeir fóru, sem send- 32.
ir vóru og fundu eins og hann hafdi sagt
þeim; en er þeir leystu folann, spurdu egendur 33.
hans, því þeir leystu hann? Þeir mæltu: Herr- 34.
ann þarf hans vid og færdu hann sídan til Jesú. 35.
Sídan köstudu þeir klædum sínum yfir folann
og settu hann á bak. En er hann fór á stad, 36.
breiddu menn klædi sín á veginn. Þegar hann 37.
kom þángad, hvar farid er ofan af vidsmjörs-
vidar fjallinu, tók allur flockur Lærisveina hans
ad lofa Gud med hárri gledi-raustu, fyrir öll
þau kraptaverk, er þeir hefdu sjed, med þess-
um ordum: vegsamadur veri Konúngur sá, er 38.
kémur í Drottins erindi! heidradur veri Gud
á himnum og lofadur hinn ædsti! Þegar nock- 39.
ir af Pharisæum, sem vóru í flockunum, heyrdu
þetta, segdu þeir: Meistari! hastadu á Læri-
sveina þína. Hann mælti: trúid mér, ef ad 40.
þessir þegdu, þá mundu steinarnir hrópa. Nú 41.
er hann kom svo nær, ad hann sá borgina,

V. 29. Matth. 21, 1—11. Mark. 11, 1—10.

42. grét hann yfir henni og mælti: æ! ad þú ad
minnsta kosti á þessum degi vissir hvad til
þinnar velferdar heyrdi, en nú er þér þad
43. hulid; þvíad sá tími mun koma yfir þig, ad
óvinir þínir munu gjøra hervirki um þig, set-
jast um þig og þraungva þér á alla vegu.
44. Þeir munu þig eydíleggja og innbyggendur
þína og ecki láta stein yfir steini standa, vegna
þess ad þú ecki gafst gaum ad þínum frelsis tíma.
45. Sídan géck hann inn í musterid, rak þá
46. út, er seldu þar og keyptu og mælti: svo er
ritad, ad mitt hús skuli vera bænahús, en þér
47. hafid gjørt þad ad ræníngja bæli. Daglega
kénndi hann í musterinu, en hinir ædstu Prest-
ar og Skriftlærdu samt forkngjar fólksins leit-
48. udust vid ad ráda hann af dögum, en þeir
vissu ecki hverninn þeir skyldu fara ad því,
því allur lýdurinn hné ad honum vegna kénn-
íngar hans.

20. Kap. I.) Jesús vill ecki segja þeim Skriftlærdu hvadan hann hefdi sinn myndugleika 1—8. framsetur dæmisøguna um víngardsmennina 9—19. II.) leysir úr spurníngum og ávítar þá Skriftlærdu 20—47.

1. Svo bar vid einhvern dag, er hann kénndi
lýdnum í musterinu og flutti lærdóminn um
Guds ríki, ad enir ædstu Prestar, þeir Skrift-
2. lærdu og Öldúngarnir veittust ad honum og

V. 45. Matth. 21, 12. 13. 45. 46. Mark. 11, 15—18. V 1. Matth. 21, 23—46. Mark. 11, 27. 12, 12.

spurdu hann: med hvada myndugleika hann
gjerdi þetta, edur hverr honum hefdi géfid þetta
vald? Jesús mælti: eg vil og spyrja ydur 3.
eins, segid mér þad: hafdi Jóhannes vald til 4.
ad skíra, frá Gudi edur frá mönnum? en þeir 5.
hugsudu, ad ef þeir segdu ad hann hefdi haft
þetta vald frá Gudi, mundi hann spyrja því
þeir þá ecki hefdu trúad honum; en ef þeir 6.
segdu, frá mönnum, mundi allur lýdurinn berja
þá grjóti, því hann trúdi ad Jóhannes
væri Spámadur; svörudu þeir því og qvádust 7.
ecki vita þad. Jesús mælti: eg segi ydur þá 8.
ecki heldur í hvers umbodi eg gjöri þetta.
Sídan sagdi hann lýdnum þessa dæmi-sögu: 9.
Madur nockurr plantadi víngard og leigdi hann
vínyrkju-mönnum, fór sídan og var erlendis í
lánga tíma. Nú er tími var kominn, sendi 10.
hann til vínyrkju-mannanna þjón sinn, ad þeir
gyldi honum þad ákvedna af áverti víngardsins;
en víngards-mennirnir tóku hann og bördu
og sendu hann aptur tómhendtann; sídan sendi 11.
hann annann þjón, þennann bördu þeir einninn,
legdu honum hádúngar til og sendu hann
aptur erindislausann; enn nú sendi hann hinn 12.
þridja, þennann lemstrudu þeir sárum og ráku
í burt; þá sagdi eigandi víngardsins: hvad skal 13.
eg nú til ráds taka? eg vil senda einka son
minn, máské þeir beri virdíngu fyrir honum.
En er vínyrkju-mennirnir sáu hann, báru þeir 14.
rád sín saman og sögdu: þessi er erfínginn,
látum oss koma og ráda hann af dögum, svo
vér náum arfinum. Sídan hrektu þeir hann 15.
út úr víngardinum og drápu hann. Hvernin

mun nú eigandi víngardsins breyta vid þá?
16. hann mun koma og ráda þessa vínyrkju-menn af dögum og leigja víngard sinn ödrum. En er þeir heyrdu þetta sögdu þeir: aldrei skyldi
17. þetta ské. En hann leit til þeirra og mælti: hvad þýdir það þá, sem stendur í Ritningunni: "sá steinn, hverjum húsa-smidir burtköstudu, hann
18. er nú hornsteinn ordinn; hverr, sem fellur um þennann stein, mun sundurmolast, en á hvern
19. sem hann fellur, þann mun hann merja." Þá leitudust þeir ædstu Prestar og enir Skriftlærdu vid ad leggja hendur á hann, en þeir þordu það ecki fyrir fólkinu, því þeir skildu ad hann hafdi sagt þessa dæmisögu uppá þá.

20. Þeir héldu nú vörd á honum og settu út njósnar-menn, er láta skyldu sem væru þeir rádvandir, ad þeir gæti fengid á ordum hans
21. og afhendt hann í vald Landsstjórnarans. Þessir mæltu: vér vitum, Meistari! ad þú segir og kénnir það, sem rétt er og gjörir þér engann manna mun, heldur flytur þú þá sönnu
22. Guds kénningu, hvert leyfist oss ad borga
23. Keisaranum skatt edur ecki? en er hann merkti þeirra fláttskap, sagdi hann: hvad freistid þér
24. mín? sýnid mér skatt-peninginn; hvers mind er á honum og hvers yfirskrift hefir hann?
25. þeir sögdu: Keisarans. Hann mælti: gjaldid þá Keisaranum hvad Keisarans er og það
26. Gudi, sem Guds er. Þannig gátu þeir ecki fengid á ordum hans í vidurvist lýdsins, en

V. 17. Psálm. 118, 22.
V. 20. Matth 22, 15—22. Mark. 12, 13—17.

undrudust svar hans og þögnudu. Þá komu 27.
nockrir af Saddúcæum, sem neita því ad fram-
lidnir menn upprísi og spurdu hann á þessa
leid: Meistari! Móses hefir bodid oss: ad ef 28.
einhverr missir bródur síns, þess er qvæntur
var og dó barnlaus, skuli bródir hins dána
taka konu hans til ekta og þannig auka ætt
bródur síns. Nú vóru sjö brædur; sá fyrsti 29.
qvongadist og deydi barnlaus, svo giptist hún 30.
ødrum og þessi deydi einninn barnlaus, sídan 31.
þeim þridja og svo framvegis og engum þeirra
vard barna audid og svo dóu þeir; seinast all- 32.
ra þeirra deydi og konan. Nú er menn upp- 33.
rísa, hvers þessara eginkona á hún þá ad verá,
því allir sjö hefdu átt hana? Jesús sagdi: 34.
hér í heimi giptast menn og qvongast, en þeir, 35.
sem verdir álítast ad edlast annad líf og upp-
rísa frá daudum, munu hverki giptast né qvong-
ast, því úr því þeir eru upprisnir, eru þeir 36.
ecki framar daudlegir, heldur eru þeir englum
líkir og Guds handgengnir. En ad daudir 37.
upprísi, þad hefir og Móses sýnt í greininni
um þyrni-rúskinn, hvar hann kallar Drottinn
Gud Abrahams, Gud Isaaks og Gud Jakobs;
en Gud er ecki Gud daudra heldur lifendra, 38.
því fyrir Guds krapt lifa þeir allir. Þá tóku 39.
nockrir af þeim Skriftlærdu til máls og sögdu:
Meistari! ágjætlega svaradir þú. Frá þess-
um tíma dirfdist enginn ad leggja slíkar spurn-
íngar fyrir hann; en hann spurdi þá þannig: 41.

V. 27. Matth. 22, 23—33. Mark. 12, 18—27.
V. 28. 5 Mós. 25, 5. V. 37. 2 Mós. 3, 6.
V. 41. Matth. 22, 41—46. Mark. 12, 34—37.

því segja menn Krist að vera son Davíðs?
42. Þar sjálfur Davíð segir í Sálma-bók sinni:
43. "Drottinn sagði mínum Drottni: sittu mér til
hægri handar, til þess eg hefi gjört óvini þína
44. að sker fóta þinna." Hafi nú Davíð kallað
hann Herra, hvernig kann hann þá að heita
45. hans sonur? Í áheyrn alls lýðsins sagði hann
46. svo við Lærisveina sína: varið yður við hinum
Skriftlærðu, sem þykir ágjæti í að gánga í
síðum klæðum og láta heilsa sér á manna-mót-
um, sitja í fyrirsæti í samkundu-húsum og efstir
47. til borðs í veitslum. Þeir eru það, sem út-
sjúga hús eckna og biðja lángar bænir af hræsni.
Þeir munu þess þýngra straffi mæta.

21. Kap. I.) Jesús hrósar gjöf þeirri, er eckja nockur
fátæk lagði í fé-hirðslu Guðs 1—4.
II.) talar um musterisins og Jerúsalems
eyðileggingu 5—24. og enda heimsins
25—36 III.) kennir daglega í must-
erinu 37. 38.

1. Þá litaðist hann um og sá þá enu ríku, er
lögðu gjafir sínar í fé-hirðslu musterisins;
2. varð honum þá litið til einnar eckju fátækrar,
3. er lagði þar inn tvo smá-penínga. Þá sagði
hann; trúið mér! þessi fátæka eckja hefir meira
4. lagt enn nockurr annara; því hinir allir hafa
lagt í féhirðslu Guðs af því, sem þeir hefðu
afgángs, en þessi gaf af fátækt sinni aleigu sína.

V. 42. Psálm. 110, 1.

V. 45. Matth. 23, 6. 7. 14. Mark. 12, 38—40.
V. 1. Mark. 12, 41—44.

Þá nockrir teludu um ad musterid væri 5.
prýdt med fegrum steinum og heitgjøfum, ans-
adi hann: þeir dagar munu koma, ad af þessu, 6.
sem þér nú sjáid, mun ecki steinn yfir steini
standa. Nær verdur þad? Meistari! spurdu 7.
þeir, og hvad skal til markſ hafa um þad hve-
nær slikt egi ad ské? Hann svaradi: gjaldid 8.
varhuga vid ad þér verdid ecki stekadir, því
margir munu koma í mínu nafni og segja sig
Krist ad vera og nú sé tíminn kominn, en fyll-
id ecki flock þeirra. Nær þér heyrid um stríd 9.
og upphlaup, þá skélfist ecki, því þetta mun á
undan fara, en endirinn er samt ecki strax kom-
inn. Framvegis sagdi hann vid þá: ein þjód 10.
mun rísa upp gégn annari og eitt ríki gégn
ødru, þá munu á ýmsum stedum verda land- 11.
skjálftar, hallæri og drepsóttir; þá munu sjást
ógurlegir fyriburdir og undur mikil á himnum;
en ádur enn allt þetta kémur fram, munu þeir 12.
leggja hendur á ydur, offækja ydur, framselja
ydur í samkundu-hús og fángelsi og draga ydur
mín vegna fyrir Konúnga og Landstjóra. Og 13.
þetta mun koma fram vid ydur til þess þér
vitnid um mig. Látid ydur fast í huga vera 14.
ad þér ecki fyrifram búid ydur undir mála-
vern ydar; því eg mun géfa ydur málsnilli og 15.
vitsku, hverri mótstedu menn ydar ecki munu
megna ad mót-mæla edur móti ad standa.
Sviknir munud þér verda af foreldrum, syst- 16.
kynum, frændum og vinum og nockra af ydur
munu þeir lífláta og allir munu ydur mín 17.
vegna ad hatri hafa; en eckert hár af ydar 18.

V. 5. Mark. 13, 1—37. Matth. 24, 1—12.

19. hefdi skal þó farast. Látid stöduglyndi vera
20. vorn sálum ydar. En nær þér sjáid Jerúsa-
lem umkríngda af herflockum, þá vitid ad eydi-
21. legging hennar er í nánd; sá, sem þá er í Jú-
dæu-landi, flýi hann til fjalla og hverr, sem í
borginni er, flytji hann hadan; en þeir, sem á
landsbygdinni eru, fari þeir ecki inn í borg-
22. ina, þvíad þessir eru hennar straffunar-dagar
og mun þá framkoma allt það hér um er
23. spád. Þúng munu þá verda kjer ólettra
qvenna og þeirra, sem born hafa á brjósti,
því mikil harmqvæli munu þá verda í landinu
24. og hegníng yfir þessum lýd; menn munu falla
fyrir sverds eggjum og herleiddir verda medal
allra þjóda og Jerúsalem mun fóttrodin verda
af heidnum mønnum, til þess þeirra tíd er á
25. enda. Fyriburdir munu sjást á sólu, túngli og
stjørnum og á jørdu ángist og orvínglan manna
26. á milli. Sjór og haf mun þá þjóta, menn
munu þá deya af ángistarfyllri eptirvæntíngu
þess, er yfir allann heiminn mun koma, því
27. himininn mun leika á reidiskjálfi, og þá munu
menn sjá Mannsins Son komanda á skýunum
28. med makt og mikilli dýrd. Þegar þetta tek-
ur til ad ské, þá lítid upp og upphefjid ydar
29. høfud, þvíad lausn ydar er í nánd. Hér vid
bætti hann þessu dæmi: gjætid ad fíkju trénu og
30. ødrum trjám, þegar aldini þeirra táka út ad
springa, þá sjáid þér á þeim, ad sumarid er í
31. nánd. Somuleidis og þér, nær þér sjáid þetta
framkoma, þá vitid ad Guds ríki er í nánd.
32. Eg segi ydur fyrir satt, ad þessi manns-aldur
mun ecki verda lidinn ádur enn allt þetta fram-

kémur. Himin og jørd munu farast, en mín 33.
ord aldrei. En gjætid ydar, ad hjørtu ydar 34.
ecki ofþýngist vid óhóf í mat edur dryck edur
búksorg, ad ecki komi þessi dagur á ydur óvart,
því eins mun hann koma og tálsnara yfir alla 35.
þá, sem á jørdu búa. Verid því ávalt vak- 36.
andi og ſkoduġt á bænum; svo ydur verdi þess
ūnnt ad umflýa allt þetta, sem fram mun koma
og mæta svo fyrir Mannsins Syni.
Um daga kénndi hann í musterinu, en um 37.
nætur var hann utan-borgar á því svo kallada
vidsmjørs-vidar fjalli; en fólkid flyckist hvern 38.
morgun snemma í musterid ad heyra hann.

## 22. Kap.

I.) Gydingar rádgast um, hvérninn þeir géti líflátid Jesúm og Júdas vill svíkja hann 1—6. II.) Jesus etur Páskalambid og innsétur qvøldmáltídar Sakramentid 7—23. III.) áminnir til audmýktar og hugħreystir Lærisveinana 24—30. IV.) fyrirségir Pétri hans hrøsun 31—34. og Lærisveinunum fyrirliggiandi freistingar 35—38. V.) Jesú sálar ángist í grasgardinum 39—46. VI.) hann er tekinn høndum 47—53. VII.) Pétur afneitar honum 54—62. VIII.) Jesús er spottadur og sleginn 63—65. IX.) játar sig Krist ad véra 66—71.

Nú nálgadist hátídin ósýrdu braudanna, sem 1.
Páskar heita. Þá báru enir ædstu Prestar og 2.

V. 1. Matth. 26, 3—5. 14, 14—16. Mark. 14, 1. 2. 10. 11.

. Skriftlærdir ráð sín saman um, hvernin þeir
skyldu ráða hann af dögum, því þeir vóru
3. hræddir við alþýðuna. En þá fór Satan í
Júdas, er kénndur var við Karíoth, einn af
4. þeim tólf; hann fór og kom að máli við þá
æðstu Presta og varðmenn musterisins um það
hvernin hann skyldi koma honum á vald
5. þeirra. Við þetta gloðdust þeir og sömdu við
6. hann um að géfa honum fé þar til. En hañ
géckst undir þetta og sætti tækifæri að koma
honum á vald þeirra, án þess að upphlaup yrði.
7. Nú kom dagur enna ósýrðu brauðanna,
8. þegar Páskalambinu skyldi slátra. Þá sendi
Jesús Pétur og Jóhannes með þeirri skipun,
að þeir skyldu fara og matbúa þeim Páska-
9. lambið. Þeir spurðu: hvar hann vildi láta
10. matbúa? Þegar — sagði hann — þið kom-
ið í borgina, mun mæta yður maður, sem ber
vatns-krús, fylgið honum til þess húss, sem
11. hann fer inn í og segið svo húsbóndanum:
Meistarinn spyr þig hvar það herbergi sé,
hvar hann géti neytt Páskalambsins með Lærí-
12. sveinum sínum; mun hann þá sýna yður gésta-
stofu mikla vel tilreidda, búið þar til matar.
13. Þeir fóru og fundu allt eins og hann hafði
14. fyrirsagt og matreiddu þar Páskalambið. Nú
er tími var til, géck hann undir borð og þeir
15. tólf Postular með honum. Þá sagði hann:
hjartanlega hefir mig lángað eptir að neyta
þessarar Páska-máltíðar með yður áður enn eg
16. líð; því trúið mér: eg mun ecki neyta hennar
framar, til þess eg sæ hana enn þá fullkomn-

V. 7. Matth. 25, 17—25. Mark. 14, 12—25.

ári í Guds ríki. Þá tók hann bikarinn, gjördi 17.
Gudi þackir og mælti: medtakid hann og skipt-
id hönum medal ydar; því eg fegi ydur satt, 18.
ad eg mun ecki vín drecka til þess Guds ríki
kémur. Sídan tók hann braudid, gjördi Gudi 19.
þackir, braut þad, gaf þeim þad og mælti:
þetta er minn líkhami, sem fyrir ydur verdur
géfinn, gjörid þetta í mína minníngu. Somu- 20.
leidis bikarinn ad endudum qvöld-verdi og
mælti: þessi er bikar ens nýa sáttmála, sem
stadfestur verdur med mínu blódi, sem fyrir
ydur verdur úthellt. En gjætid þess, ad sá, 21.
sem mig svíkur réttir hönd med mér á bordid.
Um Mannsins Son mun ad sennu fara eins 22.
og ályktad er, en vesæll er sá madur, sem svík-
ur hann. Þá tóku þeir ad spyrjast á, hverr 23.
sá væri af þeim, er þetta mundi fremja.

Sídan höfst kappræda medal þeirra um 24.
þad, hverr þeirra mestur væri, þá sagdi hann 25.
vid þá: Konúnga, sem ríkjum ráda og maktar-
menn, kalla menn náduga Herra; en þanninn 26.
skal þad ecki vera medal ydar, heldur á sá,
sem mestur er ydar á milli ad hegda sér, sem
væri hann minnstur og sá, sem yfirrádin hefir,
eins og væri hann þjón hinna. Því hverr er 27.
meiri, sá, sem situr til bords edur hinn, sem
þjónar fyrir bordi? er þad ecki sá, sem til
bords situr? en eg er medal ydar, sem þjón-
ustu madur. Þér erud þeir, sem stödugir haf- 28.
id verid med mér í mótlætíngum mínum; eg 29.
heiti ydur og hér med ríki, eins og Fadir minn

V. 24. Matth. 18, 1. V. 25. 20, 25—27. Mark. 10, 42—45. Samanb. Jóh. 13, 13—17.

30. hefir heitid mér, svo ad þér skulud sitja til
bords med mér í ríki mínu, líka skulud þér
sitja í hásætum og dæma allar tólf Israels
kynqvíslir.
31. Enn framar sagdi Drottinn: Símon! Sí-
mon! gjæt þú þess ad Satan hefir leitast vid
32. ad sælda ydur sem hveiti, en eg hefi bedid fyr-
ir þér ad þín trú ecki skyldi þrotna; og þegar
þú á sídan sierd ad þér, þá styrk þú trú
33. brædra þinna. Pétur mælti: reidubúinn er
eg, Herra! ad fylgja þér í fángelsi og daud-
34. ann. Jesús mælti: sannlega segi eg þér þad,
Pétur! ad þú munt þrisvar hafa neitad því
ad þú þeckrir mig, ádur enn haninn gélur í
35. dag. Sídan spurdi hann þá: þegar eg sendi
ydur án beltis, tösku og skóa, hvert brast ydur
36. þá nockud? eckert, sögdu þeir. Þá sagdi hann:
en hverr ydar, sem nú hefir belti edur tösku,
taki hann þad og sé sá nockurr, sem ecki hefir,
37. selji hann yfirhöfn sína og kaupi sverd; því eg
segi ydur: ad nú mun þad koma fram á mér,
sem skrifad er: "medal íllvirkja mun hann tel-
jast" og þad, sem um mig er spád mun nú
38. þegar rætast. Þeir mæltu: vér höfum tvo
sverd. Hann qvad þad nóg vera.
39. Sídan géck hann út úr borginni og fór
sem hann var vanur til vidsmjörs-vidar fjalls-
40. ins og fylgdu honum Lærisveinar hans; þegar
hann var þángad kominn, þá sagdi hann: bid-
41. jid ad þér fallid ecki í freistni. Géck hann

V. 30. Matth. 19, 28. V. 34. Mark. 14, 27—31. Matth. 26, 31—35. V. 37. Es. 53, 12. V. 39. Matth. 26, 36—46. Mark. 14, 32—42.

þá frá þeim nær einu steinsnari, féll á kné og
bað á þessa leið: o að þú, Faðir! vildir taka 42.
þennann bikar frá mér! en verði samt þinn, en
ecki minn vilji! birtist honum þá engill af 43.
himni, sá eð styrkti hann; og er hann nú var 44.
staddur í dauðans ángist, tók hann því ákafar
að biðja, en sveiti hans var sem þá blóð-drop-
ar falla á jørð. Síðan stóð hann upp frá 45.
bæn sinni, kom til Lærisveina sinna og hañ fañ þá
sofandi af hrigð. Þá sagði hann við þá: hví 46.
sofið þér nú? rísið upp og biðjið að þér fall-
ið ecki í freistni.

Meðan hann var þetta að mæla, þá kom 47.
flockur manna og fyrir honum sá áminnsti Jú-
das, einn af þeim tólf. Hann veik sér að Jesú
og mynntist við hann. Jesús mælti: Júdas! 48.
svíkur þú Mannsins Son með kossi? en er 49.
þeir,. sem með honum vóru, sáu þennann at-
burð, søgðu þeir: Herra! egum vér ecki að
bregða sverði? og einn af þeim hjó til þjóns 50.
ens æðsta Kennimanns og sneið af honum hans
hægra eyra. Jesús mælti: látið hér við stað- 51.
ar nema, hrærði við eyra þjónsins og læknaði
hann. Síðan sagði Jesús til þeirra æðstu 52.
Presta og varðmanna musterisins samt Øldúng-
anna: þér hafið farið með sverðum og korkum
til að høndla mig eins og ræníngja; en á hver- 53.
jum degi hefi eg verið hjá yður í musterinu
og þér hafið eigi lagt hendur á mig, en þessi
er yðar tími og myrkranna veldi.

Q

V. 47. Matth. 26, 47—53. 69—75. Mark. 14, 43
—54. 66—72. Jóh. 18, 5—11. 15—18. 25—27.

54. Nú er þeir hefdu handtekid hann, færdu
þeir hann í hús ens ædsta Kennimanns; en
55. Pétur fylgdi eptir álengdar. Hefdu menn
qveiktann eld í midri hellinni og settst vid hann;
tók Pétur sér þá sæti vid hann medal þeirra.
56. En er ambátt nockur sá hann vid eldinn,
starði hún á hann og mælti: þessi madur var
57. med honum; en hann neitadi því og sagdi:
58. kona! eg þecki ecki þann mann. Litlu sídar
sá hann annar madur og sagdi: þú ert einn
af þeim, sem med honum vóru. Pétur qvad
59. nei vid því. Nú er lidinn var einn tími,
styrkti annar madur þetta og sagdi: í sann-
leika var þessi madur med honum, því hann
60. er galverskur. Pétur mælti: eg skil ecki,
madur! hvad þú segir, og strax, sem hann var
61. þetta ad tala, gól haninn; en Drottinn snéri
sér vid og leit til Péturs, minntist þá Pétur
þess, er Drottinn hafdi sagt, ad ádur enn
haninn galadi mundi hann þrisvar hafa neit-
62. ad ad hann þeckti sig; gécк hann sídan út og
grét sárann.
63. En þeir menn, sem hefdu Jesúm í vard-
haldi, gjerdu gis ad honum og berdu hann,
64. byrgdu fyrir augu hans og slóu í andlit hon-
um og segdu: spá þú, hverr var sá, sem bardi
65. þig? og margt annad segdu þeir háduglegt
vid hann.
66. Ad morgni sefnudust saman Öldúngar
lýdsins, enir ædstu Kennimenn og Skriftlærdir

V. 54. Jóh. 18, 12—14. 19—24.
V. 63. Matth. 26, 67. 68. Mark. 14, 65.
V. 66. Matth. 26, 59—66. Mark. 14, 53—64.

og færdu hann í rádstofu þeirra og kræfdu 67.
hann ad segja sér, hvert hann væri Kristur.
Hann mælti: þó eg segi ydur þad, þá trúid
þér því ecki; en spyrji eg ydur nockurs, þá 68.
svarid þér mér ecki eda látid mig lausann; en 69.
frá þessum tíma mun Mannsins Sonur sitja
til hægri handar Guds hátignar. Þá spurdu 70.
þeir allir: ert þú þá Guds Sonur? hann
mælti: þér hafid rétt ad mæla, því þad em eg.
Þá segdu þeir: hvad þurfum vér nú framar 71.
vitna vid, þar vér høfum sjálfir heyrt þad af
hans munni?

I.) Pilatus úrskurdar ad Jesús sé saklaus 1—4. sendir hann til Heródesar 5—12. lætur Barabbas lausann og fordæmir Jesúm 13—25. II.) Símon ber hans kross 26. Jesús bannar Jerúsalems dætrum ad gráta yfir sér 27—31. er krossfestur milli tveggja ræningja og bidur fyrir sínum óvinum 32—34. III.) hañ er spottadur 35—37. yfirskriftin ritast 38 annar ræninginn umvendist 39—43. sólin verdur mirk 44. 45. Jesús deyr og Høfudsmadurinn umvendist 46—48. IV.) Jóseph greftrar líkhama Jesú og qvinnurnar eru nærstaddar 49—56.

## 23. Kap.

Þá stód upp allur mann=fjøldinn og færdi 1.
hann til Pílatusar og tók til ad áklaga hann 2.



V. 1. Matth. 27, 1—31. Mark. 15, 1—20. Jóh. 18, 28. 19, 16.

med svofeldum ordum: þennann mann höfum
vér fundid ad uppæsa alþýduna og banna ad
gjalda Keisaranum skatt og segja sig ad vera
3. Konúnginn Krist. Þá spurdi Pílatus hann:
ertú Konúngur Gydinga? Jesús mælti: rétt
4. segir þú! þá sagdi Pílatus til enna ædstu
Kénnimanna og lýdsins: ekkert finn eg saknæmt
5. hjá þessum manni. En þeir vóru því ákaf-
ari og sögdu: hann hefir uppæst fólkid med
kénníngum sínum í ollu Gydínga-landi allt frá
6. Galílæu og híngad. Nú er Pílatus heyrdi
Galílæu nefnda, spurdi hann hvert þessi mad-
7. ur væri galverskur, og er hann vard þess vís
ad hann var úr veldi Heródesar, sendi hann
hann til Heródess, sem um þessar mundir var
8. í Jerúsalem. Þegar Heródes sá Jesúm, vard
hann næsta gladur, því lengi hafdi hann láng-
ad til ad sjá hann, því hann hafdi heyrt margt
af honum sagt, vænti hann nú ad sjá eitthvert
9. teikn af honum. Spurdi Heródes hann næsta
10. á marga vega, en hann svaradi engu. Gengu
þá fram enir ædstu Kénnimenn og Skriftlærd-
11. ir og áklögudu hann hardlega, en Heródes og
stríðsmenn hans hæddu hann og gjördu gis ad
honum, lögdu yfir hann skínandi klædi og sendu
12. hann aptur til Pílatusar. Á þessum sama
degi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir, því
ádur hafdi verid fjandskapur þeirra á milli.
13. Nú lét Pílatus samankalla ena ædstu Kénni-
menn og yfirlída fólksins og tók svo til orda:
14. þér hafid fært mér þennann mann, svo sem
þann, er vekti óróa medal lýdsins; en sjáid!
nú í ydar vidurvist hefi eg ransakad málefni

hans og ecki fundið hann sekann um nockuð
það, er þér ákjærið hann fyrir. Ecki heldur 15.
Heródes, því til hans sendi eg ydur sjálfa.
Sjáið nú! eckert er það af honum drýgt, sem
dauða sé verdt, ætla eg því að refsa honum 16.
og láta hann lausann. En hann varð að gefa 17.
þeim lausann einn bandíngja á hátíðinni; þá 18.
kalladi allur lýðurinn og sagði: lát þú aflífa
þennann, en gef oss Barabbas lausann. En 19.
þessi Barabbas var fyrir upphlaup í borginni
og manndráp, settur í myrkvastofu. Pílatus 20.
talaði enn þá til þeirra og vildi láta Jesúm
lausann; en þeir hrinu upp og sögðu: kross= 21.
festú hann! krossfest þú hann! Í þriðja sinni 22.
sagði Pílatus: hvað hefir þá þessi maður íllt
aðhafst? eckert hef eg fundið það, hvar fyrir
hann sé dauða sekur; eg vil því refsa honum
og láta hann lausann. En þeir stóðu því fast= 23.
ar á með miklum óhljóðum og kröfðu að hann
skyldi krossfestast og óhljóð þeirra og enna æðstu
Presta tóku yfir. Þá lagði Pílatus þann úr= 24.
skurð á, að þeirra vilji skyldi ské og gaf þeim 25.
að bón þeirra þann lausann, sem fyrir upp=
hlaup og manndráp hafði verið settur í mirkva=
stofu, en Jesúm féck hann þeim í vald.

Þegar þeir nú leiddu hann út, tóku þeir 26.
mann nockurn, Símon frá Kyrene, sem kom
af akri og lögðu krossinn uppá hann að hann
bæri hann eptir Jesú. Mikill fjöldi fólks og 27.
qvenna fylgdi honum eptir, sem hörmuðu og
grétu yfir honum. Þá snéri Jesús sér til 28.
þeirra og mælti: þér, Jerúsalems dætur! grát=

V. 26. Matth. 27, 32. Mark. 15, 21.

íð ecki yfir mér, heldur yfir sjálfum ydur, og
29. børnum ydrum; því trúið mér, að þeir tímar
munu koma að menn munu segja: sælar eru
óbirjur og þau móður-líf, er eckert fóstur báru
30. og þau brjóst, er ecki vóru mylkt. Þá munu
menn segja til fjallanna: hrynjið yfir oss og
31. til hálsanna: hyljið oss; ef menn fara svo með
tré það, sem í blóma stendur, hversu mun þá
32. fara fyrir hinu visnaða. Með honum vóru
færdir til lífláts tveir íllrædis menn.
33. Þegar þeir vóru komnir til þess staðar,
sem kallaður er hausaskélja-staður, þar kross-
festu þeir hann og þessa íllrædis menn, annann
til hægri handar honum, en hinn til vinstri.
34. Þá sagði Jesús: Faðir! fyrirgéf þeim, þeir
vita ecki hvað þeir gjøra. Síðan skiptu þeir
klæðum hans og vørpudu þar um hlut-késti.
35. En fólkið stóð og horfði á; en fyrimenn lýðs-
ins gjørðu gis að honum og sögðu sín á milli:
ødrum hefir hann hjálpað, hjálpi hann nú
sjálfum sér, ef hann er Kristur hinn ástfólgni
36. Guðs. Semuleiðis hæddu hann stríðsmenn-
irnir, komu og báru honum súrt vín og sögðu:
37. ef að þú ert Konúngur Gyðínga, þá frelsaðu
38. sjálfann þig. En yfirskriftin var yfir honum
rituð á grísku, rómversku og hebresku, þannig
hljóðandi: "Þessi er Konúngur Gyð-
39. ínga." En annar af þeim íllvirkjum, sem
hengdir vóru með honum, spottaði hann og
sagði: sértú Kristur, þá frelsaðú sjálfann þig

V. 29. Samanb. Matth 24, 19.
V. 33. Matth. 27, 33—61. Mark. 15, 2—47.
Jóh. 19, 17—42.

og ockur. Þá tók hinn til orða, ávítaði hann 40.
og sagði: hræðist þú ecki Guð, þar sem þú þó
líður sama straff? Við líðum að sönnu mak- 41.
leg gjøld fyrir ockar athæfi, en þessi hefir eck-
ert íllt aðhafst. Þá sagði hann við Jesúm: 42.
minnst þú mín, Herra!, þegar þú kémur í ríki
þitt! Jesús mælti: eg segi þér satt: í dag 43.
skaltú vera með mér í Paradís. Um hádegis 44.
bil kom mirkur yfir allt landið, sem varaði allt
til nóns og sólin misti sinnar birtu; þá rifn- 45.
aði og fortjald musterisins að endilaungu. Nú 46.
kallaði Jesús hárri raustu og sagði: Faðir! í
þínar hendur fel eg minn anda, og er hann
hafði þetta mælt, andaðist hann. Nú er 47.
Hundraðs-höfðinginn sá þessa átburði, vegsam-
aði hann Guð og sagði: þessi maður hefir
vissulega verið saklaus; og allt fólkið, sem kom- 48.
ið hafði að horfa á þetta, þegar það sá hvað
skéði, barði það sér á brjóst og snéri heimleið-
is og allir þeir, sem honum vóru kunnugir og 49.
konur þær, er honum hefðu fylgt úr Galílæu,
stóðu lángt frá að sjá þetta.

Þá kom maður, Jósepf að nafni, hann 50.
var Ráðherra, góður maður og réttvís. Þessi 51.
maður hafði ecki samþyckt ráðum þeirra og at-
hefnum; hann var frá borginni Arimathæa í
Júdæu, gérði sér og von um að Guðs ríki
væri í nánd. Þessi maður géck til Pílatusar 52.
og bað hann um líkhama Jesú, tók hann síð- 53.
an niður; sveipaði hann í líni, lagði hann í
höggna steingröf, í hverja eckert lík hafði áður
lagt verið. Þetta var aðfánga-daginn og 54.
hvíldar-dagurinn fór í hönd.

55. En konur þær, er med Jesú høfdu kom-
id úr Galíleu-landi, fylgdu og eptir, skodudu
legstadinn og sáu hverninn lík hans var lagt;
56. snéru sídan heim og útvegudu ilmandi smyrsl;
en um helgina héldu þær kyrru fyrir, eptir
því, sem lögin budu.

## 24. Kap.

I.) Englar boda qvinnunum Jesú upprisu og Pétur lítur inn í grøfina 1—12. II.) Jesús birtist þeim tveimur, sem gengu til Emaus 13—35. III.) birtist þeim tíu og neytir matar 36—43. IV.) heimfærir uppá sig spádómana og segir Lærisveinunum hvar þeir skuli bída helgs anda styrks 44—49. V.) loksins stígur hann upp til himna 50—53.

1. Þann fyrsta dag vikunnar strax er lýsti af
degi, komu þær til legstadarins og høfdu med
sér smyrsl þau, er þær høfdu tilbúid og nockr-
2. ar adrar konur med þeim; fundu þær þá stein-
3. inn veltann frá legstadar mynninu, gengu síd-
4. an inn og fundu ecki lík Drottins Jesú, en
medan þær vóru ad undrast yfir þessu, stódu
5. hjá þeim tveir menn í skínandi klædum. Vid
þetta urdu þær hræddar og hneigdu andlit sín
til jardar; þá sögdu þeir: hví leitid þér ens
6. lifanda medal daudra? ecki er hann hér, hann
er upprisinn, minnist þess, er hann sagdi ydur
7. medan hann var enn nú í Galíleu og qvad
svo ad ordi: fyrir Mannsins Syni liggur ad

V. 1. Matth. 28, 1—20. Mark. 16, 1—20.
Jóh. 20, 1—25.

verda seldur í hendur íllra manna og krossfestast, en á þridja degi mun hann uppríſa.
Minntust þær þá þessara orda, snéru heim 8. 9.
frá legstadnum og sögdu allt þetta þeim ellefu
og hinum ödrum vinum hans. Þessar konur 10.
vóru; María frá Magdölum, Jóhanna og María
módir Jakobs og adrar med þeim; þær
færdu Postulunum þessa fregn. Þetta héldu 11.
þeir vera hégóma og festu ecki trú til þess;
stód þá Pétur upp, hljóp til legstadarins, gægd- 12.
ist inn og sá tómar líkblæurnar liggja þar; fór
hann sídan heim og undradist þetta.

Svo bar vid ad þennann sama dag fóru 13.
tveir af þeim til þorps nockurs, sem heitir
Emaus; þad er hér um hálfa adra mílu frá
Jerúsalem; vóru þeir þá ad tala sín á milli 14.
um allt þad, er vid hafdi borid. Var þá svo 15.
vid, er þeir vóru ad tala um þetta og spyrja
hverr annann, ad sjálfur Jesús nálægdist þá
og kom í ferdina, en þeirra augu vóru svo 16.
haldin ad þeir þecktu hann ecki. Þá sagdi 17.
hann: hvad er þad, sem þid erud ad tala um
yckar á milli á leid yckar og erud svo hrigg-
vir? Þá svaradi annar honum, sem Kleóphas 18.
hét: ert þú sá eini medal adkomandi manna í
Jerúsalem, sem ecki veitst hvad þar á þessum
dögum hefir vidborid. Jesús spurdi hvad þad 19.
væri? Þeir sögdu: hverninn farid var med
Jesús frá Nazareth, sem var Spámadur og
máttugur í ordum og verkum ad Guds og allra
manna vitni; hverninn enir ædstu Kennimenn 20.
og fyrirlidar fólks vors létu dæma hann til
dauda og krossfestu hann. En vér hugsudum 21.

ad hann mundi vera sá, sem frelsa ætti Ísra-
el og ofaná allt þetta, er í dag sá þridji dag-
22. ur sídan þetta skédi. Auk þessa hafa qvinnur
nockrar hrædt oss, þær er árla vóru vid leg-
23. stad hans, en fundu ecki líkid og þóttust hafa
sjed engla, sem hefdu sagt ad hann væri á lífi;
24. sídan fóru nockrir af þeim, sem med oss vóru,
til legstadarins og fundu allt eins og konurnar
25. hefdu sagt, en hann sáu þeir ecki. Þá sagdi
hann vid þá: en hvad þér erud heimskir og
tregir á ad trúa því, sem Spámennirnir hafa
26. sagt! átti ecki Kristur ad lída þetta og inn-
27. gánga svo í sína dýrd? byrjadi hann þá á Mó-
ses og öllum Spámönnunum og útlagdi fyrir
þeim alla þá spádóma, er hljóddu uppá hann.
28. Nú tóku þeir ad nálgast þorpid, til hvers þeir
ætludu, lét hann þá, sem ætladi hann lengra
29. ad fara; en þeir bádu hann innilega ad vera
hjá þeim og sögdu: vertú hjá oss, því ad qvöld
er komid og dagur lidinn; fór hann þá inn í
30. þorpid og var med þeim. En svo bar vid þá
hann sat til bords med þeim og hann tók
braudid, gjördi Gudi þackir, braut þad og
31. deildi medal þeirra, ad þá opnudust þeirra
augu, svo þeir þecktu hann, en þá hvarf hann
32. þeim. Þá sögdu þeir hverr vid annann: hitn-
adi ockur ecki um hjarta-ræturnar, þá hann
taladi vid ockur á veginum og útlagdi fyrir
33. ockur Ritníngarnar? Stódu þeir þá strax upp
og fóru aptur til Jerúsalem; þar fundu þeir
þá ellefu samansafnada og þá, sem med þeim
34. vóru; sögdu þeir: ad Drottinn væri upprisinn
35. og hefdi birtst Símoni, en hinir sögdu frá

því, sem við hafði borið á veginum og hvern-
inn þeir hefðu þeckt hann í því hann braut
brauðið.

Þegar þeir vóru að tala um þetta, stóð 36.
hann sjálfur medal þeirra og sagði: friður sé
með yður! við þetta urðu þeir nærsta hræðd- 37.
ir, því þeir hugsuðu að þeir sæu anda; hann
mælti: hvað hræðist þér og hví vakna hjá yð- 38.
ur slíkar hugrenníngar? skoðið hendur mínar 39.
og fætur, að það er eg. Þreifið á mér og
gjætið að, andi hefir hverki hold né bein, eins
og þér sjáið mig hafa; og þegar hann hafði 40.
þetta mælt, sýndi hann þeim hendur sínar og
fætur. En er þeir af fegnuði og undrun ecki 41.
vildu trúa þessu, sagði hann: hafið þér hér
nockuð af matar-tægi? Þeir lögðu þá fyrir 42.
hann stycki af steiktum fiski og nockuð af hun-
ángs-köku og neytti hann þessa að þeim ásjáandi. 43.

Hann sagði til þeirra: þetta er það, 44.
sem eg sagði yður meðan eg var enn með yð-
ur, að á mér ætti að rætast allt það, sem rit-
að er um mig í lögbók Móses, Spámönnun-
um og Sálmunum. Opnaði hann þá hugskot 45.
þeirra svo þeir skildu Ritníngarnar og sagði 46.
til þeirra: svo er skrifað, þannig átti Kristur
að líða og upprísa frá dauðum á þriðja degi,
og láta í sínu umboði kunngjöra öllum þjóð- 47.
um siðbót og fyrirgéfníngu syndanna og skyldi
fyrst byrja í Jerúsalem. En þér eruð vottar 48.
alls þessa. Verið vissir um: að eg mun senda 49.
yður það, sem minn Faðir hefir lofað, en þér
skuluð halda kyrru fyrir í borginni, þar til þér
hafið öðlast guddómlegann krapt.

50. Sídan fór hann med þeim út til Bethaníu, hóf upp hendur sínar og blessadi þá;
51. en medan hann var ad blessa yfir þá, skildist hann frá þeim og vard uppnuminn til himna.
52. En þeir féllu fram og tilbádu hann. Snéru
53. sídan aptur til Jerúsalem nærsta gladir og vóru ætíd í musterinu lofandi Gud og vegsamandi.



# Jóhannesar Gudspjall.

**I. Kap.** I.) Uppruni og holdgan Jesú Krists 1—14. II.) Vitnisburdur Jóhannesar Skírara 15—34. III.) Andrés, Philippus, Pétur, Nathanael og enn ónefndur Lærisveinn finna Jesúm 35—52.

1. Í upphafi var Ordid*) og Ordid var hjá
2. Gudi og Gud var þad Ord. Þad var í upphafi hjá Gudi.
3. Allir hlutir eru fyrir þad gjördir og án þess er eckert til ordid, sem til
4. er. Í því var líf og lífid var ljós mannanna
5. og ljósid skein í myrkrinu og myrkrid medtók
6. þad ecki. Madur nockurr var sendur af Gudi,

V. 1. *) Sá er heitir Ord, etc. 1 Jóh. 1, 1. 2. 5, 20. V. 2. Ordsqv. h. 8, 22. V. 4. 5, 26. V. 5. 8, 12.

hann hét Jóhannes. Þessi kom til vitnis- 7.
burđar að hann vitnaði um ljósið, svo allir
trydu fyrir hans vitnisburd. Ecki var hann 8.
ljósið, heldur átti hann ad vitna um ljósið.
Sá, sem upplýsir alla menn, er koma í heim- 9.
inn, var hið sanna ljós. Hann var í heim- 10.
inum og heimurinn var fyrir hann gjördur og
þeckti hann þó ecki. Hann kom til sinna og 11.
hans egin medtóku hann ecki. En svo marg- 12.
um, sem hann medtóku og á hann trúdu, gjördi
hann kost á ad verda Guds børn, *) ecki þeim, 13.
sem fæddir vóru af blódinu, né holdsins vild,
né mannsins vilja, heldur af Gudi. Og Ord- 14.
id vard madur, sem bjó med oss, fullur náð-
ar og sannleika, og vér sáum hans dýrd, dýrd
sem þess eingétna Fødursins.

Um þennann vitnadi Jóhannes berlega 15.
og sagdi: þessi er sá, um hvern eg sagdi: ept-
ir mig mun koma sá, sem var fyrri enn eg,
því hann var á undan mér. Af hans nægt- 16.
um høfum vér allir medtekid náð á náð ofan.
Løgmálid var oss géfid fyrir hønd Mósis, en 17.
nádin og sannleikurinn veittist fyrir Jesúm Krist.
Enginn hefir nockurn tíma séd Gud, sá ein- 18.
gétni Sonurinn, sem er í Fødursins skauti,
hann hefir sagt oss af honum. Og þessi er 19.
Jóhannesar vitnisburdur, þegar Gydíngar sendu
frá Jerúsalem Presta og Levíta til ad spyrja

V 9 kap 3, 19. V. 13. *) Þeir áttu ecki ødrum framar kost á Guds barna rétti, sem komnir vóru af Gydínga ættum, edur af Gydíngum ættleiddir, heldur þeir, sem Gud kannadist vid, sem sín børn. kap. 3, 5. Jak. 1, 18. V. 15. kap. 3, 31.

20. hann ad, hverr hann væri? Hann játti og
neitadi ecki og sagdi: ecki em eg Kristur.
21. Þeir spurdu þá: hvad ertú þá? ertú þá Elí-
as? hann svaradi: ecki em eg. Ertú þá Spá-
22. madurinn? og hann svaradi: nei! Þá søgdu
þeir vid hann: hverr ertú? seig oss þad, svo
vér gétum géfid svar þeim, er oss sendu; hvad
23. segir þú af sjálfum þér? Hann svaradi: eg
er rødd þess, sem hrópar í eydimørku: gjørid
beinann veg Drottins, eins og Esajas Spá-
24. madur hefir sagt. En þeir, sem sendir høfdu
25. verid, vóru Pharísæar. Þeir spurdu hann þá
og søgdu: hví skírir þú, ef þú ert hverki Krist-
26. ur, né Elías, né Spámadurinn? Jóhannes
svaradi þeim og sagdi: eg skíri í vatni, en sá
er nú kominn medal ydar, sem þér þeckid ecki,
27. sá, sem koma mun eptir mig, hvers skó-þvengi
28. eg em ecki verdugur ad leysa. Þetta skédi í
Bethaníu hinumeginn vid ána Jórdan, þar
sem Jóhannes skírdi.
29. Daginn eptir sjer hann Jesúm koma til
sín og segir: sjá þad Guds lamb, sem burt
30. ber heimsins synd. Hann er sá, um hvern eg
sagdi: eptir mig mun koma madur, sem var á
31. undan mér; því hann var fyrri enn eg. En
eg þeckti hann ecki, en til þess kom eg ad skíra
med vatni ad Gydíngar fengju hann ad þeck-
32. ja. Jóhannes vitnadi og þetta: eg sá and-
ann nidurfara af himni sem dúfu og nema stad-
33. ar yfir honum. Eg þeckti hann ecki, en sá,
sem sendi mig til ad skíra med vatni, hann
sagdi mér: sá, sem þú sjer andann koma yfir

V. 23 Es. 40, 3. V. 29. 3 Mós. 16, 21. 22.

og stadnæmast yfir, hann er sá, sem skírir med
heilögum Anda. Þetta sá eg og eg vitna, ad 34.
þessi sé Sonur Guds.

Daginn eptir var Jóhannes þar aptur 35.
staddur og tveir af hans Lærisveinum, og er 36.
hann horfdi á Jesúm hvar hann gékk, sagdi
hann: sjá þad Guds lamb! Þessir tveir Læri- 37.
sveinar heyrdu hann tala þetta og fóru eptir
Jesú. En Jesús leit vid, og þá hann sá þá 38.
fara eptir sér, sagdi hann: hvers leitid þér?
Þeir segdu: Rabbí! (þad þýdir Lærimeistari) 39.
hvar áttú heima? hann sagdi: komid og sjáid! 40.
þeir komu og sáu og vóru hjá honum daginn
þann, en þetta gjördist ad aflidnu nóni. Ann- 41.
ar af þessum tveimur, sem heyrdu þetta af
Jóhannesi og gengu eptir Jesú, var Andrés
bródir Símonar Péturs. Hann finnur fyrst 42.
bródur sinn Símon og segir vid hann: vid hef-
um fundid Messías, þad útleggst: sá smurdi,
og hann fylgdi honum til Jesú. En er Jesús 43.
leit hann sagdi hann: þú ert Símon sonur
Jónasar, þú skalt heita Kefas, þad er: bjarg
(Pétur). Daginn eptir ætladi Jesús ad fara 44.
til Galílæu, hann hitti þá Philippus og sagdi
til hans: fylg þú mér! en Philippus var frá 45.
Bethsaída, borg þeirra Andrésar og Péturs.
Philippus fann Nathanael og sagdi til hans: 46.
vér hefum fundid þann, sem Móses skrifadi um
í lögmáls-bókinni og Spámennirnir, Jesúm son
Jósephs af Nazareth. Nathanael svaradi: gét- 47.
ur nockud gott komid frá Nazareth? Philippus

V. 46. 5 Mós. 18, 18. Esaj. 7, 14. 9, 6. Dan.
9, 25. 26.

48. svaradi: kom þú og sjá. Jesús sá Nathanael
koma til sín og sagdi um hann: sjá! þessi er
sannur Gydíngur, í hverjum engin svik eru.
49. Nathanael sagdi: sídan nær þeckir þú mig?
Jesús svaradi og sagdi til hans: ádur enn
Philippus kalladi þig, sá eg þig þar, sem þú
50. varst undir fíkju-trénu. Nathanael svaradi og
sagdi til hans: Rabbí! þú ert Sonur Guds,
51. þú ert Israels Konúngurinn. Jesús svaradi
og sagdi til hans: þú trúir því, af því eg
sagdi þér: eg sá þig undir fíkju-trénu; annad
52. þessu meira muntú fá ad sjá. Og hann sagdi
til hans: sannlega, sannlega segi eg ydur: hér
eptir munud þér sjá himininn opinn og engla-
Guds uppfara og nidurstíga til Mannsins Sonar.

2. Kap. I.) Brúkaupid í Cana 1—11. II.) fyrsta ferd Jesú til Jerúsalem og gjørdir þar 12—25.

1. Og á þridja degi *) var haldid brúdkaup í
2. Cana í Galílæu. Þar var Jesú módir, en
Jesú og hans Lærisveinum var líka bodid til
3. brúdkaupsins. Og er vín þraut, sagdi Módir
4. Jesú til hans: þeir hafa ecki vín. Jesús
sagdi til hennar: Módir! hvad kémur þad vid
þér og mér? minn tími er enn ecki kominn.
5. Módir hans sagdi til þénaranna: hvad helst
6. hann segir ydur, þad gjørid. En þar vóru
sex vatns-kér af steini, sett þángad af því Gyd-
íngar þvo sér opt, og tók hvert þeirra tvo

V. 52. 1 Mós. 28, 12. V. 1. *) Eptir ad Jesús kom í Galílæu.

edur þrjá mælira. Jesús sagdi til þeirra: 7.
fyllid nú kérin med vatni og þeir fylltu þau á
barma. Þá sagdi hann til þeirra: ausid nú 8.
af og færid forstødu-manni veitslunnar og þeir
gérdu svo. En sem hann smackadi vatnid, sem 9.
ordid var ad víni og vissi ecki hvadan þad var
komid, en þénararnir, sem vatnid jusu, vissu
þad, kalladi hann á brúdgumann og sagdi:
Allir menn veita fyrst góda vínid, en þegar 10.
géstirnir taka ølvadir ad verda, þá hid
lakara; þú hefir geymt góda vínid þángad til
nú. Þetta, sem Jesús gjørdi í Cana í Galí- 11.
læu var þad fyrsta af jarteiknum hans. Og
hann opinberadi sína dýrd og hans Lærisvein-
ar trúdu á hann.

Eptir þetta fór Jesús til Kapernaum, 12.
hann og módir hans, brædur og Lærisveinar,
en vóru þar ecki marga daga, því Páska há-
tíd Gydinga fór í hønd. Þá ferdadist Jesús 13.
upp til Jerúsalem. Þar fann hann í muster- 14.
inu þá, sem seldu naut, saudi og dúfur og þá
menn sitjandi, er høfdu umskipti á peníngum.
Hann gjørdi sér þá svipu úr kødlum og rak 15.
alla út úr musterinu, bædi saudína og nautin,
steypti nidur peníngum og hratt um bordum
þeirra, sem skiptu um peninga, en sagdi vid 16.
þá, sem dúfurnar seldu: takid þetta hédan og
gjørid ecki hús míns Fødurs ad verdslunar-búd.
En Lærisveinum hans kom í hug ad skrifad 17.
hafdi verid: vandlæti vegna þíns húss uppetur



V. 14. Matth. 21, 12. Lúk. 19, 45.

18. míg. Gydíngar tóku þá til orda og sögdu til
hans: hvert jarteikn sýnir þú oss þad, ad
19. þetta megir gjöra? Jesús svaradi þeim og
sagdi: niðurbrjótið þetta musteri, en eg mun
20. reisa það á þrim dögum. Þá sögdu Gydíng-
ar: musteri þetta var verid ad byggja í fjöru-
tíu og sex ár og þú mundir reisa þad á þrim-
21. ur dögum? En hann taladi um musteri síns
22. líkhama. Þar fyrir kom hans Lærisveinum í
hug, þá hann var risinn frá daudum, ad hañ
hafdi þetta talad og trúdu Ritníngum og því,
23. sem Jesús hafdi talad. Medan Jesús var í
Jerúsalem á Páska hátídinni, trúdu margir á
hann, af því þeir sáu þau teikn, er hann
24. gjördi. En Jesús trúdi þeim ecki fyrir sér,
25. því hann þeckti alla og þurfti þess ecki ad
nockurr vitnadi um manninn, því hann vissi
hvad med mañninum bjó.

3. Kap. I.) Samtal vid Nikódemus um endurfædíngu, trú og gódverk 1—21. II.) Jesús skírir og Jóhannes. Þessi vitnar enn um Jesúm 22—36.

1. En þar var madur nockurr af flocki Pharísæ-
anna, er hét Nikódemus, einn af höfdíngjum
2. Gydínga. Hann kom til Jesú um nótt og
sagdi til hans: Meistari! vér vitum ad þú
ert Lærifadir kominn frá Gudi, því enginn
gétur gjört þau jarteikn, sem þú gjörir, nema
3. Gud sé med honum. Jesús svaradi og sagdi

V. 18. Ps. 69, 10. V. 19. Matth. 26, 61.
V. 22. Luk. 24, 8. V. 24. 6, 64.

til hans: sannlega, sannlega segi eg þér: mad-
urinn gétur ecki notid Guds rikis nema hann
endurfædist. Nikódemus segir til hans: hvern- 4.
ig gétur madurinn fædst þá hann er ordinn
gamall? gétur hann aptur komist í qvid móð-
ur sinnar og fædst? Jesús svaradi: sannlega, 5.
sannlega segi eg þér: ef madurinn fædist ecki
af vatni*) og anda, gétur hann ecki fengid inn-
gaüngu í Guds riki. Þad, sem af holdi er 6.
fædt þad er hold og hvad, sem af andanum er
fædt þad er andi. Undrast þú ecki ad eg 7.
sagda þér: ydur birjar ad endurfædast. Vind- 8.
urinn blæs hvar sem hann vill og þú heyrir
hans þyt, en ecki veitstú hvadan hann kémur
edur hvert hann fer; eins er því varid med
hvern, sem af andanum er fæddur. Nikódem- 9.
us svaradi og sagdi til hans: hvernig má
þetta ské? Jesús svaradi og sagdi til hans: 10.
ertú Lærimeistari Gydínga og veitst ecki þetta?
sannlega, sannlega segi eg þér: vér tölum 11.
þad vér vitum og vitnum þad vér sjed höfum
og vorn vitnisburd medtakid þér ecki. Ef ad 12.
þér trúid mér ecki þegar eg segi ydur jardn-
neska hluti, hvernig munud þér þá trúa, ef eg
segi ydur himneska hluti? Enginn hefir stígid 13.
til himins nema sá, sem nidurstë af himni,
Mannsins Sonur, sem er á himni. Og eins 14.
og Móses upphóf höggorminn á eydimörkinni,

R 2

V. 5. *) Hreinsist af illu og lifgist til góds.
V. 6. Róm. 8, 13. 14. Eph. 2, 3.
V. 12. Spek. b. 9, 16. V. 13. kap. 6, 62.
V. 14. 4 Mós. 21, 8. 9.

svo á Mannsins Sonur ad verda upphafinn,
15. til þess ad hverr, sem á hann trúir ecki tap-
16. ist, heldur hafi eilíft líf. Því svo elskadi Gud
heiminn, ad hann gaf sinn eingétinn Son til
þess, ad hverr, sem á hann trúir ecki tapist,
17. heldur hafi eilíft líf. Því ecki sendi Gud sinn
Son í heiminn til ad dæma heiminn, heldur
til þess ad heimurinn frelsadist fyrir hann.
18. Hverr á hann trúir fordæmist ecki, en hverr
hann trúir eigi, sá er nú þegar fordæmdur,
því hann trúdi ecki á nafn Guds eingétins
19. Sonar. En þessi er dómurinn: ljósid kom í
heiminn og mennirnir elskudu mirkrid meir enn
20. ljósid, því þeirra verk vóru vond. Hverr,
sem íllt adhefst hatar ljósid og kémur ecki til
21. ljóssins, svo verk hans verdi ecki uppvís. En
sá, sem sannleikanum hlýdir, hann kémur til
ljóssins, svo verk hans verdi opinber, því þau
eru gjörd ad Guds vilja.
22. Eptir þetta kom Jesús og hans Læri-
23. sveinar til Júdæu; þar var hann med þeim
og skírdi; en Jóhannes skírdi í Ainon nálægt
Salem, því þar var vatn mikid. Þángad
24. komu menn og létu sig skíra; því ecki var enn
25. búid ad kasta Jóhannesi í mirkvastofu. Þá
vard þræta milli Jóhannesar Lærisveina og
26. Gydíngs nockurs um hreinsunina. Og þeir
komu til Jóhannesar og sögdu: Meistari! sá,
sem var med þér hinumegin Jórdanar, hverjum
þú gafst vitnisburdinn, sjá þú! þessi skír-

V. 23. Matth. 3, 6. Mark. 1, 5.
V. 24. Matth. 14, 3.
V. 26. Matth. 3, 15. 1, 17. 34.

ir og allir koma til hans. Jóhannes svaradi: 27.
madurinn gétur eckert tekid, nema honum sé
géfid þad af himni. Þér erud mínir vottar 28.
ad eg sagdi: ecki em eg Kristur, en eg er send=
ur á undan honum. Sá, sem brúdurina hef= 29.
ir, hann er brúdgumi, en brúdgumans vinur,
sem stendur hjá honum og heyrir hann, gledst
mjøg vid rødd brúdgumans. Þessi mín gledi er
nú fullkomnud. Hann á ad vaxa, en eg ad minka. 30.
Sá, sem kom ofanad er øllum ædri. Sá, sem 31.
er af jørdu hañ er af jørdu og talar af jørdu. Sá,
sem kom af himni, er yfir øllum; og þad, sem 32.
hann hefir heyrt og séd, þad vitnar hann og
enginn medtekur hans vitnisburd. En sá, sem 33.
medtekur hans vitnisburd, sá kannast vid ad
Gud hafi efnt sín fyrirheit. Sá, sem Gud 34.
sendi, talar Guds ord, því ecki géfur Gud and=
ann af skornum skamti. Fadirinn elskar Son= 35.
inn og hefir géfid alla hluti í hans hend.
Hverr, sem trúir á Soninn, sá hefir eilíft líf, 36.
en hverr, sem ecki hlýdnast Syninum, skal ecki
sjá lífid, heldur varir Guds reidi yfir honum.

## 4. Kap.

I.) Jesús talar vid þá Samverska; umvendir morgum Samverskum 1—42. II.) fer til Galilæu og Nazareth 43—45. III.) læknar þjón Konungsmannsins i Kapernaum 46—54.

Þegar Drottinn féck þad ad vita, ad Phari= 1.
searnir hofdu frétt ad hann drægi til sín fleiri

V. 27. kap. 19, 11, Jak. 1, 17. V. 31. kap. 8, 23.
V. 33. 1 Jóh. 5, 10. V. 36. v. 18.

Lærisveina og skírdi fleiri enn Jóhannes —
2. Jesús skírdi samt ecki siálfur, heldur hans Læri-
3. sveinar — fór hann burtu úr Júdæu og kom
4. aptur til Galílæu. En hann vard ad ferdast um
5. Samaríu. Þá kom hann ad borg í Samaríu,
sem heitir Sichar; hún er nálæg því landi,
6. sem Jakob gaf syni sínum Jóseph. Jesús,
sem var vegmódur, settist nidur vid brunninn,
7. þad var um hádegi. Þar kom þá kona nock-
ur samversk til ad ausa vatn. Jesús sagdi vid
8. hana: géf þú mér ad drecka! því Lærisveinar
hans vóru farnir inní borgina ad kaupa mat.
9. Sú samverska kona ansadi og sagdi til hans:
hvernig stendur á því, ad þú, sem ert Gyd-
ingur, bidur mig, konu samverska, ad géfa þér
ad drecka?— því ecki hafa Gydingar umgengni
10. vid samverska menn. — Jesús svaradi og sagdi
henni: ef þú þecktir Guds gjöf og hverr sá er,
sem segir vid þig: géf mér ad drecka, þá mund-
ir þú bidja hann ad géfa þér lifandi vatn.
11. Konan sagdi til hans: þú hefir eckert ad ausa
med og djúpt er nidur í brunninn; hvadan
12. hefir þú þá hid lifanda vatn? edur ertú meiri
fodur vorum Jakob, sem gaf oss brunninn og
drack siálfur af honum og hans synir og hans
13. fénadur? Jesús svaradi henni og sagdi: þann
14. þyrstir aptur, sem dreckur af þessu vatni, en
hinn, sem dreckur af því vatni, er eg mun
géfa, skal ad eilífu ecki þyrsta, heldur mun þad
vatn, sem eg mun géfa honum verda í hon-

V 5. 1 Mós. 33, 19. 48, 22.
V. 14. kap. 6, 35. Es. 58, 11.

um að lind uppsprettandi til eilífs lífs*) Kon- 15.
an segir þá við hann: Herra! gef mér þetta
vatn, að mig þyrsti ecki framar og eg þurfi
ecki að koma híngað til að ausa vatn. Jesús 16.
sagði: far þú, kallaðú mann þinn og kom þú
svo híngað. Konan svaraði og sagði: eg á 17.
engann mann. Jesús sagði til hennar: rétt
segir þú, að þú egir engann mann; því þú 18.
hefir átt fimm menn og sá, sem þú nú hefir,
er ecki þinn maður; það sagðir þú satt. Kon- 19.
an segir þá til hans: Herra! eg sje að þú ert
Spámaður. Feður vorir hafa tilbedið á þessu 20.
fjalli, en þér segið: að í Jerúsalem sé staður-
inn hvar egi að tilbiðja. Jesús segir henni: 21.
kona! trú þú mér, sá tími kémur, að þér
hverki munuð tilbiðja Föðurinn á þessu fjalli,
né í Jerúsalem. Þér tilbiðjið það, sem þér 22.
ecki þeckið**), vér þeckjum það, sem vér til-
biðjum, því af Gydíngum er hjálpræðið. En 23.
sá tími kémur og er nú þegar kominn, að sañ-
ir tilbiðjendur munu tilbiðja Guð í anda og
sannleika, því Faðirinn leitar þeirra, sem þañ-
ig tilbiðja hann. Guð er andi og þeir, sem 24.
hann tilbiðja, ega að tilbiðja hann í anda og
sannleika. Konan segir þá til hans: eg veit 25.

*) Stærri sælu þeckja menn ecki í þeirri þurrlendu Austurálfu, enn nægt af rennanda vatni.

V. 22. 1 Mós. 12, 3. Esaj. 2, 3.

**) Þér Samverskir hafið eckert fyrir þeirri ydar meiníngu, að Guð sé rétt að dýrka á fjallinu. Vér Gydíngar höfum fyrir oss Ritníngunna. 5 Mós. 12, 5. 11. 1 Kóng. b. 8, 29. 9, 3.

ad Messías kémur — Messías er sama og
Kristur — þegar hann kémur, mun hann kun-
26. gjöra oss alla hluti. Jesús segir til hennar:
27. eg, sem vid þig tala, eg er þad. Rétt í því
komu hans Lærisveinar ad og hnickti þeim vid
ad hann taladi vid konuna; þó sagdi enginn:
hvad ertú ad bidja hana um? edur hvad ertú
28. ad tala vid hana? Konan skildi þar eptir
vatnsfötu sína og géck inn í borgina og sagdi
29. fólkinu: komid ad sjá mann, sem sagdi mér
allt hvad eg hefi adhafst; mundi ecki þessi
30. vera Kristur? Menn gengu þá út úr borg-
31. inni og komu til hans. Medan á þessu stód,
voktu Lærisveinarnir máls vid hann og sögdu:
32. Meistari! mettast þú! hann ansadi þeim: eg
hefi þá fædu ad eta, sem þér ecki vitid af.
33. Lærisveinarnir sögdu þá hverr vid annann:
34. ætla nockurr hafi fært honum mat? Jesús
segir þeim: minn matur er ad gjöra vilja þess,
sem mig sendi og leysa af hendi hans verk.
35. Segid þér ecki, enn þá eru fjórir mánudir,
svo kémur uppskéran? sjá! eg segi ydur, lítid
upp og sjáid akrana, þeir eru þegar hvítir til
36. uppskéru. Hverr, sem uppskér fær laun og
safnar ávexti til eilífs lífs, svo ásamt fagni
37. bædi sá, sem sáir og sá, sem uppskér; því hér
sannast ordtækid: annar sáir og annar uppskér.
38. Eg hefi sendt ydur til ad uppskéra þad, sem
þér ecki unnud ad, adrir unnu og þér hafid
39. gengid ad þeirra vinnu. En margir samversk-
ir menn úr þeirri borg trúdu á hann fyrir
konunnar ord, sem vitnadi: hann hefir sagt

B 35. Matth. 9, 37.

mér allt, sem eg hefi adhafst. Þegar nú Sam- 40.
verskir komu til hans, beiddu þeir hann ad
vera hjá sér, og hann var hjá þeim tvo daga;
og miklu fleiri trúdu fyrir hans ord og sögdu 41.
vid konuna: vér trúum nú ecki framar fyrir 42.
þín ord, því vér sjálfir hefum heyrt og vitum
ad þessi er sannarlega heimsins Frelsari Kristur.
En eptir tvo daga hélt hann þadan og 43.
fór til Galilæu — en sjálfur Jesús vitnadi ad 44.
Spámadur fengi ecki heidur í egin fedurlandi.
— En þegar Jesús kom í Galilæu, tóku Ga- 45.
lilæu menn vid honum, sem hefdu sjed allt
þad, er hann á hátídinni hafdi gjört í Jerú-
salem; því líka hefdu þeir sókt þángad hátídina.
Þá kom Jesús aptur til Cana í Gali- 46.
læu, hvar hann hafdi gjört vatnid ad víni.
Og Konúngs-madur nockurr var sá, hvers son-
ur lá sjúkur í Kapernaum. Þegar þessi frétti 47.
ad Jesús væri kominn frá Júdæu til Galilæu,
fór hann til hans og bad hann koma ad lækna
son sinn; því hann lægi dauðvona. Jesús 48.
sagdi til hans: þér trúid ecki, nema þér sjáid
tákn og stórmerki. Konúngs-madurinn sagdi: 49.
Herra! kom þú, ádur enn sonur minn andast!
Jesús segir til hans: far þú! sonur þinn lifir. 50.
Og madurinn trúdi því ordi, sem Jesús tal-
adi til hans og fór. En ádur enn madurinn 51.
komst heim, mættu honum þjónar hans og
sögdu: sonur þinn lifir. Þá spurdi hann þá ad, 52.
nær honum hefdi farid ad létta? og þeir sögdu
honum: í gjær aflídanda hádegi yfirgaf sóttin
hann. Þá sá fadirinn ad þad var á þeim 53.

V. 43. Matth. 4, 12. V. 44. Matth. 13, 57.

tíma, er Jesús hafdi sagt: sonur þinn lifir.
54. Og hann trúdi og allt hans heimafólk. Þetta
var hid annad jarteikn, sem Jesús gjerdi þeg-
ar hann kom til Galílæu frá Júdæu.

5. Kap. I.) Jesús læknar þann vid Bethesda laug á Sabbats-degi, sem veikur hafdi verid í 38 ár 1—18. II.) forsvarar verkid 19—47.

1. Eptir þetta var hátíd Gydínga og Jesús fór
2. upp til Jerúsalem. En í Jerúsalem er laug
vid sauda-portid, sem kallast á hebresku Beth-
3. esda og hefir fimm forbyrgi. Í þessum lá
allur fjøldi veikra manna, blindra, halltra, vis-
4. inna, sem bidu vatnsins hrærínger. Því á
vissum tímum sté engill nidur í laugina og
hrærdi upp vatnid, en hverr, sem fór fyrstur
nidur í laugina, eptir ad vatnid hafdi verid
hrært, hann vard alheill, hver veiki, sem hann
5. þjádi. Madur nockurr var þar, sem veikur
6. hafdi verid í þrjátíu og átta ár. Þegar Jesús
sá þennann liggja og vissi ad hann hafdi þeg-
ar lengi legid, segir hann vid hann: viltú verda
7. heill? Sá veiki svaradi honum: Herra! eg
hefi engann til, sem láti mig í laugina, þegar
vatnid hræríst upp; svo þegar eg kém, er ann-
8. ar kominn nidur í þad á undan mér. Jesús
segir til hans; stattú upp, taktú sæng þína og
9. gack; og strax vard madurinn heill, tók upp
sængina og géck, en sá dagur var helgi-dagur.
10. Því sögdu Gydíngar vid þann læknada mann:

V. 10. Neh. 13, 19. Jer. 17, 21.

þad er helgi-dagur, þér leyfist ecki ad bera
sængina. Hann svaradi þeim: sá, sem mig 11.
gjørdi heilann, hann sagdi mér: ber þú sæng
þína og gack. Þeir spurdu þá: hverr er sá 12.
madur, sem sagdi þér: ber þú sæng þína og
gack? en sá læknadi vissi ecki hverr sá var, 13.
því Jesús hafdi í kyrrþey farid burtu, en
þraung var mikil á stadnum. Eptir þetta hitti 14.
Jesús hann í musterinu og sagdi til hans: sjá!
nú ertú ordinn heill, syndga þú ecki framar,
ad ecki vilji þér annad verra til. Madurinn 15.
géck burt og kunngjerdi Gydingum ad Jesús
væri sá, sem hefdi gjert sig heilbrigdann, og 16.
vegna þess ofsóktu Gydingar Jesúm, ad hann
gjørdi þetta á helgum degi. En Jesús svar- 17.
adi þeim: Fadir minn vinnur til þess nú og
eg vinn og. Vegna þess leitudust Gydingar 18.
enn heldur vid ad ráda hann af dögum, af því
hann ecki einúngis braut helgina, heldur kall-
adi Gud Fødur sinn og gjørdi sjálfann sig
Gudi jafnann.

Jesús svaradi þá og sagdi til þeirra: 19.
sannlega, sannlega segi eg ydur: Sonurinn gét-
ur eckert gjørt af sjálfum sér, nema þad, sem
hann sjer Fødurinn gjøra, því þad, sem hann
gjørir, þad gjørir og Sonurinn somuleidis.
Því Fadirinn elskar Soninn og sýnir honum 20.
allt þad, er hann sjálfur gjørir; og hann mun
sýna honum meiri verk enn þessi, svo ydur mun
furda. Þvíad eins og Fadirinn uppvekur 21.
dauda og lífgar, þannig lífgar og Sonurinn
þá, sem hann vill. Ecki dæmir Fadirinn nock- 22.

V. 14. Matth. 12, 44.

urn, heldur hefir hann falid Syninum á hend-
23. ur allann dóm, svo ad allir heidri Soninn eins
og þeir heidra Fødurinn. Hverr, sem ecki
heidrar Soninn, sá heidrar ecki Fødurinn, sem
24. sendi hann. Sannlega, sannlega segi eg ydur:
hverr, sem heyrir mitt ord og trúir þeim, sem
mig sendi, sá hefir eilíft líf og kémur ecki til
dóms, heldur hefir stígid yfir frá daudanum
25. til lífsins. Sannlega, sannlega segi eg ydur:
sá tími mun koma og er þegar kominn, ad hin-
ir daudu munu heyra raust Guds Sonar og
26. þeir, sem heyra, munu lifa. Því eins og Fad-
irinn hefir lífid í sjálfum sér, svo gaf hann og
27. Syninum ad hafa lífid í sjálfum sér, og hann
hefir og géfid honum vald til ad halda dóm,
28. því hann er Mannsins Son. Undrist ecki yfir
því, ad tími mun koma, á hverjum allir þeir,
sem í grefunum eru, munu heyra hans raust,
29. og þeir munu gánga út; þeir, sem gott hafa
gjert til upprisu lífsins, en þeir, sem íllt hafa
30. adhafst, til upprisu fordæmíngarinnar. Eg
megna eckert ad gjøra af sjálfum mér; eg dæmi
sem eg heyri og minn dómur er réttvís, því
eg leita ecki míns vilja, heldur vilja Fødurs-
31. ins þess, sem sendi mig. Ef eg vitna um sjálf-
ann mig, þá er minn vitnisburdur ecki sann-
32. ur. Annar er, sem vitnar um mig og eg veit
ad sá vitnisburdur er sannur, sem hann vitnar
33. um mig. Þér hafid sendt til Jóhannesar og
34. hann bar sannleikanum vitni. En eg tek ecki
vitnisburd hjá mønnum, heldur tala eg þetta
35. svo ad þér frelsist. Jóhannes var logandi og

V. 23. Matth. 28, 18. V. 27. Dan. 7, 13 14.

skínandi ljós, en þér hafid ad eins um stund
viljad gledjast vid hans birtu. En eg hefi 36.
vitnisburd meiri enn Jóhannesar, þau verk,
sem minn Fadir feck mér ad leysa af hendi,
einmidt þau verk, sem eg gjöri, vitna um mig
ad Fadirinn hafi sendt mig. Og sjálfur Fad- 37.
irinn, sem sendi mig, hann vitnar um mig.
Hverki hafid þér nockurntíma heyrt hans rødd,
né sjed hans ásýnd; og þér hafid ecki í ydur 38.
hans ord varanlegt, þared þér trúid ecki þeim,
sem hann sendi. Ransakid Ritníngarnar, því 39.
þar í hugsid þér ad þér hafid eilíft líf, en
þessar eru þad, sem vitna um mig og samt 40.
viljid þér ecki koma til mín, svo þér hafid
lífid. Eg tek ecki heidur af mønnunum; 41.
en eg þecki ydur, ad þér hafid ecki Guds kjær- 42.
leika í ydur. Eg kom í nafni míns Fødurs 43.
og þér takid þó ecki vid mér. Ef einhverr
kjæmi í sínu egin nafni*), vid honum mundud
þér taka. Hvernig getid þér trúad, þér, sem 44.
sækist eptir heidri hverr hjá ødrum, en leitid
ecki heidurs hjá Gudi einum. Ætlid ecki ad 45.
eg muni ákjæra ydur hjá Fødurnum, sá er,
sem ákjærir ydur, Móses, hverjum þér treyst-
id. Ef ad þér trydud Móses, þá trydud þér 46.
og mér, því hann hefir skrifad um mig. En
ef þér trúid ecki hans bókum, hver von er þá
ad þér trúid mínum ordum?

---

6. Kap.

*) án þess ad hafa þar til gudlega køllun.

6. Kap. I.) Jesús mettar fimm þúsundir manna 1—15. II.) gengur á vatninu 16—21. III.) talar um þá fæðu, sem dugir til eilífs lífs 22—71.

1. Eptir þetta fór Jesús yfirum Sjóðu-vatnið Tí-
2. beríadis í Galíleu og margt fólk fylgdi hon-
um, því menn sáu þau teikn, er hann gjörði á
3. þeim sjúku. En Jesús gékk uppá fjallið og
4. settist þar niður með sínum Lærisveinum. En
5. þá vóru Páskar í nánd, hátíð Gyðínga. Þeg-
ar Jesús litaðist nú um og sá að fjöldi fólks
kom til hans, sagði hann við Philippus: hvað-
an kaupum vér brauð svo að þessum nægi?
6. — En hann sagði þetta til að reyna hann,
því sjálfur vissi hann hvað hann ætlaði sér að
7. gjöra — Philippus svaraði honum: brauð fyr-
ir tvohundruð penínga*) duga þeim ecki, svo
8. að hverr einn fái lítið eitt. Þá sagði Andrés,
einn af hans Lærisveinum, bróðir Péturs Sí-
9. mónar: hér er eitt úngmenni, sem hefir fimm
bygg-brauð og tvo smá-fiska, en hvað er það
10. handa svo mörgum? En Jesús sagði: látið
fólkið setjast niður. Í þeim stað var gras
mikið. Þá settust niður karlmenn að tölu nær
11. fimm þúsundir. En Jesús tók brauðin, og,
þegar hann hafði blessað, fékk hann Lærisvein-
unum, en Lærisveinarnir þeim, sem höfðu setst
niður, sömuleiðis af fiskunum svo mikið, sem
12. þeir vildu. En sem þeir vóru mettir, segir
hann við sína Lærisveina: takið saman leifarn-
13. ar, sem afgángs eru svo eckert spillist. Þeir

*) Það er hundrað Rixort-heil.

søfnudu þeim saman og fylltu tólf karfir með
leifar af þeim fimm bygg-braudum, sem gengu
af hjá þeim, er neytt høfdu. Þeir menn, sem 14.
sáu það teikn, er Jesús gjørdi, segðu þá:
Þessi er sannarlega sá Spámaður, sem á að-
koma í heiminn. Jesús, sem vissi að þeir- 15.
mundu koma og taka hann, til þess þeir gjørdu
hann að Konúngi, veik aptur afsíðis einsamall
uppá fjallið.

Én er qvøld var komið, fóru Lærisveinar 16.
hans niður að vatninu og géngu á skipið og 17.
fóru yfir vatnið til Kapernaum; þá var orðið
dymmt og Jesús var ecki kominn til þeirra.
Én ylgja var á vatninu, því vedur blés mik- 18.
ið. Þegar þeir høfðu nú róið hérumbil 25- 19.
eður 30 skéidrúm*); sjá þeir Jesúm gángandi
á vatninu og kominn nálægt skipinu og urðu
hræddir. Hann yrdti á þá og sagði: eg em 20.
það, óttist ecki! Þeir vildu þá taka hann 21.
innbyrðis og strax rann skipið að landi þar,
sem þeir réru að.

Daginn eptir, þareð fólks-fjøldinn, sem 22.
hafði staðið hinumeginn við vatnið, vissi að eck-
ert skip hafði þar verið nema það eina, sem
hans Lærisveinar høfðu gengið á og að Jesús
hafði ecki farið á skipið með sínum Lærisvein-
um, heldur að Lærisveinar hans høfðu farið
einir — en þar komu ønnur skip frá Tíberías 23.
nálægt þeim stað, hvar þeir átu brauðin, ept-
ir að Drottinn hafði gjørt þackir — Og þar- 24.
eð fólkið nú sá, að hverki var Jesús þar né

V. 17. Matth 14, 22. Mark. 6, 45.
*) Eitt skeidrúm (Stadium) er 625 fet.

hans Lærisveinar, géck þad einnig á skipin og
25. kom til Kapernaum til ad leita ad Jesú. Og
sem þeir fundu hann hinumegiun vid vatnid,
26. sögdu þeir til hans: Meistari! nær komstú
híngad? Jesús svaradi þeim og sagdi: sann-
lega, sannlega segi eg ydur: þér leitid mín ecki
af því þér sáud teiknin, heldur af því, þér
27. átud af braudunum og urdud mettir. Aflid
ecki ydur þeirrar fædu, sem eydist, heldur
þeirrar fædu, sem varir til eilífs lífs, hverja
Mannsins Sonur mun géfa ydur, því þennann
28. hefir Gud Fadirinn innsiglad *). Þeir sögdu
þá til hans: hvad egum vér ad gjöra, svo vér
29. vinnum þad, sem Gud vill? Jesús svaradi
og sagdi til þeirra: þad er þad verk, sem Gud
vill, ad þér trúid á þann, sem hann sendi.
30. Þá sögdu þeir til hans: hver teikn gjörir þú,
ad vér sjáum og trúum þér? hvad vinnur þú?
31. Vorir fedur átu manna í eydimörku eins og
skrifad er: hann gaf þeim braud af himni ad
32. eta. Þá sagdi Jesús til þeirra: sannlega,
sannlega segi eg ydur: ecki gaf Móses ydur
braud af himni, en minn Fadir géfur ydur
33. braud af himni, sem er hid rétta; því þetta
Guds braud er sá, sem sté nidur af himni og
34. géfur heiminum líf. Þá sögdu þeir til hans:
35. Herra! géf oss ætíd þetta braud. En Jesús
sagdi til þeirra: eg em lífsins braudid; sá,
sem kémur til mín mun ecki verda húngradur
og þann mun aldrei þyrsta, sem á mig trúir.

*) Audként, sem sinn erindisreka og elskulegann Son. V. 31. 2 Mós. 16, 14. 15. 4 Mós. 11, 7. Psálm 78, 24. V. 35. Es. 55, 1.

En eg hefi sagt ydur: Þér hafid sjed mig og 36.
trúid þó ecki. Allir, sem Fadir minn gefur 37.
mér, koma til mín og þann, sem til mín kém-
ur mun eg ecki útreka. Hvíad eg hefi nidur- 38.
stígid af himni, ecki til ad gjøra minn vilja,
heldur vilja þess, sem mig sendi. En þad er 39.
vilji þess, sem mig sendi, ad eg glati engum
af þeim, sem hann gaf mér, heldur uppveki
hann á effsta degi. Því þetta er vilji þess, 40.
sem mig sendi: ad hverr, sem sjer Soninn og
trúir á hann, hafi eilíft líf og eg mun upp-
vekja hann á effsta degi. Þá mogludu Gyd- 41.
íngar móti honum, af því hann sagdi: eg em
þad braud, sem kom nidur af himni og segdu:
er ecki þessi Jesús sonur Jósephs, hvers fød- 42.
ur og módur vér þeckjum? hvernig segir hann
þá, ad hann hafi stígid nidur af himni? Jesús 43.
svaradi þeim og sagdi: møldrid ecki innbyrdis.
Enginn gétur komid til mín, nema Fadirinn, 44.
sem sendi mig, dragi hann og eg mun uppvek-
ja þann á effsta degi. Þad er skrifad í Spá- 45.
manna bókunum: "þeir munu allir verda af
Gudi uppfrædðir"; hverr sá, sem heyrir Fød-
urinn og lærir af honum, sá kémur til mín.
Ecki er þad svo ad skilja, sem nockurr 46.
hafi sjed Fødurinn nema sá, sem er frá Gudi,
hann hefir sjed Fødurinn. Sannlega, sann- 47.
lega segi eg ydur: hverr, sem á mig trúir
hefir eilíft líf. Eg em lífsins braud. Fedur 48.
ydar átu m a n n a í eydimørkinni og dóu 49.
Þetta er braudid þad af himni nidurstígna, svo 50.
S

V. 45. Es. 54, 13. Jer. 13, 33. Mich. 4, 2.

51. ad madur neyti af því og ecki deyi. Eg em
þad lifanda braud, sem kom nidur af himni;
ef nockuer etur af þessu braudi, mun hann lifa
til eilífdar, og þad braud, sem eg mun géfa,
er mitt hold, sem eg mun géfa heiminum til
52. lífs. Þá þráttudu Gydíngar innbyrdis og
segdu: hvernig getur þessi géfid oss sitt hold
53. ad eta? Því sagdi Jesús til þeirra: sann-
lega, sannlega segi eg ydur: ef ad þér etid
ecki hold Mannsins Sonar og dreckid ecki hans
54. blód, hafid þér ecki lífid í ydur. Hverr, sem
etur mitt hold og dreckur mitt blód, sá hefir
eilíft líf og eg mun uppvekja hann á efsta
55. degi; því hold mitt er sannarlega fæda og blód
56. mitt er sannarlega dryckur. Sá, sem etur
mitt hold og dreckur mitt blód, sá blífur í mér
57. og eg í honum; eins og sá lifandi Fadir sendi
mig og eg á Födurnum lífid ad þacka, svo
mun sá ega mér lífid ad þacka, sem mig et-
58. ur*). Þetta er þad braud, sem komid er af

V. 57. kap. 15, 4. *) Þegar saman eru borin Vers 40, 54, 56 og 63 hér á eptir, er audsied ad þessir talshættir: sjá Soninn og trúa honum, ad eta hold og drecka blód Mannsins Sonar, og ad blífa í honum og hafa hann í sér blífanda, hafa allir somu þýdingu. Allt þetta á ad gjora somu verkun: géfa monnunum eilíft líf. Sá af þessum talsháttum, sem torveldast er ad skilja, sem þeim, er heyrdu Jesúm tala, þótti þúngskilinn, orsakadist af því: ad Jesús líkti sér vid braud af himni nidursendt, líkt og manna, er Gydíngar hofdu til fædu í Arabíu eydimorku, á ferdinni frá Egyptalandi til Canaanslands.

himni, ecki sem manna, er fedur ydar átu og
dóu samt. Sá, sem etur þetta braud, mun
lifa ad eilífu. Þetta taladi Jesús í samkund- 59.
unni, þá hann kénndi í Kapernaum. Margir 60.
af hans Lærisveinum, sem heyrdu á, sögdu þá:
þúng er þessi ræda, hverr gétur hlýdt á hana?
En er Jesús vissi med sjálfum sér, ad hans 61.
Lærisveinar mögludu um þetta, sagdi hann:
hneixlar ydur þetta? En ef þér sæud þá 62.
Mannsins Son uppstíga þángad, sem hann var
ádur? Andinn er þad, sem lífgar, holdid gagn- 63.
ar til einkis; þau ord, sem eg tala til ydar,
eru andi og líf. En þeir eru nockrir medal 64.
ydar, sem ecki trúa; því Jesús vissi frá upp-
hafi hverjir þeir vóru, sem ecki trúdu og hverr
sá var, sem mundi svíkja hann. Og hann 65.
sagdi: vegna þess sagdi eg ydur: enginn gét-
ur komid til mín, nema honum sé þad géfid
af mínum Fodur. Upp frá þessu fóru margir 66.
af Lærisveinum hans frá honum og vóru ecki
framar med honum. Jesús sagdi því vid þá 67.
tólf: viljid þér einnig fara burt? Símon Pét- 68.
ur svaradi honum: Herra! til hvers skulum
vér fara? þú hefir ord eilífs lífs og vér hof- 69.
um trúad og kannast vid ad þú ert sá heilagi
Guds. Jesús sagdi til þeirra: hefi eg ecki 70.
útvalid ydur tólf? og einn af ydur er djöfull.
En hann meinti Júdas Símonsson frá Karí- 71.
oth, því hann vard sídan til ad svíkja hann
og var einn af þeim tólf.

S 2

V. 69. Matth. 16, 16.

7. Kap. I.) Þjóðin dæmir ýmislega um Jesúm á Laufskála hátíðinni 1—13. II.) Jesús kénnir í musterinu og forsvarar lækníngu á Sabbathsdegi 14—31. III.) Þénurunum, sem áttu að taka hann, fallast hendur þegar þeir heyra hann tala 32—49. IV.) Nikódemus forsvarar Jesúm 50—53.

1. Eptir þetta ferðaðist Jesús um Galíleu, því
hann vildi ekki vera í Júdeu, af því Gyðíng-
2. ar sátu um líf hans. En hátíð Gyðínga,
3. sem kallast Laufskála hátíð, var í nánd. Þá
sögðu bræður hans til hans: far þú nú héðan
til Júdeu, svo að þínir Lærisveinar, sem þar
4. eru sjái þau verk, sem þú gjörir; því enginn
sá gjörir nockuð leynilega, sem vill verða víð-
frægur; sé það þín ætlan, þá sýndu þig sjálf-
5. ann heiminum. Því hans bræður trúðu ecki
6. heldur á hann. Þá sagði Jesús til þeirra:
minn tími er enn ecki kominn, en yðar tími
7. er jafnan. Heimurinn hefir ecki orsök til að
hata yður, en mig hatar hann af því eg vitna
8. um hann, að hans verk séu vond. Farið þér
og sækið þessa hátíð, eg fer ecki að sinni til
þessarar hátíðar, því minn tími er ecki enn
9. þá kominn til fulls. Þetta talaði hann við
10. þá og var kyrr í Galíleu. En er bræður
hans voru farnir, þá fór hann og sjálfur til
hátíðarinnar, ecki opinberlega, heldur leynilega.
11. Þar fyrir leituðu Gyðíngar hans á hátíðinni
12. og sögðu: hvar er hann? Og kurr var mik-

B. a. 3 Mós. 23, 34.

ill um hann medal fólksins; nockrir sögdu:
hann er gódur madur; adrir sögdu: nei! held-
ur tælir hann fólkid. Þó taladi enginn ber- 13.
lega um hann af ótta fyrir Gydíngum.

En er hátídin var hálfnud, géck Jesús í 14.
musterid og kénndi. Gydínga furdadi þad og 15.
þeir sögdu: hvernig veit þessi Ritníngarnar,
hann, sem ecki hefir lært? Jesús svaradi þeim 16.
og sagdi: minn lærdómur er ecki minn, heldur
þess, sem mig sendi. Ef sá er nockurr, sem 17.
vill gjöra hans vilja, hann mun komast ad raun
um, hvad lærdóminn áhrærir, hvert hann er af
Gudi edur eg tala af sjálfum mér*). Hverr, 18.
sem talar af sjálfum sér, sá leitar egin lof-
dýrdar, en sá, sem leitar þeim heidurs, sem
sendi hann, sá er sannordur og prettalaus. Gaf 19.
Móses ydur ecki lögin? og enginn ydar heldur
þó lögin. Hví leitist þér vid ad lífláta mig?
Múgurinn ansadi og sagdi: Þú ert vitlaus! 20.
hverr leitast vid ad lífláta þig? Jesús svar- 21.
adi og sagdi þeim: eitt verk gjörda eg og ydur
alla furdar á því. Móses gaf ydur umskurn- 22.
ina — þó er hún ecki frá Móse, heldur frá
fedrunum — og þér umskérid manninn á Sab-
baths degi. Ef ad madurinn medtekur um- 23.
skurnina á Sabbaths degi, án þess Mósis lög
verdi yfirtrodin**), hví reidist þér þá mér fyrk

V. 15. Matth. 13, 54 og f.
V. 17. *) Kénni eptir eginn hugþótta.
V. 22. 1 Mós. 17, 10. 3 Mos. 12, 3.
**) Reknil.: þau lög, ad á 8da degi skyldi hverr einn umskérast. Þar af flaut, ad sum born varo ad umskéra á laugardegi, sem var Gydínga Sabbaths dagur.

Það, að eg gjørði gjørvallann mann heilann á
24. Sabbaths degi? Dæmið ecki eptir ásýnd, held-
25. ur dæmið dómiñ réttann. Þá sögðu nockrir af
Jerúsalems mennum: er þessi ecki sá, sem þeir
26. leitast við að lífláta? og sjá! hann talar ein-
arðlega og þeir segja eckert við hann. Máske
høfdíngjarnir með sanni hafi fengið að vita að
27. þessi sé Kristur. Vér vitum þó hvaðan hann
er, en þegar Kristur kémur, veit enginn hvað-
28. an hann er. Þá kallaði Jesús þar, sem hann
kénndi í musterinu og sagði: þér þeckið mig
og vitið hvaðan eg em. Af sjálfum mér em
eg ecki kominn, heldur sendi mig hinn sanni
29. (Guð), hvern þér þeckið ecki. Eg þecki hann,
því eg er frá honum og hann sendi mig.
30. Vegna þessa leituðust þeir við að grípa hann,
þó lagði enginn á hann hønd, því hans tími
31. var enn ecki kominn. En margir af fólkinu
trúðu á hann og sögðu: þegar Kristur kém-
ur, mun hann þá gjøra fleiri jarteikn enn þessi
hefir gjørt?
32. Þegar Pharísæarnir heyrðu að fólkið var
að þrætast á um hann, þá sendu þeir og þeir
æðstu Prestar þénara til að handtaka hann.
33. Þar fyri sagði Jesús til þeirra: enn þá er eg
hjá yður litinn tíma og fer svo til hans, er
34. mig sendi. Þér munuð leita mín og þér munuð
ecki finna mig og þér gétið ecki komist þáng-
35. að, sem eg er. Þá sögðu Gyðíngar hvert
við annann: hvert mun þessi ætla að fara, að
vér ecki skulum finna hann? mun hann ætla
til þeirra, sem eru útdreifðir meðal Grickja

V. 24. 5 Mós. 1, 16. 17.

og kénna Grickjum?*) hvada tal er þetta, sem 36.
hann segir? þér munud leita mín og ecki finna;
og þér munud ecki géta komist þángad, sem eg
er. En á hinum sídasta, þeim mikla degi 37.
hátídarinnar, géck Jésús fram og kalladi seg-
jandi: ef nockurn þyrstir þá komi sá til mín
og drecki. Sá, sem trúir á mig, af hans 38.
qvidi munu, eins og Ritníngin segir, lækir lif-
andi vatns fljóta. En þetta sagdi hann um 39.
Þann anda, er þeir mundu medtaka, sem á
hann trúa, því enn þá var heilagur Andi ecki,
af því Jesús var ecki enn þá vegsamlegur ord-
inn. Þá segdu margir af fólkinu, sem heyrdu 40.
þessa rædu: þessi er sannarlega Spámadurinn.
Adrir segdu: þessi er Kristur; en nockrir segdu: 41.
mun Kristur þá koma frá Galíleu? Segir 42.
ecki Ritníngin: ad frá Davíds sædi og frá
Bethlehem, þeirri borg hvar Davíd var,
muni Kristur koma? Þannig vard ágreiníng- 43.
ur um hann medal fólksins. En nockrir af 44.
þeim vildu grípa hann og þó lagdi enginn á
hann hendur. Þá komu þénararnir til Presta- 45.
höfdíngjanna og Pharíséanna og þessir segdu
vid þá: því komud þér ecki med hann? Þén- 46.
ararnir svörudu: aldrei hefir nockurr madur
talad, sem þessi madur. Þá ansudu Pharísæ- 47.
arnir: erud þér einnig afvega leiddir? trúir 48.

*) Grickir kölludust og þeir Gydíngar, sem bjuggu í Egyptalandi og vídar fyrir utan Gydíngaland, og töludu griska túngu.

V. 37. Es. 58, 11. 12. Zach. 14, 8.
V. 38. Kap. 4, 14. V. 39. Kap. 16, 7. 17, 5.
V. 40. Kap. 6, 14. V. 42. Lúk. 2, 4.

nockurr af höfdíngjunum á hann edur af Pha-
49. rísæum? en þessi múgur, sem ecki þeckir lög-
in, er bannsetjandi.
50. Nikódemus sá, sem kom til hans um
51. nótt og var einn af þeim, segir: munu lög
vor dæma manninn, nema hann sé ádur yfir-
heyrdur og ransakad það, sem hann gjörir?
52. Þeir svörudu og segdu honum: ert þú líka
frá Galílæu? ransakadú og sjádú, ad Spámad-
53. ur hefir aldrei komid í ljós úr Galílæu. Og
hverr fór heim til sín.

8. Kap. I.) Jesús vill ecki fordæma hórkonuna 1—11. II.) talar um sig, sína burtför og sakleysi 12—29. III.) átelur Gydínga fyrir það þeir séu vondir og ólíkir Abraham 30—59.

1. 2. En Jesús fór til Olíu-fjallsins og snemma
ad morgni kom hann aptur í musterid og allt
fólkid kom til hans og hann settist nidur og
3. kénndi því. En þeir Skriftlærdu og Pharí-
sæar leiddu til hans konu, sem gripin var í
hórdómi og létu hana standa midt á medal
4. þeirra og segdu til hans: Meistari! þessi kona
5. er stadin ad hórdómi, en Móses baud oss í
lögunum: ad þesshattar konur skyldu grýtast;
6. hvad segir þú til þess? — en þetta segdu
þeir til ad freista hans, svo þeir hefdu eitt-
hvad ad ákjæra hann fyrir — Jesús laut þá
7. nidur og ritadi med fíngrinum á jördina. En
þared þeir hættu ecki ad spyrja, rétti hann sig
upp og sagdi til þeirra: sá af ydur, sem er

syndlaus, kasti fyrstur steini á hana. Svo 8.
laut hann aptur og ritaði á jörðina. En er 9.
þeir heyrðu þetta og vóru slegnir af þeirra
samvizku, gengu þeir burt hverr eptir annann
frá þeim æðstu til þeirra lægstu, svo Jesús
varð einn eptir og konan, sem stóð þar. En 10.
er Jesús rétti sig upp og sá engann nema kon-
una, sagði hann til hennar: kona! hvar eru
þeir, sem ákjærðu þig? enginn fordæmdi þig?
Hún svaraði: Herra! enginn. En Jesús sagði 11.
til hennar: ecki fordæmi eg þig heldur, far þú
héðan og syndga ecki hér eptir.

Í annað sinn talaði Jesús til þeirra 12.
og sagði: eg em heimsins ljós, hverr, sem fylg-
ir mér, mun ecki gánga í mirkri, heldur hafa
lífsins ljós. Þá segdu Pharísæar til hans: þú 13.
vitnar um sjálfann þig, þinn vitnisburður er
ecki sannur. Jesús svaraði þeim og sagði: þó 14.
eg vitni um sjálfann mig, er minn vitnisburð-
ur sannur, því eg veit hvaðan eg kom og hvert
eg fer. Þér dæmið eptir holdinu*), eg dæmi 15.
engann, en þó eg dæmi um mig, er minn dóm- 16.
ur réttur, því eg em ecki einsamall, heldur
bæði eg og Faðirinn, sem sendi mig. Það er 17.
og skrifað í yðar lögum, að tveggja manna
vitnisburður sé sannur. Eg em sá, sem vitna 18.
um mig sjálfann og Faðirinn, sem sendi mig,
vitnar um mig. Nú segdu þeir við hann: 19.
hvar er Faðir þinn? Jesús svaraði: hverki
þeckið þér mig né Fodur minn; ef að þér
þecktuð mig, þá þecktuð þér og minn Fodur.
Þessi orð talaði Jesús hjá fjár-kistunni þar, 20.

*) ytra áliti. V. 17. 5 Mós. 17, 6. K. 19, 15.

sem hann kénndi í musterinu og enginn lagdi
hend á hann, því enn var ecki hans tími
21. kominn. Þá sagdi Jesús aptur til þeirra:
eg fer burt og þér munud leita mín og deya
í ydar syndum. Þángad, sem eg fer, gétid
22. þér ecki komist. Þá sögdu Gydíngar: mun
hann ætla ad deyda sjálfann sig, þared hann
segir: þángad, sem eg fer gétid þér ecki kom-
23. ist? Og hann sagdi til þeirra: þér erud ned-
anad, eg em ofanad; þér erud af þessum heimi,
24. eg em ecki af þessum heimi. Þess vegna
sagda eg ydur: ad þér mundud deya í ydar
syndum; því ef þér trúid ecki ad eg sé ofan-
25. ad*), munud þér deya í ydar syndum. Þeir
sögdu þá vid hann: hverr ertú? Jesús svar-
adi þeim: einmidt þad, sem eg segi ydur.
26. Eg hefi margt um ydur ad segja og dæma;
en sá, sem sendi mig, er sannordur og þad,
sem eg heyrdi af honum, þad tala eg til heims-
27. ins. En þeir skildu ecki ad hann meinti Fed-
28. urinn; því sagdi Jesús til þeirra: þegar þér
hefjid upp Mannsins Son, þá munud þér
þeckja ad eg em þad og ad eg gjöri eckert af
sjálfum mér, heldur eins og Fadir minn kénndi
29. mér, tala eg og sá, sem sendi mig, er med
mér; Fadirinn lét mig ecki einann, því eg gjöri
ætíd þad, sem honum þócknast.
30. Þegar hann taladi þetta, trúdu margir á
31. hann. Jesús sagdi þá til þeirra Gydínga,
sem á hann hefdu trúad: ef ad þér haldid
stødugt vid mitt ord, þá erud þér sannarlega
32. mínir Lærisveinar. Þér munud þeckja sann-

*) Sá fyrirheitni.

leikann og sannleikurinn mun gjora ydur frjálsa.
Þeir svorudu honum: vér erum Abrahams 33.
nidjar og aldrei hofum vér þrælar verid nock-
urs manns, hvernig segir þú þá: þér skulud
verda frjálsir? Jesús svaradi þeim; sannlega, 34.
sannlega segi eg ydur: sá, sem gjorir syndina,
er syndarinnar þræll; en þrællinn er ecki ávalt 35.
í húsinu, sonurinn verdur þar ætíd. Ef ad 36.
sonurinn gefur ydur þá frelsi, svo verdid þér
sannarlega frjálsir. Eg veit ad þér erud Ab- 37.
rahams nidjar, en þér leitist þó vid ad lífláta
mig, af því mitt ord fær ecki rúm hjá ydur.
Eg tala þad, sem eg hefi sjed hjá mínum 38.
Fodur og þér gjorid þad, sem þér hafid sjed
hjá ydar Fodur. Þeir svorudu og sogdu til 39.
hans; Abraham er vor fadir. Jesús sagdi til
þeirra: ef ad þér værud Abrahams born, þá
gjordud þér Abrahams verk. En nú leitid 40.
þér eptir ad deyda mig, mann, sem hefi sagt
ydur sannleikann þann, sem eg heyrdi af Gudi,
þetta hefdi Abraham ecki gjort; þér gjorid
verk ydar fodurs. Þá sogdu þeir til hans: 41.
vér erum ecki hórgétnir, vér hofum einn fodur,
nefnilega: Gud. Þá sagdi Jesús til þeirra: 42.
ef ad Gud væri ydar fadir, þá elskudud þér
mig, því eg em útgenginn og kominn frá Gudi,
og eg em ecki kominn af sjálfum mér, heldur
hefir hann sendt mig. Hví skiljid þér ecki 43.
mál mitt? af því þér getid ecki heyrt mitt ord.
Þér erud af fodurnum, fjandanum og girnd- 44.
um ydar fodurs viljid þér hlýdnast. Hann
var manndrápari frá upphafi og var ecki stad-

V. 32. Rom. 6, 14.

fastur í sannleikanum, því sannleiki er ecki í
honum; þegar hann talar lÿgi, talar hann af
sínu egin, því hann er lygari og lÿginnar fad-
45. ir. En mér trúid þér ecki, af því eg tala
46. sannleikann. Hverr af ydur gétur sannad uppá
mig synd? en ef eg tala sannleikann, hví trú-
47. id þér mér ecki? Sá, sem er af Gudi, sá
heyrir Guds ord; vegna þess heyrid þér ecki,
48. ad þér erud ecki af Gudi. Gydíngar-svorudu
honum og segdu: segjum vér ecki rétt, ad þá
49. sért Samverskur og hafir djøful? Jesús svar-
adi: ecki hefi eg djøful, heldur heidra eg Fød-
50. ur minn, en þér forsmáid mig. Eg leita ecki
míns heidurs, sá er, sem hans leitar og dæm-
51. ir. Sannlega, sannlega segi eg ydur: ef ad
nockurr vardveitir mitt ord, sá skal ecki ad ei-
52. lífu sjá daudann. Þá segdu Gydíngar til
hans: nú vitum vér ad þú hefir djøful; Ab-
raham er dáinn og Spámennirnir og þú seg-
ir: ef nockurr vardveitir mitt ord, sá mun ad
53. eilífu ecki smacka daudann. Ertú meiri enn
fadir vor Abraham, sem er dáinn og Spá-
mennirnir, sem eru dánir? hvílíkann gjorir þú
54. sjálfann þig? Jesús svaradi: ef ad eg veg-
samadi sjálfann mig, væri mín vegsemd eckert.
Fadirinn, sem þér kallid ydar Gud, hann er
55. sá, sem vegsamar mig; og þér þeckid hann
ecki, en eg þecki hann og ef eg segdi: eg þecki
hann ecki, þá væri eg lygari eins og þér; en
56. eg þecki hann og geymi hans ord. Abraham
ydar fadir gladdist í þeirri von, ad hann sæi
57. minn dag og hann sá hann og gladdist. Þá
segdu Gydíngar til hans: þú ert enn ecki fim-

fugur og þú hefir sjed Abraham? Jesús sagdi 58.
til þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur: ád-
ur enn Abraham vard til, var eg. Þeir tóku 59.
þá upp steina til ad kasta á hann, en Jesús
faldi sig og fór út úr musterinu.

Jesús gjörir þann sjáandi, sem var fæddur 9. Kap.
blindur.

Og á leidinni þadan sá hann mann, sem var 1.
borinn blindur og hans Lærisveinar spurdu 2.
hann og segdu: Meistari! hverr hefir syndgad,
þessi, edur hans foreldrar, ad hann fæddist
blindur? Jesús svaradi: hverki syndgadi þessi 3.
né hans foreldrar, heldur er þetta skéd, svo ad
Guds verk verdi á honum opinber. Mér ber 4.
ad vinna verk þess, er mig sendi, medan dag-
ur er; nóttin kémur, þá enginn gétur unnid.
Medan eg em í heiminum, er eg heimsins 5.
ljós. Þá hann hafdi þetta sagt, hrækti hann 6.
á jördina, gjördi ledju úr hrákanum og reyd
henni á augu hins blinda; og hann sagdi til 7.
hans: fardu og þvodu af þér í laudinni Síló-
am (en Síloam þýdir: sendur); þá fór hañ
og þvodi sér og kom aptur heilskygn. Þá 8.
sögdu nágrannarnir og þeir, sem höfdu sjed
hann ádur, því hann var ölmusu madur: er
þessi ecki sá, sem setid hefir og bedid ölmusu?
nockrir sögdu: þessi er madurinn; en adrir: 9.
hann er honum líkur. Hann sagdi: eg em sá
hinn sami. Þá sögdu þeir til hans: hvernig 10.
féckstu sjónina? Hann svaradi og sagdi: mad- 11.

V. 59. Lúk 4, 30. V. 3. Lúk. 13, 2. 4.

ur nockurr, sem heitir Jesús, gjordi ledju og
reyd á mín augu og sagdi vid mig: farðú til
Síloam og þvodú þér. En er eg var þáng-
ad kominn og hafdi þvegid mér, fèck eg sjón-
12. ina. Þá sögdu þeir til hans: hvar er hann?
13 hann svaradi: eg veit ecki. Þeir leiddu þá
þann, sem ádur hafdi blindur verid, til Pha-
14. rísæanna — en þá var Sabbaths-dagur, er
Jesús bjó til ledjuna og upplauk hans augum—
15. Þá spurdu og Pharísæarnir hann aptur:
hvernig hann hefdi fengid sjónina; en hann
sagdi til þeirra: hann lagdi ledju vid augu
16. mín, eg þvodi mér og eg sje. Þá sögdu
nockrir af Pharísæunum: þessi madur er ecki
frá Gudi, fyrst hann heldur ecki Sabbaths-dag-
inn. Adrir sögdu: hvernig getur syndari gjört
17. þvílík teikn? og þá greindi á innbyrdis. Þeir
segja aptur til hins blinda: hvad segir þú um
hann, þared hann upplauk þínum augum? en
18. hann sagdi: hann er Spámadur. En Gyd-
íngar trúdu því ecki ad madurinn hefdi verid
blindur og væri ordinn heilskygn, fyrr enn þeir
kölludu foreldra þess, sem hafdi fengid sjónina,
19. og þeir spurdu þá og sögdu: er þessi, sem þér
segid hafi verid fæddur blindur, yckar sonur?
20. hvernig er hann nú ordinn sjáandi? Hans
foreldrar svörudu þeim og sögdu: vid vitum
ad þessi madur er ockar sonur og ad hann fædd-
21. ist blindur. En hvernig hann hefir fengid
sjónina vitum vid ecki, og hverr hans augun
hefir uppklokid, þad vitum vid ecki heldur; hann
sjálfur er fulltída madur, spyrjid hann sjálf-
22. ann. Þetta sögdu foreldrar hans vegna þess

þeir ættuðust Gyðínga, af því nú höfðu Gyð-
íngar samið með sér, að ef nockurr maður við-
urkénndi að hann væri Kristur, skyldi sá hinn
sami rekast úr samkundunni. Þess vegna sögðu 23.
hans foreldrar: hann er fulltíða, spyrjið hann
sjálfann. Þá kölludu þeir fyrir aptur þann 24.
mann, sem hafði verið blindur og sögðu til
hans: géf þú Gudi dýrdina*); vér vitum að
þessi maður er syndari. Þá svaradi hann og 25.
sagði: hvert hann er syndari veit eg ecki; eitt
veit eg, að eg, sem var blindur, hefi nú sjón-
ina. En þeir sögdu til hans aptur: hvað 26.
gjerði hann við þig? hvernig lauk hann upp
þínum augum? Hann svaradi þeim: eg hefi 27.
þegar sagt yður það, og þér gáfuð því ecki
gaum, hvers vegna viljið þér heyra það apt-
ur? viljið þér og verða hans Lærisveinar?
Þá atyrdtu þeir hann og sögðu: þú ert hans 28.
Lærisveinn, en vér erum Móses Lærisveinar.
Vér vitum að Gud hefir talað við Móses, en 29.
um þennann vitum vér ecki hvaðan hann er.
Maðurinn svaradi og sagði þeim: það er undar- 30.
legt að þér vitið ecki hvaðan hañ er og hann lauk
upp mínum augum. Vér vitum þó að Gud 31.
heyrir ecki syndara, en ef nockurr er gudræk-
inn og gjörir hans vilja, þann heyrir hann.
Aldrei hefir það heyrst, að nockurr hafi opnað 32.
augu þess, sem var fæddur blindur. Væri 33.
þessi ecki frá Gudi, þá gæti hann eckert því-
líkt gjört. Þá svörudu þeir og sögðu til hans: 34.

*) Að géfa Gudi dýrdina, er að bera vyrdíngu fyrir Guddóminum, og var sú hugvekja opt géfin þeim, er skyldu vitna fyrir Rétti Jós. 7, 19.

þú ert allur fæddur í synd og þú kénnir oss?
35. og þeir ráku hann út. Jesús heyrdi ad þeir
hefdu rekid hann út og er hann fann hann,
sagdi Jesús vid hann: trúir þú á Guds Son?
36. Hann svaradi og sagdi: hverr er sá, Herra!
37. ad eg géti á hann trúad? en Jesús sagdi til
hans: bædi hefir þú séd hann og sá, sem vid
38. þig talar, hann er sá hinn sami. En hann
sagdi: eg trúi, Herra! og féll fram fyrir hon-
39. um. Og Jesús sagdi: til dóms er eg kom-
inn í þenna heim, ad þeir, sem ecki sjá verdi
40. sjáandi og þeir, sem sjá verdi blindir. Þetta
heyrdu þeir af Pharísæum, sem hjá honum
vóru og sögdu vid hann: erum vér þá og
41. blindir? Jesús sagdi til þeirra: ef ad þér
værud blindir, hefdud þér ecki synd; en nú seg-
id þér: vér sjáum, þar fyrir vidvarir ydar
synd.

10. Kap. I.) Jesús kallar sig dyr á saudahúsi og hirdir 1—21. II.) á tal vid Gydinga á Vígslu-hátidinni 22—42.

1. Sannlega, sannlega segi eg ydur: hverr, sem
ecki gengur um dyrnar inn í sauda-húsid, held-
ur fer inn annarstadar, sá er þjófur og ræn-
2. íngi. En sá, sem gengur inn um dyrnar, sá
3. er hirdir saudanna; dyra-vördurinn lýkur upp
fyrir honum og saudirnir þeckja hans raust og
hann kallar sína saudi med nafni og fer út
4. med þá. Og eptir ad hann hefir látid út sína
saudi, gengur hann fyrir þeim og saudirnir

Þ 39. Matth. 13, 13.

fylgja honum, af því þeir þeckja hans raust;
en ókunnugum fylgja þeir ecki, heldur hlaupa 5.
frá honum, af því þeir þeckja ecki ókunnugra
raust. Þessa eptirlíkíngu sagdi Jesús til þeirra, 6.
en þeir skildu ecki hvad þad var, sem hann
taladi til þeirra. Þessvegna sagdi Jesús apt- 7.
ur til þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur:
eg em dyr saudanna. Allir, sem komu á und- 8.
an mér eru þjófar og ræníngjar, en saudirnir
gégndu þeim ecki. Eg em dyrnar, ef nockurr 9.
gengur inn um mig, sá mun frelsast og hann
mun gánga inn og gánga út og fá fódur.
Þjófurinn kémur ecki til annars enn ad stela, 10.
drepa og skémma. Eg em kominn til þess,
ad þeir hafi líf og nægtir. Eg em gódi hird- 11.
irinn; sá gódi hirdir géfur líf sitt út fyri saud-
ina; en leigulidinn og sá, sem ecki er hirdir 12.
og á ecki saudina, hann sjer úlfinn koma og
yfirgéfur saudina og flýr og úlfurinn grípur
þá og tvístrar saudunum, en leigulidinn flýr, 13.
af því hann er leigulidi og hirdir ecki um saud-
ina. Eg em gódi hirdirinn, eg þecki mína 14.
og mínir þeckja mig, eins og eg þecki Fodur-
inn og Fadirinn þeckir mig; og eg géf út lífid 15.
fyrir saudina. Eg hefi adra saudi, sem ecki 16.
eru af þessu sauda-húsi, þá birjar mér og ad
leida*) og þeir munu heyra mína raust og
þar mun verda ein hjørd og einn hirdir. Þess 17.
vegna elskar Fadirinn mig ad eg læt mitt líf,
svo ad eg taki þad aptur. Enginn tekur þad 18.
af mér, heldur læt eg þad sjálfviljuglega. Eg



V. 8. Jer. 23, 2. *) Sja 4 V.

hefi vald til ad láta þad og vald til ad taka
þad aptur. Þetta bodord hefi eg medtekid af
19. mínum Fødur. Af þessum ordum vard aptur
20. ágreiníngur millum Gydínga. Margir af þeim
segdu: hann hefir djøful og er ódur, hví hlýd-
21. id þér á hann? adrir segdu: þessi ord eru
ecki djøful-ódskmanns ord; mun djøfull géta
opnad augu blindra?
22. En musteris-vígslu-hátídin var haldin í
23. Jerúsalem og þá var vetur. Og Jesús var
á gángi í musterinu í forbyrgi Salómons.
24. Þá flycktust Gydíngar ad honum og segdu:
hversu lengi ætlar þú ad halda sálu vorri í
efa? ef þú ert Kristur, þá segdú oss þad ein-
25. ardlega. Jesús svaradi þeim: eg hefi sagt
ydur þad, en þér trúid ecki. Þau verk, sem
eg gjøri í míns Fødurs nafni, þau vitna um
26. mig; en þér trúid ecki, því þér erud ecki af
27. mínum saudum. Eins og eg sagda ydur,
þeckja mínir saudir mína raust og eg þecki þá
28. og þeir fylgja mér og eg géf þeim eilíft líf
og þeir skulu aldrei ad eilífu týnast, enginn
29. skal slíta þá úr minni hendi. Fadir minn,
sem hefir géfid mér þá, er meiri enn allir og
30. enginn gétur slitid þá úr hendi míns Fødurs. Eg
31. og Fadirinn vid erum eitt. Gydíngar tóku
32. þá upp aptur steina til ad grýta hann. Jesús
sagdi vid þá: mørg gódverk audsýnda eg ydur
frá mínum Fødur, fyrir hvert af þessum verk-
33. um grýtid þér mig? Gydíngar svorudu hon-
um og segdu: vér grýtum þig ecki fyrir gott

V. 22. 1 Makkab. 4, 59. V. 25. 1 Kóng, 6, 3.
V. 31. Kap. 8, 59.

verk, heldur fyrir gudlast og fyrir þad ad þú,
sem ert madur, gjørir sjálfann þig ad Gudi.
Jesús svaradi þeim: er ecki skrifad í ydar løg= 34.
um*): eg hefi sagt: þér erud Gudir. Ef 35.
hann kallar þá Gudi, til hverra Guds ord
skédi**) og Ritníngin gétur ecki raskast, megid 36.
þér þá segja vid þann, sem Fadirinn vígdi og
sendi í heiminn: þú gudlastar, af því eg sagdi:
eg em Sonur Guds. Ef eg gjøri ecki verk 37.
míns Fødurs, þá trúid mér ecki. En ef eg 38.
gjøri þau, þó þér ecki viljid trúa mér, þá
trúid samt verkunum, svo þér þeckid og sann=
færist um, ad Fadirinn er í mér og eg í Fød=
urnum. Þá leitudust þeir vid aptur ad taka 39.
hann, en hann géck þeim úr greipum og fór 40.
aptur yfir um Jórdan, til þess stadar hvar
Jóhannes fyrst skírdi***) og var þar. Og 41.
margir komu til hans og søgdu: Jóhannes
gjørdi ad sønnu eckert jarteikn, en allt hvad
Jóhannes sagdi um þennann, var satt. Og 42.
margir trúdu þar á hann.

## 11. Kap.

I.) Jesús uppvekur Lazarus 1—46. II.) Kaiphas rædur til ad deyda hann; Jesús fordar sér 47—57.



V. 34. Psálm. 82, 6. 2 Mós 22, 8. 9.
*) Allar bækur Gamla Testamentisins kølludu Gydíngar løg sín.
**) Guds ord skédi til Spámannanna, þegar þeir fengu køllun ad boda hans vilja eda brýna fyrir Gydíngunum bodord Guds í hans umbodi.
V. 39. Kap. 8, 59. ***) Kap. 1, 28.

1. Madur nockurr, ad nafni Lazarus, lá veikur,
hann var frá Bethaníu, úr þorpi Maríu og
2. Merthu systur hennar. En María var sú,
sem smurt hafdi Drottinn med smyrslum og
þerrad fætur hans med hár-lockum sínum.
3. Hennar bródir Lazarus var veikur. Þá sendu
þær systur til hans og létu segja honum:
4. Herra! sá, sem þú elskar, hann er veikur. En
er Jesús heyrdi þad, sagdi hann: þessi sótt er
ecki til dauda, heldur Gudi til dýrdar, svo ad
5. Guds Sonur vegsamist fyrir hana. En Jesús
elskadi Merthu og systur hennar og Lazarus.
6. Þegar hann heyrdi ad Lazarus væri sjúkur,
var hann ad sönnu kyrr í tvo daga á þeim
7. stad hvar hann dvaldi; en eptir þad sagdi
hann til sinna Lærisveina: vér skulum fara
8. aptur í Júdæu. Lærisveinarnir sögdu til
hans: nýlega ætludu Júdarnir ad grýta þig,
9. ætlar þú nú ad fara þángad aptur? Jesús
svaradi: eru ecki tólf stundir í deginum? gángi
madur á degi, rasar hann ecki, því hann sjer
10. ljós þessa heims; en ef hann gengur á nóttu,
11. þá rasar hann, því ljósid vantar. Þetta tal-
adi hann og eptir þad sagdi hann vid þá:
Lazarus vinur vor er sofnadur, en eg fer nú
12. til ad vekja hann. Þá sögdu hans Lærisvein-
ar: Herra! ef hann er sofnadur, þá mun hon-
13. um batna. En Jesús taladi um hans dauda,
þeir þar á móti héldu ad hann taladi um nátt-
14. úrlegann svefn; því sagdi Jesús þeim þá ber-
15. lega: Lazarus er dáinn og þad gledur mig ydar vegna, ad vér ecki vórum þar, svo ad þér

B. 10. Kap. 9, 4.

trúid! en — förum nú til hans. Þá sagdi 16.
Thómás (þad þýdir: Tvíburi) vid sína med-
lærisveina: vér skulum fara líka, svo ad vér
deyum med honum. En er Jesús kom, hafdi 17.
Lazarus þegar legid fjóra daga í grefinni. (En 18.
Bethanía var nálægt Jerúsalem, hérumbil 15
skeidrúma*) þadan) og margir Gydíngar vóru 19.
komnir til Morthu og Maríu til ad hugga
þær eptir bródur þeirra. Þegar Martha 20.
heyrdi nú ad Jesús kjæmi, fór hún móti hon-
um, en María sat heima í húsinu. Þá sagdi 21.
Martha vid Jesúm: Herra! hefdir þú verid
hér, væri bródir minn ecki dáinn. En eg veit 22.
líka nú, ad Gud muni veita þér hvad sem þú
bidur hann um. Jesús sagdi til hennar: 23.
bródir þinn mun upprísa. Martha segir til 24
hans: eg veit ad hann skal upprísa í uppris-
unni á efsta degi. Jesús sagdi til hennar: eg 25.
em upprísan og lífid, hverr, sem trúir á mig,
hann mun lifa, þótt hann deyi og hverr sá, 26.
sem lifir og trúir á mig, hann skal aldrei ad
eilífu deya. Trúir þú þessu? Hún sagdi: já, 27.
Herra! eg hefi trúad ad þú sért Kristur, sá
Guds Sonur, sem í heiminn á ad koma; og í 28.
því hún hafdi talad þetta, fór hún burt og kall-
adi hljódlega á systur sína Maríu og sagdi:
Meistarinn er hér og vill finna þig. Þegar 29.
María heyrdi þetta, stód hún upp med skyndi
og kom til hans. (En Jesús var enn ecki 30.
kominn til þorpsins, heldur var þar, sem Mar-
tha hafdi mætt honum). Þegar nú Júdarn- 31.
ir, sem vóru hjá Maríu í húsinu og huggudu

*) Skeidrúm 625 fet, 15 skeidrúm 9,375 fet.

hana, sáu ad hún géck út í skyndi, fóru þeir
eptir henni og sogdu: hún fer út ad grefinni
32. til ad gráta þar. En er María kom þáng-
ad, sem Jesús var og sá hann, féll hún hon-
um til fóta og sagdi vid hann: Herra! hefdir
þú verid hér, væri bródir minn ecki dáinn.
33. Þegar Jesús sá hana þá gráta og Júda, sem
med henni hafdu komid, gráta líka, komst hann
34. vid ákaflega og hrigdist og sagdi: hvar hafid
35. þér lagt hann? Þeir segdu til hans: Herra!
36. kom þú og sjá! Jesús grét. Þá segdu Júdarn-
37. ir: sjá! hversu hefir hann elskad hann. En
nockrir af þeim sogdu: mundi ecki sá, sem
opnadi augu hins blinda, hafa gétad gjert þad,
38. ad þessi hefdi ecki dáid? Þá komst Jesús
aptur innilega vid og kom til grafarinnar; en
39. hún var hellir og steinn fyrir framan. Jesús
sagdi: takid steininn frá! Martha, systir ens
framlidna, segir til hans: Herra! þad er nú
þegar ná-lykt af honum, því hann er fjogra
40. nátta. Jesús sagdi til hennar: sagdi eg þér
ecki: ad ef þú trýdir, mundir þú sjá Guds
41. dýrd. Þeir tóku þá steininn burt, en Jesús
hóf upp sín augu og sagdi: Fadir! eg þacka
42. þér, ad þú hefir bænheyrt mig. Eg vissi ad
þú ávalt heyrir mig, en vegna mannfjoldans,
sem hér er samankominn, taladi eg, svo þeir
43. skyldu trúa því, ad þú hafir sendt mig. Og
þegar hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hárri
44. roddu: Lazarus! kom þú út! og sá daudi kom
út vafinn líkblæum á hendum og fótum og um
andlit hans var sveita-dúkurinn. Jesús sagdi
til þeirra: leysid hann og látid hann fara.

Vegna þessa trúðu margir á hann af Gyð- 45.
íngum, sem komnir vóru til Maríu og sjeð
hefðu það, sem Jesús gjörði, en nockrir af 46.
þeim gengu til Pharísæanna og sögðu þeim
hvað Jesús hefði gjört.
Því sefnuðu þeir æðstu Prestar og Pharí- 47.
sæar Ráðinu og sögðu: hvað egum vér að
gjöra? því þessi maður gjörir mörg jarteikn.
Ef vér sleppum honum svona, munu allir trúa 48.
á hann og svo koma Rómverjar og taka vort
land og borg. En einn af þeim, Kaiphas, 49.
þess árs æðsti Prestur, sagði þeim: þér vitið 50.
eckert og hugleiðið ecki, að það er betra að
einn maður deyi fyrir fólkið, svo ecki fyrifarist
öll þjóðin. En þetta talaði hann ecki af sjálf- 51.
um sér, heldur spáði hann, af því hann var
æðsti Prestur það árið, að Jesús mundi deya
fyrir þjóðina, og ecki einúngis fyrir þjóðina, 52.
heldur og til þess að hann safnaði í eitt þeim
sundurtvístrudu börnum Guðs. Upp frá þess- 53.
um degi ráðguðust þeir því um, að þeir skyldu
lífláta hann. Þess vegna géck Jesús ecki fram- 54.
ar um berlega meðal Gyðínga, heldur fór hañ
þaðan í það hérað, sem liggur í nánd við
eyðimörkina, til þeirrar borgar, sem heitir
Ephraím og var þar nockurn tíma með sínum
Lærisveinum. En nálægir vóru Páskar Gyð- 55.
ínga og margir fóru úr héraðinu til Jerúsalem
fyrir Páskana að hreinsa sig. Þá leituðu þeir 56.
að Jesú og sögðu hverr við annann þar, sem
þeir stóðu í musterinu: hvað sýnist yður, að
hann kémur ecki til hátíðarinnar? En Höfuð- 57.
prestarnir og Pharísæarnir höfðu géfið það

bodord: ad ef nockurr vissi hvar hann væri, skyldi hann segja til, svo þeir gætu handtekid hann.

12. Kap. I.) Jesú smurning 1—8. II.) Innreid til Jerúsalem 9—19. III.) Grickjar vilja siá hann 20—50.

1. En sex dogum fyrir Páska kom Jesús til
Bethaníu, hvar Lazarus var, sá, sem hafdi
dáid og sem Jesús hafdi vakid upp frá daud=
2. um. Þá gjördu þeir honum þar qvöld=verd
og Martha géck fyrir bordum, en Lazarus var
einn af þeim, sem sátu til bords med honum.
3. Þá tók María pund af ómeingudum og dýr=
mætum Nardus=smyrslum og smurdi Jesú fæt=
ur og þerradi med sínum hár=lockum hans fæt=
4. ur, en húsid fylltist af ilm smyrslanna. Þá
sagdi einn af hans Lærisveinum, Júdas Sí=
monsson frá Karíoth, sem sídan sveik hann:
5. hví eru þessi smyrsli ecki seld fyrir þrjúhundr=
6. ud peninga og géfin fátækum. En þetta sagdi
hann ecki af því honum væri annt um fátæka,
heldur af því ad hann var þjófur — hann
hafdi fépýngjuna og bar þad, sem í hana var
7. lagt. — Þá sagdi Jesús: láttú hana vera!
þetta geymdi hún til míns greftrunar dags;
8. þvíad fátæka hafid þér ætíd hjá ydur, en mig
ecki.
9. Þá féck mikill fjöldi af Gydíngum ad vita
ad hann væri þar, og þeir komu ecki einúngis
vegna Jesú, heldur og til ad sjá Lazarus,
10. hvern hann hafdi uppvakid frá daudum. En

ædstu Prestarnir rádguduſt um ad deyda Laz-
arus; því hans vegna fóru þángad margir 11.
Gydíngar og trúdu á Jesúm. Daginn eptir, 12.
þegar sá mikli fjøldi, sem kominn var til há-
tídarinnar, heyrdi ad Jesús kjæmi til Jerú-
salem, tóku þeir pálma-vidar greinir og gengu 13.
á móti honum og hrópudu: Hósanna! blessad-
ur sé sá, sem kémur í nafni Drottins, Israels
Konúngurinn! En Jesús féck sér úngann asna 14.
og settist uppá hann, eins og skrifad er: "ótt- 15.
aſt ecki, Zíons dóttir! sjá! þinn Konúngur
kémur rídandi á asnu fola." Þetta skildu ecki 16.
hans Lærisveinar í fyrstunni, heldur minntuſt
þeir þess, þá Jesús var vegsamlegur ordinn,
ad þetta var skrifad um hann og ad þetta
høfdu þeir vid hann gjørt. En fólksfjøldinn, 17.
sem med honum var, vitnadi: ad hann hefdi
kallad Lazarus úr grøfinni og uppvakid hann
frá daudum. Vegna þess géck og múgurinn 18.
honum á móti, því menn høfdu heyrt ad hann
hefdi gjørt þetta jarteikn. Þá søgdu Pharí- 19.
sæarnir hverr vid annann: þér sjáid ad þér
komid engu til vegar. Sjá! allur lýdurinn
hleypur eptir honum.

En þar vóru nockrir Grickjar af þeim, 20.
sem komnir vóru til ad bidjaſt fyrir á hátíd-
inni; þessir gengu til Philippusar, sem var frá 21.
Bethsaída í Galílæu og bádu hann og søgdu:
Herra! vér viljum sjá Jesúm. Philippus fór 22.
og sagdi Andrési, en Andrés og Philippus
søgdu aptur Jesú. En Jesús svaradi þeim 23.

V. 13. Matth. 21, 9.
V. 15. Es. 62, 6—11. Zach. 9, 9.

og sagdi: tíminn er kominn ad Mannsins Són-
24. ur vegsemist. Sannlega, segi eg ydur: deyi
ecki hveiti-kornid, sem sellur í jördina, verdur
þad ófrjóssamt, en deyi þad, ber þad mikinn
25. ávöxt. Sá, sem elskar sitt líf, hann mun
missa þad og sá, sem metur lítils sitt líf í
þessum heimi, hann mun vardveita þad til ei-
26. lífs lífs. Ef nockurr þjónar mér, sá fylgi mér
og hvar sem eg er, þar mun og minn þjón
vera og þann, sem mér þjónar, mun Fadirinn
27. heidra. Nú er mín sál óróleg og hvad skal
eg segja? Fadir! frelsa þú mig frá þessari
mædu-stundu, en til þess em eg kominn, ad
28. þessi stund komi yfir mig. Fadir! gjör nafn
þitt vegsamlegt. Þá kom rödd af himni: eg
hefi gjört þad vegsamlegt og mun aptur gjöra
29. þad vegsamlegt. Þá sagdi fólkid, sem stód og
heyrdi: þar géck þruma. Adrir segdu: engill
30. taladi vid hann. Jesús svaradi og sagdi: ecki
31. mín, heldur ydar vegna skédi rödd þessi. Nú
gengur dómur yfir þennann heim, nú mun
32. höfdíngi þessa heims verda útrekinn og þegar
eg verd hafinn frá jördu, mun eg draga alla
33. til mín. En þetta sagdi hann til ad benda
34. til hvada daud-daga hann mundi deya. Mann-
fjöldinn svaradi honum: vér höfum heyrt í
Ritníngunni, ad Kristur verdi til eilífdar og
hverninn segir þú þá, ad Mannsins Sonur
egi ad verda hafinn upp? hverr er sá Manns-
35. ins Sonur? Þá sagdi Jesús til þeirra: stutta
stund verdur ljósid hér eptir medal ydar; gángid

V. 25. Matth. 10, 39. V. 32 Kap. 3, 14.
V. 34. 2 Sam 7, 13. Dan. 7, 14. 27.

meðan þér hafið ljósið, svo myrkrið yfirfalli
ydur ecki; sá, sem gengur í myrkri, veit ecki
hvert hann gengur. Trúið á ljósið, meðan 36.
þér hafið ljósið, svo að þér verðið ljóssins syn-
ir. Þetta talaði Jesús og fór burt og fól sig
fyrir þeim. En þótt hann hefði gjört svo 37.
mörg teikn fyrir þeirra augum, trúðu þeir ecki
á hann; svo að það orð Esajasar Spámanns 38.
rætist, sem hann hafði talað: "Drottinn!
hver trúir vorri prédikun og hverjum verður
sýnilegur Drottins armleggur?" Þess vegna 39.
gátu þeir ecki trúað, því Esajas segir á öðrum
stað: "hann hefir blindað þeirra augu og for- 40.
herdt þeirra hjörtu, svo þeir sjái ecki með aug-
unum og skilji ecki með hjartanu og umvendi
sér, svo að eg géti læknað þá." Þetta sagði 41.
Esajas af því hann sá hans dýrð og talaði
um hann. En þó trúðu margir einnig af höfð- 42.
íngjunum á hann, en vegna Pharísæanna með-
kénndust þeir það ecki, svo þeir yrðu ecki sam-
kundu-rækir; því þeir elskuðu heiður af mönn- 43.
um meira enn heiður af Guði. En Jesús 44.
kallaði og sagði: sá, sem trúir á mig, hann
trúir ecki á mig, heldur á þann, sem mig sendi
og sá, sem sjer mig, hann sjer þann, sem mig 45.
sendi. Eg kom ljós í heiminn, svo að hverr, 46.
sem á mig trúir, sé ecki í myrkrinu; og þó 47.
einhverr heyri mín orð og trúi ecki, þá dæmi
eg hann samt ecki, því eg em ecki kominn til
að dæma, heldur til að frelsa heiminn. Sá, 48.
sem forsmáir mig og meðtekur ecki mín orð,

V. 38. Es. 53, 1. V. 40. Es. 6, 10. Matth. 13, 14.
V. 41. Es. 6, 1 og fylgjandi.

hefir þann, sem dæmir hann; það orðið, sem
eg hefi talað, mun dæma hann á efsta degi;
49. því eg hefi ecki talað af sjálfum mér, heldur
hefir Faðirinn, sem mig sendi, gefið mér boð-
orð um það, hvað eg skyldi segja og hvað eg
50. skyldi tala. Og eg veit að hans boðorð er
eilíft líf; það, sem eg þar fyrir tala, það
tala eg eins og Faðirinn hefir mér sagt.

13. Kap. I.) Jesús þvær fætur Lærisveinanna 1—11.
II.) talar um andmókt og þann, sem
mundi svíkja sig; um innbyrðis kjær-
leika; Péturs afneitun 12—38.

1. Þetta skéði fyrir Páska hátíðina. Jesús
vissi að hans stund var komin, að hann færi
úr heiminum til Föðursins; en hann elskaði
sína, sem vóru í heiminum og elskaði þá til
2. enda. Nú birjaði qvøld-máltíðin. Þá hafði
djøfullinn þegar skotið í hjarta Júdasar Sí-
3. monarsonar frá Karióth, að svíkja hann. Þar
eð Jesús vissi, að Faðirinn hafði gefið allt
honum í hendur og að hann var kominn frá
4. Guði og færi til Guðs, stóð hann upp frá
qveldmáltíðinni, lagði af sér klæðin, tók líndúk
5. og girdtist honum. Eptir það hellti hann
vatni í mundlaug og tók að þvo fætur Læri-
sveinauna og þerra með líndúk þeim, hverjum
6. hann var girdtur. Þá hann kom að Símoni
Pétri, sagði þessi til hans: skyldir þú, Herra!
7. þvo mína fætur? Jesús svaraði og sagði: þú
skilur ecki nú það, sem eg gjøri, en þú munt
8. vita það hér eptir. Pétur svaraði: aldrei til

eilífdar skaltú þvo mína fætur. Jesús svaradi:
ef eg fæ ecki ad þvo þig, erum vid skildir ad skipt-
um. Símon Pétur sagdi þá til hans: Herra! 9.
ecki einúngis fæturnar, heldur einnig hendur og
hefud. Jesús sagdi til hans: sá, sem þveginn 10.
er, þarf ecki ad þvoſt nema á fótum, því hann
er allur hreinn annarstadar og þér erud hrein- 11.
ir, en ecki allir; því hann þeckti þann, sem
sídan sveik hann, þar fyrir sagdi hann: þér
erud ecki allir hreinir.

Þegar hann nú var búinn ad þvo þeirra 12.
fætur og hafdi tekid klædi sín, settist hann apt-
ur til bords og sagdi vid þá: skiljid þér hvad
eg hefi gjort vid ydur? Þér kallid mig Meist- 13.
ara og Herra og þad er rétt, því eg em þad.
Ef ad eg þá, Meistarinn og Herrann, hefi 14.
þvegid ydar fætur, egid þér og ad þvo hverr
annars fætur; því eg gaf ydur eptirdæmi, svo 15.
ad þér breytid eins og eg breytti vid ydur.
Eg segi ydur þad satt: ad þjóninn er ecki 16.
meiri enn húsbóndinn; sá, sem sendur er, hann
er ecki meiri enn sá, sem sendi hann. Ef þér 17.
skiljid þetta, þá erud þér sælir, ef þér breytid
svo. Eg tala ecki um ydur alla, eg þecki þá, 18.
sem eg hefi útvalid, en Ritníngin verdur ad
rætast: sá, sem etur braud med mér, hefir lypt
upp hælnum á móti mér. Hédanaf segi eg 19.
ydur þad, ádur enn þad skédur, svo þegar þad
er framkomid, ad þér þá trúid ad eg em*).
Sannlega segi eg ydur: hverr, sem medtekur 20.
þann, sem eg sendi, sá medtekur mig, en sá,
sem medtekur mig, hann medtekur þann, sem

V. 18. Psálm. 41, 10. *) Sá fyrirheitni.

21. sendi mig. Þegar Jesús taladi þetta, komst
hann mjøg víd, vottadi og sagdi: sannlega segi eg
22. ydur, einn af ydur mun svíkja mig. Þá
litu Lærisveinarnir hverr uppá annann og vissu
23. ecki um hvern hann taladi. En þar var einn
af hans Læcisveinum, sem sat til bords nærst
24. Jesú, sá, sem Jesús elskadi. Símon Pétur
bendti þessum, ad hann skyldi spyrja ad hverr
25. sá væri, er Jesús taladi um. Hann halladi
sér upp ad Jesú brjósti og sagdi vid hann:
26. Herra! hverr er þad? Jesús svaradi: sá er
þad, er eg mun gésa þann bita, er eg nú
dýsi í; þá dýsdi hann í bitanum og rétti ad
27 Júdasi Símonarsyni frá Karíoth. Og eptir
þann bita fór Satan í hann. Þá sagdi
Jesús til hans: hvad þú gjerir, þad gjør þú
28. skjótt. En enginn af þeim, sem til bordsins
sátu vissi í hverju skini hann sagdi þetta;
29. því sumir héldu, af því Júdas hafdi pýngjuna,
ad Jesús hefdi sagt honum: kaup þú þad,
sem vid þurfum til hátídarinnar, ellegar, ad
30. hann skyldi géfa eitthvad fátækum. Þegar Júdas
hafdi medtekid bitann, géck hann strax út,
31. en þá var nótt. Þegar hann var genginn út,
sagdi Jesús: nú er Mannsins Sonur dýrdlegur
ordinn og Gud er fyrir hann dýrdlegur
32. ordinn. Ef ad Gud verdur dýrdlegur fyrir
hann, mun Gud sjálfur gjøra hann dýrdlegann
og nú strax mun hann gjøra hann dýrdlegann.
33. Kjæru born! eg verd nú hédan af skamma
stund hjá ydur; þér munud leita mín og eins
og eg sagdi Gydíngum, segi eg ydur nú: þér

V. 33. Kap. 7, 34. Kap. 8, 21.

gétid ecki komist þángad, sem eg fer. Eg géf 34.
ydur nýtt bodord, ad þér elskid hvert annann;
eins og eg elskadi ydur ad þér elskid hvert annann.
Af því munu allir sjá, ad þér erud mínir Læri- 35.
sveinar, ef ad þér elskist innbyrdis. Símon Pét- 36.
ur ansadi honum: Herra! hvert ætlar þú ad
fara? Jesús svaradi honum: þángad, sem eg fer,
gétur þú ecki fylgt mér nú; en seinna meir muntú
fylgja mér. Pétur sagdi til hans: Herra! hvers 37.
vegna gét eg ecki fylgt þér nú strax? eg vil
voga lífi mínu fyrir þig. Jesús svaradi hon- 38.
um: muntú þá voga lífi þínu fyrir mig? sann-
lega, sannlega segi eg þér: haninn mun ecki
gala fyrri enn þú verdur búinn ad afneita mér
þrisvar.

Jesús talar um sína burtfor, bænina, heilagann Anda. 14. Kap.

Látid ecki ydar hjarta skélfast; trúid á Gud 1.
og trúid á mig. Í míns Fodurs húsi eru 2.
mørg hýbýli; væri ecki svo, hefdi eg sagt ydur:
eg fer burt ad tilreida ydur stad og þegar eg 3.
er burtfarinn og hefi tilbúid ydur bústad, þá
mun eg koma aptur og taka ydur til mín, svo
ad þér séud þar, sem eg er. Þér vitid hvert 4.
eg fer og þeckid veginn. Thómas segir til 5.
hans: Herra! ecki vitum vér hvert þú fer og
hvernig gétum vér þá þeckt veginn? Jesús 6.
ansadi honum: eg em vegurinn og sannleikur-
inn og lífid, enginn kémur til Fodursins, nema
fyrir mig. Ef þér hefdud þeckt mig, þá hefd- 7.
ud þér og þeckt Fodurinn og hédan í frá þeck-

8. id þér hann og hafid séd hann. Philippus
sagdi til hans: Herra! sýndú oss Fødurinn og
9. þá nægir oss. Jesús svaradi honum: svo
lengi hefi eg verid hjá ydur og þú, Philippus!
ert ecki enn búinn ad þeckja mig? sá, sem hef-
ir séd mig, hefir séd Fødurinn og hvernig
10. segir þú: sýndú oss Fødurinn? Trúir þú ecki
ad eg em í Fødurnum og Fadirinn í mér?
Þau ord, sem eg tala til ydar, þau tala eg ecki
af sjálfum mér; en Fadirinn, sem í mér er,
11. hann gjørir verkin. Trúid mér, ad eg er í Fød-
urnum og Fadirinn í mér; en ef ecki, þá trú-
12. id mér vegna verkanna. Sannlega, sannlega
segi eg ydur: sá, sem trúir á mig og svo hann
mun gjøra þau verk, sem eg gjøri og hann
13. mun gjøra meiri verk enn þessi; því eg fer
til míns Føðurs; og hvers, sem þér bidjid í
mínu nafni, þad mun eg veita, svo ad Fadir-
14. inn vegsamist fyrir Soninn. Ef ad þér bid-
jid einhvers í mínu nafni, mun eg veita þad.
15. Ef ad þér elskid mig, þá haldid þér mín bod-
16. ord. Og eg skal bidja Fødurinn og hann mun
géfa ydur annann Meistara, svo ad hann sé
17. hjá ydur eilíflega, sannleiksins anda, sem heim-
urinn gétur ecki medtekid, því hann sjer hann
ecki og þeckir hann ecki, en þér þeckid hann
því hann stadnæmist hjá ydur og mun vera í
18. ydur. Eg skil ydur ecki eptir munadarlausa;
19. eg mun koma til ydar; innan skamms mun
heimurinn ecki sjá mig framar, en þér munud
20. sjá mig, því eg lifi og þér munud lifa. Á
þeim degi munud þér þeckja ad eg er í mín-

um Fødur og þér í mér og eg í ydur*). Sá, 21.
sem hefir mín bodord og heldur þau, hann
elskar mig. En Fadir minn mun elska þann,
sem elskar mig og eg mun elska hann og sýna
mig honum. Júdas sagdi þá vid hann (en 22.
þad var ecki Júdas frá Karíoth): Herra!
hvad kémur til þess, ad þú ætlar ad sýna þig
ockur, en ecki heiminum**)? Jesús svaradi hon- 23.
um og sagdi: sá, sem elskar mig, hann mun
vardveita mitt ord og Fadir minn mun elska
hann og til hans munum vid koma og taka oss
bólfestu hjá honum. Sá, sem ecki elskar mig, 24.
hann vardveitir ecki mín ord og þad ord, sem
þér heyrid, er ecki mitt, heldur Fødursins þess,
sem mig sendi. Þetta hefi eg talad vid ydur 25.
medan eg var hjá ydur; en Læremeistarinn, sá 26.
heilagi Andi, sem Fadirinn mun senda í mínu
nafni, hann mun kénna ydur allt og minna
ydur á allt, sem eg hefi talad vid ydur. Frid 27.
sendi eg ydur, minn frid géf eg ydur, ecki eins
og heimurinn géfur géf eg ydur. Látid ydar
hjarta hvorki skélfast né hrædast; þér heyrdud 28.
ad eg sagdi ydur: eg fer burt og kém til ydar
aptur; ef þér elskudud mig, þá gleddust þér
af því, ad eg fer til Fødursins, því Fadirinn
er mér meiri. Og nú hefi eg sagt ydur þad, 29.
ádur enn þad skédur, svo ad þér trúid því,
þegar þad skédur. Hér eptir mun eg ecki 30.



*) Ad Fadirinn, Sonurinn og Lærisveinarnir séu elskunnar bandi sameinadir.

**) Þad er: þeim, sem ecki vildu adhyllast hans lærdóm.

tala margt vid ydur, þvíad hofdíngi þessa
31. heims mun koma og mig hatar hann. En svo
ad heimurinn viti ad eg elska Fedurinn og ad eg
gjöri eins og Fadirinn hefir mér bodid, þá
standid upp, látum oss fara hédan.

15. Kap. Jesú skilnadar ræda er í eptirfylgjandi þrem-
ur Kapítulum.

1. Eg em hinn sanni vínvidur og Fadir minn er
2. vínyrkju-madurinn; hverja þá grein á mér,
sem ecki ber ávöxt, afsnídur hann, en hreinsar
sérhverja skjóssama, svo ad hún beri meiri á-
3. vöxt. Nú þegar erud þér hreinir fyrir þad
4. ord, sem eg hefi talad til ydar. Verid mér
áfastir, svo ad eg sé med ydur. Eins og vid-
ar-greinin getur ecki borid ávöxt af sjálfri sér,
nema hún sé fest á vínvidnum, þannig ecki
5. heldur þér, nema þér séud mér áfastir. Eg
em vínvidurinn, þér erud greinirnar; sá, sem
er mér áfastur og eg er med, hann ber mikinn
6. ávöxt, því án mín megnid þér eckért. Sá,
sem ecki er gródursettur á mér, honum verdur
snarad út eins og afqvisti og visnar upp; menn
safna því saman og kasta því á eld og þad
7. brennur. Ef ad þér haldid ydur ad mér og
mín ord hafa stad hjá ydur, þá megid þér bid-
ja hvers þér viljid og þad mun ydur veitast.
8. Med því vegsamast Fadir minn ad þér berid
mikinn ávöxt og þér verdid mínir Lærisveinar.
9. Eins og Fadirinn hefir elskad mig og eg hefi
elskad ydur, svo verid stadfastir í elskunni til
10. mín. Ef ad þér haldid mín bodord, þá mun-

ad þér halda minni elſku, eins og eg héldt bod-
ord míns Födurs og held hans elſku. Þetta 11.
hefi eg talad til ydar, ſvo ad minn fegnudur
verdi hjá ydur varanlegur og fegnudur ydar
fullkominn. Þad er mitt bodord ad þér elſk- 12.
id hverr annann eins og eg hefi elſkad ydur.
Meiri elſku hefir enginn enn þá, ad madur láti 13.
líf ſitt fyrir ſína vini. Þér erud mínir vinir, 14.
ef þér gjörid þad, ſem eg hefi bodid ydur.
Eg kalla ydur ecki hédanaf mína þjóna, því 15.
þjóninn veit ecki hvad hans Herra gjörir; en
eg hefi kallad ydur vini, því allt þad, ſem eg
hefi heyrt af mínum Födur, þad hefi eg kunn-
gjört ydur. Þér hafid ecki útvalid mig, held- 16.
ur hefi eg útvalid ydur og ſett ydur til þeſs,
ad þér farid og berid ávöxt og ydar ávöxtur
verdi varanlegur; ſvo ad hvers þér bidjid Fød-
urinn í mínu nafni, þad veiti hann ydur. Þad 17.
býd eg ydur ad þér elſkid hverr annann. Ef 18.
heimurinn hatar ydur, þá vitid ad hann hefir
hatad mig fyrri enn ydur. Ef þér værud af 19.
heiminum, þá mundi heimurinn líklega elſka
ſitt egid; en af því þér erud ecki af heimin-
um, þótt eg hafi ydur útvalid af heiminum,
þá hatar heimurinn ydur. Munid til þeſs, er 20.
eg ſagdi ydur: þjóninn er ecki meiri enn húſs-
bóndinn. Hafi þeir offókt mig, þá munu þeir
offækja ydur; hafi þeir ſett útá mína kéñingu,
þá munu þeir eins ſetja út á ydar. En allt 21.
þetta munu þeir gjöra ydur vegna míns nafns,
af því þeir þeckja ecki þann, ſem ſendi mig.
Hefdi eg ecki komid og talad til þeirra, þá 22.

hefdu þeir ecki synd, en nú hafa þeir enga af-
23. botun synd sinni. Sá, sem hatar mig, sá hat-
24. ar og minn Fødur. Ef eg hefdi ecki gjørt þau
verk á medal þeirra, sem enginn annar hefdi
gjørt, þá hefdu þeir ecki synd; en nú hafa þeir
sjed þau og hafa bædi hatad mig og Fødur
25. minn. En grein þessi í þeirra helgu bókum
26. rætist: "þeir hotudu mig án saka." En þeg-
ar Frædarinn kémur, sem eg mun senda ydur
frá Fødurnum, sá sannleikssins andi, sem kém-
ur frá Fødurnum, hann mun vitna um mig;
27. en þér munud og vitna um mig, því þér haf-
id frá upphafi med mér verid.

## 16. Kap.

1. Þetta segi eg ydur svo ad þér hneixlist ecki;
2. þeir munu gjøra ydur samkundu-ræka; já, sá
tími mun koma ad hverr, sem líflætur ydur,
3. mun þykjast gjøra Gudi þægt verk og þetta
munu þeir gjøra, af því þeir þeckja hverki
4. Fødurinn né mig. En þetta segi eg ydur svo
ad þér minnist þess, þegar ad því kémur, ad
eg sagdi ydur þad; en eg sagdi ydur þad ecki
5. í upphafi, því eg var med ydur. En nú fer
eg til hans, sem mig sendi og enginn af ydur
6. spyr mig: hvert fer þú? heldur hefir hrigd
uppfyllt ydar hjarta, af því eg taladi þetta.
7. En eg segi ydur sannleikann: þad er ydur til
góds ad eg fari hédan; því fari eg ecki, mun
Frædarinn ecki koma til ydar, en þegar eg er
8. farinn, mun eg senda hann til ydar. Og þeg-

V. 25. Psálm. 35, 19.

ar hann kémur, mun hann sannfæra heiminn
um synd og um réttlæti og um dóm. Um 9.
synd, af því þeir trúa ecki á mig; en um 10.
réttlæti, af því eg fer til Födursins og þér
sjáid mig ecki lengur; en um dóm, af því hefd- 11.
íngi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn 12.
margt ad segja ydur, en þér erud ecki medtæki-
legir fyrir þad ad sinni; en þegar hann, sá 13.
Sannleiks Andi kémur, mun hann leida ydur í
allann sannleika, því hann mun ecki tala af
sjálfum sér, heldur mun hann tala þad, sem
hann heyrir og kunngjöra ydur þad ókomna.
Hann mun vegsama mig, því af mínu mun 14.
hann taka og kunngjöra ydur. Allt þad, sem 15.
Fadirinn hefir, þad er mitt, því sagda eg, ad
hann mundi af mínu taka og kunngjöra ydur.
Stutta stund munud þér ecki sjá mig og stutta 16.
stund munud þér sjá mig aptur, því eg fer til
Födursins. Þá sögdu nockrir af hans Læri- 17
sveinum hverr vid annann: hvad er þetta, sem
hann segir: stutta stund munud þér ecki sjá
mig og svo munud þér sjá mig stutta stund
aptur; og þetta: eg fer til Födursins? Þeir 18.
sögdu því: hvad er þetta, sem hann segir:
stutta stund? vér skiljum ecki þad, sem hann
talar. Jesús vard þess þá var ad þeir vildu 19.
spyrja hann og sagdi til þeirra: þér spyrjist á
um þad, ad eg sagdi: stutta stund munud þér
ecki sjá mig og aptur munud þér sjá mig stutta
stund. Sannlega, sannlega segi eg ydur: þér 20.
munud sýta og gráta, en heimurinn mun fagna;
þér munud verda hriggvir, en ydar hrygd mun
snúast í fögnud. Konan, þegar hún fædir, 21.

þá hefir hún hrigd, því hennar tími er kom-
inn; en þegar hún hefir barnid fædt, minnist
hún ecki framar harmqvælisins fyrir fagnadar
22. sakir, þvíad madur er í heiminn borinn; eins
hafid þér nú ad sönnu hrigd, en eg mun sjá
ydur aptur og ydvart hjarta mun fagna og yd-
23. varn fögnud skal enginn af ydur taka. Og á
þeim degi munud þér mig einkis spyrja. Sann-
lega, sannlega segi eg ydur: hvers þér bidjid
Födurinn í mínu nafni, þad mun hann veita
24. ydur. Híngad til hafid þér einkis bedid í mínu
nafni; bidjid og þér munud ødlast, svo ad ydar
25. fögnudur sé fullkominn. Þetta hefi eg talad
til ydar í ordsqvidum; sá tími kémur, ad eg
tala ecki lengur vid ydur í ordsqvidum, heldur
26. mun eg berlega segja ydur af Födurnum; á
þeim tíma munud þér bidja í mínu nafni og
ecki segi eg ydur, ad eg muni bidja Födurinn
27. fyrir ydur, því sjálfur Fadirinn elskar ydur,
af því þér hafid elskad mig og hafid trúad, ad
28. eg sé kominn frá Gudi. Eg em útgenginn frá
Födurnum og kominn í heiminn; eg mun apt-
ur yfirgéfa heiminn og fara til Födursins.
29. Hans Lærisveinar segja vid hann: sjá! nú tal-
30. ar þú berlega og mælir engann ordsqvid. Nú
vitum vér ad þú veitst allt og þarft þess ecki
ad nockurr spyrji þig; þess vegna trúum vér
31. ad þú sért frá Gudi kominn. Jesús svaradi
32. þeim: trúid þér nú? sjá! sá tími kémur og er
nú þegar kominn, ad þér tvístrist hverr heim
til sín og látid mig einann, en eg em samt
33. ecki einn, því Fadirinn er med mér. Þetta
hefi eg talad til ydar, svo ad þér hefiud frid

í mér. Í heiminum munuð þér hafa þreyng-
íng, en, verið oruggir! eg hefi sigrað heiminn.

Jesú bæn til Guðs. 17. Kap.

Þetta talaði Jesús, hóf sín augu til himins 1.
og sagði: Faðir! tíminn er kominn; gjør Son
þinn dýrðlegann, svo að Sonurinn einnig gjøri
þig dýrðlegann, eins og þú hefir géfið hon- 2.
um vald yfir ollu holdi, svo hann géfi eilíft
líf øllum þeim, sem þú gafst honum. En það 3.
er eilíft líf, að þeir þecki þig einann sannann
Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist.
Eg hefi gjørt þig dýrðlegann á jørdunni, eg 4.
hefi lokið því verki, sem þú fékst mér að vinna;
gjør mig nú vegsamlegann, Faðir! hjá sjálf- 5.
um þér með þeirri dýrð, sem eg hafði hjá þér
áður enn heimurinn var. Eg hefi auglýst þitt 6.
nafn þeim monnum, sem þú gafst mér af heim-
inum; þeir vóru þínir og þú gafst mér þá
og þeir hafa varðveitt þitt orð. Nú vita þeir 7.
að allt það, sem þú hefir mér géfið, er frá
þér, því að orð þau, er þú gafst mér, hefi eg 8.
géfið þeim; þeir hafa tekið við þeim og þeir
vita með sanni, að eg em kominn frá þér og
trúa að þú hafir sendt mig. Eg bið fyrir 9.
þeim; ecki bið eg fyrir heiminum, heldur fyrir
þeim, sem þú gafst mér, af því þeir eru þínir;
og allt mitt er þitt og það, sem þitt er, það 10.
er mitt og eg em fyrir það dýrðlegur orðinn.
Eg verð ecki lengur í heiminum, þessir verða 11.
í heiminum, en eg fer til þín. Heilagi Fað-
ir! varðveit þá í þínu nafni, er þú gafst mér,

12. svo þeir séu eitt sem við. Meðan eg var hjá
þeim í heiminum, varðveitti eg þá í þínu
nafni. Eg varðveitti þá, sem þú gafst mér
og enginn þeirra týndist, nema sá glötunar
13. sonur, svo að Ritníngin rættist. En nú fer
eg til þín og þetta tala eg í heiminum, svo
þeir hafi í sjálfum sér minn fögnuð fullkomlega.
14. Eg hefi gésið þeim þitt orð og heimurinn hat-
ar þá, því þeir eru ekki af heiminum, eins og
15. eg er ekki af heiminum. Ekki bið eg að þú
takir þá úr heiminum, heldur að þú geymir
16. þeirra við illu. Þeir eru ekki af heiminum,
17. eins og eg em ekki af heiminum. Helga þú
þá með þínum sannleika, þitt orð er sannleik-
18. ur. Eins og þú sendir mig til heimsins, svo
19. sendi eg þá til heimsins og fyrir þá helga eg
sjálfann mig, svo að þeir séu sannleikanum
20. helgaðir. En eg bið ekki einúngis fyrir þess-
um, heldur og fyrir þeim, sem trúa munu á
21. mig fyrir þeirra orð; svo að allir séu eitt,
eins og þú, Faðir! ert í mér og eg í þér, að
þeir og séu eitt í oss, svo að heimurinn trúi
22. að þú hafir sendt mig. Og þann heiður, sem
þú gafst mér, hefi eg gésið þeim, svo þeir séu
23. eitt eins og við erum eitt, eg í þeim og þú í
mér, svo þeir séu fullkomlega sameinaðir og
heimurinn viti að þú sendir mig og elskir þá,
24. eins og þú elskar mig. Faðir! eg vil að þeir,
sem þú gafst mér, þeir séu hjá mér þar, sem
eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst
mér; því þú elskaðir mig fyrr enn veröldin
25. var grundvölluð. Réttláti Faðir! þó að heim-
urinn þekki þig ekki, þá þekki eg þig og þessir

vita ad þú sendir mig. Eg hefi auglýst þeim 26.
þitt nafn og mun auglýsa það, svo ad sú
elska, med hverri þú elskadir mig, sé í þeim
og eg í þeim.

I.) Jesús er leiddur fyrir þann andlega 18. Kap.
rétt 1—27. II.) fyrir þann veraldlega
rétt 28—40.

Þegar Jesús hafdi talad þetta, géck hann út 1.
med sínum Lærisveinum yfir um lækinn Kedron.
Þar var gras-gardur, þángad géck Jesús og
hans Lærisveinar. En Júdas, sem sveik hann, 2.
þeckti og stadinn, því Jesús var vanur ad koma
þángad med sínum Lærisveinum. Þegar nú 3.
Júdas hafdi tekid med sér strídsmanna flockinn
og þénara frá Presta-hofdíngjunum og Pharí-
seunum, kom hann þángad med blísum, skrid-
byttum og vopnum. En Jesús, sem vissi allt, 4.
er yfir hann mundi koma, géck fram og sagdi:
ad hverjum leitid þér? þeir svörudu honum: 5.
ad Jesú frá Nazareth. Jesús sagdi vid þá:
eg em hann. En Júdas, sem sveik hann, stód
hjá þeim. Þegar hann þá sagdi til þeirra: 6.
eg em hann, hopudu þeir á bæl og fjellu til
jardar. Hann spurdi þá þar fyrir í annad 7.
sinn: ad hverjum leitid þér? en þeir sögdu: ad
Jesú frá Nazareth. Jesús svaradi: eg sagdi 8.
ydur ad eg væri sá hinn sami; ef ad þér þá
leitid mín, leyfid þessum ad fara; svo þad ord 9.
rættist, sem Jesús hafdi talad: engum glatadi
eg af þeim, sem þú gafst mér. En Símon 10.
Pétur, sem hafdi sverd, ryckti því, hjó þjón

Presta-höfdíngjans og sneid af honum hægra
11. eyrad; en sá þjón hét Malchus. Jesús sagdi
þá til Péturs: slídra þú sverd þitt! skylda eg
ecki drecka þann kaleik, sem minn Fadir hefir
12. mér gefid? En flockurinn, fyrilidinn og þén=
arar Gydínga gripu Jesúm og bundu hann.
13. Og þeir leiddu hann fyrst til Hannas, því
hann var tengdafadir Kaiphasar, sem þad árid
14. var ædsti Prestur. En Kaiphas var sá, sem
gefid hafdi Gydíngum þann úrskurd, ad gagn=
legt væri ad einn madur væri líflátinn fyrir
15. þjódina. En Símon Pétur fylgdi Jesú og
annar Lærisveinn, en sá Lærisveinn var kunn=
ugur þeim ædsta Presti og géck inn med Jesú
í hús Presta-höfdíngjans, en Pétur stód fyrir
16. utan dyrnar. Þá géck út hinn annar Læri=
sveinn, sem kunnugur var Presta-höfdíngjanum,
taladi vid þá þernu, sem gjætti dyranna og
17. leiddi Pétur inn. Þá sagdi þernan, sem gjætti
dyranna, vid Pétur: ertú og einn af Lærisvein=
um þessa manns? hann svaradi: ecki em eg.
18. En þar stódu þrælarnir og þénararnir vid eld,
sem þeir hefdu gjört og vermdu sig, því kaldt
var; en Pétur stód hjá þeim og vermdi sig.
19. Þá spurdi Presta-höfdínginn Jesúm ad hans
20. Lærisveinum og hans kenníngu. Jesús svaradi
honum: eg hefi talad opinberlega fyrir heimin=
um; eg hefi ætíd kennt í samkundunum og í
musterinu, hvar allir Gydíngar saman koma og
eckert hefi eg talad í leyni, hví spyr þú mig?
21. spyr þú þá, sem heyrt hafa hvad eg hefi tal=
ad vid þá; sjá! þessir vita hvad eg hefi sagt.
22. En er Jesús taladi þetta, gaf einn af þénur=

unum, sem hjá stód, Jesú kinn-hest og sagdi:
svarar þú svona Presta-hefdíngjanum? Jesús 23.
svaradi honum: hafi eg talad rángt, þá sann-
adú þad, en hafi eg talad rétt, hví slær þú
mig? Hannas sendi hann bundinn til Presta- 24.
hefdíngjans Kaiphasar. En Símon Pétur stód
og vermdi sig. Þeir segdu þá vid hann: ert 25.
þú og einn af hans Lærisveinum? hann neitadi
og sagdi: ecki em eg. Einn af þjónum Presta- 26.
hefdíngjans, frændi þess, sem Pétur hjó af eyr-
ad, segir þá: sá eg þig ecki í grasgardinum
med honum? þá neitadi Pétur enn aptur og 27.
strax gól haninn.

Nú leiddu þeir Jesúm frá Kaiphasi til 28.
hallar Lands-hefdíngjans, en þad var snemma
morguns, og þeir gengu ecki sjálfir inn í höll-
ina, svo þeir saurgudust ecki, heldur mættu
neyta Páskalambsins. Pílatus géck þá út til 29.
þeirra og sagdi: hverja ákjæru færid þér gégn
þessum manni? Þeir svörudu og sögdu: væri 30.
þessi ecki íllrædis madur, þá hefdum vér ecki
fært þér hann. Pílatus sagdi þá vid þá: tak- 31.
id þér hann og dæmid hann eptir ydar lögum.
Þá sögdu Gydíngur til hans: oss leyfist ecki
ad lífláta nockurn, svo þad rættist, sem Jesús 32.
hafdi fyrifram sagt um þad, hvada dauda-daga
hann mundi fá. Þá géck Pílatus aptur inní 33.
höllina, kalladi Jesúm til sín og sagdi: ert þú
Gydínga Konúngurinn? Jesús svaradi: talar 34.
þú þetta af sjálfum þér, edur hafa adrir sagt
þér þad um mig? Pílatus svaradi: er eg 35.
Gydíngur? þín þjód og Kénnimanna Hefdíng-
jarnir færdu mér þig, hvad hefir þú adhafst?

36. Jesús svaradi: mitt ríki er ekki af þessum heimi;
være mitt ríki af þessum heimi, þá hefdu mín-
ir þénarar barist, svo eg kjæmist ekki á vald
Gydínga; en nú er mitt ríki ekki þadan.
37. Pílatus sagdi þá vid hann: ertú þá ekki Kon-
úngur? Jesús svaradi: rétt segir þú ad eg sé
Konúngur; til þess em eg fæddur og til þess
kom eg í heiminn ad eg beri vitni sannleikan-
um og hverr, sem elskar sannleikann, sá hlýd-
38. ir minni röddu. Pílatus svaradi honum: hvad
er sannleikur? og í því hann sagdi þetta, géck
hann út aptur til Gydínga og segir vid þá:
39. eg finn enga sök hjá honum; en þad er venja
hjá ydur, ad eg á Páskum géfi ydur einn laus-
ann. Viljid þér þá ekki ad eg géfi ydur nú
40. lausann Gydínga Konúnginn? Þeir æptu þá
allir á móti og sögdu: ekki þennann, heldur
Barabbas; en Barabbas var stigamadur.

## 19. Kap. I.) Jesús krossfestur 1—30. II) lagdur í grofina 31—42.

1. Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann.
2. En strídsmennirnir fléttudu kórónu af þyrnum
og settu á hans höfud og færdu hann í pur-
3. pura kápu og sögdu: heill sért þú, Konúngur
4. Gydínga! og þeir gáfu honum pústra. Pílat-
us géck þá út aptur og sagdi til þeirra: sjá!
eg leidi hann nú út aptur til ydar, svo ad þér
5. vitid ad eg finn enga sök hjá honum. Jesús
géck þá út med þyrni-kórónu á höfdi og í
purpura kápu og Pílatus sagdi til þeirra: sjá
6. manninn! En þegar Presta-höfdíngjarnir og

Þénararnir sáu hann, æptu þeir og sögðu: kross-
festú! krossfestú hann! Pílatus sagði: takið
þér hann og krossfestið, því að eg finn enga sök
hjá honum. Gyðíngar svöruðu honum: vér 7.
höfum lög og eptir vorum lögum á hann að
deya, því hann hefir gjört sig sjálfann að Guðs
Syni. Þegar Pílatus heyrði þetta, varð hañ 8.
enn hræddari, gékk inní höllina aptur og sagði 9.
við Jesúm: hvaðan ertú? en Jesús ansaði
honum ekki. Pílatus sagði þá við hann: tal- 10.
ar þú ekki við mig? veitstú ekki að eg hefi vald
til að krossfesta þig og vald til að láta þig
lausann? Jesús svaraði: ekki hefðir þú vald 11.
yfir mér, nema þér væri géfið það ofanað; því
er sá enn sekari, sem ofurseldi mig þér. Upp 12.
frá því leitaðist Pílatus við að láta hann
lausann; en Gyðíngar kölluðu og sögðu: ef að
þú sleppir honum, þá ertú ekki vinur Keisar-
ans. Hverr, sem gjörir sig að Konúngi, hann
rís á móti Keisaranum. Þegar Pílatus heyrði 13.
þetta, leiddi hañ Jesúm út og settist á dómstólinn,
á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði, en á
Hebresku Gabbatha. En þá var aðfángadag- 14.
ur Páska, hérumbil um hádegi. Nú sagði 15.
hann við Gyðínga: þar er yðar Konúngur!
Þeir hrópuðu: burt! burt með hann! kross-
festú hann! Pílatus sagði til þeirra: á eg að
krossfesta yðar Konúng? Þá svöruðu þeir
æðstu Prestar: vér höfum ekki Konúng nema
Keisarann. Þá fékk hann þeim Jesúm að 16.
hann yrði krossfestur; en þeir tóku við Jesú
og leiddu burt. En hann bar sinn kross og 17.
gékk út til þess staðar, sem heitir hausa-skélja-

18. stadur, á Hebresku Golgatha; þar krossfestu
þeir hann og með honum tvo adra, sinn til
19. hverrar handar en Jesúm í midid. En Pí-
latus skrifadi líka yfirskrift og festi hana á
krossinn; en skrifad var: Jesús af Naza-
20. reth Konúngur Gydínganna. Þessa
yfirskrift lásu margir Gydíngar, því sá stadur,
hvar Jesús var krossfestur, hann var nærri
borginni; hún var og skrifud á Hebresku, Grísku
21. og Látínu. Þá sögdu ædstu Prestar Gydínga
vid Pílatus: skrifa þú ecki: Konúngur Gyd-
ínganna, heldur ad hann hafi sagt: eg em
22. Konúngur Gydínga. Pílatus svaradi: Þad,
23. sem eg hefi skrifad, þad hefi eg skrifad. En
er stridsmennirnir höfdu krossfest Jesúm, tóku
þeir hans klædi og skiptu í fjóra parta, hverjum stridsmanni part, líka kyrtilinn; en kyrtillinn var ecki saumadur, heldur frá ofanverdu
24. nidurúr prjónadur. Þeir sögdu því hverr vid
annann: skérum hann ecki í sundur, hlutumst
heldur um hverr hann skal hafa; svo ad sú
Ritníng rættist, sem segir: "þeir skiptu med
sér mínum klædum og köstudu hlut um minn
25. kyrtil." Þetta gjördu nú stridsmennirnir. En
hjá krossinum stód Jesú módir og módur-systir
hans, María kona Kleófu og María frá
26. Magdalum. Þegar Jesús sá nú módur sína
og þann Lærisvein, sem hann elskadi, standandi
þar hjá, sagdi hann til módur sinnar: Kona!
27. sjá! þar er þinn sonur! sídan sagdi hann
til Lærisveinsins: sjá! þar er þín módir!
og frá þeirri stundu tók Lærisveininn hana

V. 24. Sálm. 22, 19.

heim til sín. Eptir þetta, þareð Jesús vissi 28.
að allt var nú þegar fullkomnað, svo að Ritn-
íngin skyldi rætast, sagði hañ: "mig þyrstir."
Þar var kér fullt af ediki; þeir fylltu njarðar- 29.
vatt með edik, settu hann á ísóps-legg og báru
Jesú að munni. En er Jesús hafði til sín 30.
tekið edikið, sagði hann: það er fullkomn-
að; og hann lét höfuðið hníga og gaf upp
andann.
En Gyðíngar beiddu Pílatus; að lík- 31.
hamirnir væru ecki á krossunum um Sabbats-
daginn, þareð atfánga-dagur var, því að sá
Sabbats-dagur var mikill. Þeir beiddu Píla-
tus að bein þeirra væru brotin og ofantekin.
Þar fyrir komu stríðsmennirnir og brutu fót- 32.
leggi hins fyrsta og svo hins annars, sem með
honum höfðu verið krossfestir. En, sem þeir 33.
komu að Jesú og sáu að hann var þegar dá-
inn, brutu þeir ecki hans fótleggi; en einn af 34.
stríðs-mönnunum stack spjóti í hans síðu og
strax kom út blóð og vatn; og sá hefir vitn- 35.
að það, sem sá og hans vitnisburður er sann-
ur og hann veit að hann segir satt, svo að
þér einnig trúið. Því þetta er skéð svo að 36.
Ritníngin rættist: "bein hans skulu ecki brjót-
ast" Og á öðrum stað segir önnur Ritníng: 37.
"þeir munu sjá þann, sem þeir stúngu."
En eptir þetta bað Jóseph af Aremathía 38.
Pílatus, að hann mætti ofan taka Jesú lík-
hama: því hann var Jesú Lærisveinn, þó heim-
uglegur, af ótta fyrir Gyðíngum; og Pílatus

V. 28. Psálm. 69, 22. V. 36. 2 Mós. 12, 46.
V. 37. Zach. 12, 10.

39. leyfdi þad. Hann fór því til og tók Jesú lík-
hama; en Nikódemus kom líka, sá, sem ádur
hafdi um nótt komid til Jesú; hann hafdi med
sér hérumbil hundrad pund af myrru-blöndudu
40. alóe. Þá tóku þeir Jesú líkhama og sveipudu
hann í líndúk, med dýrum smyrslum, eins og
Gydínga sidur er ad búa lík til greftrunar.
41. En þar, sem Jesús hafdi verid krossfestur, var
grasgardur og í grasgardinum nýj gröf, í hver-
42. ja þángad til engínn hafdi verid lagdur. Þar
lögdu þeir Jesúm vegna adfánga-dags Gyd-
ínga, því gröfin var nærri.

## 20. Kap.

I.) Jesú upprísa dodud 1—10. II.) hann birtist sjálfur Maríu og sídan lærisvein-unum 11—31.

1. En snemma á fyrsta degi vikunnar, ádur enn
bjart var ordid, kémur María frá Magdölum
til grafarinnar og sjer ad steininum er tekinn
2. frá gröfinni. Hún hleypur þá til Símonar
Péturs og þess annars Lærisveins, sem Jesús
elskadi og ségir vid þá: þad er búid ad taka
burt Drottinn úr gröfinni og vér vitum ecki
3. hvar hann hefir verid lagdur. Þá fór Pétur
út og hinn annar Lærisveinn og þeir komu til
4. grafarinnar. En þeir tveir hlupu ásamt og sá
annar Lærisveinn hljóp hradara enn Pétur og
5. kom fyrri ad gröfinni; og þá hann gjægdist
inn í gröfina, sá hann líndúkana liggja þar,
6. en þó géck hann ecki inn. Þá kom Símon
Pétur, sem seinni vard, og hann géck inn í
7. gröfina og hann sá líka lín-dúkana liggja þar

og sveita-dúkinn, sem hafdi verid um hans høf- 7.
ud, ecki hiá lín-dúkunum, heldur útaf fyri sig
samanbrotinn á edrum stad. Þá géck og inn 8.
sá annar Læcisveinn, sem fyrr hafdi komid til
grafarinnar og sá og trúdi *); Því enn Þá 9.
skildu Þeir ecki Ritnínguna, ad hann ætti ad
rísa frá daudum. Svo fóru Lærisveinarnir 10.
heim til sín aptur.

En María stód hjá grøfinni og grét; en 11.
sem hún grét, gjægdist hún inní grøfina og sier 12.
tvo engla hvít-klædda hvar Þeir sitja, annann
til høfda, hinn til fóta Þar, sem Jesús hafdi
legid. Og Þeir segdu til hennar: kona! hví 13.
grætur Þú? hún svaradi Þeim: af Því búid er
ad taka burt minn Drottinn og eg veit ecki
hvar hann hefir verid lagdur. Í Því hún 14.
sagdi Þetta, vard henni litid aptur fyrir sig og
Þá sá hún Jesúm standa Þar, en hún vissi
ecki ad Þad var Jesús. Jesús segir til henn- 15.
ar: kona! hvad grætur Þú? ad hverjum leitar
Þú? Hún, sem hugsadi ad Þetta væri gras-
gards verdurinn, sagdi til hans: Herra! hafir
Þú borid hann í burtu, Þá segdu mér hvar Þú
hefir lagt hann og mun eg sækja hann. Jesús 16.
sagdi til hennar: María! hún snéri sér vid og
segir á Hebresku: Rabbúni! Þad er: Læri-
meistari. Jesús sagdi til hennar: snertú mig 17.
ecki, Því enn Þá er eg ecki uppstíginn til Fød-
ur míns; en fardú til brædra minna og segdú
Þeim: eg muni uppstíga til míns Fødurs og



*) Ad Jesús hefdi verid borinn úr grøfinni, eins og María sagdi.

ydar Fedurs, til míns Guds og ydar Guds.
18. María frá Magdolum kémur og segir Læri-
sveinunum, ad hún hafi sjed Drottinn og ad
hann hafi talad þetta vid sig.
19. En ad qvøldi hins sama dags, sem var
sá fyrsti í vikunni og eptir ad búid var ad
læsa dyrum á því húsi, hvar Lærisveinarnir
vóru samansafnadir af ótta fyrir Gydíngum,
kom Jesús og stód midt á medal þeirra og
20. sagdi: fridur sé med ydur! og í því hann tal-
adi þetta, sýndi hann þeim sínar hendur og
sídu. Þá urdu Lærisveinarnir gladir ad þeir
21. sáu Drottinn. Jesús sagdi þá aptur til þeirra:
fridur sé med ydur! eins og Fadirinn hefir
22. sendt mig svo sendi eg ydur; og í því hann
sagdi þetta, blés hann á þá og sagdi: medtak-
23. id þér heilagann Anda! hverjum, sem þér fyr-
irgéfid syndirnar, þeim eru þær fyrirgéfnar og
hverjum, sem þér synjid fyrirgéfníngar, þeim
24. verdur synjad um fyrirgéfníngu. En Thómas,
þad þýdir: Tvíburi, einn af þeim tólf, var
25. ecki med þeim þegar Jesús kom. Þar fyrir
sögdu hinir Lærisveinarnir honum frá, ad þeir
hefdu sjed Drottinn. En hann svaradi þeim:
sjái eg ecki naglaførin í hans hendum og láti
fíngur minn í þau og mína hønd í hans sídu,
26. þá trúi eg ecki. Og eptir átta daga vóru
hans Lærisveinar aptur innanhúss og Thómas
med þeim. Þá kom Jesús þegar búid var ad
læsa dyrum og stód midt á medal þeirra og
27. sagdi: fridur sé med ydur! sídan sagdi hann
vid Thómas: kom þú híngad med þinn fíngur
og skoda mínar hendur; kom þú med þína

hend og legg í mína sídu og vertú ecki vantrú-
adur heldur trúadur. Thómas svaradi og sagdi 28.
til hans: Drottinn minn og Gud minn! Jesús 29.
svaradi: af því þú sást mig, Thómas! trúdir þú;
en sælir eru þeir, sem trúa, þótt þeir ecki sjái.
En hér ad auki gjordi Jesús mørg ønnur teikn 30.
í augsýn sinna Lærisveina, hverra ecki er gétid
í þessari bók. En þetta er skrifad, svo ad þér 31.
trýdud, ad Jesús er Kristur Sonur Guds og
svo ad þér hafid lífid, sem á hans nafn trúid.

21. Kap.

I.) Jesús birtist sínum Lærisveinum í Galílæu 1—14. II.) segir Pétri fyrir hans afdrif 15—25.

Eptir þetta birtist Jesús aptur sínum Læri- 1.
sveinum vid Tíberíadis vatn. En þannig birt-
ist hann: Símon Pétur og Thómas, sem hýd- 2.
ir: Tvíburi, og Nathanael frá Cana í Galí-
læu og Zebedæusar synir og tveir adrir af hans
Lærisveinum vóru þar ásamt. Símon Pétur 3.
segir vid þá: eg vil fara ad fiska. Þeir segja
vid hann: vér komum líka med þér. Þeir
gengu út og stigu strax á skip; en þá nóttina
fengu þeir eckert. En er dagur var runninn, 4.
stód Jesús vid vatnid, samt vissu ecki Lærisvein-
arnir ad þad var Jesús. Jesús sagdi þá til 5.
þeirra: hafid þér nockud ætilegt? þeir søgdu:
nei. Hann sagdi þá vid þá: kastid netinu 6.
hægra-megin vid skipid, þá munud þér fiska.
Þeir kestudu því þá og gátu þá ecki dregid



V. 29. 1 Pét. 1, 8.

7. þad fyrir fiski-mergd. Þá segir sá Lærisveinn,
sem Jesús elskadi, vid Pétur: þad er Drott-
inn. En er Símon Pétur heyrdi ad þad væri
Drottinn, batt hann ad sér stack sinn, því
hann var snegg-klæddur og fleygdi sér í vatnid,
8. en hinir Lærisveinarnir komu á skipinu (því
þeir vóru ecki lángt frá landi, heldur svo sem
tvöhundrud álnir) og þeir drógu netin ad landi,
9. med fiskinum í. En er þeir vóru gengnir á
land, sjá þeir glædur og fisk á þeim og braud.
10. Jesús segir þá til þeirra: komid med nockud
11. af fiskunum, sem þér veiddud. Símon Pétur
fór til og dróg netid á land, fullt af stórum
fiskum, hundrad fimmtíu og þremur: en þó
12. þeir væru svo margir, rifnadi netid ecki. Jesús
segir vid þá: komid og takid dagverd. En
enginn af Lærisveinunum rédist til ad spyrja
hann: hverr ertú? því þeir vissu ad þad var
13. Drottinn. Þá kémur Jesús og tekur braudid
14. og géfur þeim, sömuleidis fiskinn. Þetta var
í þridja sinni, sem Jesús birtist sínum Lærisvein-
um, eptir ad hann var upprisinn frá dandum.
15. En er þeir höfdu matast, segir Jesús vid
Símon Pétur: Símon Jónasson! elskar þú
mig meir enn þessir? hann svaradi honum: já,
Herra! þú veitst ad eg elska þig. Jesús seg-
16. ir til hans: gjæt þú lamba minna. Hann
segir aptur í annad sinn til hans: Símon
Jónasson! elskar þú mig? hann svaradi hon-
um: já, Herra! þú veitst ad eg elska þig.
Jesús segir þá til hans: hird þú saudi mína.
17. Hann segir í þridja sinni til hans: Símon
Jónasson! elskar þú mig? þá ángradist Pétur,

af því hann sagdi í þridja sinni til hans: elsk-
ar þú mig? og hann sagdi til hans: Herra!
Þú veitst allt, þú veitst ad eg elska þig. Jesús
segir til hans: geym þú minna sauda. Sann- 18.
lega, sannlega segi eg þér: þegar þú varst
yngri girdtir þú þig og géckst hvert, sem þú
vildir, en þegar þú eldist, muntú útbreida
hendur þínar og annar mun girda þig og leida
þángad, sem þú vilt ecki. En þetta sagdi 19.
Jesús til ad géfa ad skilja, med hverjum daud-
daga hann skyldi vegsama Gud. Og þá hann
hafdi þetta talad, sagdi hann vid Pétur: fylg
þú mér eptir. Pétur leit vid, sá þann Læri- 20.
svein, sem Jesús elskadi, koma á eptir, þann
sama, sem um qveldmáltídina hafdi hallad sér
upp ad Jesú brjósti og spurt: Herra! hverr er
sá, sem mun svíkja þig? Þegar Pétur sá 21.
þennann, segir hann til Jesú: Herra! hvad
verdur um þennann? Jesús svarar honum: 22.
ef eg vildi ad hann bidi þángad til eg kém,
hvad kémur þad vid þig? fylg þú mér eptir.
Því barst sú saga út medal Brædranna, ad 23.
þessi Lærisveinn mundi ecki deya. Þó hafdi
Jesús ecki sagt vid hann, ad hann mundi ecki
deya; heldur: ef eg vil hann bídi þángad til
eg kém, hvad kémur þad vid þig? Þessi er 24.
sá Lærisveinn, sem hefir vitnad um þetta og
skrifad þetta og vér vitum ad hans vitnis-
burdur er sannur. Margt annad hefir Jesús 25.
gjort og ef þad allt, eitt og sérhvad ætti ad
skrásetjast, hugsa eg ad heimurinn jafnvel ecki
mundi rúma þær bækur, sem þá yrdu skrifadar.



# Postulanna Gjørningar.

1. Kap. I.) Jesú himnaför 1—11. II.) Eindrægni Lærisveinanna 12—14. III.) Ræda Péturs og Matthías útvalinn til Postula 15—26.

1. Fyrri fráseguna samda eg, ó Theóphíle! um
2. allt hvad Jesús gjørdi og kénndi, uns hann
vard uppnuminn, eptir ad hafa skipad þad und-
ir heilags Anda medverkun Postulunum, þeim,
3. hann útvalid hafdi; hverjum hann og birtist
lifandi eptir písl sína, med mørgum órækum
kénnimerkjum, þared hann lét þá sjá sig í fjøru-
4. tíu daga og taladi vid þá um Guds ríki. Nú
þá þeir eitt sinn vóru samankomnir, skipadi
hann þeim ad fara ecki burtu úr Jerúsalem,
heldur bída eptir fyrirheiti Fødursins, hvers
þér — sagdi hann — hafid heyrt mig géta.
5. Jóhannes skírdi med vatni, en þér skulud skírd-
ir verda med heiløgum Anda, ecki mørgum
6. døgum eptir þennann. Þá spurdu þeir, er vid-
staddir vóru: ætlardú, Herra! á þessum døg-
7. um ad endurreisa Ísraels ríki? Hann svaradi
þeim: þad er ecki ydar ad vita stundir edur
tækifæri, yfir hverjum Fadirinn tók sér sjálfur

umrád. En þér skulud ödlast krapt heilags 8.
Anda, þess yfir ydur mun koma og þér skulud
mínir vottar vera í Jerúsalem og í öllu Gyd-
ínga-landi og í Samaríu og til jardarinnar
endimarka. Í því hann sagdi þetta, lyptist 9.
hann, ad þeim ásjáandi, í lopt upp og ský-
þyckni nam hann frá augum þeirra. Nú sem 10.
þeir stördu til himins, þá hann leid burt, sjá!
þá stódu tveir menn hjá þeim í hvítum klæd-
nadi; þeir segdu: Galílæisku menn! hví stand- 11.
id þér og starid á himininn? þessi Jesús, sem
uppnuminn er frá ydur til himins, mun koma
á sama hátt og þér sáud hann fara til himins.
Þá snéru þeir aptur til Jerúsalem frá 12.
fjallinu, sem kénnt er vid olíu-vid og liggur í
nánd vid Jerúsalem eina helgidags-leid*). Nú 13.
sem þeir komu í borgina, fóru þeir uppá lopt eitt,
hvar þeir áttu heima, Pétur og Jakob og Jó-
hannes og Andrés og Thómas, Bartholómæus
og Matthæus, Jakob Alphæusarson og Símon
Zelótes (Vandlætíngur) og Júdas Jakobsson.
Þessir allir héldu saman med eindrægni í bæn 14.
og andakt, ásamt konunum og Maríu módur
Jesú og brædrum hans.
Á þeim dögum stód Pétur upp medal 15.
Lærisveinanna og sagdi (vidstaddir vóru þar
hardtnær hundrad og tuttugu manns): menn! 16.
brædur! rætast hlaut Ritníng sú, er heilagur
Andi hafdi fyrirsagt af Davíds munni um Jú-
das, hverr ed gjördist leidtogi þeirra, er gripu

V. 9. Mark. 16, 19. Lúk. 24, 51.
V. 12. *) Helgidags leid var 2000 álnir.
V. 16. Psálm. 41, 10.

17. Jesúm. Hann var talinn með oss og hafði
18. hlut fengið í þessu embætti; þessi aflaði greftr-
unar-reits með launum ódæðisins, en brast um
19. qviðinn, svo oll innýflinn féllu út. Þetta er
kunnugt orðið ollum, sem búa í Jerúsalem;
svo að þetta pláz er kallað á þeirra túngu
20. Akeldama, það er: Blóðs-reitur. Nú er svo
skrifað í Sálmabókinni: býli hans skal í eyði
verða og ábúandalaust sé hans aðsetur; og á
oðrum stað: hans umsýslu taki einn annar.
21. Því hæfir að einhverr þeirra, sem alla tíð
hafa með oss verið, síðan Drottinn Jesús tók
22. að gánga út og inn með oss, allt frá skírn
Jóhannesar, uns hann varð frá oss numinn,
23. verði vottur hans upprisu meður oss. Og þeir
tóku tvo til, Jóseph, kallaðann Barsabas, að
24. auknefni Réttvís og Matthías, báðust fyrir og
segðu: Drottinn! þú, sem þekkir hjertu allra,
25. sýndu hvern þessara tveggja þú hefir valið, til
að taka hlutdeild þessa embættis og Postula-
dæmis, úr hverju Júdas gékk, að hann færi
26. til síns staðar. Þeir vorpuðu þá hlutum um
og hluturinn féll á Matthías; og hann var
sameginlega kosinn til Postula með þeim ellefu.

2. Kap. I.) Heilags Anda sending á Hvítasunnu hátíð-inni 1—13. II.) ræða Péturs um Krists pínu, upprisu, himnaför og sendingu heilags Anda 14—36. III.) spurníngar fólksins, ráð og uppörfan Péturs; 3000

V. 18. Matth. 27, 5—8. V. 20. Psálm. 69, 26. Psálm. 109, 8.

snúast 37—41. IV.) innbyrdis umgengni
hinna fyrstu kristinu 42—47.

En er Hvítasunnu-dagurinn kom, vóru þeir 1.
allir med einum huga til samans. Og þar 2.
vard skyndilega þytur frá himni, eins og ad-
dynjanda sterkvidris og fyllti allt húsid þar þeir
sátu í. Og þeir sáu sundur-skipta glossa, líkt 3.
og eld-túngur, þær ed settu sig yfir sérhvern
þeirra; og þeir urdu allir fullir af heilegum 4.
Anda og tóku ad tala framandi túngumál, ept-
ir því, sem heilagur Andi gaf þeim málfæri
til. En í Jerúsalem vóru þá til húsa, auk 5.
fæddra Gydínga, gudræknir menn af allslags
þjódum undir himninum. Þá nú þessi hvin- 6.
ur vard, kom mannfjøldinn til samans og hon-
um brá mjøg vid, er hverr einn heyrdi þá
tala hans mál; já, allir urdu svo sem frá sér 7.
og féllu í forundrun segjandi hverr til annars:
sjá! eru ecki allir þessir, sem tala, úr Galí-
læu, og hverninn heyrir þá hverr af oss sitt 8.
módurmál? vér Parthar, Medar, Elamitar, 9.
vér, sem heima egum í Mesopótamíu, Judæu,
Kappadosíu, Pontus og Asíu, í Phrygíu og 10.
Pamphilíu, Egyptalandi og Lybíu, bygdum í
nánd vid Cyrene, vér Rómverjar hér búsettir;
vér Júdar og í Júda-løg teknir, Kretar og 11.
Arabar, vér heyrum þá tala á vorar túngur
um Guds stórmerki? Hverr madur vard for- 12.
vida og frá sér numinn og einn sagdi til ann-
ars: hvad ætlar þetta ad verda? en adrir 13.
spott-

spottuþust að þessu, segjandi: þeir eru ol-óda af vín-safa *).
14. Þá géck Pétur fram og þeir ellefu, hóf upp sína raust og talaði til þeirra: menn, Gydíngar og þér allir, sem í Jerúsalem erud! þetta sé ydur vitanlegt og hugfestið orð mín!
15. Ecki er það eins og þér hugsið, að þessir séu
16. druckuir, þríað nú er þridja stund dags; heldur rætist hér hvad Spámadurinn Jóel sagði:
17. "það skal ské á síðustu dögum **), segir Gud, eg vil úthella af mínum anda yfir allt hold; ydar synir og dætur skulu spá, ydar úngmenni sjá sjónir og ydar oldúngar fá draum-vitranir;
18. yfir þjóna mína og ambáttir mínar vil eg á þeim dögum úthella af mínum anda og þau
19. skulu spá. Og eg vil géfa teikn á himnum uppi og fyriburdi á jordu nidri, blód, eld og
20. reyk-mock Sólin skal snúast í mirkur og túnglið í blód, ádur enn að kémur hinn mikli,
21. audþeckti dagur Drottins; og það skal ské, að hverr, sem Drottins nafn ákallar, sá mun verda
22. hólpinn." Menn, Ísraelítar! heyrið orð þessi: Jesúm af Nazareth, einn mann, er Gud gjerði ydur þeckjanlegann med krapta-verkum, teiknum og stórmerkjum, hver Gud lét ské fyrir hans
23. hønd medal ydar, eins og þér vitið; þann hafið þér ofurseldann, að tillátsemi Guds, sem hafði ætlað svo til og sjed allt fyrir og fyrir
24. heidíngja hendur krossfest og aftífað. Þennann sama hefir Gud uppvakið og leyst úr dauð-

*) Vín-safi er lögur, sem sjálfkrafa rennur úr þrúgunni á víntréunu.
V. 16. Jóel 2, 28—32. **) það er: Messíæ.

ans bøndum, því að ecki var møgulegt að dauð-
inn gæti haldið honum; því Davíð segir um 25.
hann: "ætíð sje eg Drottinn mér nálægann,
hann er mér til hægri hlidar svo eg skélfist
ecki; því er mitt hjarta gladvært og mín túnga 26.
fagnar innilega. Já, jafnvel minn líkhami
skal hvíla vongladur, því þú munt ecki eptir- 27.
skilja mína end í helju, né leyfa að þinn Hei-
lagi sjái rotnun. Kunna gjørdir þú mér lífsins 28.
vegu, þú munt mig með kjæti fylla fyrir á-
sjónu þinni." Þér menn, mínir bræður! mér 29.
sé leyft einarðlega að tala við ydur um for-
foðurinn Davíð: hann dó og var grafinn og
hans leidi er til hjá oss enn í dag. En af 30.
því hann var Spámadur og Guð hafdi svar-
ið honum að einn hans afkomenda skyldi sitja
á hans Konúngs-stóli, taladi hann af forspá 31.
um fyrirsjena upprisu Krists, að hann vard ecki
í helju eptirskilinn og að líkhami hans mundi
ecki sjá rotnun. Þennann Jesúm uppvakti 32.
Guð frá daudum, þess erum vér allir vottar;
og þá hann nú var upphafinn af almætti Guðs 33.
og hafdi fengið fyrirheiti af Fødurnum um hei-
lagann Anda, veitti hann oss hann, eins og
þér sjáið og heyrið. Davíð sté ecki til himna, 34.
þó segir hann: "Drottinn sagdi mínum Drott-
ni: setstú við mína hægri hend, uns eg legg 35.
óvini þína að fótaskør þinni." Með óbrigd- 36.
anlegri vissu viti þá allt Israels hús, að Guð

V. 25. Ps. 16, 8—11. V. 29. 1 Kóng. 2, 10.
V. 30. 1 Kóng. 8, 20. 2 Sam. 7, 12. Ps. 89,
4. 5. 132, 11. V. 33. Jóh. 15, 26.
V. 34. Psálm. 110, 1.

hefir gjørt ad Drottni og ad Konúngi hann
sama Jesúm, hvern þér krossfestud.
37. Þá þeir heyrdu þetta, skárust þeir inn-
vortis og sögdu vid Pétur og hina Postulana:
38. hvad skulum vér gjøra? gódir brædur! Pét-
ur sagdi þá til þeirra: takid sinna-skipti og
hverr ydar láti skíra sig uppá nafn Jesú Krists
til fyrirgéfníngar syndanna, þá munud þér edl-
39. ast gjøf heilags anda; þvíad ydur er fyrir-
heitid ætlad og børnum ydar og øllum þeim
fjærlægu, hverja helzt Drottinn Gud vor mun
40. kalla hér til. Med ødrum fleiri ordum færdi
hann þeim heim sanninn og áminnti þá svo
segjandi: látid ydur frelsa frá þessari øld!
41. Þeir, sem nú fúslega skípudust vid hans rædu,
urdu skírdir og þar bættust vid á þeim degi
42. nær þrjú þúsund menn; þeir urdu stødugir
vid Postulanna kénnslu, vid Félagid og vid
43. sameautnina og bænahaldid; og hver sál vakt-
ist til andvara, því mørg undur og tákn gjørd-
ust af Postulunum.
44. En allir, sem trúadir urdu, héldu saman
45. og høfdu allt sameiginlegt. Eignir sínar og bú
seldu þeir og úthlutudu øllum þar af, eins og
46. hverr hafdi þørf á. Dags daglega vitjudu
þeir samhuga musterisins, brutu braud í hver-
ju húsi og nutu sinnar fædu med gladværd og
47. einfeldni hjartans, lofudu Gud og høfdu vin-
sæld af øllum lýd. En Drottinn lét dag frá
degi aukast tølu enna hólpnu.

3. Kap. I.) Pétur læknar halltann mann 1—8. II.)
fólkid undrast rædu Péturs um dauda

og upprisu Jesú 9—16. III.) rædur til umvendunar 17—26.

Eitt sinn geugu þeir Pétur og Jóhannes upp 1.
í musterid á venjulegri bæna-tíd um nón; þá 2.
var verid ad bera þángad mann, er halltur var
frá módurlífi og daglega var settur vid þær dyr
musterisins, er nefndust Fogru-dyr, svo hann
bædi sér ölmusu af þeim, er inngengu í must-
erid. Þegar hann nú sá Pétur og Jóhann- 3.
es ætla ad gánga þar inn, bad hann þá ad
gésa sér. Pétur stardi á hann ásamt Jóhann- 4.
esi og sagdi: líttú uppá ockur. Hann leit til 5.
þeirra í von um ad hann mundi fá eitthvad,
en Pétur sagdi: silfur og gull á eg ecki, en 6.
hvad eg hefi, þad géf eg þér. Stattú upp og
gácktú í nafni Jesú Krists af Nazareth! um 7.
leid kippti hann til hans med hægri hendinni
og reisti hann á fætur. En jafnframt urdu il- 8.
jar hans og öklar styrkvir, svo hann spratt upp
og géck um kríng, fylgdist med þeim inn í
musterid, géck um gólf, stöck upp og lofadi Gud.
Og allt fólk sá hann þar á gángi lofa 9.
Gud, líka þecktu þeir hann og vissu ad þad 10.
var sá sami, sem hafdi betlad vid musterisins
Fagra-port; fylltust því af felmtri og undrun
yfir þessum atburdi. Nú sem hinn hallti héldt 11.
sér til Péturs og Jóhannesar, flycktist til þeirra
allur lýdurinn í því gáng-rúmi, sem kénnt er
vid Salómon og var eldúngis hissa. Þegar 12.
Pétur sá þetta, mælti hann til fólksins: þér,
Israels menn! hví furdar ydur á þessu og hví
starid þér á ockur, eins og vid hefdum af sjálfs

krapti edur fyrir egin gudhrædslu áorkad ad
13. þessi gengur? Gud Abrahams, Isaaks og
Jakobs, Gud fedra vorra, hefir tignad sinn ást-
fólgna þjón Jesúm, hvern þér ofurseldud og
afsøgdud fyrir Pílatusi, er ályktadi ad láta
14. hann lausann. Hinn heilaga og réttláta af-
15. søgdud þér, bádud um mordíngjann, en létud
drepa lífsins foríngja þann, sem Gud uppvakti
16. frá daudum, hvar ad vér erum vottar. Þessi
er sú háleita persóna í hvers trausti sá er ord-
inn heilfættur, er þér horfid á og þeckid; já,
trúin á hann er þad, sem gaf hinum hallta
slíkann al-bata fyrir allra ydar augum.
17. Nú veit eg, brædur! ad þér, eins og ydr-
ir hösdíngjar hegudud ydur svo, sokum van-
18. þeckíngar; en Gud lét þannig rætast þad, sem
hann hafdi fyrisagt af munni allra sinna Spá-
19. manna, ad Kristur skyldi pínast. Takid því
sinna-skipti og bætid dagfar ydar, til fyrirgéfn-
20. íngar ydar synda, uppá þad ad endurlífgunar
tídirnar komi frá augliti Drottins og þér njót-
21. id þess ydur ætlada Jesú Krists, hverr ed á
himininn ad eignast, allt fram á daga endur-
skøpunarinnar, um hverja Gud hefir talad fyr-
ir munn allra sinna heilegu Spámanna frá
22. alda-ødli. Þanninn hefir Móses sagt til fedr-
anna: "Spámann mun Drottinn Gud ydar
láta uppstanda af brædrum ydar eins og mig;
23. gégnid honum í ellu, er hann segir ydur; því
þad skal ské, ad hver sú manneskja, sem ecki
gégnir þeim Spámanni, skal afmást úr þjód-
24. inni." Eins hafa allir Spámennirnir, frá

V. 22. 5 Mós. 18, 15—18.

Samúel, hverr eptir annann svo margir, sem
talad hafa, einnig kunngjört þessa daga. Þér 25.
erud börn Spámannanna, fremur ödrum born-
ir til ad hafa not sáttmálans, hverri Gud gjördi
vid fedur vora, þá hann sagdi til Abrahams:
"af afqvæmi þínu skal blessan hlotnast öllum
jardarinnar ættqvíslum." Ydur sendi Gud 26.
fyrstum, þá hann frá daudum reisti sinn elsku
Son, þann, er ydur skyldi blessa med ad snúa
sérhverjum ydar aptur frá sinni íllsku.

I.) Pétur og Jóhannes eru settir í fángelsi 1—4. II.) Pétur forsvarar sig fyrir Rádinu 5—12. III.) þeim er hótad og sleppt 13—22. IV.) þeir bidja Gud sameiginlega og verda bænheyrdir 23—31. V.) ástand safnadarins 32—36.

# 4. Kap.

Medan þeir vóru enn ad tala til fólksins, 1.
þustu ad þeim Prestar, Herstjórinn vid must-
eris vaktina og Sadúcæar, hverjum þad gramd- 2.
ist, ad Postularnir kénndu fólki og sögdu vissa
upprisu framlidinna af Jesú dæmi, lögdu hend- 3.
ur á þá og settu þá í vardhald til næsta morg-
uns, því qvöld var komid; en margir af þeim, 4.
er heyrt höfdu rædùna, trúdu, svo karlmanna
tala hinna trúudu vard nær fimm þúsundir.

Morguninn eptir var samkoma haldin af 5.
Hefdíngjunum og Rádherrunum og þeim lærdu í
Jerúsalem, samt Hannas Hefudpresti, Kaiphas, 6.
Jóhannes Alexander og öllum, sem vóru af
Hefud-presta ættinni. Vóru Postularnir þá 7.

V. 25. 1 Mós. 12, 3. 18, 18.

framleiddir í midid og adspurdir: af hvada
myndugleika edur í hvers umbodi Þeir hefdu
8. gjort Þetta? Pétur fylltist Þá heilagri anda-
gift og svaradi: Þér, Hefdíngjar Þjódarinnar
9. og Öldúngar Israels! ef vér í dag skulum
standa ransak, vidvíkjandi góðverkinu vid hruma
manninn og Því, af hvers veldum honum sé
10. batnad, Þá sé ydur öllum vitanlegt og ollu
Israels húsi: ad í nafni Jesú Krists af Naza-
reth, Þess Þér krossfestud, en Gud uppreisti
frá daudum, af hans veldum er Þad skéd, ad
Þessi stendur heilbrigdur fyrir ydar augum.
11. Hann er sá steinn, hverjum Þér, byggíngar-
smidir, burtkostudud, en er ordinn hyrníngar-
12. steinn. Af engum ödrum er hjálprædis*) ad
vænta, Því medal manna gèfst ecki nockurr ann-
ar undir himninum, fyrir hvers fulltíngi oss
sé ætlad hólpnum ad verda.

En

B. 11. Psálm. 118, 22. Es. 28, 16.

*) Höfud-Textans ord Þýdir, eins og hér er útlagt:
hjálprædi, frelsi, og innibinda á Þessum og
fleirum stödum N. T. allar Þær gagnsemdir og
meinabót, sem Lausnarinn veitti og ávann mannesk-
junum. En eptir Þánkagángi Þeirra, er Pétur átti
nú ordastad vid, mun sérilagi meinast: ad eins og
Jesús hafdi sýnt meir enn mannlegann mátt í lækn-
ingu líkhamlegs kránkdæmis, svo væri hann sá eini,
sem frelsad gæti Gydinga frá yfirvofandi lands-
ólucku, sökum Þjódarinnar drottnandi og dagvaxandi
Þóda spillirs, hverja Þeir vafalaust hefdu umflúid, hefdu
Þeir betur og almennar sinnt hans lærdómi; hvar á
mót Þeir Þyrftu einkis annars Messíass edur
Þjódar Frelsara ad vænta.

En er þeir sáu einarðleik Péturs og Jó- 13.
hannesar og vissu að þeir vóru ólærðir almúga-
menn, undruðust þeir; líka þecktu þeir þá, að
þeir hefðu verið með Jesú. Og nú, er þeir 14.
sáu manninn, sem læknaður hafði verið, standa
hjá þeim, hefðu þeir engu að svara; því skip- 15.
uðu þeir þeim að gánga út frá Ráðinu og
ráðguðust um sín á milli, svo segjandi: hvað 16.
skulum vér gjöra við þessa menn? því það er
þeckjanlegt kraptaverk, sem þeir hafa framið og
er augljóst orðið öllum, sem búa í Jerúsalem
og vér gétum ecki neitað því. En svo að 17.
þetta breidist ecki meir út meðal fólksins, svo
skulum vér ógna þeim með hótunar-yrðum, að
þeir ecki tali framar í þessu nafni til neins
manns. Nú kölluðu þeir þá fyri sig og bönn- 18.
uðu þeim strengilega að kénna eður láta orð
af sér heyra um Jesús. Pétur og Jóhannes 19.
svöruðu þeim: dæmið sjálfir hvert það sé rétt
fyrir augum Guðs, að hlýðnast yður fremur
enn Guði. Enda gétum vér ecki látið vera að 20.
tala það, sem vér höfum heyrt og séð. Hin- 21.
ir juku þá sínar ógnanir og slepptu þeim svo,
því þeim hugsaðist engin átylla, uppá hverja
þeir gætu straffað þá fyrir fólkinu, þar allir
lofuðu Guð fyrir það, sem skéð var; því sá 22.
maður var yfir fertugt, er með tjeðu krapta-
verki var læknaður.

Þá búið var að láta þá lausa, komu þeir 23.
til sinna og greindu þeim frá öllu, er Höfuð-
prestarnir og Öldúngarnir höfðu sagt við þá.
Þegar þeir heyrðu það, hófu þeir samhuga 24.

sína raust til Guds og segdu: Alherra þú, ó
Guð! sem gjört hefir himininn og jördina og
25. sjóinn og allt hvað í þeim er; þú, sem mæltir
svo fyrir munn Davids þjóns þíns: hví æda
heidíngjarnir og hví rádbrugga þjódirnar end-
26. urleysu? Jardarinnar Konúngar halda mót
og Furstarnir taka sig saman móti Drottni og
27. hans Smurda. Já, sannarlega urdu samtaka
í borg þessari gégn þínum helga þjóni Jesú,
hvern þú smurt hafdir, Heródes og Pontíus
28. Pílatus ásamt heidíngjunum, til ad gjöra allt
hvad þín hönd og þitt ráð hafdi tilætlad ad
29. ské skyldi. Og nú, Drottinn! lít á þeirra
heitíngar og géf þínum þénurum med fullri
30. djörfúng ad tala þitt erindi! útrétt þar til
þína hönd, ad ské megi lækníngar, kraptavérk
og fyriburdir við fulltíngi þíns heilaga erinds-
31. reka Jesú! Og er þeir höfdu bedist fyrir, bif-
adist stadurinn hvar þeir vóru samankomnir
og þeir urdu allir fullir af heilagri andagift og
töludu einardlega Guds erindi.
32. Í safnadi enna trúudu var eitt hjarta og
ein sál; enginn sagdi það vera sitt, er hann
33. átti, heldur var þeim allt sameginlegt. Post-
ularnir vitnudu um Herrans Jesú upprisu med
34. miklum krapti og allir unntu þeim. Medal
þeirra var enginn þurfamadur, því hverr, sem
átti fasteign edur hús, seldi það, kom med
35. andvyrdid og féck það Postulunum til umráda.
36. Pannig seldi Jóses, hvern Postularnir auk-
nefndu Barnabas (hvad ed útleggst: sá hugg-
unar-ríki) einn Leviti, ættadur úr Cyprus, akur,

V. 25. Psálm. 2, 1. 2.

er hann átti, kom med verdid og gaf þad í vald Postulanna.

I.) Ananíasar og Saphíru breckir og straff 1—11. II.) kraptaverk Postulanna; margir taka trú 12—16. III.) Postularnir settast í vardhald, en frelsast þadan af Engli 17—20. IV.) úr musterinu eru þeir leiddir fyrir Rádid, sem vill ráda þá af dögum 21—33. V.) Gamalíel afstýrir því; þeir erú húdstrýktir, látnir lausir, en halda samt áfram ad kénna 34—42. 5. Kap.

En madur nockurr ad nafni Ananías, hvers 1.
kona hét Saphíra, seldi fasteign og dró nockud 2.
undan af andvyrdinu, med vitund konu sinnar,
en færdi og ofurlét Postulunum nockud. Pét- 3.
ur sagdi þá: Ananías! hví létstú Satan koma
þér til þess ad ljúga ad heilogum Anda og
leyna af jardar-verdinu? var hún ecki þín á 4.
medan hún var ófergud? og eptir seluna mátt-
irdú eins ráda verdi hennar. Hverninn gatstú
þá látid þér huggvæmast slíkt til-tæki? ecki
laugstú ad monnum, heldur ad Gudi. Undir 5
eins og Ananías heyrdi þessi ord, datt hann
nidur og gaf upp andina og miklum ótta sló
yfir alla, sem þetta heyrdu; en úngmenni bjuggu 6.
um líkid, báru þad burt og jordudu. Ad lidn- 7.
um svo sem þrem stundum bar svo til, ad kona
hans géck þar inn, án þess ad vita hvad skéd
var. Pétur spurdi hana: segdú mér, seldud 8.

þið jörðina svo og svo dýrt? hún svaraði: já,
9. hvörki meira né minna. Pétur mælti þá til
hennar: hví urðuð þið samráða í að freista
Anda Drottins? sjá! fætur þeirra, sem greftr-
uðu mann þinn, eru við dyrnar og munu út-
10. bera þig. Jafnskjótt datt hún niður og gaf
upp öndina. En úngmennin komu inn, fundu
hana dauða, báru hana út og grófu hjá manni
11. sínum. Og mikill ótta sló yfir allann söfn-
uðinn og yfir alla, sem þetta heyrðu.
12. Framvegis skeðu fyrir hendur Póstulanna
mörg tákn og furðuverk meðal fólksins; og all-
ir*) fylltu einn flokk og héldu til í Salómons
13. stólpa-gángi; og enginn annarlegur dirfðist að
samlagast þeim, heldur miklaði þá lýðurinn.
14. En jafnan jukust fleiri við, sem tóku trú, mik-
15. ill fjöldi karla og kvenna, svo að þeir báru
vanfæra menn út á strætin og settu þá á beðða
og lausa-rúm, þannig, að þegar Pétur kjæmi
mætti að minnsta kosti skuggi hans falla á ein-
16. hvörn þeirra. Fjöldi fólks kom og úr kríng-
um-liggjandi borgum til Jerúsalem, flytjandi
sjúka, kvalda af óhreinum öndum, sem allir
urðu heilbrigðir.
17. Nú tók sig upp Presta-höfdínginn og þeir,
sem með honum héldu, nefnilega: flockur Sa-
18. dúcæanna og fylltust af vandlætíngu og lögðu
hendur á Postulana og settu þá í almenut
19. fánga-hús. En engill Drottins opnaði um nótt
20. fánga-húsins dyr, leiddi þá út og sagði: farið
héðan, gángið frjálslega og talið í musterinu
öll þessi lífsins orð til fólksins.

*) Það er: Kristnir.

Sem þeir höfdu þetta heyrt, gengu þeir 21.
ár-degis upp í musterid og kénndu. Þá nú
Presta-höfdínginn kom og hans áháugendur, köll-
udu þeir saman Rádid og gjörvalla Israels-
barna Öldúnga og sendu til mirkva-stofunnar
ad sækja þá. En er þénararnir komu og fundu 22.
þá ecki í dýblissunni, hurfu þeir aptur og kuñ-
gjördu þad svo mælandi: fánga-húsid fundum 23.
vér ad sönnu vandlega læst og vard-mennina
standa fyrir dyrunum, en þá vér lukum upp,
fundum vér engann inni. Þegar þeir heyrdu 24.
þessa sögu, Presta-höfdínginn og Herstjórinn vid
musterid og Höfud-prestarnir, urdu þeir efa-
blandnir hverninn á þessu stædi. Í því kom 25.
ad madur, sem kunngjördi þeim: sjá! þeir menn,
sem þér settud í dýblissu, eru í musterinu ber-
sýnis og kénna þar fólkinu. Þá fór Herstjór- 26.
inn af stad med þénurunum og sókti þá, þó
án ofbeldis, af hrædslu vid fólkid, ad ecki yrdu
þeir grýttir. Nú sem þeir vóru komnir med 27.
þá, leiddu þeir þá fram fyrir Rádid. Presta-
höfdínginn spurdi þá Postúlana: höfum vér ecki 28.
lagt ríkt á vid ydur, ad kénna ecki í þessu
nafni*)? og sjá! samt hafid þid fyllt Jerúsa-
lem med yckar kénníngu og viljid leida yfir oss
þessa manns blód**). Þá svaradi Pétur og 29.
Postularnir: framar ber ad hlýda Gudi enn
mennum. Vorra fedra Gud uppvakti Jesúm, 30.
hveru þér líflétud og upphengdud á tré. Þenna 31.
Foríngja og Frelsara hefir Gud hafid med
sinni hægri hendi, svo hann veiti Israel apt-

*) Prédika hañ nú lærdóm, hvers höfundur Jesús var.
**) Koma á oss sekt og vordi fyrir aftöku Jesu.

32. urhvarf og syndanna fyrirgéfníngu; og vér erum hans vottar ad þessu og sá heilagi Andi, hvern Gud gaf þeim, er hlýdnudust honum.
33. Þá þeir heyrdu þetta, skáruſt þeir innvortis og vóru þegar alrádnir í ad lífláta þá.
34. En í Rádinu stód þá madur upp, Pharísæari, ad nafni Gamalíel, einn Logspekíngur, velmetinn af öllu fólki; hann skipadi: ad Post-
35. ulunum væri vikid út snöggsinnis og sagdi svo: Þér, Israels menn! athugid vel hvad þér tak-
36. id fyrir vid þessa menn. Fyrir stuttu reis upp Teudas og lét mikid yfir sér. Til hans hylltust nær fjegur hundrud manns; enn hann var drepinn og allir þeir, sem hann þýddust, erú
37. sundur-tvístradir og ad engu ordnir. Eptir hann reis upp Júdas Galílæari, skatta-tekju árid, og lockadi ad sér fjölda fólks. Hann fyrifórst líka og allir þeir, sem med honum héldu,
38. sundurdreifdust. Og nú segi eg ydur: hættid vid þessa menn og látid þá vera. Því ef þetta áform, edur fyritæki er af monnum, fellur
39. ur þad sjálfkrafa; en sé þad af Gudi, þá megnid þér ecki ad kéfja þad; enda látid ydur ecki verda fundna í ad vilja strída vid Gud.
40. Á þetta félluſt þeir, kolludu á Postulana, strýktu þá, fyrirbudu þeim ad tala í Jesú Nafni og
41. létu þá svo lausa. En þeir gengu gladir burt frá Rádsins augsýn yfir því, ad þeir, sökum Jesú vidurkénníngar, hefdu verid vyrdtir hád-
42. úngar. Og hvern dag kénndu þeir í Musterinu og í hverju húsi, án afláts, bodandi fagnadar lærdóminn ad Jesús sé Messias.

V. 32. Sjá Kap. 3, 4.

I.) Tala kristinna fjølgar og sjø Djáknar velj- 6. Kap.
ast 1—7. II.) Stephanus gjørir furdu-
verk; enginn gétur mótstadid hans speki,
en ljúgvitni leidast gégn honum 8—15.

Um þessar mundir, þá tala Lærisveinanna óx, 1.
kom upp kurr hjá þeim Grísku móti enum He-
bresku*), út af því, ad eckjur þeirra óvyrdtust
vid hversdaglega þjónustu**). Þeir tólf køll- 2.
udu þá þorra Lærisveinanna samann og søgdu:
ecki er gott ad vér yfirgéfum Guds ord til ad
þjóna fyrir bordum. Skygnist því, brædur! 3.
eptir sjø mønnum vel ræmdum ydar á medal,
sem fullir séu af heiløgum Anda og vísdómi,
svo vér selum þeim þessa naudsyn; en vér sé- 4.
um stødugir vid bæna-haldid og ordsins þjón-
ustu. Þessi um-mæli féllu vel í géd øllum søfn- 5.

*) Undir Hebreskum skiljast þeir kristnir, sem vóru innlendir í Gydingalandi; en undir Griskum þeir, sem vóru annarar þjódar, edur ecki toludu Gydinga mál, þó tekid hefdu trú þeirra.

**) Hjá Grickjum var ecki til sids ad qvennfólk í betri rød gengi um beina, þjónadi karlmønnum eda færi á torg, hvad þó mun verid hafa Djákna-innanna kall, ádur karlmenn vóru til þess teknir med þeim. Hjá þeim nýrri er annars vidtekin sú útlegging: ad Grickjanna knurr hafi risid út af misjøfnum skiptum á fátækra fé, nefnilega: ad þær útlendsku eckjur hafi farid varhluta í daglegri adhjúkrun og annari ølmusu veiting fremur þeim innlendu.

V. 2. Samqvæmt þessari áminnstu nýari útleggingu, yrdi í stad þessara þriggja orda ad setja: standa vid peninga bord og sýsla um adra fjárrádsmennsku.

ydinum og þeir útvoldu Stephán, mann full=
atin af trú og heilögum Anda; Philippus*),
Prókórus, Nikanór, Tímon, Parmenas og
6. Nikolás, Gyding ordinn frá Antiochíu. Þessa
framleiddu þeir fyrir Postulana, sem bádust
7. fyrir og lögdu hendur yfir þá. Nú útbreidd=
ist ódum Guds ord, tala Lærisveinanna jókst
hardla mjög í Jerúsalem og jafnvel fjöldi Presta
tók trú.

8. En Stephanus fullur af nád og krapti,
gjørdi stór furduverk og teikn medal fólksins.
9. Þá tóku sig til nockrir félagar þeirra, er nefnd=
ust Leysíngjar, frá Cyrene og Alexandríu, Ciliciu
og Asíu og þreyttu spurníngar vid Stephanus.
10. En þeir gátu ecki stadid gégn þeirri vitsku og
11. þeirri andagift, sem hann taladi af. Þá settu
þeir út menn, er søgdu: vér høfum heyrt hann
12. tala smánar=ord móti Mósi og Gudi; æstu svo
upp almúgann, Øldúngana og þá Skriftlærdu,
veittust ad honum og gripu hann og leiddu fyr=
13. ir Rádid; létu svo koma fram ljúgvitni, er
søgdu: þessi madur lætur ecki af ad tala stór=
yrdi móti þessum heilaga Stad og Løgmálinu,
14. því vér høfum heyrt hann segja: ad Jesús af
Nazareth mundi eydileggja þennann Stad og
umbreyta þeim sidum, sem Móses hefir oss
15. fyrilagt. Øllum, sem í Rádinu sátu, vard
starsýnt á Stephanus og vyrdtist hans ásjána
vera sem engils ásjána.

*) Sjá Kap. 8, 5. 21, 8.
V. 7. Sjá Kap. 8, 4.

I.) Stephanus upptelur Guds velgjerníngar við hið óþakkláta Gyðínga fólk 1—50. 7. Kap.
II.) ávítar Gyðínga fyrir framhald sinnar þvermóðsku og er grýttur 51—60.

Þá spurði Kennimanna-höfðínginn: er þessu svo varið? Stephanus mælti: Landsmenn, 1.
Bræður mínir og Feður! hlustið til: Guð 2.
dýrðarinnar birtist Feður vorum Abraham
meðan hann var í Mesopótamíu, áður enn hann
bjó í Karran og sagði til hans: far burt úr 3.
landi þínu og frá frændfólki þínu og kom í það
land, er eg mun vísa þér á. Þá fór Abra- 4.
ham úr Kaldæalandi og tók sér bólfestu í Kar-
ran. En eptirá, þá faðir hans var látinn,
flutti hann sig yfir til þessa lands, í hverju
þér nú búið. Þó gaf Guð honum enga land- 5.
eign þar í, ecki svo mikið, sem eitt fótmál, en
hét að honum skyldi auðnast að nema það og
hans afsprengi eptir hans dag, jafnvel þó hann 6.
eckert barn ætti; jafnframt sagði Guð svo: þín-
ir afkomendur skulu búa sem útlendíngar í ann-
arlegu landi, hvar menn munu þjá þá og ílla
meðhöndla í fjøgur hundruð ár; en þjóð þá, 7.
hverri þeir verða ánauðugir, mun eg — sagði
Guð — straffa. Eptir það munu þeir fara
þaðan og dýrka mig í þessum stað. Líka gaf 8.
hann honum sáttmála umskurnarinnar. Svo
gat Abraham Ísaak og umskar hann á átt-
unda degi; en Ísaak gat Jakob, en Jakob þá
tólf ættfeður. Téðir ættfeður seldu øfund á 9.
Jóseph og seldu hann til Egyptalands; en Guð

V. 3. 1 Mós. 11, 12. 13.

10. var með honum og útrycfti honum úr öllum
hans þrengíngum og gaf honum hylli og vitsku
fyrir augum Pharaós Egypta Konúngs, svo
hann setti hann til yfirmanns yfir Egyptaland
11. og allt sitt hús. Nú kom hallæri yfir gjörvallt
Egyptaland og yfir Kanaan megn húngurs neyð,
12. svo feður vorir fundu ecki atvinnu. Þá heyrði
Jakob að korn væri að fá í Egyptalandi og
13. útsendi feður vora í fyrsta sinni. Í öðru sinni
lét Jóseph bræður sína þeckja sig og Pharaó
14. varð kunnug Jósephs ætt. Síðan sendi Jóseph
eptir föður sínum Jakob og öllu frændfólki sínu,
15. sjötíu og fimm sálum. Jakob fór þá niður til
Egyptalands, hvar hann dó og feður vorir,
16. en var fluttur til Sichem og lagður í þann
legstað, er Abraham hafði keypt fyrir silfur
17. af Amórítunum í Sichem. En er nálgaðist
tími fyrirheitisins, hvert Guð hafði svarið Abraham,
óx fólkið og margfaldaðist í Egyptalandi,
18. uns nýr Konúngur kom til ríkis, sá er
19. ecki þeckti til Jósephs. Hann beitti slægð við
kyn vort og misþirmdi feðrum vorum og lét
bera út úngbörn þeirra, svo þeir ecki tímguðust.
20. Um þetta bil fæddist Móses og var frábærlega
fríður; hann ólst upp þrjá mánuði í
21. föður-húsum. En er hann var útborinn, tók
dóttir Pharaós hann upp og ól sér fyrir son.
22. Og Móses var mentaður í allri speki egyptskra
manna og varð máttugur í orðum og verkum.
23. En er hann hafði náð fertugs aldri, kom hon-

V. 10. 1 Mós. 41.
V. 16. 1 Mós. 15. 49, 50. | 2 Mós. 13.
V. 20. 2 Mós. 1.

um í hug að skygnast eptir brædrum sínum,
Israels niðjum; þá sá hann einn verda fyrir 24.
ójofnudi, rétti hluta þess, sem misþirmt var
og drap þann Egyptska. En hann hugsadi að 25.
brædur sínir mundu skynja, að Guð hefdi ætl-
að hann þeim til frelsis, en þeir skynjudu það
ecki, því nærsta dag hitti hann tvo í íllilegu 26.
innbyrdis strídi og sýsti þá til fridar með þess-
um ordum: menn! þið erud brædur, því viljið
þér beita ójafnadi innbyrdis? en sá, sem órétt 27.
gjørdi náúnga sínum, hratt Móse frá sér og
sagdi: hverr hefir sett þig til yfirmanns edur
dómara yfir ockur? ellegar ætlar þú að drepa 28.
mig eins og þú drapst Egyptarann í gjær?
Sokum þessara um-mæla flúði Móses og vard 29.
útlendur í Madíans landi, hvar hann gat tvo
syni. Að fullum fjørutíu árum birtist honum 30.
í eydimørku Sínaí fjalls, engill Drottins í elds-
loga á þyrni-runni. Þegar Móses sá sýnina, 31.
undradist hann; en er hann géck þar að til að
athuga betur, skédi rodd Drottins til hans:
eg em Guð fedra þinna, Guð Abrahams, Guð 32.
Isaaks og Guð Jakobs. Nú vard Móses
skélfdur og þordi ecki að hyggja að. Þá sagdi 33.
Drottinn honum: leystú af þér skóna, því
stadurinn, sem þú stendur á, er heilog jørd.
Glegglega hefi eg sjeð misþirmíngu míns fólks 34.
og þeirra andvarpanir hefi eg heyrt og em nú
ofan-kominn til að frelsa þá; kom! eg vil senda
þig til Egyptalands. Þennann Móses, hvern 35.
þeir afsøgdu svo segjandi: "hverr setti þig til
høfdíngja og dómara," þann sama sendi Guð,

V. 30. 2 Mós. 3.

sem hefdíngja og lausnara, fyrir milligaungu
engilsins, er honum birtist í þyrni-runninum.
36. Þessi leiddi þá út, gjørdi tákn og furduverk á
Egyptalandi og í hafinu rauda og í eydimørk-
37. inni um fjørutíu ár. Þetta er sá Móses,
sem sagdi Israels nidjum: "Spámann myn
Gud uppvekja ydur af brædrum ydar, eins og
38. mig, gégnid honum." Þessi er sá, sem á sám-
komum í eydimørkinni géck milli engilsins, er
vid hann taladi á Sínaí, og fedra vorra, sá
ed tók vid þeim líffroptugu ordum til ad géfa
39. oss þau; hverjum fedur vorir vildu ecki hlýdn-
ast, heldur burtskúfudu honum og snéru huga
sínum til Egyptalands, segjandi til Arons:
40. gjør oss Gudi þá, er séu vorir leidtogar; því
vér vitum ecki hvad um hann Móses er ord-
41. id, sem útleiddi oss úr Egyptalandi. Í sama
sinn létu þeir smída kálf, færdu fórnir godinu
42. og kjætust yfir sínum handaverkum Þá snéri
Gud sér frá þeim og ofurgaf þá, svo ad þeir
dýrkudu himinsins her, eins og skrifad er í
Spámanna bókinni: "ecki hafid þid, o Isra-
els hús! offrad mér slátrunar-fé né ødrum
fórnfæríngum í þau fjørutíu ár, sem þér dvøld-
43. ud í eydimørkinni, heldur bárud þér Móloks
tjaldbúd og stjørnu Remfans ydar Guds bílæti,
sem þér høfdud smídad til ad tilbidja; og eg vil
44. flytja ydur út fyrir Babylon." Vitnisburdar
tjaldbúdin, sem fedur vorir høfdu í eydimørk-
inni, var eins og sá hafdi fyrirskipad, er mælti
vid Móses, ad hann skyldi gjora hana eptir

V. 37. 2 Mós. 18, 15. V. 41. 2 Mós. 32.
V. 42. Amos 5, 25. 26. V. 44. 2 Mós. 25.

mind, Þeirri, sem hañ sjed hefdi. Vid heñi tóku 45.
fedur vorir hverr af ødrum og undir Jósúa færdu
hana med sér á stødvar heidíngjanna, sem Gud
útrak frá augsýn fedra vorra, allt fram á daga
Davids. Hann fann náð hjá Gudi og beidd= 46.
ist ad mega sjá Jakobs Gudi fyrir hýbýli; en 47.
Salómon bygdi honum hús. Nú býr sá 48.
Hæsti ecki í smídi, sem manna hendur hafa
gjørt, eins og Spámadurinn segir: "Himininn 49.
er mitt hásæti og jørdin min fótskør, hvada hús
skyldud Þér byggja mér — segir Drottinn —
eda hvar er hvíldar=stadur handa mér? hefir 50.
mín hønd ecki gjørt allt Þetta?"

Þér, hardsvíradir og óumskornir í hjarta 51.
og eyrum! sífeldt Þverskallist Þér gegn heiløg=
um Anda, allt eins og fedur ydar, eins Þér.
Hvern Spámannanna hafa ecki fedur ydar of= 52.
sókt og líflátid Þá, er fyrirfram bodudu tilkomu
ens Réttláta, hvers ofurseljendur og mordíng=
jar Þér erud ordnir; Þér, sem medtekid hafid 53.
løgmálid fyrir englaña milligaungu og haldid Þad
ecki. Þá Þeir heyrdu Þetta, skárust Þeir í 54.
hjørtum sínum og gnýstu tennum yfir honum;
en hann, fullur af heiløgum Anda, horfdi til 55.
himins og leit Guds dýrd og Jesúm standa
vid Guds hægri hønd. Þá mælti hann: sjá! 56.
eg sje himnana opna og Mannsins Son standa
til hægri handar Gudi. Hinir hrópudu Þá upp 57.
há=hljódum, byrgdu fyrir eyru sér og rédust á
hann samhuga, hrepptu hann út af borginni 58.
og grýttu hann. En vottarnir løgdu skickjur
sínar til fóta úngmennis, er Sál hét *) og 59.

V. 49. Es. 66. *) Þ. e. fengu honum til vardveitslu.

þeyttu steinum á Stephanus, sem badst fyrir og
sagdi: Herra Jesú! medtak þú minn anda!
60. Sídan féll hann á knè og hrópadi há-stefum:
Drottinn! lát þá ecki gjalda þessarar syndar!
med þeim ordum dó hann.

8. Kap. I.) Sál ofsækir Sofnudinn 1—4. II.) Philippus snýr Sámverskum til kristni; Postularnir leggja hendur yfir þá og þeir edlast heilagann Anda; Símon galdramadur vill kaupa vald til ad meddeila andans gáfur og straffast fyrir þad 5—25. III.) Philippus snýr til kristni Hirdstjóra Kandasis 26—40.

1. Sál lét vel yfir lífláti hans *) og sama dag
hófst stór ofsókn gégn sefnudinum í Jerúsalem,
svo hann dreifdist vída vegar um héred Gydíngalands og Samaríu, allir nema Postularn-
2. ir. En gudhræddir menn bjuggu um lík Ste-
3. phanusar og hermudu hann mikid. Sál þar
á mót hrakti og hrjádi sefnudinn, leitadi í
hverju húsi og dró þadan menn og konur, er
4. hann afhendti í vardhald. Nú fóru þeir, ed
burt hefdu tvístrast híngad og þángad og bodudu nádar lærdóminn.
5. Þannig fór Philippus til borgarinnar Sa-
6. maríu og bodadi þar Krist. Fjøldi borgarmanna veittu samhuga eptirtekt hans kenníngum, þá þeir heyrdu og sáu kraptaverkin, sem
7. hann gjørdi, því frá mørgum, er hefdu óhreina
anda, viku þeir burtu med ópi miklu og marg-

*) Þad er: Stephanusar.

ir límafallssjúkir og halltir læknuðust, svo mikil 8.
gleði varð í borginni. En maður nockur að 9.
nafni Símon, var fyrir í borginni, sá eð fór
með fjölkíngi, sem samverska þjóðinni óx mjeg
í augum og lét mikið yfir sér. Til hans hnigu 10.
allir smáir og stórir, segjandi: þessi er Guðs
kraptur í sannleika mikill. En þess vegna 11.
hnigu þeir að honum, að hann hafði í lánga
tíð gjert þá forviða með sínum töfrum. Nú 12.
sem þeir trúðu Philippusi, er boðaði þeim náð-
ar lærdóminn um Guðs ríki og Jesúm Krist,
létu menn og konur sig skíra. Sjálfur Símon 13.
tók líka trú og er hann var skírður, héldt hann
sér stöðugt til Philippusar, varð og hissa, er
hann sá teikn og stór kraptaverk ské. Þegar Post- 14.
ularnir í Jerúsalem heyrðu að Samaría hefði
meðtekið Guðs orð, sendu þeir Pétur og Jó-
hannes þángað. Þessir komu og báðu fyrir 15.
Samverskum, að þeir mættu öðlast heilagann
Anda; því hann hafði ecki fallið yfir neinn 16.
þeirra, einúngis vóru þeir skírðir í nafni Herr-
ans Jesú. Síðan legðu þeir hendur yfir þá 17.
og þeir meðtóku heilagann Anda. En er Sí- 18.
mon sá, að heilagur Andi veittist fyrir handa
uppáleggíngu Postulanna, færði hann þeim fé
og sagði: gefið mér einnig þetta vald, að yfir 19.
hvern, sem eg legg hendur, megi öðlast heilag-
ann Anda. Pétur andsvaraði honum: þrífist 20.
aldrei silfur þitt né þú, fyrst þú hugsar að
Guðs gjöf fáist fyrir fé. Þú átt engann þátt 21.
né hlutdeild í þessum lærdómi, því þitt hjarta-
lag er ecki rétt fyrir augum Guðs. Aflegðu 22.
því þessa þína vonsku og bið Guð, ef þér

23. kynni fyrigéfast þetta íllrædi þíns hugskots; því eg
sje þig búa yfir bitri íllmennsku og rótgróinni
24. rángsleitni. Símon svaradi: bidjid fyrir mér
til Drottins, ad ekkert hríni á mér af því, sem
25. þér segdud. Eptir ad þeir høfdu hér ítarlega út-
listad og kénnt ord Drottins, snéru þeir aptur
til Jerúsalem og bodudu gledi-bodskapinn í
mørgum þorpum Samverska.
26. En engill Drottins taladi vid Philippus
og sagdi: statt upp og gack sudur á veg þann,
sem liggur frá Jerúsalem til Gaza; hún er
27. nú í eydi. Hann stód upp og fór. Og sjá!
einn etíópiskur madur, géldíngur og stór-høfd-
íngi hjá Kandase Drottníngu í Etíópíu, sem
settur var yfir ølla hennar fjársjódu; hann hafdi
28. farid gudrækni, for til Jerúsalem og var á
heimleid, sat í vagni og las Esajas Spámann.
29. Andinn sagdi þá vid Philippus: gack ad þess-
30. um vagni og hvarfladu ecki frá honum. Phi-
lippus skundadi til, heyrdi manninn vera ad
lesa Spámanninn Esajas og spurdi: skilurdu
31. þad þú les? hinn svaradi: hvernig skyldi eg
géta þad, fyrst enginn segir mér til? bad hann
svo ad stíga upp í vagninn og setjast hjá sér.
32. En Ritníngar-greinin, sem hann las, var þessi:
"eins og saudur var hann til slátrunar leidd-
ur og sem lambid þegir hjá þeim, er klippir
þad, svo lauk hann ecki sínum munni upp.
33. Í lægíngu er hans dómur*) útendadur; hverr
gétur útmálad eld hans tídar, því af jørdunni
34. verdur líf hans upprætt."**) Géldíngurinn

V. 33. Es. 53, 10. 11. *) þúngu kjør.
**) rádinn af dogum, sem óbótamadur.

innti til vid Philippus: eg bid, seig mér, um hvern
talar Spámadurinn þetta? hvert um sjálfann
sig edur annann? Þá lauk Philippus upp sín- 35.
um munni, tók til á áminnstri Ritníngar-grein
og bodadi honum fagnadar lærdóminn um Jesús.
En sem þeir fóru veginn, komu þeir ad vatni 36.
nockru, þá mælti Géldíngurinn: sjá vatnid!
Hvad hamlar mér ad skírast? og hann skipadi 37.
ad stansa vagninn. Nú stigu bádir nidur í 38.
vatnid Philippus og Géldíngurinn og Philip-
pus skírdi hann. En þá þeir vóru stignir upp 39.
úr vatninu, greip Andi Drottins Philippus
burt, svo Géldíngurinn sá hann ecki framar.
Þessi fór samt gladur leid sína; en vid Phi- 40.
lippus vard vart í Asdod; þar géck hann um
kríng og bodadi Gudspjallid í hverri borg, uns
hann kom til Cæsareu.

## 9. Kap.

I.) Sál snýst til kristni 1—19. II.) hann kénnir, er ofsóktur, kémur til Jerúsalem og verdur aptur ad flýa. Sofnudurinn fær ró 20—31. III.) Pétur læknar Eneas, uppvekur Tabithu 32—43.

Sál linnti enn ecki ógnunum og mann-drápi 1.
vid Lærisveina Herranns og nú géck hann til
Presta-hofdíngjans og óskadi af honum bréfa 2.
til samkundanna í Damaskus, svo ad ef hann
finndi nockra menn edur konur, sem tekid hefdu
þessa trú, þá mætti hann færa þá bundna til
Jerúsalem. Í þeirri ferd bar svo til, þegar 3.
hann nálgadist Damaskus, ad um hann leyptr-

4. adi skyndilega ljós af himni; og sem hann
datt til jardar, heyrdi hann rödd segja vid sig:
5. Sál! Sál! hví ofsækir þú mig? hann ansadi:
Herra! hverr ert þú? Drottinn svaradi: eg er
6. Jesús, hvern þú ofsækir. En statt upp og
gack inn í borgina, þar skal þér verda sagt
7. hvad þér ber ad gjora. Förunautar hans stódu
eins og heggdofa, því þeir heyrdu raustina, en
8. sáu engann. Þegar Sál komst á fætur og
opnadi augun, sá hann engann mann, en hinir
9. leiddu hann vid hend sér inn í borgina; þar
var hann í þrjá daga sjónlaus og át ecki né
10. drack. En í Damaskus var einn Lærisveinn,
sem hét Ananías. Vid hann sagdi Drottinn í
eini vitrun: Ananías! hinn ansadi: hér em eg,
11. Herra! Drottinn mælti framar: gack í stræti
þad, sem kallast hid beina og spurdú í húsi
Júdasar eptir tarsiskum manni, sem heitir
12. Sál, því sjá! hann bidst fyrir og hefir í vitr-
un sjed mann, ad nafni Ananías, koma og
leggja hendur yfir sig, svo hann yrdi aptur
13. sjáandi. Ananías svaradi: Drottinn! eg hefi
heyrt af mörgum um þennann mann, hversu
mikid íllt hann hefir gjört þínum heilögu í
14. Jerúsalem og hér hefir hann vald til frá Presta-
höfdíngjunum ad binda þá alla, sem vidur-
15. kenna þitt nafn. Drottinn sagdi til hans:
fardú! því þessi er mér útvalid verkfæri til ad
bera nafn mitt fram fyrir heidnar þjódir og
16. Konúnga og fyrir Ísraels börn, svo mun eg
og láta hann reyna hversu mikid íllt honum ber
17. ad þola vegna míns nafns. Þá fór Ananías
af stad, kom í húsid og lagdi hendur yfir hann

segjandi: Sál bródir! Herrann sendi mig (sá
sami, sem þér birtist á veginum, er þú komst
híngad), svo þú fengir sýn þína og fylltist hei-
logum Anda. Þá féll strax af augum hans 18,
eins og hreistur og hann vard heilskygn. Síd- 19,
an stód hann upp og var skírdur og er hann
hafdi neytt fædu, styrktist hann. Sál dvaldi
nockra daga hjá Lærisveinunum í Damaskus.

20, Og strax kénndi hann í samkundu-húsun-
um ad Jesús væri Guds Sonur. Allir þeir, 21,
sem heyrdu þad, undrudust stórum og sögdu:
er þessi ecki sá, sem í Jerúsalem hrakti alla,
er þetta nafn medkénndu og kom híngad til ad
flytja þá bundna til Presta-höfdíngjanna? En 22,
Sál eblidist meir og meir og bardi mál úr
munni þeim Gydíngum, sem bjuggu í Dama-
skus og sannadi med rökum: ad Jesús væri
Kristur. Rúmum tíma þar eptir tóku Gyd- 23,
íngar rád sín saman ad drepa hann, en Sál 24,
féck vitneskju um þeirra rádagjörd. Hinir 25,
gættu portanna nótt og dag, svo þeir nædu lífi
hans, en Lærisveinarnir tóku hann um nótt og
létu hann í körfu síga út fyrir múrinn. Þá 26,
nú Sál kom til Jerúsalem, reyndi hann til ad
samlaga sig Lærisveinunum, en öllum stód geig-
ur af honum og trúdu því ecki ad hann væri
Lærisveinn. Þá tók Barnabas hann ad sér, 27,
leiddi hann til Postulanna og skírdi frá hvern-
inn hann á veginum hefdi sjed Herrann og tal-
ad vid hann og hversu einardlega hann hefdi
flutt Jesú erindi í Damaskus. Eptir þad 28,
vard hann handgenginn Lærisveinunum í Jerú-

salem og rak sköruglega erindi Herrans Jesú.
29. Sérílagi átti hann þrætur og orda-stad vid
Gricki, en þeir áformudu ad ráda hann af dög-
30. um; en er brædurnir urdu þess vísir, skutu
þeir honum undan til Cæsareu og sendu hann
31. þadan til Tarsus. Nú höfdu söfnudirnir frid
um allt Júdaland og Galílæu og Samaríu,
efldust og gengu fram í ótta Drottins, fullir
af huggun heilags Anda.
32. Svo bar til, þá ed Pétur ferdadist alls-
stadar um kríng, ad hann kom einninn til
33. þeirra heilögu, sem bjuggu í Lydda. Þar fann
hann mann, ad nafni Eneas, er i átta ár
34. hafdi rúmfastur legid af limafalls sýki. Pét-
ur sagdi vid hann: Eneas! lækni þig Jesús
Kristur, stattú upp og búdú um þig sjálfur!
35. og strax stód hann upp. Þennann mann sá
allt fólk, sem heima átti í Lydda og í Saron
36. og snéri sér til Drottins. Medal Lærisvein-
anna í Joppe var ein stúlka, sem hét Tabítha,
þad er: Dorkas*), audug af gódum verkum
37. og ölmusu-gjördum. Hún vard veik um somu
mundir og dó. En þegar búid var ad þvo
38. líkid var þad lagt upp á lopt. Pared Lydda
lá nú skammt frá Joppe, fréttu Lærisveinarnir
ad Pétur væri þar og sendu því tvo menn til
hans med bón, ad hann ecki vildi skérast und-
39. an ad koma til þeirra. Pétur fylgdist med
sendimönnunum og var strax, sem hann kom,
leiddur uppá loptid, hvar allar eckjurnar flyckt-
ust ad honum grátandi og sýndu honum kyrtl-
ana og yfirhafnirnar, sem Dorkas hafdi gjört

*) Þad er á Íslenzku: Rá edur Hjartar-inna.

medan hún var lífs. Pétur skipadi þeim øllum 40.
út, beygdi kné sín og badst fyrir, snérist svo ad
líkinu og sagdi: Tabítha! stattú upp! hún lauk
þá upp augunum, sá Pétur og settist upp. Hañ 41.
rétti henni þá hønd sína og reisti hana á fæt-
ur, kalladi sídan á þá heiløgu og eckjurnar og
afhendti þeim hana lifandi. En þetta vard 42.
hljódbært um alla Joppe og margir trúdu á
Herrann. Pétur dvaldi lánga tíd í Joppe hjá 43.
Sútara nockrum, er Símon hét.

10. Kap.

I.) Kornelíusi vitrast engill og sendir til Péturs 1—8. II.) Pétur fær sýn og fer til Cæsareu 9—24. III.) heldur rædu um Krist fyrir Kornelíusi og ødrum heidingjum, er ødlast heilagann Anda og skírast 25—48.

Madur nockurr var í Cæsareu, ad nafni Kor- 1.
nelíus, Hundrads-høfdíngi í þeim her-flocki, er
kalladist hinn Italíski; hann var gudrækinn og 2.
óttadist Gud, samt allt hans hús, gaf og fólki
miklar ølmusur og bad ydduglega til Guds.
Þessi sá í vitrun, nær níundu stundu dags, 3.
bersýnilega engil Drottins gánga inn til sín og
þókti hann segja vid sig: Kornelíus! en hann 4.
stardi felmtsfullur á engilinn og spurdi: Herra!
hvad viltú mér? engillinn svaradi: þínar bæn-
ir og ølmusu-gjørdir eru uppstígnar til minnis
fram fyrir Gud*); og send þú nú menn til 5.
Joppe ad láta sækja Símon þann, er auknefn-
ist Pétur og gistir hjá Símoni Sútara nockr- 6.

*) Lætur þær ecki gleymast.

7. um, hvers hús liggur við sjóinn. Þegar eng-
illinn, sem talaði við hann, var burtfarinn,
kallaði hann á tvo húskarla sína og einn guð-
ræckinn stríðsmann af þeim, er honum vóru
8. handgengnastir, sagði þeim frá öllu og sendi
þá til Joppe.
9. Daginn eptir, þá þeir vóru á leiðinni og
nálguðust borgina, stè Pètur uppá húsþakið til
10. að gjøra bæn sína, um hádegi; hann kénndi þá
sultar og vildi borða, en meðan verið var að
11. matreiða, varð hann frá sèr numinn og sá him-
ininn opnast og eitt ílát fara niður, likt sem
líndúk stórann, uppbundinn í fjórum hornum og
12. koma niður á jörð. Þar í vóru allshúttuð
ferfætt land-dýr, villi-dýr og skriðqvikindi og
13. fuglar loptsins. Jafnframt heyrði hann raust
segja til sín: statt upp, Pètur! slátra og et!
14. Pètur ansaði: nei, Herra! enganveginn! því
aldrei hefi eg etið neitt vanheilagt eður óhreint.
15. Þú sagði röddin í annað sinn til hans: hvað
Guð hefir gjört hreint, það skalt þú ecki meta
16. vanheilagt. Þetta skèði þremsinnum og ílátið
17. varð numið aptur til himins. Meðan Pètur
nú var að ígrunda hvað sýn þessi mundi þýða,
sjá! þá stóðu sendimenn Kornelíusar, sem búnir
18. vóru að uppspyrja Símonar hús, við fordyrið
og vóru að kalla og spyrja, hvert Símon, að
auk-nafni Pètur, væri þar ecki til herbergis.
19. Meðan Pètur var í þaunkum útaf vitrun þess-
20. ari, sagði Andinn honum: sjá! þrír menn leita
að þèr, stattu þess vegna upp og stíg ofan og
far hiklaust með þeim, því eg hefi sendt þá.
21. Pètur gèck þá niður til mannanna og sagði: sjá-

id! eg er madurinn, sem þid spyrjid ad; hvers
erindis komid þér? þeir svörudu: Hundrads-hefd- 22.
ínginn Kornelíus, madur rádvandur og gud-
hrædour og ordsæll af allri Gydínga þjód, fécc
gudlega skipun af heilögum engli, ad senda ept-
ir þér til sín og heyra þín ord. Pétur baud 23.
þeim inn og veitti þeim beina. Um morgun-
inn stód hann upp og fór med þeim og nockr-
ir af brædrunum, sem heima áttu í Joppe,
gengu med honum. Næsta dag komu þeir til 24.
Cæsareu. Kornelíus vænti þeirra og hafdi bod-
id til sín frændum sínum og einka-vinum.

Í því Pétur géck inn, kom Kornelíus á 25.
móti honum og laut honum med knéfalli. Pét- 26.
ur reisti hann upp og sagdi: stattú upp! eg em
einnig manneskja, gaf sig á tal vid hann, géck 27.
sídan inn og fann þar margmenni saman kom-
id. Hann sagdi þá til þeirra: þid vitid hversu 28.
ósæmilegt þad er Gydíngi ad samlaga sig edur
heimsækja útlendínga; en Gud er búinn ad sýna
mér, ad eg á engann mann ad kalla vanheilag-
añ edur óhreinann, og þess vegna kom eg mót- 29.
mælislaust, þá eptir mér var sendt. En nú
vilda eg spyrja, hverra orsaka vegna þér hafid
sendt eptir mér? Kornelíus svaradi: á fjórda 30.
degi hér frá fastadi eg fram á þessa stund og
um níundu stundu badst eg fyrir í húsi mínu;
þá stédi þad, ad madur stód frammi fyrir mér
í skínandi klædum og hann sagdi: Kornelíus! 31.
þín bæn er heyrd og þinna ölmusugjörda er
minnst fyrir Gudi. Sendú nú til Joppe og 32.
láttú kalla á Símon, ad vidurnefni Pétur,
hann gistir í húsi Símonar Sútara vid sjóinn;

33. þá hann kémur, mun hann fræda þig. Jafn=
skjótt senda eg til þín og hefir þú gjørt vel
ad þú komst. Nú erum vid hér allir til stad=
ar fyrir augsýn Guds, til ad heyra allt hvad
34. þér er af Gudi umbodid. Þá lauk Pétur
upp sínum munni og sagdi: sannlega er eg
kominn ad raun um, ad hjá Gudi er eckert
35. manngreinar álit, heldur er hverr sá, sem ótt=
ast hann og hagar sér rádvandlega, honum
36. þócknanlegur af hvada þjód, sem hann er. Þid
hafid heyrt um þann lærdóm, sem Gud hefir
sendt Israels bornum, bodandi frid fyri Jesúm
37. Krist, hverr sjálfur ad er Herra allra. Þér
þeckid atburdinn, sem hljódbær er ordinn um
allt Gydingaland, en hófst í Galílæu eptir þá
38. skírn, sem Jóhannes bodadi, hversu Gud smurdi
Jesúm af Nazareth med heilegum Anda og
krapti; ad hann géck í kring, gjørdi gott og
græddi alla, sem af djøflinum vóru undirþryckt=
39. ir; því Gud var med honum og vér erum
vottar ad øllu, sem hann gjørdi á Gydinga=
landi og í Jerúsalem. Þennann aflífudu þeir
40. og festu á tré, en Gud uppvakti hann á þrid=
41. ja degi og gaf þad, ad hann vard sýnilegur,
ecki øllu fólki, heldur vissum, af Gudi ádur
veldum vottum, oss, sem átum og druckum med
honum, eptir ad hann var upprisinn frá daud=
42. um. Hann skipadi oss ad predika fólkinu og
vitna, ad hann sé af Gudi útvalinn Dómari
43. lifendra og daudra. Þessum bera allir Spá=
menn vitni, ad vegna hans fái hverr, sem á
44. hann trúir, synda qvittun. Ádur enn Pétur
hafdi úttalad þessi ord, féll heilagur Andi yfir

alla þá, sem ræduna heyrdu. Þá urdu hissa 45.
þeir trúudu umskornu, sem med Pétri høfdu
komid, ad yfir heidíngja skyldi líka úthellt vera
gjøf heilags Anda; því þeir heyrdu þá tala 46.
túngum og vegsama Gud. Pétur tók þá til 47.
orda: gétur nockurr varnad þeim vatnsins ad
þeir skírist ecki, sem medtekid hafa heilagann
Anda eins og vér? og hann skipadi ad skíra 48.
þá í nafni Drottins. Sídan bádu þeir hann
ad dvelja hjá sér nockra daga.

I.) Pétur afsakar sína umgengni vid heidíngja 11. Kap.
1—18. II.) Kristnir, sem tvístrast høfdu,
kénna vída. Margir gjørast kristnir í
Antiockíu, svo Barnabas er sendur þáng-
ad, er sækir Pál þángad. Agapus spáir
hallæri og ølmusum er safnad 19—30.

Þad kom til eyrna Postulunum og brædrun- 1.
um í Júdæu, ad einninn heidíngjar hefdu tekid
vid Guds ordi, og þegar Pétur kom heim til 2.
Jerúsalem, átøldu hinir umskornu hann svo
segjandi: þú hefir heimsókt óumskorna og sam- 3.
neytt þeim. En Pétur innti þeim þá alla søg- 4.
una frá rótum og sagdi: eg var í borginni 5.
Joppe á bæn og sá, frá mér numinn, í sýn,
ílát koma úr lopti, ásýndum sem líndúk, upp-
bundinn í fjórum hornum, fara ad mér og er 6.
eg festi sjónir á því, vard eg var vid og sá í
því allrahanda ferfætt land-dýr, villi-dýr, skrid-
qvikindi og fugla himins. Svo heyrda eg 7.
raust, sem sagdi til mín: stattú upp, Pétur!
slátra og et! eg svaradi: nei, Herra! engann- 8.

veginn! Því aldrei hefir neitt óheilagt edur ó-
9. hreint komid mér í munn. Þá sagdi raustin
af himni í annad sinn: hvad Gud hefir gjørt
10. hreint, þad skaltú ecki meta vanheilagt. Þetta
skédi þrisvarsinnum, sídan drógst allt í loptid
11. upp aptur og sjá! samstundis stódu þrír menn
vid húsid, sem vér vórum í, sendir frá Cæsa-
12. reu til mín og Andinn sagdi mér ad fylgjast
med þeim hiklaust. Samferda mér urdu þess-
ir sex brædur og vid komum í hús mannsins.
13. Hann sagdi ockur frá hverninn hann hefdi sjed
engil í húsi sínu, er stód þar og sagdi vid hann;
sendú menn til Joppe og láttú sækja Símon,
14. ad auknefni Pétur, hann mun segja þér þau
sannindi, hvar vid þú og allt þitt hús verdur
15. hólpid. En strax og eg fór ad tala, féll hei-
lagur Andi yfir þá, eins og yfir oss í end-
16. verdu. Eg minntist þá orda Herrans, er hann
sagdi: Jóhannes skírdi med vatni, en þér skul-
17. ud skírast med heilegum Anda. Fyrst Gud
gaf þeim nú sömu gjøf og oss, þá þeir trúdu
á Herrann Jesúm Krist, hverninn var eg þess
18. þá umkominn ad aptra Gudi? Þegar þeir
höfdu þetta heyrt, þögnudu þeir og vegsömudu
Gud segjandi: þá hefir Gud einnig unnt heidn-
um þjódum endurvitkunar til sáluhjálpar.
19. Þeir, sem tvístrast höfdu í ofsókninni gégn
Stephanusi, fóru allt til Fenisíu-lands, til
Cyprus eyar og til Antiockíu borgar, en báru
ecki lærdóminn upp fyrir ødrum enn Gydingum
20. einum. Samt vóru nockrir medal þeirra, ætt-

v. 16. Kap. 1, 5. samanb. med Matth. 3, 11.
v. 19. Kap. 8, 1.

aðir úr Cyprus og Cyrene, sem við komu sína
til Antíockíu, töluðu fyrir Grickjum fagnaðar
boðskapinn um Herrann Jesús. Og Drottins 21.
hönd var með þeim, svo að mikill fjøldi trúði
og snéri sér til Herrans. Þegar fregnin hér 22.
um barst til eyrna safnaðarins í Jerúsalem,
sendi hann út Barnabas, að hann færi til An-
tíockíu; og sem hann kom og sá náð Guðs, 23.
gladdist hann og upphvaði alla að halda sér
stødugt við Herrann með einlægu hjarta, því 24.
hann var góður maður, fullur heilags Anda og
trúar; og mikill fjøldi bættist Drottni. Þaðan 25.
fór Barnabas til Tarsus til að leita að Sál,
og er hann hafði fundið hann, fékk hann hann 26.
með sér til Antíockíu og varð það af, að þeir
vóru saman allt árið hjá þeim søfnuði og kénndu
þar fjølda folks, svo að í Antíockíu nefndust Læri-
sveinarnir fyrst Kristnir. Um somu mundir 27.
komu Spámenn frá Jerúsalem til Antíockíu;
meðal þeirra stóð einn fram, að nafni Agapus 28.
og sagði fyrir, af andagift sinni, að stórt hall-
æri mundi koma yfir gjervalt landið, hvað og
skéði undir Cládíusi Keisara. Lærisveinarnir 29.
ályktuðu því, hverr eptir sínum efnum, að senda
nockuð til bjargar bræðrunum, sem bjuggu í
Júdæu, hvað þeir og gjørðu og sendu með það 30.
Barnabas og Sál til Øldúnganna.

I.) Heródes lætur drepa Jakob og fánga Pét- 12. Kap.
ur, þessi frelsast af engli 1—17. II.)
Heródesar drambsemi og dauði 18—23.
III.) Trúin útbreiðist; Barnabas og Sál
ferðast og taka Markús með sér 24. 25.

1. Á þeim sama tíma lagdi Heródes Kóningur
hendur á nockra af søfnudinum til ad misþirma
2. þeim. Þannig lét hann drepa Jakób, bródur
3. Jóhannesar, med sverdi, og er hann sá ad þetta
gédjadist Gydíngum vel, héldt hann áfram og
lét einninn grípa Pétur; en þad var um Páska-
4. helgina. Nú sem hann hafdi fángad hann, lét
hann setja hann í mirkvastofu og áfhendti hann
sextán strídsmønnum, er til skiptis, fjórir og
fjórir í senn, skyldu gjæta hans og ætladi sér
5. eptir Páskana, ad framselja hann fólkinu. Pét-
ur var þannig geymdur í mirkvastofu, en Søfu-
udurinn bad án afláts fyrir honum til Guds.
6. Nóttina ádur enn Heródes ætladi ad láta leida
hann fram, svaf Pétur milli tveggja strídsmanna,
fjøtradur med tveim járnhleckum og vaktarar úti
7. fyrir dyrunum gjættu mirkvastofunnar. En
sjá! þá stód þar yfir honum engill Drottins og
ljós leypptradi um húsid; hann sló á sídu Pét-
urs, vakti hann og sagdi: stattú fljótt upp! þá
8. féllu hleckirnir af hendum Péturs. Sídan sagdi
engillinn til hans: láttú um þig beltid og taktú
á þig skó þína. Hann gjerdi svo. Engillinn
sagdi enn fremur: kasta á þig skyckju þinni og
9. fylg mér. Hann géck út og fylgdi honum, en
ecki vissi hann ad þetta, sem engillin gjerdi,
væri svo í raun og veru, heldur meinti hann
10. sig sjá sýn. Nú gengu þeir í gégnum hid fyrsta
og annad vardhald og komu til Járnportsins,
hvadan gengt var í borgina, en þad lauk sér
sjálft upp. Þá þeir vóru komnir útum þad,
gengu þeir áfram um eitt stræti og strax skildi

engillinn víd hann. Þegar Pétur kom til sjálfs 11.
síns, sagdi hann: nú veit eg sannlega, ad Drott-
inn hefur sendt sinn engil og útryckt mér úr
hendum Heródesar og allri eptirvæntíng Gyd-
ínga lýds. Búinn ad sansa sig, géck hann nú 12.
ad húsi Maríu, Módur Jóhannesar, er auk-
nefndist Markús. Þar var fjølmenni fyrir, sem
hafdi safnast þángad og vóru á bæn. Pétur drap 13.
á dyra hurdina og stúlka géck fram ad nafni Róde,
til ad hlusta eptir; en er hún þeckti málróm 14.
Péturs, vard fognudurinn svo mikill, ad hún
ecki lauk upp, heldur hljóp inn og sagdi Pétur
stædi úti. Þeir sogdu: þú ert galin. En hún 15.
stód fast á því ad svo væri. Þá sogdu þeir:
þad er þá hans engill. Pétur lét ecki af ad 16.
berja ad dyrum og er þeir luku upp og sáu hann,
urdu þeir eldúngis hissa. Hann bendti þeim 17.
med hendinni ad þeir þegdu og sagdi þeim ít-
arlega frá, hvernin Drottinn hefdi útleidt sig
úr mirkvastofunni, bad þá líka ad kunngjøra
þetta Jakobi og hinum brædrunum, en fór sjálf-
ur þadan og í annann stad.

Þegar dagadi kom ecki lítid fát á stríds- 18.
mennina, hvad af Pétri væri ordid. En er 19.
Heródes hafdi leitad hans og fann hann ecki,
lét hann dóm gánga yfir vardmennina og skip-
adi ad aflífa þá, fór sídan burt úr Júdæu til
Cæsareu, hvar hann settist um kyrrt; því honum 20.
var gramt í skapi vid Tyrus og Sídons menn;
en þeim kom saman um ad gjøra út sendimenn
til hans, fengu svo í fylgi med sér Blasíus,
Konúngsins Stallara og bádust fridar, af því
land þeirra féck vistir frá Konúngsins. Á til- 21.

tekinni degi klæddist Heródes Konúngs skrúda,
22. settist í hásæti og héldt rædu til þeirra. Al-
múginn hrópadi þá upp: Guds rödd er þettá
23. en ecki manns. Jafnsnart sló engill Drottins
hann sökum þess hann gaf ecki Gudi sinn lofs-
týr, feck orma-sótt og dó.
24. En Guds ord útbreiddist og efldist.
25. Barnabas og Sál snéru aptur frá Jerúsalem
ad afloknu sínu erindi og tóku med sér Jó-
hannes, ad vidurnefni Markús.

13. Kap. I.) Barnabas og Sál fá köllun ad kénna
heidíngjum 1—12. II.) Markús yfir-
géfur þá; Páll prédikar í Pisidíu 13—
43. III.) Gydíngar verda uppvægir;
Páll og Barnabas fara til Ikoníu 44
—52.

1. Í Söfnudinum í Antíockíu vóru ecki allfáir
Spámenn og Lærifedur, svo sem Barnabas,
Símon, ad auknefni Níger, Lúcíus frá Cyrene,
Manaen, samfóstri Heródesar Fjórdúngs-höfd-
2. íngja og Sál. Eitt sinn er þeir fremdu Guds-
þjónustu og föstudu, sagdi Andinn sá heilagi:
takid frá handa mér Barnabas og Sál, til
3. þess verks, sem eg hefi þeim ætlad. Þeir föst-
udu þá og bádust fyrir, lögdu hendur yfir þá
4. og létu þá svo fara. Þessir, sem af heilögum
Anda vóru útsendir, fóru til Seleucíu og sigldu
5. þadan til Cyprus. En medan þeir vóru í Sa-
lamis, bodudu þeir Guds erindi í samkundu-
húsum Gydínga. Jóhannes höfdu þeir fyrir
6. þénara. En sem þeir fóru um alla eyuna til

Pafus, fundu þeir þar tøfra-mann nockurn,
fals-Spámann, Gydínga kyns, ad nafni Bar-
Jesús; hann var med Land-stjórnaranum Ser- 7.
gíusi Páli, manni hyggnum, hverr ed baud til
sín Barnabasi og Sáli og óskadi ad heyra Guds
ord. Þá stód móti þeim Elímas, tøfra vitr- 8.
íngurinn — því svo þýdir nafn þetta — hann
reyndi til ad snúa Land-stjórnaranum frá trúnni.
En Sál — hverr ed og hét Páll — vard fullur 9.
af heiløgum Anda, hvessti á hann augun og
sagdi: o þú djøfuls sonur! fullur alls fals og 10.
flárædis, óvinur allrar réttvísi, lætur þú aldrei
af ad umhverfa réttum vegum Drottins? vit 11.
nú, ad hend Drottins skal hitta þig og blind-
ur skaltú verda og ecki sjá sól ad svo støddu.
Jafnsnart fjell yfir hann þoka og mirkur, svo
ad hann ráfadi um kríng og leitadi einhvers,
er leiddi hann. Þegar Land-stjórnarinn leit 12.
þenna atburd, trúdi hann og undradist kénn-
íngu Drottins.

Páll og þeir, sem med honum vóru, 13.
sigldu nú frá Pafus og komu til Perge í Pam-
phílíu, utan Jóhannes, hann skildi vid þá og
snéri aptur til Jerúsalem. Hinir héldu áfram 14.
frá Perge í Antíockíu í Pisidíu landi, gengu
inn í samkundu-húsid á hvíldar-degi og settust
nidur. En eptir ad lesid hafdi verid í Løg- 15.
málinu og Spámønnunum, sendu Samkundu-
Forstjórarnir til þeirra og létu segja þeim:
brædur! ef þér hafid nockud ad mæla til upp-
byggíngar fólkinu, þá talid. Páll stód þá fram 16.
og eptir ad hafa bedid sér hljóds med hendinni,
ræddi svo: Þér, Israels menn! og þér, sem

17. Gud óttist, heyrid! Gud þessa fólks útvaldi
fedur vora og miklaði fólkid medan þad var
útlendt í Egyptalandi; þadan útleiddi hann
18. þad med upplyptum armlegg og annadist í eydi-
19. mørkinni nærri fjørutíu ár. Sídan afmádi
hann sjø þjódir í Kanaan og skipti med þeim
20. þeirra landi. Eptir þad, um nærri því sjeg-
urhundrud og fimmtíu ár, gaf hann þeim Dóm-
21. ara, allt til Samúels Spámanns. Þá beidd-
ust þeir Konúngs og Gud gaf þeim Sál Kis-
son, mann af Benjamíns ætt, í fjørutíu ár.
22. En er hann hafdi fellt hann, hóf hann Davíd
þeim til Konúngs, um hvern hann þar hjá
vitnadi: "eg hefi fundid Jesseson, sem mér
gédjast og framqvæma mun allann minn vilja."
23. Af þessa manns afsprengi lét Gud, eptir sínu
fyrirheiti, koma Israels Frelsara Jesúm.
24. Rétt á undan hans komu hafdi Jóhannes bod-
25. ad ydrunar skírn øllum Israels lýd. En er
Jóhannes hafdi endad sitt skeid, sagdi hann:
eg em ecki sá, sem þid haldid, heldur sjáid!
sá kémur eptir mig, hvers skóþvengi eg em ecki
26. verdugur ad leysa. Gódir menn og brædur!
þér nidjar Abrahams og hverr einn ydar á
medal, sem óttast Gud! ydur er sendt ord
27. þessa hjálprædis; því Jerúsalems borgar-menn
og þeirra Hefdíngjar, hafa, med vanþeckíngu
sinni á honum og Spámannanna skíru ordum,
sem hvern helgann dag eru lesin, samt med
því ad fordæma hann, ollad því ad þau rætt-
28. ust. Því jafnvel þótt þeir findi enga dauda-
søk, krøfdu þeir af Pílatusi ad hann yrdi líf-

V. 22. Ps. 89, 21. 1 Sam. 13, 14.

látinn. Eptir ad þeir þanninn hefdu uppfyllt 29.
allt hvad um hann var ritad, var hann tekinn
nidur af trénu og lagdur í gref, en Gud reisti 30.
hann frá daudum, svo hann sást marga daga 31.
af þeim, sem hefdu farid med honum úr Galí-
læu upp til Jerúsalem, hverjir ad eru vottar
hans til fólksins og vér berum ydur þessa gledi- 32.
fregn um fyrirheitid, sem skédi til fedranna, ad
Gud er búiñ ad efna þad vid oss børn þeirra, med 33.
því ad láta Jesúm uppríſa, eins og skrifad er í
fyrsta Sálminum: "þú ert minn Sonur, í dag
hefi eg þig gétid." En ad hann hafi reist 34.
hann frá daudum, sem aldrei framar skyldi
hverfa til rotnunar, þar um taladi hann þann-
inn: "trúlega mun eg efna vid ydur þau heit,
sem eg gaf Davíd;" hvers vegna hann segir 35.
á ødrum stad: "þú munt ecki leyfa ad þínn
heilagi kénni rotnunar." Nú er Davíd, eptir 36.
ad hafa þjónad ad Guds tilgángi sína lífstíd,
dáinn og lagdur hjá fedrum sínum og kénndi
rotnunar; en sá, hvern Gud uppreisti, hann 37.
kénndi ecki rotnunar. Því sé ydur vitanlegt, 38.
heidurlegu brædur! ad hans vegna bodast yd-
ur synda lausn og þad, sem þér, eptir Mósis
løgmáli, ecki gátud fengid lausn frá, vid þad 39.
allt skulud þér, hverr og einn, sem á hann trú-
id, qvittir verda hans vegna. Sjáid því til 40.
ad ecki rætist á ydur um-mæli Spámannanna;
"géfid gætur ad, þér smánarar! undrist og 41.
verdid ad engu; því gjørníng mun eg gjøra á



V. 33. Ps. 2, 7. V. 34. Es. 55, 3.
V. 35. Ps. 16, 10. V. 41. Habak. 1, 5.

ydar degum, einn gjörníng, hverjum þér ecki
munud trúa, þó einhverr útlistadi ydur hann."
42. Þegar þeir gengu út, bádu menn þá ad tala
43. sama erindi nærsta helgann dag, og er sam-
koman skildist ad, fylgdu margir Gydíngar og
gudrækmir menn, er til Gydínga trúar höfdu
snúist, Páli og Barnabasi, sem med umtölum
sínum hvettu þá til ad halda fast vid Guds náð.
44. Helgina nærst eptir kom nærstum gjörvöll
45. borgin saman til ad heyra Guds ord. En er
Gydíngar litu mann-mergdina, fylltust þeir af
vandlætíngu og mótmæltu því, sem Páll taladi
46. med kapp-þrætu og lastyrdum. Páll og Bar-
nabas sögdu þá einardlega: Guds ord hlaut
fyrst ad berast upp fyrir ydur, en þar þér
burtskúfid því og metid ydur sjálfa ecki verd-
uga eilífs lífs, sjáid! þá snúum vér oss til
47. heidíngjanna, því svo hefir Herrann skipad oss:
"eg hefi sett þig til ljóss heidnum þjódum, ad
þú sért til hjálprædis út ad jardarinnar ytstu
48. endimerkum" Þegar heidíngjarnir heyrdu þetta,
glöddust þeir og vegsömudu ord Dróttins og
svo margir, sem eilífs lífs var audid, urdu trú-
49. adir. Nú útbreiddist ord Dróttins um allt
50. bygdarlagid; en Gydíngar æstu upp málsmet-
andi konur, sem tekid höfdu Gydínga trú og
fyrirmenn borgarinnar og vektu ofsókn gégn
Páli og Barnabasi, svo þeir vóru burtreknir
51. úr því héradi. Þeir hristu þá duptid af fót-
52. um sér á þá og fóru til Ikóníu; en hinir,
sem vid trú höfdu tekid, fylltust fögnudi og
helgum Anda.

V. 47. Es. 49, 6.

I.) Páll og Barnabas kénna í Ikoníu og Lystra; Páll læknar halltann mann; þeir eru haldnir vera Gudir; Páll er grýttur, en kémst til Derbe 1—20. II.) Þeir Barnabas snúa aptur til Antiochiu 21—28. 14. Kap.

Það skédi í Ikoníu borg, þá þeir höfðu safn- 1,
ast í eitt samkundu-hús Gydínga og haldid
rædu, ad mikill fjøldi Gydínga og Grickja urdu
trúadir. En þverlyndir Gydíngar risu á móti 2,
og spilltu hugar-þeli heidíngjanna vid brædurn-
ar. Samt dvøldu þeir þar lángann tíma og 3,
prédikudu skøruglega í Drottni*), hverr ed
veitti medvitni ordi sinnar nádar og efldi þá til
ad gjøra jarteiknir og stórmerki. Þá tvískipt- 4,
ist borgar-múgurinn svo, ad nockrir héldu med
Gydíngum en adrir med Postulunum. En er 5,
þessir urdu vatir vid ad upphlaup stód til,
bædi af Gydíngum og heidíngjum, ásamt þeirra
yfirmønnum, til ad smána þá og grýta, flúdu 6,
þeir burt til borga Lykoníu lands Lystra og
Derbe, samt héradsins í kríng og bodudu þar 7,
kristni. Í Lystra var madur fóthrumur, hverr 8,
ed sat, af því hann var halltur frá módurlífi
og hafdi aldrei gétad gengid. Hann hlustadi 9,
á rædu Páls og er þessi festi auga á hønum
og merkti trú hans, ad sér yrdi lækníngar aud-
id, sagdi hann med hárri raustu: stattú upp- 10,
réttur á þínar fætur! og hann spratt upp og
géck. Þegar múgurinn sá hvad Páll gjørdi, 11,
A a 2

V. 1. sjá Kap. 6, 1. *) í trausti Guds fulltíngis.

hóf hann sína raust og sagdi á Lykaóníska:
Gudirnir eru í manna líki nidurstignir til vor.
12. Barnabas nefndu þeir Zevs*), en Pál Her-
13. mes, af því hann frambar ordid; en Prestur þess
Zevs-bílætis, sem stód fyrir framan borgina,
kom med naut og kransa til borgar-hlidsins og
14. vildi fórnfæra ásamt med fólkinu. Þegar Post-
ularnir Barnabas og Páll fengu þetta ad
heyra, sundurrifu þeir klædi sín og stuckn fram
15. í mann-þraungina, kölludu og sögdu: gódir
menn! hví gjörid þér slíkt? vér erum menn
breiskir eins og þér; en bodum ydur hann
fagnadar síd, ad þér snúist frá þessum fánýta
átrúnadi til lifanda Guds, hverr ed gjört hefir
16. himin, jörd og sjó og allt hvad í þeim er; sá
ed um fyrifarandi aldir hefir lidid ad sérhver
17. þjód gengi sinn sjálfsvalda feril. En jafnframt
hefir hann aldrei látid menn sakna vitnisburd-
ar um sig, því hann gjördi hvervetna gott,
veitti regn af himnum og frjóssamar árs-tídir,
mettadi ydur og gladdi med fædu og fögnudi.
18. Ad svo mæltu gátu þeir naumast stillt fólkid,
19. ad þad færdi þeim ecki fórnir. Sídan komu
frá Antíockíu og Ikoníu Gydíngar, þeir ed
tældu lýdinn, svo hann þeytti steinum á Pál
og dró hann út úr borginni og ætladi hann
20. daudann vera. En er Lærisveinarnir þyrptust
kríngum hann, stód hann upp og géck í borg-
ina. Um morguninn eptir fór hann med Bar-
nabasi til Derbe.

*) Zevs var sama og Júppíter, ædsti Gud Grick-
ja, en Hermes edur Merkúríus, erindsreki
Gudanna.

Og sem þeir høfdu bodad Gudspjallid í 21.
þeirri borg og fengu þar marga Læríſveina,
snéru þeir aptur til Lyſtra, Ikoníu og Antí-
ockíu, ſtyrktu sálir Læríſveinanna og áminntu 22.
þá ad ſtanda ſtødugt í trúnni og ad oſs bir-
jadi fyrir margfaldar þrautir ad komaſt í Guds
ríki. Øldúnga létu þeir hvervetna útvelja í 23.
Søfnudunum, báduſt ſvo fyrir og feſtudu og
fólu þá sídan þeim Drottni, vid hvers trú þeir
høfdu tekid. Þá þeir høfdu yfirfarid Piſidíu, 24.
komu þeir til Pamphilíu og kunngjørdu ordid 25.
í Perge; ſvo fóru þeir nidur til Attalíu og 26.
sigldu þadan til Antíockíu, hvadan þeir, med
árnun Guds fulltíngis, høfdu gengid í þad
verk, ſem þeir nú vóru búnir ad af-ljúka.
Heimkomnir kølludu þeir Søfnudinn ſaman og 27.
ſøgdu frá, hvad Gud hefdi útrétt fyrir þeirra
hend og ad hann hafdi opnad heidíngjunum
dyr trúarinnar og dveldu þar ecki allſtutta 28.
tíd hjá Læríſveinunum.

I.) Páll og Barnabas sendaſt til Jerúſalem til ad ſpyrja, hvert kriſtnir þyrftu ad halda Móſis løgmál? og fá ſvar 1—29. II.) Þeir koma til Antíockíu aptur áſamt Júdaſi og Silaſi; Barnabas og Páll ſkilja 30—41.

## 15. Kap.

Nú komu nockrir ofan frá Júdæu, ſem kénndu 1.
bræðrunum ſvo: ef þér ecki umſkériſt ad ſid
Móſis, þá gétid þid ecki ordid hólpnir. Ur 2.
þeſſu vard miſklíd ecki lítil og þrætni af þeirrá
hendi vid Pál og Barnabas. Var þá afrád-

ið að senda þá Pál og Barnabas, samt nockra
aðra af hinum, til Postulanna og Öldúngaña
3. í Jerúsalem uppá þennann ágreiníng. Søfn-
uðurinn fylgði þeim á veg. Síðan ferðuðust
þeir um Foníciu og Samaríu lønd og søgðu
frá siðaskiptum *) heiðíngjanna, hvað eð olli
4. mikils fagnaðar bræðrunum. En þegar þeir
komu til Jerúsalem, var þeim vel tekið af
Søfnuðinum og Postulunum og Öldúngunum,
hverjum þeir og inntu: hversu miklu Guð hefði
5. til leiðar komið fyrir þeirra umsýslun. En
nockrir trúaðir af Pharísæanna flocki tóku sig
fram og søgðu: ecki má annað, enn þeir um-
skérist og þeim sé tilhaldið að halda Mósis lög.
6. Þá sefnuðust Postularnir og Öldúngarnir sam-
7. ann til að líta á þetta mál. Eptir lánga um-
ræðu með og móti, stóð Pétur upp og mælti:
heiðurlegu bræður! þér vitið, fyrir laungu hefir
Guð hagað því svo milli ockar, að heiðíngjar
skyldu fyrir minn munn heyra Guðspjallið og
8. trúa; og að Guð, sá eð allra hjørtu þeckir,
vitnaði þá þeim í vil, géfandi þeim heilagann
9. Anda eins og oss og gjørði eingann greinarmun
vor og þeirra, þar hann hreinsaði með trúnni
10. þeirra hjørtu. Hví freistið þér þá Guðs, með
því að leggja það ok á Lærisveinanna háls, er
hverki þér né feður yðrir megnuðu að bera?
11. vér trúum þó því, að vér verðum hólpnir
12. fyrir náð Drottins Jesú eins og þeir. Nú
þagnaði múgurinn og hlustaði á frásegu Bar-
nabasar og Páls um það, hversu mikil krapta-
verk Guð hefði látið þá framqvæma meðal

*) Það er: Kristni.

heidíngjanna. Eptir ad þeir vóru þagnadir, 13.
tók Jakob til máls og sagdi: gódir menn og
brædur! heyrid mig! Símon hefir fráskírt 14.
hverninn Gudi þócknadist í fyrstu ad útvelja af
heidíngjum fólk til sinnar vidurkénníngar og 15.
þessu samhljóda um-mæli Spámannanna, því
svo stendur skrifad: "eptir þetta mun eg koma 16.
aptur og endurbyggja þá nidurfallnu tjaldbúd
Davíds; þad, sem hrunid er af henni, vil eg
uppbyggja og reisa hana vid aptur, svo ad hin- 17.
ir leiti Drottins og allar þjódir vidurkénni
mitt nafn." Þetta segir Gud, sá ed hefir 18.
framqvæmt þetta*), er honum var kunnugt frá
eilífu. Því álykta eg, ad ecki skuli íþýngja 19.
þeim, er frá heidni snúast til Guds; heldur 20.
skrifa þeim til, ad þeir haldi sér frá því, er
vanhelgast hefir af skurdgodum og frá frillulífi
og frá kefnudu og frá blódi. Því frá fornri 21.
tíd hefir Móses haft sína prédikara í hverri
borg og er lesinn í samkundunum alla helgi-
daga. Þá leitst þad Postulunum og Öldúng- 22.
unum og öllum Søfnudinum, ad útvelja menn
af sinni álfu og senda þá med Páli og Bar-
nabasi til AntíocKíu, Júdas, kalladann Barsa-
bas og Sílas, hverjir ed stódu í miklu áliti
hjá brædrunum og skrifudu med þeim svolát- 23.
andi bréf: Vér Postular, Öldúngar og Bræd-
ur, heilsum Brædrunum, er frá heidni hafa
snúist í Antíockíu, Syríu og Cilicíu. Þar ed 24.
vér høfum heyrt, ad nockrir, er frá oss hafa

V 16. Amos 9, 11. 12. *) Þad er: þetta, sitt
rád, ad heidíngjar skyldu seinnameir, vid Messí-
asar komu, verda, ogsvo Guds fólk.

fatid, hafi óróad ydur med ordum sínum og
fært yckar samvitsku med því ad segja, ad þér
egid ad umskéraſt og halda lögmálid, hvar til
25. þeir hefdu eckert víſt umbod; svo hefir oss lit-
iſt, sam-mála ordnum um þetta efni, ad útvelja
og senda til ydar nockra menn, med vorum
26. elſkulegu Barnabaſi og Páli, mennum, er lagt
hafa sitt líf í hættu fyrir nafn Drottins vors
27. Jeſú Kriſts. Vér hefum því útsendt Júdas
og Sílas, ad þeir munnlega birti yckur sama.
28. En þad er atqvædi heilags Anda og vort: ad
engin þyngſli ſkuli ydur uppáleggjaſt umfram
29. þessi, sem nú liggur á, ad þér haldid ydur
frá afguda-fórnum og frá blódi og frá köfnudu
og frá frillulíſi. Ef þér takid vara á þessu,
gjörid þér vel. Verid sælir!
30. Eptir þad tédir sendimenn vóru farnir,
komu þeir til Antíockíu, samankölludu Söfn-
31. udinn og afhendtu Bréfid. En er menn lásu
32. þad, urdu þeir gladir af slíkri huggun. Júdas
og Sílas, er sjálfir vóru einnig Spámenn, hug-
hreystu þar hjá Brædurnar munnlega med mörg-
33. um ordum og styrktu þá.*) Og er þeir höfdu
dvalid þar um tíma, gáfu Brædurnir þeim heim-
34. farar leyfi med heilla óſkum. En Sílaſi leitſt
35. ad vera þar eptir. Páll og Barnabas héldu
nú kyrru fyrir í Antíockíu, kénndu og bodudu
36. ord Drottins ásamt mörgum ödrum. Eptir
nockra daga sagdi Páll vid Barnabas: förum
aptur til ad vita hvernin brædrunum lídur í
öllum borgum, hvar vér höfum bodad Drottins
37. ord. Barnabas lagdi þá til, ad þeir tækju

*) Þad er: í kriſtilegri trú.

med sér Jóhannes, kalladann Markús, en Páli 38.
leitst ad taka ecki þann mann med sér, er hljóp
frá þeim í Pamphiliú og hafdi ecki viljad gánga
í verkid med þeim. Ut af þessu sinnadist þeim, 39.
svo ad hverr skildi vid annann; tók Barnabas
med sér Markús og sigldi til Cyprus En Páll 40.
valdi sér Sílas og fór af stad, falinn Guds
nád af Brædrunum. Hann tók leid sína um 41.
Sýrland og Cilicíu og styrkti Søfnudina*).

I.) Páll umskér Tímótheus, vitjar Safnaðanna og kémur til Tróas 1—8. II.) Fær vitrun; fer til Macedoníu og snýr Lydíu til kristni 9—15. III.) rekur út spásagnar anda; er hýdstrýktur og settur í fángelsi 16—24. IV.) Fángelsid opnast sjálfkrafa; Fángavaktarinn tekur trú; Páll er látinn laus 25—41.

## 16. Kap.

Og er hann kom til Derbe og Lystra, hitti 1.
hann þar einn Lærisvein ad nafni Tímótheus;
módir hans var Gydínga ættar og hafdi tekid
trú, en fadirinn var grískur. Sá hafdi góð- 2.
ann ordstýr af Brædrunum í Lystra og Ikoníu.
Páll vildi hafa þennann med sér og um- 3.
skar hann, sokum Gydínga, er vóru í þeim stødum,
því allir vissu ad fadir hans var grískur.
Þá þeir nú fóru um borgirnar, rédu þeir 4.
mønnum ad halda þá setnínga, sem ályktadir
vóru af Postulunum og Øldúngunum í Jerú-

*) Sama meiníng og í v. 32, hvad ed sjá má, ef bædi versin 32 og 41 eru samanborin vid 5ta vers í næsta Kapítula.

5. salem. En Sefnudirnir styrktust í trúnni og
6. juksust ad fjölda dag frá degi. Á ferd þeirra
um Phrygíu og Galata-land var þeim bannad
7. af heilögum Anda ad kénna ordid í Asíu; og
sem þeir vóru komnir ad Mysíu, áformudu
þeir ad fara til Bithyníu, en Andinn leyfdi
8. þeim þad eigi. Þeir fóru þá framhjá Mysíu
og nidur til Tróas.
9. Páli vitradist þá sú sjón um nóttina, ad
madur macedoniskur stód hjá honum og bad
hann svo segjandi: kom yfir til Macedoníu og
10. hjálpadú ockur! Undir eins og hann hafdi
þessa vitrun fengid, leitudumst vér*) strax vid
ad ferdast yfir til Macedoníu, fullvissir um,
ad Gud Drottinn hefdi kallad oss þángad til
11. ad boda þar Gudspjallid. Nú legdum vér út
frá Tróas og sigldum beinleidis til Samóthra-
12. cíu, en næsta dag til Neapólis og þadan til
Philippí, sem er helzta borg í þeim parti Ma-
13 cedoníu og er rómverskt nýlenda**). Í þess-
ari borg dvöldum vér nockra daga og einn
helgann dag gengum vér úr borginni til ár-
innar þar, sem vant var ad bidjast fyrir, sett-
umst þar nidur og töludum vid qvennfólkid,
14. sem þar var samankomid. Og ein kona gud-
rækin úr Thyatíra borg, ad nafni Lydía, er
seldi purpura, heyrdi til. Hennar hjarta opn-
15. adi Gud, svo hún gaumgæfdi Páls rædu. Og
sem hún og hennar hús var skírt, bad hún
oss svofelldum ordum: ef þid álítid mig trúa
Drottni, þá komid í mitt hús og stadnæmist

*) Hér sýnist Lúkas fyrst vera kominn í ferdina.
**) Hafdi verid á ný bygd frá Róm.

þar! og svo sagdi hún ad oss, ad vér ecki kom-
umst undan.
Nú skédi svo, er vér gengum til bæna, 16.
ad þerna nockur, sem hafdi spáfagnar anda, mætti
oss, hver ed ávann húsbændum sínum mikid fé
med því ad spá. Hún hljóp eptir Páli og oss 17.
og hrópadi: þessir menn eru þjónar Guds hins
hæsta, þeir ed kunngjera oss hjálprædisins veg.
Þetta gjerdi hún í marga daga. Páli féll þad 18.
illa, snéri sér vid og sagdi til andans: eg skipa
þér i nafni Jesú Krists, ad þú farir út af henni!
og hann fór út á samri stundu Nú sem hús- 19.
bændur hennar sáu, ad sín ábata von var úti,
gripu þeir Pál og Sílas og drógu þá á torg-
id, til Yfirvaldanna; færdu þá sídan Herstjór-
unum og segdu: þessir menn, sem eru Gyding- 20.
ar, óróa borg vora og bodá oss trúarbrögd og 21.
sidi, sem oss, rómverskum mönnum, sæmir hvorki
ad þýdast, né fremja. Múgurinn æstist og gégn 22.
þeim, enn Herstjórarnir skipudu ad fletta þá
klædum og húdstrýkja þá. Eptir mörg slög var 23.
þeim kastad í mirkvastofu og fángavördinum skip-
ad, ad gjæta þeirra vandlega. Samqvæmt skip- 24.
uninni, kastadi hann þeim í hid innsta vard-
hald og setti fætur þeirra í stock.
Um midnætti bádust þeir fyrir, Páll og 25.
Sílas og lof-súngu Gudi, svo ad fángarnir
heyrdu. Þá vard skyndilega jardskjálfti mik- 26.
ill, svo ad hristist grundvöllur fángélsisins; jafn-
skjótt opnudust allar dyr og hleckirnir duttu
af öllum; en fánga-vördurinn vaknadi vid og 27.
er hann sá mirkvastofu dyrnar opnar, rykti
hann sverdi og vildi fyrirfara sér, því hann

28. héldt bandíngjana burtflúna. Þá hrópadi Páll
upp og sagdi: gjør þér eckert íllt! vid erum
29. hér allir. Hann heimtadi þá ljós, skundadi
ad og féll felmtsfullur til fóta Páli og Síl-
30. asi, leiddi þá út og sagdi: Herrar! hvad á eg
31. ad gjøra svo eg verdi hólpinn? þeir sogdu: trúdú
á Drottinn Jesús Krist, þá verdur þú hólp-
32. inn og þitt hús. Sídan tjádu þeir honum
lærdóm Drottins og øllum þeim, er í hans húsi
33. vóru; því samstundis um nóttina tók hann þá
med sér og þvodi sár þeirra, var og strax skírd-
34. ur og allir hans menn. Og sem hann hafdi
leidt þá í sitt hús, gjørdi hann þeim veitslu og
var gladur, ásamt øllu sínu heima-fólki yfir því
35. ad hann trúdi nú á Gud. Þegar bjart var
ordid, sendu Herstjórarnir Réttarana med svo-
36. látandi skilabod: láttu þá menn lausa! Gáng-
37. id því burtu og farid í fridi! Páll ansadi hin-
um: þeir hafa opinberlega látid húdstrýkja oss,
sem erum rómverskir menn, án dóms, og setja
í mirkvastofu og nú ætla þeir leynilega ad reka
oss á burt. Ecki skal svo, heldur komi þeir
38. sjálfir og leidi oss út. Réttararnir kunngjørdu
þessi ord Herstjórunum. Þeir urdu hræddir, þá
39. þeir heyrdu ad þad væru rómverskir menn, komu
og gáfu þeim góð ord, og er þeir høfdu leidt
þá út, bádu þeir þá fyrir ad fara úr Borginni.
40. Eptir ad nú Páll og Sílas vóru sloppnir úr
þesu vardhaldi, fóru þeir til Lydíu, fundu þar
Brædurnar, tøludu um fyrir þeim og héldu
lengra.

* * *

I.) Páll kénnir, en mætir offókn í Thessaloní- 17. Kap.
íku og Beróea 1—13. II.) fer til Athj-
enu; prédikar mót afgudadýrkun og um
Jesúm; snýr nockrum 14—34.

En er þeir høfdu farid um Ámphípólis og 1.
Áppolloníu komu þeir til Thessaloníku, hvar ed
var Gydínga Samkunduhús. Páll géck þar 2.
inn til þeirra, eptir venju sinni og þrjá helgi-
dága átti hann tal vid þá, útlagdi þeim Ritn-
íngarnar og kénndi: ad Kristur hafi átt ad líða 3.
písslir og rísa upp frá daudum og þessi er sá
Jesús Kristur — sagdi hann — hvern eg kunn-
gjøri ydur. Nockrir af þeim létu sér segjast 4.
og samløgudu sig Páli og Sílasi, svo og mikill
fjøldi gudrækinna Grickja og mikilsháttar konur
ecki allfáar. En hinir Gydíngarnir tóku med 5.
sér af þorp-Skríl nockra vonda menn, drógu
flock saman og gjørdu upphlaup í borginni,
þustu svo ad húsi Jasons og leitudu ad þeim,
til ad færa þá fyrir þíngheiminn. En er þeir 6.
fundu þá ecki, drógu þeir Jason og nockra bræd-
ur, yfirmenn borgarinnar og hrópudu: þeir ó-
eirdarmenn, sem vakid hafa óspektir um alla
heimsbygd, eru komnir hér, Jason hýsir þá og 7.
allir þessir breyta á móti Keisarans Tilskipun-
um, því þeir segja: ad annar enn Kejsarinn,
nefnilega: Jesús, sé Konúngur. Þá vard al- 8.
múginn uppvægur og Yfirmenn borgarinnar,
er þeir heyrdu þetta og létu Jason og þá 9.
adra setja verdslur fyrir sig og slepptu þeim
svo; en Brædurnir komu Páli og Sílasi 10.
undan strax um nóttina til Beróea. Þegar

þar. vár komið, gengu þeir inní Samkunduhús
11. Gydínga, hverjir betur vóru sinnaðir, enn þeir
í Thessaloníku, svo þeir meðtóku lærdóminn
með allri áfúsu og ransøkudu hvern dag Ritn-
íngarnar, hvert svo væri, sem þeim var
12. kénnt; margir urðu því trúaðir af þeim og
líka ecki allfátt af grískum konum í betri
13. røð, samt karlmönnum. En er Júdarnir í
Thessaloníku fréttu, að í Beróea væri einnig
boðað Guðs orð af Páli, komu þeir og uppæstu
lýðinn einninn þar.
14. Bræðurnir skutu því Páli strax undan, að
hann færi út með sjó, en Sílas og Tímótheus
15. urðu þar eptir. Leidsøgu-menn Páls fylgðu
honum allt til Athenu og báru aptur þau skila-
boð til Sílasar og Tímótheusar, að þeir hið
16. snarasta kjæmu til hans. Meðan Páll beið
þeirra í Athenu, gramdist honum hugur að sjá
17. hvílíkt afguða bæli sú borg var; samt kénndi
hann í Samkundu-húsinu, bæði Gydíngum og
øðrum guðhræddum, sem einn Guð dýrkuðu,
líka hvern dag á torginu þeim, er þar var að
18. hitta; en nockrir epikúreískir og stóískir Spek-
íngar gáfu sig í orðakast við hann; nockrir søgðu:
hvað mun skraf-finnur sá ætla sér? aðrir søgðu:
ókénnda vætti sýnist hann boða; af því Páll
19. boðaði Jesúm og upprísuna. Þeir hefðu hann
nú upp fyrir Areópagus *) og søgðu: megum
vér fá að vita hverr sá nýi Lærdómur er, sem

*) Þetta var Løgberg Athenu-manna og yfirmáta
víðfrægt; síðarmeir vénaði að sønnu mikt þess
og álit, en nafnið var svo heilagt, að það æðsta
Stjórnar-ráð héldt því.

þú fer med? Því eitthvad nýstárlegt flytur þú 20.
oss til eyrna og oss fýsir ad vita hvad þetta
er. En öllum Athenu-monnum, eins þeim, er 21.
erlendis vóru adkomnir, var um eckert svo tídt,
sem ad segja edur heyra eitthvad nýstárlegt.
Þegar Páll þanninn stód midt á dómstotinni, 22.
mælti hann: Athenu menn! þad sie eg hver-
vetna ad þér erud miklir trú-menn; því þá eg 23.
géck hér um og skygndist eptir ydar helgidóm-
um, fann eg medal annars eitt Altari, hvar
yfir skrifad stód: "þeim ókunna Gudi."
Þennann, er þér óvitandi dyrkid, boda eg yd-
ur. Sá Gud, sem gjördi heiminn og allt hvad 24.
í honum er, hann, sem er Herra himins og
jardar, býr ecki í musterum, sem med hendum
eru gjørd, ecki heldur verdur honum þjónad 25.
med manna-hendum, svo sem þyrfti hann nock-
urs vid, þar hann sjálfur gefur öllu líf og and-
ardrátt og sérhvad annad. Hann lét, af ein- 26.
um ættstofni, allra manna kynþætti útqvíslast um
gjörvalla jardarkríngluna og hann hefir fastsett
ákvordud tímabil og takmörk fyrir þjódanna
bólfestur, svo þær skyldu leita Guds, ef ské mætti 27.
þær þreifudu á honum og findu hann, jafnvel
þó hann sé nálægur hverjum einum af oss; því 28.
í honum lifum, hrærumst og erum vér. Eins
hafa nockur ydar skáld sagt: vér erum hans
ættar. Fyrst vér erum nú Guds afkomendur, 29.
megum vér ecki hugsa ad Gudddómurinn sé lík-
ur gulli, silfri, edur steini, mindudu med hag-
leik af hugviti manna. Ad sonnu hefir Gud 30.
sjed í gégnum fíngur vid vanvitskunnar tídir,
en nú lætur hann öllum mönnum allstadar seg-

31. ja, ad þeir taki háttaskipti; því hann hefir fastsett dag, á hverjum hann ætlar ad láta dæma heims-bygdina eptir réttvísi, af manni, er hann hefir þar til kjörid og gaf öllum fullvissu þar um, med því ad reisa hinn sama frá daudum.
32. En er þeir heyrdu nefnda upprisu framlidinna, gjördu sumir gis ad, en adrir sögdu: vér vil-
33. jum heyra þig ödru sinni tala um þetta. Pan-
34. ig komst Páll frá þeim. Nockrir menn, sem héldu sig til hans, urdu trúadir, medal þeirra var Díonysíus, einn af ædstu Dómherrunum og kona nockur, ad nafni Damaris og adrir fleiri.

## 18. Kap.

I.) Páll kénnir í Korinthu; Gydíngar standa ígégn honum, en Gud hughreystir hann 1—11. II.) Gallíon vill ecki dæma hann 12—17. III.) Páll kémur til Ephesus og fleiri Stada 18—23. IV.) Apollós uppfrædist af Aqvila og fer til Achaja 24—28.

1. Eptir þetta fór Páll úr Athenu og kom til
2. Korinthu borgar; þar hitti hann einn Gydíng, fæddann í Pontus, ad nafni Aqvílas og konu hans Priskillu. Hann var nýlega kominn úr Italíu, því Klaudíus Keisari hafdi skipad ad allir Gydíngar skyldu víkja úr Róm.
3. Páll fór til þeirra og settist ad hjá þeim, því bádir hefdu sama handverk, nefnilega: tjald-
4. smídi og ták til vinnu, en kénndi hvern helgann dag í samkundu-húsinu bædi Gydíngum og
5. Grickjum. En er Sílas og Tímótheus komu

frá Macedoníu, var Páll stödugt vid kénníngnna og vitnadi fyrir Gydíngum, ad Jesús væri
6, Messías. En er þeir urdu uppvægir móti honum og smányrdtu hann, hristi hann duptid af klædum sínum og sagdi: ydvart blód sé yfir ydar hefdi*), eg em saklaus; hér eptir geng
7, eg til heidíngja. Sídan fór hann þadan og kom í hús þess manns, er hét Júſtus, sá dýrkadi Gud og átti hús rétt vid samkunduna.
8, En Krispus, Samkundu-höfdínginn, trúdi á Drottinn og allt hans heimafólk; líka tóku margir Korinthu-menn trú, þeir ed heyrt höfdu
9, lærdóminn og vóru þar skírdir. Eina nótt sagdi Drottinn í vitrun til Páls: óttast ecki,
10, heldur tala og þeig ecki! Því eg em med þér og enginn skal festa hönd á þér til ad gjöra þér
11, illt, því eg á margt fólk í þessari borg. Þá sat hann þar í þrjú missiri og kénndi þeim Guds ord.

12, Þegar Gallíon var Landstjórnari í Achajn, tóku Gydíngar sig upp med einu samheldi, á móti Páli og drógu hann fyrir dómstólinn
13, og sögdu: þessi rædur til þeirrar Guds-dýrk-
14. unar, sem gagnstæd er lögmálinu. Í því Páll ætladi ad gégna til, svaradi Gallíon Gydíngum: ef hér væri ad gjöra um óréttindi einhver edur ílloirki, þá skyldi eg, Gydíngar! til-
15, bærilega veita yckur áheyrn; en fyrst þad er þræta um lærdóm og nefn og ydar egin lög, þá sjáid um þad sjálfir, því eg girnist ecki ad



*) Kénnid sjálfum ydur um þad ólán, er þér bakid ydur.

16. vera Dómari yfir slíku og hann rak þá frá
17. dómstólnum. Allir þeir Grísku tóku þá Sostenes, samkundu-húss Hofdíngjann og bördu hann fyrir dómstólnum, en Gallíon skipti sér ecki af því.
18. Páll beid þar enn nockra daga, sídan qvaddi hann Brædurnar og sigldi til Sýrlands, ásamt Priskilla og Aqvílas, þegar hann var búinn ad raka höfud sitt í Kenkrea, því hann
19. hafdi heitbundid sig. Hann kom vid í Ephesus og skildi þau þar eptir, en geck sjálfur inn í samkundu-húsid og taladi fyrir Gydíng-
20. um; bádu þeir hann ad tefja hjá sér um hríd, en hann samsinnti því ecki, heldur qvaddi þá
21. og sagdi: eg hlýt eudilega ad halda hátídina, sem í hönd fer, í Jerúsalem, en eg skal koma
22. til ydar aptur, ef Gud vill. Svo fór hann frá Ephesus og kom vid í Cæsareu og þadan fór hann upp til Jerúsalem ad heilsa Sofn-
23. udinum og svo til Antíockíu. Hér dvaldi hañ nockra stund, en fór svo um gjervalt Galataland og Phrygíu og styrkti alla Lærisveinana.
24. En til Ephesus kom Gydíngur nockurr, Appollos ad nafni, ættadur úr Alexandríu, tölugur madur og vel ad sér í Ritníngunum,
25. hann hafdi fengid tilsögn í lærdómi Drottins og þared hann hafdi glóandi andagift, taladi hann og kénndi skorinordt um Herrann, vissi
26. þó ecki nema skírn Jóhannesar*). Þessi tók skeruglega ad prédika í samkundu-húsinu og er

V. 18. 4 Mós. 6, 9—21.
*) Nema þau sídaskipti, er Jóhannes Skírari kénndi, sjá Kap. 19, 3. 4.

Aqvílas og Priskilla heyrdu þad, tóku þau
hann ad sér og útlistudu ítarlega fyrir honum
Guds veg*). En er hann fýsti ad fara til 27.
Achaju, rédu Brædurnir honum til þess og
skrifudu Lærisveinunum ad taka honum vel.
Þar kominn vard hann þeim trúudu til gørr-
ar nytsemi med gáfum sínum; því med krapti 28.
hrakti hann Gydínga í ö-da vidskiptum og
sannadi klárlega af Ritníngunum, ad Jesús
væri Kristur.

## 19. Kap.

I.) Páll veitir nockrum í Ephesus Andans gáf-
ur; kennir þar í tvo ár og gjørir furdu-
verk 1—12. II.) Særínga-Mønnum er
misþirmt af djøfulódum manni; margir
snúa sér til kristni 13—20. III.) Þeg-
ar Páll ætlar til Gricklands, vekur De-
metríus upphlaup 21—40.

Þad skédi medan Appollos var í Korinthu, 1.
ad Páll, eptir ferd sína um Asíu upplønd, kom
til Ephesus og hitti fyrir nockra Lærisveina,
sem hann sagdi vid: hafid þér medtekid heilag- 2.
ann Anda þá þér trúdud? þeir svørudu: vid
høfum ecki svo mikid sem heyrt ad heilagur
Andi sé til. Hann spurdi þá: uppá hvad er- 3.
ud þér þá skírdir? þeir søgdu: uppá Jóhann-
esar skírn**). Páll ansadi: ad vísu vígdi Jó- 4.
hannes med skírn sinni undir sida-skipti, því
hann sagdi fólkinu ad trúa á þann, sem eptir



*) Þá nýu opinberun.
**) Hlýdni vid hans lærdóm, sjá Kap. 18, 25.

5. sig kjæmi; þad er: á Kristum Jesúm*). Þegar
þeir heyrdu þad, létu þeir sig skíra í nafnë
6. Drottins Jesú. Og sem Páll hafdi lagt hend-
ur yfir þá, kom yfir þá heilagur Andi, svo
7. þeir töludu túngumál og spádu. Alls vóru
8. þessir hérumbil tólf karlmenn ad tölu. Nú
géck hann í samkundu-húsid og prédikadi ein-
ardlega um þrjá mánudi og taldi trú um þad,
9. er viðvék Guds ríki. En er nockrir settu í
sig þverúd og létu ecki skipast, heldur hall-
mæltu Jesú í fólksins áheyrn, hætti hann vid
þá, skildi Lærisveinana frá og kénndi hvern
dag í skóla eins manns, er Tyrannus hét.
10. Þessu fór fram tvö ár, svo allir, sem bjuggu
í Asíu, bædi Gydíngar og Grickjar heyrdu lær-
11. dóm Drottins; einninn gjördi Gud ó-almenn
12. kraptaverk fyrir hendur Páls, svo ad jafnvel
sveita-dúkur og blæur af hörundi Páls, vóru
lagdar yfir sjúka og íllir andar gengu út af þeim.
13. Þá tóku nockrir umhlaupandi særínga-
menn Gydínga kyns sér fyrir, ad nefna yfir
þeim, er þjádust af íllum öndum, nafn Herr-
ans Jesú, segjandi: eg særi yckur vid Jesúm,
14. hvern Páll prédikar. Medal þeirra, er þetta
gjördu, vóru sjö synir Skévu, eins Gydínga
15. Höfud-prests. Þá svaradi hinn vondi andi:
Jesúm þecki eg og vid Pál kannast eg, en hver-
16. jir erud þér? og madurinn, sem sá vondi andi
var í, flaug á þá, varpadi þeim undir sig og
vard þeim þannig of-sterkur, ad þeir flúdu
17. naktir og særdir úr húsinu. Þetta vard kunn-
ugt öllum Gydíngum og Grickjum, er bjuggu í

*) Þad er: uppá Lærdóm Jesú.

Ephesus og ótta fló yfir alla og nafn Drottins
Jesú mikladist. Margir, sem vid trú høfdu 18.
tekid, komu nú, játudust og sogdu frá athæfi
sínu. Líka komu margir, er farid høfdu med 19.
kukl, med bækur og brenndu þær øllum ásjáandi.
Verd þeirra var reiknad saman og vard
summan fimmtíu þúsund silfur-peníngar. Ord 20.
Drottins vóx þanninn og efldist kreptuglega.
Eptir ad þetta var áorkad, setti Páll sér 21.
í huga ad ferdast um Macedoníu og Achaju
til Jerúsalem og sagdi: þegar eg er búinn ad
vera þar, á eg ad sjá Róm. Nú sendi hann 22.
tvo þjóna sína Tímótheus og Erastus til Macedoníu
og dvaldi sjálfur enn um tíma í Asíu.
Um þad leiti reis mikill órói út af lærdóminum; 23.
því silfur-smidur nockurr, ad nafni Demetríus, 24.
sem bjó til silfur-musteri Díenu*) og
abladi ødrum smidum stórkostlegs ábata. Þessa 25.
kalladi hann saman og adra, er unnu þar ad
og sagdi: gódir menn! þér vitid ad á þessu
verki stendur ockar velmegan; einninn sjáid þér 26.
og heyrid, ad ecki einúngis í Ephesus borg,
heldur nær um gjervalla Asíu, hefir Páll þessi
talid trú um og fengid á sitt mál fjølda fólks,
med því ad segja, ad þad séu ecki Gudir, sem
med høndum eru smídadir. Nú horfir þetta 27.
ecki einúngis vorum hluta til nidurdreps, heldur
einnig musteri hinnar miklu Díenu, ad þad
verdi einkis vyrdt. Lokssins kémur þar ad, ad
gjøreydist tign hennar, hverja øll Asía og jardarkrínglan
dýrkar. Vid ad heyra þetta urdu þeir 28.
afar-reidir, æptu upp og sogdu: stór er Díana

*) Myndir eptir Godahofinu í Ephesusi

29. Ephesus manna! Öll borgin vard nú upp-
væg og allir æddu samhuga til sjónar-plátsins,
hrifu med sér Macedónana Cajus og Aristar-
30. kus, förunauta Páls. En er Páll vildi gánga
fram í mann-þraungina, leyfdu Lærisveinarnir
31. honum það ecki; einninn sendu nockrir Asíu
Höfdíngjar, þeir ed vóru vinir hans, honum
bod og rédu honum frá ad koma á sjónar-pláts-
32. id. Adrir hrópudu nú svo, en adrir ödruvísi,
því safnadurinn var uppvægur og flestir vissu
hvers vegna þeir vóru þar saman komnir.
33. Nú var togadur fram úr mann-þraunginni Alex-
ander, hverjum Gydíngar ýttu fram; hann band-
adi med hendinni og vildi forsvara sig fyrir fólk-
34. inu. En er þeir vissu ad hann var Gydíngur,
æptu allir upp einum munni og hrópudu nærri
tvær stundir: mikil er hún Díana í Ephesus!
35. Loksins gat Stadar-skrifarinn stödvad fólkid og
malti: Ephesus menn! hverr er sá, er ecki viti
ad Ephesus borg er musteris-vaktari hinnar
miklu Díenu og þess úr himni dottna bílætis.
36. Nú, þar þetta er ómótmælanlegt, svo ber yd-
ur ad vera stilltum og ecki hrapa ad neinu.
37. Þér hafid dregid þessa menn híngad, sem hverki
38. hafa rænt hofin, né lastad Gydju ydar. Hafi
Demetríus og smidirnir, lagsmenn hans, kjæru-
mál móti nockrum, þá eru þíngholð ad fá og
39. Landstjórnarar til, egist þeir leg vid; en sé
þar annad ágreiníngs efni yckar á milli, sem
þér hafid innbyrdis, svo má gjöra þar um á
40. löglegri samkomu. En oss er búin hætta ad
verda klagadir fyrir þessa dags óróa, þar eng-
in orsök verdur borin fyrir hvar med vér kunn-

um ad affaka slíkt uppþlaup. Ad svo mættu lét hann mann-safnudinn skiljast ad.

I.) Páll fer til Macedoníu og Gricklands og 20. Kap.
þadan aptur til Tróas, hvar hann kéanir og endurlífaar Evtíkus; heldur áfram til Assus og Miletus 1—16. II.) Hér qvedur hann Oldúngana í Ephesus med hrærdu hjarta 17—38.

Eptir ad þessi órói var stoddadur, kalladi 1.
Páll Lærisveinana saman, qvaddi þá og fór af
stad til Macedoníu. Og er hann hafdi farid 2.
um þau landspláz og med mørgum ordum á-
minnt fólk, kom hann til Gricklands. Þar 3.
dvaldi hann þrjá mánudi; en er honum vóru
veitt umsátur af Gydíngum, þá hann ætladi
til Sýrlands, vard hann þess sinnis ad snúa
aptur um Macedoníu. Fylgdu honum þá á 4.
veg allt til Asíu, Sópater frá Beróea, Ari-
starkus og Sekúndus frá Thessaloníku, Gajus
frá Derbe og Tímótheus; en af Asíu mønn-
um Tychikus og Tróphímus. Þessir fóru á 5.
undan oss og bidu vor í Tróas, hvar vér tøfd-
um sjø daga. En vér sigldum eptir Páskana 6.
til Philippí og hittum þá á fimta degi í Tró-
as, hvar vér tøfdum sjø daga. En á fyrsta 7.
degi vikunnar, þá vér vórum samankomnir til
ad brjóta braudid*), héldt Páll rædu, því
hann ætladi ad ferdast morguninn eptir og

*) Ad brjóta braudid er sama, sem ad matast; þó brúkast þessi talsháttur stundum einkanlega um samnautn í minningu Jesu Krists.

8. lengdi hana til midnættis. Samkoman var á
9. loptsal, hvar mörg ljós brunnu; en vid glugg-
ann sat eitt úngmenni ad nafni Evtychus, á
hann féll þúngur svefn, þá Páll rædði svo
lengi og yfirkominn af svefninum, datt hann
ofan úr þridja lopti nidur á jafnsléttu og var
10. tekinn upp andvana. Páll geck þá ofan, lagd-
ist nidur að honum og umfadmadi hann, sagdi
11. sídan: ædrist ecki! hann er med lífi; sté sídan
upp aptur, braut braud og neytti, taladi þá
enn gódann tíma, allt þar til dagur ljómadi
12. og fór svo sinn veg; en þeir sóktu sveininn lif-
13. andi og urdu nærsta gladir. Vid stigum nú
á skip og förum á undan til Assus, hvar Páll
átti ad takast um bord, því svo hafdi hann
ráð fyrir gjört ad fara sjálfur þángad land-
14. veg. Þá fundum vorum hafdi borid saman í
Assus og vér höfdum tekid vid honum, komum
15. vid til Mitylene. Þadan sigldum vér og kom-
umst annars dags gagnvart Chios. Daginn
eptir lögdum vér ad Samus og stöldrudum vid
í Trógillíon og komum nærsta dag til Míletus.
16. Páll ætladi ad sigla framhjá Ephesus, svo
hann tefdi sem skemmst í Asíu. Því hann kost-
gæfdi, ef mögulegt yrdi, ad vera Hvítasunnu-
daginn í Jerúsalem.
17. Frá Míletus sendi hann til Ephesus, ad
18. kalla á Öldúnga Safnadarins; og sem þeir
vóru til hans komnir, ávarpadi hann þá þann-
ig: Þér vitid hvernig eg, frá þeim fyrsta degi
eg kom í Asíu, hefi hagad mér medal ydar,
19. allann þann tíma í erindum Drottins, án ysir-
girndar og stórlætis, opt med tárum og í vand-

rædum, sem Gydínganna vélrædi hafa bakad
mér; hversu eg hefi ekkért undanfellt, þad 20.
ydur værí til nytsemdar, heldur birt þad og
kénnt, bædi á manna=mótum og í heimahús=
um, áminnandi svo vel Gydínga sem Grickja, 21.
ad snúa sér, med betrun sinnislagsins, til Guds
og til trúar á Drottinn vorn Jesúm Krist; og 22.
sjáid! nú em eg bundinn í anda*), ad fara upp
til Jerúsalem, óvifs um, hvad þar muni mæta
mér, nema hvad heilagur Andi í sérhverri Borg 23.
birtir mér og segir mér, ad fjøtur og harm=
qvæli bídi mín. En eg set þad eckert fyrir mig, 24.
met og ecki dýrt líf mitt, svo eg med gledi full=
endi mitt skeid og embætti, sem eg hefi tekid
vid af Herranum Jesú, ad auglýsa fagnadar
bodskap gudlegrar nádar. Og takid nú eptir! 25.
eg veit ad enginn yckar, medal hverra eg hefi
gengid og prédikad Guds ríki, muni framar
sjá mitt andlit. Því vitna eg nú fyrir ydur 26.
í dag, ad eg em hreinn af blódi**) allra; því 27.
eg hefi ecki hlífst vid ad opinbera ydur allt Guds
ráð. Hafid nú gát á sjálfum ydur og á allri 28.
hjørdinni, í hverri heilagur Andi setti ydur til=
sjónar=menn, ad annast søfnud Drottins, hvern
hann útvegad hefir med sjálfs síns blódi; því 29.
þetta veit eg, ad eptir burtfør mína munu grimm=
ir vargar komast inn á milli ydar, þeir ed ecki
munu þyrma hjørdinni; og medal sjálfra ydar 30.
munu upp standa menn, og fara med rángsnúna
lærdóma, til ad leida Lærisveinana afvega med
sér. Vakid þess vegna og verid þess minnug= 31.
ir, ad eg hefi í þrjú ár, nótt og dag, ecki af=

*) Nú hefi eg stadrádid. **) Ofsrum.

látid, med grátandi tárum, ad áminna hvern
32. og einn. Og nú fel eg ydur, Brædur! Gudi
og ordi hans nádar, hvert máttugt er ad gjøra
ydur fullnuma og veita ydur arfteku medal all-
33. ra helgadra. Einkis silfur edur gull, edur klædi
34. hefi eg girnst. Sjálfir vitid þér, ad hendur
þessar hafa unnid fyrir mínum naudþurftum og
35. þeirra, sem med mér vóru. Allt sýnda eg yd-
ur, ad svo birjar oss med ydjusemi ad adstoda
heilsubilada og minnast orda Drottins Jesú,
því hann sagdi: "sælla er ad géfa, enn ad þigg-
36. ja" Ad svo mæltu féll hann á kné og badst
37. fyrir, ásamt þeim øllum og þeir grétu allir há-
stofum, legdu hendur um háls Páli og kystu
38. hann, mest sorgbitnir af því ordi, er hann hafdi
sagt, ad þeir aldrei framar mundu sjá hans aug-
lit; og þeir fylgdu honum til skips.

21. Kap. I.) Páll kémur til Tyrus, Ptólemais og Cæsaren, hvar dætur Philippusar spá og Agapus fyrirsegir Páli fángelsi 1—14. II.) Páli er tekid vel í Jerúsalem; hañ segir frá framqvæmdum sinum; honum er rádid, sokum Gydínga, ad láta hreinsa sig í musterinu, hvar hann er gripinn 15.—30. III) Yfirmadur kastalans frelsar hann og leyfir honum ad forsvara sig 31—40.

1. Eptir ad vér høfdum slitid oss frá þeim og
vérum komnir í rúm-sjó, sigldum vér beinleidis
til Kos og næsta dag til Ródus og þadan til
2. Patara. Þar fundum vér skip, er fara átti

til Foniciu og stigum á þad. En sem vér 3.
fengum landsjón af Cyprus, létum vér hana á
bakborda og sigldum svo til Sýrlands og tók-
um høfn í Týrus, hvar skipid átti ad afleggja
farminn. Þar fundum vér Lærisveinana og 4.
dvøldum hjá þeim sjø daga. Þeir søgdu Páli
af andagift, ad hann ecki skyldi fara upp til
Jerúsalem. Samt fórum vér ad sjø døgum 5.
lidnum af stad og fylgdu þeir oss allir, ásamt
konum og børnum, út fyrir Stadinn; þar féll-
um vér á kné í sjerunni og bádumst fyrir; og 6.
eptir ad vér høfdum hverjir qvadt adra, stig-
um vér á skip. Þeir snéru heim til sín, en 7.
vér endudum siglínguna og fórum frá Týrus
til Ptólemais, heilsudum brædrunum og tøfdum
hjá þeim einn dag. Daginn eptir fórum vær 8.
á burt og komum til Cæsareu, þar gengum
vér inn í hús Philippusar Gudspjallara, sem
var einn af þeim sjø og settumst ad hjá hon-
um. Hann átti fjórar ógiptar dætur, þær ed 9.
spádu; og sem vér dvøldum þar fleiri daga, 10.
kom Spámadur nockurr ofan frá Júdæu, Aga-
pus ad nafni; hann kom til vor, tók upp linda 11.
Páls, batt heudur sínar og fætur og mælti:
svo segir Andinn sá heilagi: þann mann, er
þetta belti á, munu Gydíngar þannig binda í
Jerúsalem og ofurselja í heidíngja hendur. Þeg- 12.
ar vér heyrdum slíkt, bádum vér og innbygg-
jararnir Pál, ad fara ecki upp til Jerúsalem;
en hann svaradi: hví grátid þér og hrellid 13.
huga minn? eg em reidubúinn ecki einúngis ad
láta mig binda, heldur og ad deya í Jerú-
salem, sökum nafns Drottins Jesú. Þar hann 14.

ecki vildi fallast á ráð vort, þegnudum vér og
fegdum: verdi Drottins vilji!
15. Eptir það bjuggumst vér til ferdar og för-
16. um upp til Jerúsalem. Nockrir af Lærisvein-
unum frá Cæsareu föru med og fylgdu ofs til
Mnasons frá Cyprus, sem var gamall Læri-
17. sveinn; hjá honum skyldum vér gista. Þá vér
komum til Jerúsalem, tóku Brædurnir ofs feg-
18. insamlega og næsta dag géck Páll med ofs til
Jakobs, hvar allir Öldúngarnir vóru saman-
19. komnir. Eptir ad hann hafdi heilsad þeim,
innti hann þeim skilmerkilega sérhvad eina, sem
Gud hafdi framqvæmt fyrir hans þjónustu, med-
20. al heidinna þjóda. Vid þessar fregnir vegsöm-
udu þeir Drottinn og sögdu vid hann: þú sier,
brödir! hversu margar þúsundir Gydínga hafa
trú tekid. Allir þeir eru vandir ad því ad
21. lögmálid sé haldid, en þeim er sagt um þig,
ad þú kennir öllum Gydíngum, er búa medal
heidíngja, fráfall frá Móse, med þeim um-
mælum, ad þeir egi hverki ad umskéra börn
22. sín, né fylgja hans setníngum. Hvad er hér vid
ad gjöra? vafalaust hlytur múgurinn ad koma
saman, því menn munu heyra ad þú sért kom-
23. inn. Gjör nú þad, sem vér segjum þér! hjá
ofs eru fjórir menn, sem bundnir eru heiti;
24. tak þá til þín, hreinsa þig med þeim og kosta
uppá þá, ad þeir fái rakad höfud sín*), þá mega
allir sjá, ad eckért er til í því, sem um þig
er talad, heldur ad þú sjálfur haldir lögmálid.
25. En hvad heidíngjana áhrærir, sem vid trú hafa
tekid, þá erum vér búnir ad géfa út bréf og

*) Leysi heit sín. 4 Mós. 6, 17. 18.

úrskurd, ad þeir þurfi eckért slíkt ad halda, útan sneida hjá skurdgoda-fórn og blódi og kofnudu og frillulífi. Þá tók Páll mennina til sín, 26.
og daginn eptir, þá hann hafdi hreinsad sig, gèck hann med þeim í musterid og lýsti því, ad hann ætladi ad útenda hreinsunar dagana, þángad til hvers eins þeirra offur væri framborid. En undir þad þeir sjö dagar vóru ad 27.
enda, þá Júdar frá Asíu, sáu Pál í Musterinu, æstu þeir allann lýdinn upp og legdu á hann hendur og hrópudu: gódir Ísraels menn! 28.
hjálpid! hér er madurinn, sem allstadar er ad prédika öllum, í móti þjód, lögmáli og stad þessum. Þar ofaná hefir hann innleidt Grícki í Musterid og saurgad þennann heilaga stad.
Þeir höfdu sjed ádur Tróphímus frá Ephesus 29.
med honum í borginni og hugsudu, ad Páll hefdi leidt hann í musterid. Öll borgin vard nú 30.
uppvæg, og múgurinn flycktist saman, greip Pál og dró hann út úr musterinu og strax var dyrunum læst.

Enn í því þeir leitast vid ad lífláta hann, 31.
barst sú saga upp til Yfir-hofdíngja herflocksins*), ad öll Jerúsalem væri í uppnámi. Hañ 32.
tók þá í snarrædi strídsfólk og Hundrads-hofdíngja og hleypti ad þeim. Þegar hinir sáu Yfirhofdíngjann og strídsmennina, hættu þeir ad lemja Pál. Yfir-hofdínginn kom nú til og tók 33.
Pál og skipadi ad binda hann med tveinnum járnfjötrum, spurdi svo hverr hann væri og hvad hann hefdi adhafst; en sitt kalladi hverr úr 34.
mannfjöldanum, og er hann gat eckért áreidan-

*) Þad er: þess rómverska setu-lids í Jerúsalem.

legt uppgetvad, sökum ólátanna, baud hann ad
35. leida hann í Kastalann. Þá komid var ad
treppunum, hlutu strídsmennirnir ad bera Pál,
36. sökum áfergju múgans; því þorri fólksins flyckt-
37. ist med og hrópadi: lát hann ecki lifa! Rétt
í því Páll skyldi innlátast í kastalann, sagdi
hann vid Yfir-hefdíngjann: leyfist mér ad tala
nockur ord vid þig? hann ansadi: kanntú Grísku?
38. ertú ecki sá egyptski madur, sem fyrir skemmstu
vacktir styrjöld og færdir útá eydimörk fjögur þú-
39. sund mordíngja? Páll svaradi; eg em Gydíng-
ur, ættadur úr Tarsus og borgari þessa nafn-
kénnda stadar í Cilicíu; eg bid því, leyf mér
40. ad tala til fólksins! Ad því leyfi fengnu nam
Páll stadar á treppunum og bandadi hendinni
til fólksins og er gott hljód fékst, taladi hann
til þeirra á hebresku túngu og sagdi;

22. Kap. I.) Páll segir frá, hverninn hann snérist til kristni og fékk kall ad kénna heidnum þjódum 1—21. II.) Gydínga óhljód móti honum; Herstjórinn ætlar ad láta húdstrýkja hann, en vogar ecki, þar ed Páll var rómverskur borgari; leidir hann fyrir Rádid 22—30.

1. Heidurlegu Brædur og Fedur! hlustid nú á
2. forsvar mitt til ydar! En er þeir heyrdu
hann ávarpa sig á Hebresku, urdu þeir enn
3. hljódari. Eg em — sagdi hann — Gydíngur,
fæddur í Tarsus í Cilicíu, en uppalinn í þess-
ari borg og mentadur med allri kostgæfni í

fedranna lögmáli, vid fætur*) Gamalíels. Eg
vard og vandlætari vegna Guds, eins og þér
allir erud þann dag í dag. Nýu trúna of- 4.
sókti eg í daudann fram, batt menn og konur
og afhendti í fángelsi. Jafnvel Höfud-prestur- 5.
inn og allt ædsta Rádid mun bera mér vitni
um þad, því af þeim tók eg og bréf til brædr-
anna og fór til Damaskus í þeim tilgángi ad
flytja þá, er þar væru, bundna til Jerúsalem,
svo þeim yrdi hegnt. Þegar eg var á þeirri 6.
ferd og nálgadist Damaskus, bar svo til, nær
midjum degi, ad um mig leyptradi skyndilega ljós-
mikid af himni. Eg féll til jardar og heyrdi 7.
raust, er sagdi til mín: Sál! Sál! því offsæk-
ir þú mig? eg svaradi: hverr ertú? Herra! 8.
hann sagdi til mín: eg em Jesús af Nazareth,
hvern þú offsækir. Menninir, sem med mér 9.
vóru, sáu ljósid og urdu felmts-fullir, en raust
þess, er vid mig taladi, heyrdu þeir ecki. Þá 10.
sagda eg: Herra! hvad skal eg gjöra? Drott-
inn svaradi mér: stattú upp og gack til Da-
maskus, þar verdur þér kunngjört allt, sem
þér er ætlad ad gjöra. En af því ofbirta 11.
ljóssins hafdi gjört mig sjónlausann, handleiddu
samferda-mennirnir mig, svo eg komst til Da-
maskus. Þar var einn gudrækinn madur, ept- 12.
ir lögmálinu, Ananías ad nafni, vel-þockadur
af öllum Gydíngum, er þar bjuggu; hann kom 13.
til mín, stód yfir mér og sagdi: Sál, bródir!
líttú upp! fádú aptur sjónina! og samstundis
þá leit eg hann. Hann sagdi þá: Gud fedra 14.
vorra hefir fyrirhugad þér ad þeckja sinn vilja

*) Af Gamalíeli.

og ad sjá hinn Réttláta og ad heyra raust af
15. hans munni; því þú munt verda hans vottur
til allra manna, um það þú hefir sied og heyrt
16. og hvad hikar þú nú? stattú upp, lát skíra
þig og afþvo syndir þínar og ákalla hans nafn.
17. Það skédi og, eptir ad eg var heimkominn til
Jerúsalem og badst fyrir í Musterinu, ad eg
18. vard frá mér numinn og sá hann sjálfann tal-
andi vid mig: flýt þér og vert sem snarast
burt úr Jerúsalem, þvíad ecki munu þeir þýd-
19. ast þinn vitnisburd um mig. Þá svaradi eg:
Herra! þeir vita sjálfir, ad eg kastadi í fáng-
elsi og húdstetti í samkundunum þá, sem trúdu
20. á þig og þegar blódi Stephåns, vitnis þíns,
var úthellt, stód eg sjálfur hjá og þókti vænt
um og geymdi föt þeirra, sem slóu hann í hel.
21. Hann sagdi ecki ad sidur til mín: farðu! því
eg vil senda þig lánga leid til heidíngja.
22. Allt ad þessu ordi hlýddu þeir á, en nú
hófu þeir upp raust sína og sögdu: burt med
þennann mann af jördinni! því það hæfir ecki
23. hann lifi. Nú sem þeir hrópudu og fleygdu
24. klædum sínum og jusu mold í lopt upp, skipadi
Yfir-höfdínginn ad láta hann í kastalann og
og med svipum ad kúga hann til sagna, svo
hann fengi ad vita, fyrir hverja sök þeir hróp-
25. udu svo gégn honum. Þegar þeir fóru þá ad
strengja hann med taugum, sagdi Páll vid Hund-
rads-höfdíngjann, er hjá stód: er ydur leyft
ad húdstrýkja rómverskann mann og það ódæmd-
26. ann? Enn sem Hundrads-höfdínginn heyrdi
það, géck hann til Yfir-höfdíngjans, innti hön-
um frá og sagdi: hvad ætlardú ad gjöra? mad-

urinn er rómverskur. Yfir-hefdínginn kom þá 27.
og taladi til Páls: seig mér, ertú madur róm-
verskur? hann ansadi: já! Yfir-hefdínginn 28.
svaradi: fyrir ærna fé mátti eg kaupa þennann
borgara-rétt. Hinn gégndi til: en eg em svo
fæddur. Jafnskjótt hvurfu þeir frá, er áttu 29.
ad pína hann til sagna og Yfir-hefdínginn vard
hræddur, þá hann vissi ad hann var rómversk-
ur, af því hann hafdi látid binda hann. Dag- 30.
inn eptir vildi hann vita med vissu, hvad Gyd-
íngar hefdu ad ákjæra Pál um, leysti hann og
baud ad Hefud-prestarnir og allt Rádid skyldi
koma saman; lét sídan leida Pál fram fyri þá.

I.) Páll vitnar um sína gódu samvitsku, en 23. Kap.
sær kinnhest 1—5. II.) talar um upp-
risuna, út af hverju Gydíngar verda
sundurþykkir 6—9. III.) Herstjórinn
setur hann í kastalann; Gud hughreystir
hann 10. 11. IV.) Gydínga rádabrugg
gégn Páli verdur uppvíst 12—22. V.)
Herstjórinn sendir hann til Landstjórnar-
ans Felix í Cæsareu 23—35.

Páll leit hvössum augum á Rádid og mælti: 1.
brædur! eg hefi med algjørlega gódri samvitsku
framgengid fyrir Gudi, allt til þessa dags.
Kénnimanna-hefdínginn Ananías skipadi þeim, 2.
er hjá Páli stódu, ad ljósta hann á munninn.
Páll sagdi þá til hans: Gud mun ljósta þig,
þú kalkadi veggur! — þú lætst sitja, eptir lög-
um, sem Dómari minn og móti lögum skipar

4. þú ad slá mig*). Þá sögdu þeir, sem hjá
5. stódu: atyrdir þú ypparsta Prest Guds? ecki
vissa eg, brædur! — svaradi Páll — ad þad
væri Presta-hösdínginn; því skrifad er: hösd-
íngja þíns fólks skaltú ecki ordskémma.
6. Páll vissi, ad nockrir í Rádinu vóru Sa-
dúcæar, en nockrir Pharísæar; því sagdi hann
hátt: heidrudu brædur! eg em Pharísæari og
Pharísæara sonur. Fyrir vonina**) og upp-
7. risu daudra lögsækist eg. Ad svo mæltu vard
sundurþycki milli Pharísæanna og Sadúcæanna
8. og þíng-heimurinn sundradist; því Sadúcæar
segja ecki sé til upprisa framlidinna, né engill,
né andi, en Pharísæarnir vidurkénna hvert-
9. tveggja. Nú vard hávadi mikill; þeir Skrift-
lærdu af Pharísæanna flocki gásu sig fram,
færdu mál sitt med kappi og sögdu: eckert íllt
finnum vér á þessum manni, þó hann beri
fram, ad andi hafi talad vid sig edur engill.
10. En er sundurlyndid vard svo svæsid, ad
Herstjórinn sá ecki annad fyrir, enn þeir mundu
sundurslíta Pál, skipadi hann herlidinu ad fara
nidur til ad grípa hann frá þeim og flytja
11. hann í kastalann. Nóttina eptir stód Drott-
inn hjá honum og sagdi: vertú hughraustur!
Þvíad líka sem þú hefir vitnad um mig í Je-
rúsalem, svo ber þér einninn ad vitna úti Róm.
12. Þegar dagadi gjördu Gydíngar samtök
og heitstrengdu med dýrasta eidi, ad þeir skyldu

*) Páli var vorkun þó hann tortryggdi tign Ananí-
asar, sem var órélega fengin, edur sjálftekin. Páll
var og ordinn ókunnugur í Jerúsalem.

**) Vorrar þjódar, Lúk. 2, 32.

ecki eta né drecka fyrr enn þeir hefdu Pál af dogum rádid og vóru þeir yfir fjerutíu, sem 13. bundist hefdu í þennann svardaga. Þessir 14. fóru á fund Presta-hefdíngjanna og Öldúnganna og sögdu: vér hefum hardlega formælt oss, ad bergja einkis, fyrri enn vér hefum Pál af lífi tekid. Teljid nú svo um, þid og Ráð- 15. id, fyrir Herstjóranum, ad hann láti leida Pál fram fyrir ydur á morgun, eins og þér ætlid greinilegar ad ransaka mál hans. En vér erum reidubúnir ad ráda hann af dögum, ádur enn hann kémst til ydar. Þessa 16. svikrædis vard áheyrsla Systur-sonur Páls, tók sig því til og fór upp í kastalann ad segja Páli frá. En Páll kalladi á einn Hundrads- 17. hofdíngjanna og mælti: fylg þessum pilti til Herstjórans, því hann hefir nockud ad segja honum. Hundrads-hofdínginn fór med piltinn 18. til Herstjórans og sagdi: bandínginn Páll kalladi mig til sín og bad mig færa þér þenna svein, sem þann, er hefdi nockud ad segja þér. Herstjórinn tók þá sveininn vid hönd, vjek 19. honum afsídis og spurdi: hvad er það, sem þú hefir ad auglýsa mér? Hinn svaradi: Gyd- 20. íngar hafa komid sér saman um ad bidja þig ad færa Pál á morgun fyrir Rádid, eins og þeir ætli ítarlegar ad yfirheyra hann; en lát 21. þú ecki ad ordum þeirra, því af þeim sitja um Pál yfir fjerutíu manns, hverjir ed hafa svarid sig um ad eta hverki né drecka, fyrri enn þeir hafi fyrikomid honum og þeir eru þegar reidubúnir og bída eptir bodum frá þér. Her- 22.

stjórinn lét piltinn fara, en bannadi honum ad segja neckrum manni frá, - ad hann hefdi opinberad sér þetta.

23. Kalladi svo á einhverja tvo Hundrads-
hefdíngja og sagdi: búid út tvo hundrud strídsmenn, ad þeir fari til Cæsareu, sjetíu riddara og tvøhundrud skyttur, eptir fyrstu eikt nætur;
24. hafid og til reidu farar-skjóta ad setja undir
Pál, svo hann komist óhultur til Landstjórn-
25. arans Felix. Hann skrifadi og bréf þessa
26. innihalds: "Claudíus Lysías heilsar enum vold-
27. uga Landstjórnara Felix. Þennann mann hefdu
Gydíngar handtekid og ætludu ad lífláta, en eg kom þá ad med strídsfólkinu og sleit hann af þeim, eptir ad eg vard þess áskynja ad
28. hann væri rómverskur, svo eg fengi ad vita,
29. hverja sök þeir bæru uppá hann. Leidda eg
hann fyrir þeirra Rád og fann þá, ad sakargiftin áhrærdi vafa-spursmál í þeirra legum, en engann misverknad, sem dauda væri verdur
30. edur banda. Medfram féck eg vísbendíng um
ad Gydíngar sætu um líf mannsins; því sendi eg hann tafarlaust til þín og hefi bodid hans áklogurum ad framfæra fyrir þér þad, sem þeir hefdu á móti honum. Vegni þér vel!"
31. Stríds-mennirnir tóku nú Pál, eins og þeim
var sagt og fluttu hann um nóttina til Antí-
32. patris. Daginn eptir létu þeir riddara-lidid
fara med honum, en snéru aptur til kastalans.
33. Hinir héldu áfram til Cæsareu og afhendtu
34. Landstjórnaranum Pál, ásamt bréfinu. Felix
las bréfid, spurdi Pál: úr hverri Sýslu hann væri? og féck ad vita ad hann var úr Cilicíu,

sagdi hann þá: eg skal yfirheyra þig, þegar 35.
ákjærendur þínir mæta og hann skipadi ad
vardveita hann í höll Heródesar.

I.) Gydíngar áklaga Pál, en hann forsvarar 24. Kap.
sig kroptuglega 1—23. II) Felix skélfist
út af Páls rædu og skilur hann eptir í
böndum 24—27.

Fimm dögum sídar fór af stad Presta-höfdíng- 1.
inn Ananías med Öldúngunum og mælsku-
manni nockrum, er hét Tertúllus og þessir
mættu fyrir Landstjórnaranum gégn Páli. Þá 2.
búid var ad kalla hann fyrir, birjadi Tertúllus
sína ákjæru svo mælandi: margfaldrar sælu er- 3.
um vér ordnir ad=njótandi fyrir þína skuld
og marga réttarbót á þessi þjód þinni umsjá
ad þacka, voldugasti Felix! þetta játum vér
á hverjum stad og stundu þacklátlega; en ad 4.
eg ónádi þig sem skémmst; bid eg þú, eptir
mildi þinni, viljir heyra oss fáordlega. Þenn- 5.
ann mann höfum vér fundid skadvænann, sem
drepsótt, því hann vekur óróa medal allra Gyd-
ínga um alla vída veröld og er oddviti hins
nazareiska villu-flocks. Hann hefir jafnvel rád- 6.
ist í ad vanhelga musterid, hvers vegna vér
tókum hann fastann og vildum hafa dæmt hann
samqvæmt vorum lögum; en Herstjórinn Lysías 7.
kom ad og med miklu ofriki reyf hann úr vor-
um höndum og skipadi hans áklögurum ad 8.
fara til þín. Nú munt þú, vid yfirheyrslu
mannsins, fá sjálfur sannleikann ad vita um
allt þad vér kjærum á hann. Gydíngar guldu 9.

10. jáqvæði við og sögðu þetta vera svo. Eptir að
Landstjórnarinn hafði bendt Páli að tala, and-
svaraði hann: þar eg veit, að þú um mörg ár
hefir verið Dómari þessarar þjóðar, mun eg
11. þess öruggar forsvara mig; þú getur fengið að
vita, að það eru ecki meir enn tólf dagar síð-
an eg kom til Jerúsalem að biðjast fyrir og
þá hittu þeir mig eckí, hverki í orða-þrætu
við nockurn mann, né æsandi fólk til óspekta,
12. hverki í musterinu, né í samkundu-húsunum,
13. né um borgina og ecki heldur géta þeir sannað
14. það, sem þeir nú áklæra mig um. En þetta
játa eg þér, að eg þjóna Guði feðra minna,
samqvæmt þeirri trú, sem þeir kalla villudóm
og trúi öllu, sem skrifað stendur í lögmálinu
15. og Spámönnunum, hafandi þá von til Guðs,
hverja þeir og sjálfir hafa, að framliðnir muni
16. upprísa, bæði vondir menn og góðir. Því æfi
eg líka sjálfann mig, að hafa jafnan óflekkaða
17. samvitsku, bæði fyrir Guði og mönnum. Ann-
ars kom eg eptir fleiri ára burtuveru með öl-
18. musu-gjafir handa þjóð minni. Meðan eg var
að þessu og var nýbúinn að hreinsa mig í
musterinu, hittu þeir mig kjærstæðann flocka-
19. drátti og óróa; þetta vóru nockrir Gyðingar
frá Asíu, hverjir mætta hefðu átt fyrir þér og
20. klaga, ef nockuð hefðu haft mér á móti. Eð-
ur segi þessir, sem viðstaddir eru, sjálfir til,
hvað þeir hafi fundið saknæmt á mér, þegar
21. eg stóð fyrir Ráðinu, utan það sé þetta eina
orð, er eg qvað upp, standandi milli þeirra:
eg lögsækist í dag af yður, sakum upprísu fram-
22. liðinna. Felix skaut nú málinu á frest, uns

hann þeckti gjørr þennann lærdóm og sagdi; þegar Hershøfdínginn Lysías kémur, skal eg ransaka til fulls mál yckar. Einninn skipadi 23.
hann Hundrads-høfdíngjanum um vardhald Páls, ad hann héldi hann ecki hardt og bannadi engum honum vandabundnum ad þéna honum edur gánga til hans.

Nockrum døgum seinna kom Felix, med 24.
konu sinni Drúsillu, sem var Gydínga ættar, og lét senda eptir Páli, til ad frædast um trúna á Krist. En er Páll kom á tal um réttlæti, 25.
bindindi og tilvonandi dóm, skélfdist Felix og mælti: far burt ad sinni; þegar eg fæ tóm, mun eg láta kalla þig aptur. Medfram vænti 26.
hann, ad Páll mundi géfa sér fé til ad losast, þess vegna lét hann og opt kalla á hann og átti vid hann samrædur. Ad lidnum tveim árum, 27.
kom Porsíus Festus í stad Felix til valda og, til ad sýna Gydíngum velvild, eptirskildi Felix Pál fjøtradann.

I.) Festus bodar Gydínga til Cæsareu, hvar Páll aptur forsvarar sig móti þeim; en Páll skýtur máli sínu til Keisarans og Festus úrskurdar, ad málid gángi þángad 1—12. II.) Festus talar um Pál vid Agrippa Konúng, er sjálfur vill heyra á hann 13—27.

25. Kap.

Þremur døgum eptir ad Féstus hafdi tekid vid 1.
Sýslu sinni, fór hann frá Cæsareu upp til Jerúsalem. Þá mættu fyrir honum Presta-høfd- 2.
íngiun og Fyrirmenn Gydínga, móti Páli, gjørdu

3. sér far um ad fá hann á sitt mál og beiddust
þess tillætis, ad Festus léti senda eptir honum
og flytja hann til Jerúsalem; en þeir ætludu
4. sér ad sitja um hann og drepa á leidinni. Festus
andsvaradi: ad Páll væri í varðhaldi í Cæsareu,
en sjálfur ætladi hann bráðum á stad þángad
5. aptur. Látid því — sagdi hann — duglega menn
af ydar hálfu, fara þángad med mér, til ad á-
6. kjæra hann, sé nockud saknæmt í hans fari. En
sem hann hafdi dvalid hjá þeim, mest átta ed-
ur tíu daga, sneri hann aptur til Cæsareu og
daginn eptir settist hann á dómstólinn og skip-
7. adi ad leida Pál fram. En er Páll var þar
kominn, umkríngdu hann Gydíngarnir, sem
nidur hefdu farid frá Jerúsalem og báru uppá
hann margar og þúngar sakargiftir, hverjar
8. þeir þó ecki gátu sannad, því hann kom fyrir
sig þeirri vorn, ad hann eckert hefdi misbrotid,
hverki móti lögum Gydínga, né musterinu, ecki
9. heldur Keisaranum. Þá spurdi Festus Pál,
til ad ívilna Gydíngum, viltú — segir hann —
fara upp til Jerúsalem, ad eg þar dæmi
10. þetta mál þitt? Páll svaradi: Keisarans dóm-
stóll er mitt varnar-þíng, þar á eg ad dæm-
ast. Gydíngum hefi eg engann órétt gjört,
11. eins og þú gjörla veitst. Sé eg brotlegur,
edur hafi framid nockud dauda verdt, þá skora
eg mig ecki undan lífláti; en fyrst eckert er
tilhæft í því, sem þessir skulda mig fyrir, svo
12. á enginn med ad gefa þeim líf mitt. Eg skýt
máli mínu til Keisarans. Eptir ad Festus
hafdi talad vid sitt rádaneyti, vard þetta hans

atavædi: "fyrir Kejsarann hefir þú skotid málefni þínu, til Keisarans skaltú fara."

Ad nockrum døgum lidnum kom Agrippa 13.
Konúngur og Berníke til Cæsareu, til ad segja
Festus velkominn; og þar þau dveldu þar fleiri 14.
daga, innti Festus Konúnginum frá málefni Páls
og sagdi: Felix hefir skilid eptir bandíngja nockurn, móti hverjum Presta-hofdíngjar og Öld- 15.
úngar Gydínga mættu, þá eg var í Jerúsalem
og æsktu straffs yfir honum. Eg svaradi þeim: 16.
ad þad væri ecki háttur Rómverja, ad ofurselja í dauda nockurn mann ødrum í vil, fyrrí
enn áklagendur og sá ákjærdi, væru bádir nálægir og þessi fengi tækifæri til forsvars, móti
sakargiftinni. En er þeir komu med mér híng- 17.
ad, gjørdi eg engann drátt, heldur settist í dómstólinn daginn eptir og skipadi ad leida manninn fram. Áklagendurnir, sem mættu gégn hon- 18.
um, báru nú enga þesshattar søk fram, er eg
hafdi ætlad, heldur einhver þrætu spursmál 19.
úr þeirra egin trúarbrøgdum og um einhvern
dáinn Jesús, hvern Páll segir lifa. Þar eg 20.
nú vantreysti mér ad skéra úr þesskonar þrætu,
leiddi eg í tal, hvert Páll vildi fara upp til
Jerúsalem og láta þar dæma í þessart søk. En 21.
eptir því Páll æskti, ad hann geymdist til
Keisarans úrskurdar, skipadi eg ad vardveita
hann uns eg sendi hann Kejsaranum. A- 22.
grippa sagdi þá vid Festus: mig lángar og
til ad heyra sjálfur manninn. Hinn ansadi:
á morgun skaltú heyra hann. Daginn ept- 23.
ir kom Agrippa og Berníke, med miklu skrauti
og gengu ásamt Herstjórunum og yppurstu

mönnum Borgarinnar í dómhúsid; var svo
24. Páll ad bodi Festusar sóktur. Þá mælti Festus:
Agrippa Konúngur! og þér allir, sem med oss
erú nærstaddir! þar siáid þér þann mann, hvern
gjervallur Gydínga múgur hefir klagad fyrir
mér, bædi í Jerúsalem og hér og hástefum sagt,
25. ad ecki ætti lengur ad lifa. Ad vísu er eg sann-
færdur um, ad hann eckert hefir adhafst, þad
dauda-straffi sæti, en þar hann siálfur skaut sér
fyrir Keisarann, ályktadi eg, ad hann skyldi send-
26. ast þángad. Nú hefi eg eckert skilmerkilegt ad
skrifa Herranum um hann og því hefi eg fram-
leidt hann fyrir ydur, og einkum fyrir þig, A-
grippa Konúngur! uppá þad mér, ad holdnu
27. þessu ransaki, audnist ritefni; því mér lítst óské-
legt ad senda fánga, án þess sakastadur hans
sé tilgreindur.

26. Kap. I.) Páll segir lífs-sögu sína, frá sinni trúar-
breytíngu og köllun 1—23. II.) Fest-
usar og Agrippu álit um rædu Páls;
Páls sakleysi er vidurkénnt 24—32.

1. Agrippa sagdi nú vid Pál: þér leyfist ad
tala fyrir þig. Páll rétti þá út höndina og
2. forsvaradi sig þannig: heppinn tel eg mig, A-
grippa Konúngur! ad mega í dag afsaka mig
fyrir þér, áhrærandi allt hvad Gydíngar ásaka
3. mig um; helzt af því þú ert kunnugur öllum
Gydínga sidvenjum og vafa-spursmálum, þess
vegna bid eg þig þolinmódlega ad heyra mig.
4. Mitt líf og dagfar, sem frá öndverdu hefi alist
hjá þjód minni í Jerúsalem, er í frá barnæsku

øllum Gydíngum alkunnugt. Þeir vita um mig 5.
frá urphafi (vildu þeir ad eins unna mér sann-
mælis) ad eg hefi lifad sem Pharísæari eptir
grandvarustu og straungustu sida-reglum vorrar
trúar. Og nú stend eg undir lögsókn, vegna 6.
vonar á því fyrirheiti, er Gud gaf fedrum vor-
um, hvert vorir tólf kynþættir med innilegri 7.
þjónkun Guds, nótt og dag, vænta ad hreppa.
Fyrir þessa von klagast eg, Agrippa Konúng-
ur! af Gydíngum, og hvad? álítst þad þá ótrú- 8.
legt hjá ydur, ad Gud uppveki dauda? ad sönnu 9.
áleit eg sjálfur þad skyldu mína, ad fyrirtaka
margt móti Jesú frá Nazareth; þad gjörda eg 10.
og í Jerúsalem, ad eg hneppti í myrkvastofur
marga kristna, eptir fenginni fullmakt frá Presta-
höfdíngjunum. Líka gaf eg mitt jáqvædi til,
þegar þá skyldi lífláta og í øllum samkundu- 11.
húsum lét eg þeim þrásinnis refsa og neyddi
þá til ad nídast á trú sinni. Já, svo frekt
ædda eg gégn þeim, ad eg elti þá til framandi
borga. Þegar eg þessa erindis var á ferd til 12.
Damaskus, í umbodi og leyfi Höfud-prestanna,
sá eg, ó Konúngur! á veginum, um midjann 13.
dag, ljós af himni, hverju sólskini bjartara,
leyptra um mig og þá, sem mér vóru samferda.
Vid duttum allir til jardar og þá heyrda eg 14.
rødd, er vid mig taladi og sagdi á Hebresku:
Sál! Sál! hví offsækir þú mig? erfidt verdur
þér ad spyrna móti broddinum. Eg spurdi: 15.
hverr ert þú? Herra! hann svaradi: eg em Je-
sús, hvern þú offsækir. En rís upp og statt á 16.
þínar fætur, því til þess vitradist eg þér, ad
þú yrdir minn kjørni þjón og vottur ad því þú

17. sást, og ad því, eg enn mun sýna þér. Eg
skal bjarga þér frá fólki þínu og frá heidíng-
18. junum, til hverra eg ætla ad senda þig, til ad
opna augu þeirra, svo þeir snúist frá mirkri til
ljóss, frá Satans valdi til Guds og edlist fyr-
irgéfníngu syndanna, samt hlutdeild med þeim,
19. er helgadir verda fyrir trú á mig. Gégn slík-
ri himneskri opinberun vilda eg, ó Agrippa Kon-
20. úngur! ecki þverskallast, heldur bodadi eg fyrst
þeim í Damaskus og sídan í Jerúsalem og um
bygdarleg Gydíngalands, og sídan heidíngjum,
ad menn skyldu taka sinna-skipti og snúa sér til
21. Guds og vinna sambodin verk ydruninni. Fyr-
ir þessara hluta skuld gripu Gydíngar mig í
musterinu og leitudust vid, ad svipta mig lífi;
22. en fyrir Guds fulltíngi hefir mér audnast ad
standa heill allt til þessa dags og vitna fyrir
bædi smáum og stórum, án þess eg segi annad
enn þad, sem Spámennirnir og Móses hefdu
23. sagt ad ské mundi: ad Kristur skyldi pínast,
ad hann skyldi verda sá fyrsti, er frá daudum
risi og ad hann skyldi kynna Gydínga lýd og
heidnum þjódum ljósid*).
24. Adur enn Páll hafdi endad þessa for-
svars rædu sína, kalladi Festus hástöfum: gal-
inn ertú ordinn, Páll! sá mikli lærdómur ærir
25. þig. Hann svaradi: ecki em eg galinn, vold-
ugi Festus! heldur framfæri eg sönn og gæti-
26. leg ord, eins og Konúngurinn mun skilja.
Vid hann tala eg einardlega, af því eg þyk-
ist vita ad honum sé eckert af þessu hulid, því
27. þad er ecki í fylsnum skéd. Trúir þú, Agrip-

*) Wegjordan Guds þeckingu.

pa Konúngur! Spámønnunum? eg veit þú trú-
ir þeim. Agrippa gégndi Páli til: lítid vant- 28.
ar á — segir hann — ad þú fáir talid mig til
ad taka kristni. Páll svaradi: þess óska eg til 29.
Guds, hvert þar vantar til mikid edur lítid,
ad ecki einúngis þú, heldur og allir, sem til
mín heyra í dag, yrdu þvílikir sem eg, ad und-
anteknum þessum hleckjum. Nú stód Konúng- 30.
urinn upp og Landstjórnarinn og Berníke og
þeir, ed hjá þeim sátu; og þá þau vóru affsíd- 31.
is gengin, toludu þau sín á milli og sögdu:
þessi madur hefir eckert framid, sem dauda sé
verdt edur banda. Já, Agrippa sagdi vid 32.
Festus: þessum manni hefdi mátt sleppa, ef
hann hefdi ecki skotid sér fyrir Keisarann.

## 27. Kap.

I.) Páll er sendur til Róm, kémur til Sidon og þadan til Myra 1—6. II.) Siglíngin verdur hættuleg, svo Páll rædur til ad fara ecki frá Kreta, en forgéfins 7—12. III.) Skipverjarnir komast í mestu þraut og lífsháska, en Páll hugbreystir þá 13—26. IV.) Peir lida skipbrot vid eyúna Melite, en komast þó heilir í land 27—44.

Þá fullrádid var ad vér skyldum sigla til 1.
Italíu og búid var ad afhenda Pál og nockra
adra fánga Hundrads-hefdíngja nockrum úr
svo kelludum Keisara herflocki, er Julíus hét;
stigum vér á eitt adramytiskt skip, er uppsigla 2.
átti nockra Sjóstadi Asíu, og létum í haf. Sá
macedóniski Aristarkus úr Thessaloníku, var oss

3. samferda. Næsta dag nádum vér Sídon. Jú-
lius var mannúdlegur vid Pál og lofadi honum
ad hitta vini sína og þyggja þeirra greidvikni.
4. Þadan fórum vér og sigldum undir Cyprus,
5. því mótvindur var; komumst svo yfir hafid fyr-
ir framan Ciliciu og Pamphiliu og nádum
6. Mýru í Lyciu. Þar fann Hundrads-höfdíng-
inn skip frá Alexandríu, er sigla átti til Italíu
og kom oss á þad.
7. Nú géck marga daga siglíngin tregt, svo
vér nádum med þraut Knídus, sökum andvidr-
is, sigldum því undir Krít, ad hafinu Salmóne.
8. Eptir þrá-beitíng fram med eyunni, komumst
vér á einn stad, sem kallast Góðhafnir, í grend
9. vid borgina Lasea. Enn leid drjúgur tími og
sjóferdir tóku þegar ad verda hættulegar, því
haust-fastan var ad enda. Þess vegna gaf
10. Páll þeim svolátandi vidverun: Gódir menn!
eg sje ad siglíng vor muni verda mædusöm og
stórkostlega skadvæn, ecki einúngis fyrir farminn
11. og skipid heldur og fyrir líf vort. En Hund-
rads-höfdínginn trúdi betur Stýrimanninum
12. og Skipherranum enn Páls tillögum. Og þar
áminnst höfn var óhentug til vetrarlegu, svo
vard flestra rád ad halda þadan, í von um ad
sér tækist ad ná til vetrarlegu, í þeirri höfn í
Krít, er kallast Fenix og veit til útsudurs og
útnordurs.
13. Vindurinn blés nú hægt á sunnan, svo
þeir héldu ad sitt áform ætladi ad luckast;
drógu því upp atkér og sigldu fram med Krít
14. nálægt landi. Skömmu sídar datt á ofvidri,

V. 9. 3 Mós. 23, 27—30.

sá þar ordlagdi landnyrdingur, og hreif skipid 15.
med sér, svo ecki vard beitt í vindinn; urdum
vér því ad géfa upp stjórn og láta reka, sem
vildi. Þá bar oss ad lítilli eyu, sem hét Klá= 16.
de og gátum vér naumast haldid bátnum.
Vér hjálpudumst því allir ad og tókum bátinn 17.
uppí skipid og vefdum þad. Nú óttudust þeir
ad skipid mundi berast á grynníngar, felldu
því seglid*) og létu svo reka. Ovedrid héldst 18.
vid og áföllin urdu svo óskaplig, ad annars
dags var skipid rudt og á þridja degi steygd= 19.
um vér sjálfkrafa med egin hendum út áhöld=
um skipsins. Í marga daga sást ecki sól né 20.
stjørnur og íllvidrid, sem á lá, var ecki smátt,
svo seinast fór ad þrotna øll bjargar=von.
Menn hefdu og ecki lengi haft rænu á ad 21.
borda. Páll géck þá fram millum þeirra og
sagdi: gódir menn! þér hefdud átt ad gegna
mér og leggja ecki út frá Krít og firrast svo
þessa armædu og fjártjón; en nú áfýsi eg yd= 22.
ur ad hressa upp gédid, þar einkis ockar líf
mun týnast, heldur einúngis skipid. Því í 23.
nótt stód hjá mér engill Guds, þess eg dýrka
og hvers eg er, segjandi: óttastú ecki, Páll! 24.
fyrir Keisarann áttú ad kóma og vit, ad Gud
hefir géfid þér alla, sem med þér sigla. Ver= 25.
id þess vegna, gódir menn! med glødu gédi;
því eg treysti Gudi, ad þad muni efnast, sem
mér var sagt. En vid einhverja eyu hljótum 26.
vid ad stranda.

*) Máské adal=reidann, stór=seglid med rá, ef ecki mastrid med.

27. A fjórtándu nótt, er oss var ad hrekja í
því adríatiska hafi, grunadi skipverjana, um mid-
28. nættis leiti, ad land mundi í nánd. Þeir kost-
udu þá grunnsacku, og fundu tuttugu fadma djúp;
Og eptir ad litlu hafdi þokad áfram, vorpudu
29. þeir sackunni aptur og fundu fimtán fadma. Nú
ugdi þá ad bera mundi uppá sker, köstudu því
fjórum atkérum úr skutnum og óskudu dags.
30. En sem hásetarnir leitudust vid ad flýa úr skip-
inu og ætludu ad setja út bátinn, undir yfir-
varpi, ad þeir vildu fá atkérum komid úr
31. framstafninum, sagdi Páll vid Hundrads-höfd-
íngjann og strídsmennina: séu þessir ecki kyrrir
í skipinu, þá verdur ydur ómögulegt ad bjargast.
32. Strídsfólkid hjó þá festar bátsins og sleypptu
33. honum. En þángad til birta færi, hvatti Páll
alla ad matast segjandi: Þér hafid nú þegar bed-
id fjórtán dagc, án þess ad sedja ydur edur
34. halda máltíd. Nú ræd eg ydur ad taka fædslu,
því þad þénar til bjargar ydur; en ecki eitt
35. hár mun falla af ydar höfdum. Ad svo mæltu
tók hann braud, gjerdi Gudi þackir í allra aug-
36. sýn, braut þad og fór ad eta. Þá hresstust
37. allir og fóru ad matast líka; en á skipinu vóru
38. alls tvö hundrud sjötíu og sex manns. Þeg-
ar menn vóru mettir, var létt á skipinu og
39. matvælunum kastad í sjóinn. Eptir dögunina
sáu menn land, en þecktu ecki. Þeir urdu
varir vid vík eina, med sléttri fjöru og vildu
40. halda þángad skipinu, ef kostur væri. Þeir
losudu þá atkérin og hleyptu þeim í sjóinn,
leystu um leid stýris-taumana, drógu upp stafn-
seckuna gégn vindinum, héldu svo til lands.

En þá vard fyrir þeim blindsker, med ad-dýpi 41.
beggja vega og þar steytti skipid, svo fram-
stafninn nístist vid botn og vard óhræranlegur,
en skutinn leysti frá, af ofuresli bylgjanna.
Strídsmennirnir rédu þá til, ad fángarnir væru 42.
drepnir, svo enginn syndti í land og kæmist
undan. En Hundrads-hefdínginn, sem vildi 43.
forda Páli, aptradi því fyritæki og skipadi, ad
þeir, sem syndir væru, skyldu fyrst kasta sér út-
byrdis og leita lands; en hinir, sumpart á fjøl- 44.
um, sumpart á einhverjum flekum skipsins. Og
þannig tókst þad ad allir komust heilir til lands.

## 28. Kap.

I.) Fólkid á Melíte audsýnir Páli mikinn vingjarnleika; Páll skadast eckí af nødrunni 1—6. II.) hann læknar fødur Públíusar og fleiri 7—10. III.) siglir þadan til Sýrakúsa og Púteóli og kémur til Róm 11—16. IV.) heldur rædu fyrir Gydíngunum í Róm; kénnir þar hindrunarlaust í tvø ár 17—30.

Þá menn vóru búnir ad bjarga sér, fengu 1.
þeir ad vita, ad eyan hét Melíte*). Eyar- 2.
skéggjarnir, sem þar bjuggu, audsýndu oss eckí
algengann gódvilja, qveiktu eld og tóku oss vel,
því óvedur géck ad og kuldi. En er Páll hafdi 3.
safnad sér hrís-vendli og lagt á eldinn, þá
skreid nadra undan hitanum og hrocktist á hønd
hans. Þegar eyar-mennirnir sáu þetta íllyrmi 4.



*) Líklega sú, sem liggur inn vid botninn í Adríafirdi austanmegin.

lódâ vid hend hans, segdu þeir sín á milli: vissulega er þessi madur manndrápari, fyrst hefndin lofar honum ecki ad lifa, þó hann sé
5. sloppinn úr sjáfar=háskanum. Páll hristi þá af sér qvikindid úti eldinn og vard eckert meint vid.
6. En þeir væntu eptir ad hann mundi þrútna upp edur detta sviplega daudur nidur. En er þeir høfdu bidleikad lengi og sáu eckert frábrugdid á honum, snérist þeim hugur og segdu hañ Gud vera.
7. Í grend vid þetta plátz átti helzti madur á eyunni, ad nafni Públíus, búgard. Hann baud oss heim og hýsti oss í þrjá daga vin-
8. gjarnlega. En þad vildi svo til, ad fadir hans lá þúnglega haldinn af flog=verkjum og blódsótt; Páll géck til hans, badst fyrir, lagdi sínar
9. hendur yfir hann og læknadi hann. Eptir þenna vidburd komu adrir eyar=menn þeir, ed kránkir
10. vóru og létu sig lækna. Þeir høfdu oss líka í hávegum og ad skilnadi veittu oss allann naud-synlegann fararbeina.
11. Eptir þrjá mánudi héldum vér þadan á skipi frá Alexandríu, sem legid hafdi þar um
12. veturiñ og markad var Tvíburunum*). Vér sigldum nú til Sýrakúsu og dvøldum þar þrjá
13. daga. Þadan fórum vér yfir til Rhegíum; fengum þá eptir einn dag byr á sunnan og
14. komum næsta dag til Púteóli. Þar fundum vér brædurnar, sem bádu oss ad dvelja hjá sér
15. sjø daga og svo komumst vér til Róm. Und-ir eins og brædurnir þar heyrdu vor gétid, gengu þeir út á móti oss til Appíí torgs og

*) Þessir heidnu Gudir nefndust annar Castor en annar Pollúx, og dýrkudust sérílagi af sjófarendum.

svo nefndra þriggja búda. Þegar Páll sá þá, gjørdi hann Gudi þackir og hresstist í huga.
16. En er vér vórum nú komnir til Rómaborgar, afhendti Hundrads-høfdínginn fángana Hirdstjóranum, en Páli var leyft ad vera í húsi sér, undir gætslu eins stríðsmanns.
17. Eptir þriá daga samankalladi Páll fyrirmenn Gydínga og þá þeir vóru komnir mælti hann: heidrudu brædur! jafnvel þótt eg eckert hafi misbrotid móti þjód vorri, edur sidum fedra vorra, var eg úr Jerúsalem bundinn ofurseldur Rómverjum, hverjir, eptir haldid ransak,
18. vildu hafa látid mig lausann, þared engin daudasek sannadist uppá mig.
19. En er Gydíngar þvertóku þad, neyddist eg til ad skjóta mér fyrir Keisarann, þó ecki í þeirri veru, ad eg hefdi nockud ad klaga þjód mína fyrir.
20. Af þessari orsøk hefi eg gjørt ydur bod, svo eg mætti sjá og tala vid ydur; því sökum Israels vonar ber eg þessa hlecki.
21. Þeir svørudu: engin bréf høfum vér fengid frá Gydínga-landi þig áhrærandi og enginn landi ockar er kominn, sem borid hafi þér edur talad nockud íllt um þig.
22. Allt ad einu þækti oss vænt ad heyra hvad þá þér þykir sannast; því um þessa nýu trú er oss kunnugt, ad henni allstadar sé mótmælt.
23. Á tilteknum degi, sem þeir høfdu áqvedid vid hann, komu mjøg margir í hans herbergi og frá því árla um morguninn til qvølds, setti hann þeim fyrir sjónir og útþýddi þeim lærdóminn um Guds ríki og leitadist vid af Mó-sis løgmáli og Spámønnunum, ad sannfæra þá um þad allt, er snerti lærdóminn um Jesúm,

24. Nockrir félluſt á fortolur hans, en sumir létu
25. sig ecki sannfæra. Þá þeir nú skilduſt ad
sundurþyckir sín á milli, bætti Páll þeſſu eina
vid: ágjætlega hefir heilagur Andi látid Esajas
26. Spámann ad ordi qveda vid fedur vora: "far
til þeſſa fólks og seig: med eyrunum munud
þér heyra og ecki nema; horfa munud þér á
27. og skoda og samt ecki sjá; því tilſinníngarlauſt
er ordid hjarta þeſſa fólks; þúngheyrdar eru
hluſtir þeſs; augunum heldur þad faſt aptur,
svo þad fái ecki sjed med augunum, né heyrt
med eyrunum, né skynjad med hjartanu, edur
28. snúi sér, svo eg géti læknad þad." Ydur sé
því vitanlegt: ad Guds hjálprædi verdur burt-
sendt til heidíngja og þeir munu því finna.
29. Þegar hann hafdi svo talad, gengu Gydíng-
arnir burtu og hefdu mikla þráttun innbyrdis.
30. Páll bjó full tvo ár í sínu herbergi, tók á
móti ollum, er til hans gengu, prédikadi Guds
ríki og kénndi um Herrann Jesúm med allri
djerfúng og bannadi honum þad enginn.

V. 26. Es. 6, 9. 10.



